Esaias talar/9. Cap. Og ad honum bere þad Nafn med riettu/ þui hañ hafe þañ Fridiñ a Jordena/ med siñe Fædingu med sier hafft/ sem so er dyrmætur/ad hañ geingur yfer allañ Mañlegañ skilnig. Þañ Frid sem Verolldiñ kañ ecke ad giefa/þann sama hefur vor Endurlausnare & Fridarhøfdinge oss fært/ og þui kallast hañ vor Fridur/ j Pistlenum til Eph.2.Cap. Huør ed sætt og Fridþægt hefur nu þad sem uppe a Hiñ num er/vid þad sem er a Jørduñe/ æn huørs og fyrer utan huørn/ad þar er eingiñ riettelegur Fridur/Col.3.

Huad lijtt ad Gud var ædr til Frids vid Mañkyned/ þ mætte sia a Fi allenu Synai/þegar hñ liet sig þar sia/j Ellde sinnar hrædelegrar Gri mdar Reide/og heyra til sijn/ j þeim Ognarlegu Skruggum/ og Reidar þrumum/ Exo. 19. Þa sa ecke Fridarlega wt a Jørduñe/ Þa þøgdu Einglarner yfer þessu Verse sijns Lofsaungs a medan. Enn strax sem Endurlausnariñ er fæddur/þa hefia þeir upp sijn Hliood/og syngia vid fagran Toon/FRidur A Jordu. Ecke liet helldur Fridarlega a millu Eingla & mañа/þegar Cherubim rak Adam & Evu wt af Paradijs/& var nade þeim Inngaungu þangad aptur/med einu leyftrande Suerde. Ecke sungu Einglarner þa Frid a Jordu. Enn nu j Fædinguñe Herrans Jesu Christi/syngia þeir og boda ollu Mañlegu Kyne Frid.

Vilier þu nu vita/huørniñ þad kiemur til/ad vier skulum hafa oss sod dan Fridar ad vænta/þo ad Sonur Guds yrde Madur? Þar til suara eg so/Ad þad kiemur so til/ad under eins og Guds Sonur Jklæddest vorri Hollde/þa tock hann uppa sig allañ þañ O=frid/sem ædur a oss lꝗ/so sem Esaias vottar/53.Cap. Hegningiñ lꝗ a honum/ suo vier hefdum Frideñ. Sia þu/strax sem hann fæddest j Verolldena/þa hata og wtskuf fa honum Borgarar j Bethlehem. Skømu þar epter/ Ofsæker Herodes hann/so hann verdur ad flyia j Egyptaland. Sem hann kiemur til nockurs Alldurs/hefur hann onuann Frid fyrer Phariseis og Skript lærdum. Dioffullenn sialfur æstrijder hañ/med særum Freistingum j Ey demorkuñe. Matur og Dryckur/sem voru hans eigenn Skiepnur/ yferga fu hann opt/ so hann vard ad lijda Hungur og Þorsta. Sia þu huad hardlega Daudenn strijder vid hañ j Grasgardenum/Sia þu huørsu Reid uglegann Gud tiær sig honum a Krossenum. Med þuilijkum Ofrid sin

hanns

þañ bæde a fiske Sœlu/ og allra helgasta Nollde leid/þa keypte þesse vor Brooder oss aptur j Fridiñ/aþ synum Fødur/ vm huørn ad Einglarner syngia hier. Eñ þier til eñ meire Nuggunar /seigia Einglarn er ecke/ad þesse Fridurin sie langt j burtu/so oss verde bagt ad naa henum/helldur seigia þeir/ ad þañ sie hier hia oss/ j oss/og med oss a Jordune. Fridur a Jordu/seigia Einglarner. Þess vegna þurfa onguer þui vid ad bregda/ad þesse Fridur sie torfoktur/ þuist þañ er a Jordena komiñ. O þu margþallde Fridur. O þu Dyrmæte Fridur. O þu Deud anlege Fridur. Kom þu oss Blessadur a Jordena/mz vorum Herra Jesu Christo/ og skilstu alldrei vid oss/ nu hiedan j fra/og ad eilyfu.
Med þui nu ad Gud Himneskur Fader/hefur giefed oss frid a Jordena sem oss mest vm vardar/þa hoþum þau heilla Raad Postulans/og hølld um Frid vid huørn Mañ/ so myked sem oss er mœgulegt. A Jordunne fæst vel Fridur/eñ langtum fullkomnare Fridur fæst j Himnenum/þui þar er sa Fridur sem ei tekur enda/vm alla Eilyfd. Eñ j Helvyte er einginn Fridur. Gud forde oss þeim O-frid j Jesu Nafne.

# Þridia Greiniñ.

NV vil eg miñast a þañ þridia Partiñ Lofsaungsins Einglaña/ sem so hlioodar. OG Moñum Goodur VJLie. Med þessum syrum seinustu Lofsaungs Ordum/audsyna Einglarner oss/ Ad þesse Fridurin sem Guds Sonur hefur oss med siñe Fædingu faert/ sie eirn Hiartgrooiñ/ skyr og folskalaus Fridur. Þegar Meñerner giera Sætt og Frid syn a mille/þa plagar þad so til ad ganga/ad þo huørugur giøre odrum Mein/epter þad þeir eru sætter/þa et þar þo oftast nær/so sem nockra Ryr epter/einkum j Giede þess/ sem fiteft hafa orded syrer Orietteñum/ so þañ elskar ei þañ/sem þañ hefur Sættena vid giert/so heitt sem ádr sina gooda Vine. Eñ þesse Fridur/sem Gud hefur vid oss giort/sei gia Einglarner/ad sie olldungis Skyrlaus/og ad þañ leide med sier so goodañ Vilia Guds/til vor Mañaña/ suo sem hefdum vier Ende allrei neitt a mote giørt eda broted. Eñ ef vier viluum riettelega skilia/huad þesse goodur Vilie sie/sem Einglarner vm syngia/ þa skulum vier einfalldlega skilia þad so/ ad lyka so sem Gud Fader hefur goodañ Vilia

 og Vel

og Velþocknan a ſijnum Syne/ ſo ſem hañ vottar/ hia Matth. 3. Ef hefur hañ nu a ollum þeim ſem a þeñañ hans Son trwa/ Hiartanlega goodañ Vilia/ og Velþocknan. Og lijka ſo ſem Gud/ kañ ecke nockurt Tijma ad bera Miſþocknan til ſijns Sonar/ ſo kañ han og j ſama mata/ alldrei añars eñ ad hafa goodañ Vilia til þeirra/ ſem a hans Son trua. Þar er og ſo oñur Velþocknan/ og goodur Vilie/ ſem Mönnunum ſkende ur af Endurlauſnarans Holldgan z Ningadburde/ ſem er Hiartan'egt Elſkugied Manaña til Guds/ vt af hans goodum Vilia vid þa. Þui ad þegar þeir bijña til þeſſ j Hiarta ſijnu/ ad Gud hefur eins gott Gied og Hiartalag til ſijn/ ſuo ſem hañ hefur til ſijns Elſku Sonar/ ſiea/ þa kañ Hiartad Mañſins ecke añad/ enn ad hafa goodañ Vilia til Guds aptur. Fyrer ſlijka Rad og oſeigianlega Millde/ ſuo Mane þurfe þa bædi Nimen og Iord/ og aller forgeingeleger Hluter/ hia Guds Elſku/ ſo ſim Niegame og eckert/ Og vill þa Madurin giarnan lijda/ og vndergangaſt allt þad ſem Gud lætur honum ad Hendum koma j þeſſum Heime.

Beggia tueggia þeſſara goodu Vilia/ oſka nu/ og boda Einglarner/ vt af Krapte Jeſu Fædingar. Þad var illur Vilie forðum/ ſem Dioffull eñ ſette j oſſ/ ad vilia Kæna Gud ſijnum Yferburdum/ og ſine Dyrd/ og vilia vera jafn Gude Skapara ſijnum/ mote hans Vilia. En þad er goodur Vilie/ ad vilia nu þad helldſt/ ſem Skaparin vill hellſt og oſka einſkis framar/ eñ Guds goodur Vilie og Velþocknan vill veita oſſ.

Vt af þeſſū fyrnefndū Einglaña Lofſaung/ hofū vier þeſſa merlelega og naudſynlega Huggun/ ſem er; Ad huerſu vel Gud Fader/ ſkipter med oſſ Mönnunum/ Avoxtum af þeſſare allra helguſtu Endurlauſnarans Fædingu/ þui hañ ſkilur ſier eckert vtan eitt/ ſem er/ Dyrdena/ En oſſ ſialfum giefur hañ tueñ Notin/ ſem er/ FRidiñ og GOdañ Vilia. Og þad þo meira er/ þo hañ eigneſt þeſſa Dyrdena ſialfur/ þa ſamt ſem adur ſtanda oſſ af heñe eilijf Not/ þui þeſſe Dyrdiñ verdur Lioos vorra Augna ad eilijfu. Ja/ Nun verdur Skiemtun Eyrna vorra/ þa vier heyrum vm hana ſüngid j eilijfu Lijfe/ af Einglum og Mönnum. Hun verdur vor Hiartans Vnun/ Vor eilijf Sadning/ Vor eilijf Audæfe/ Vor eilijfur Fagnadar Skrwde.

Vær viljum þeſſ vegna aller af Hiarta oſka/ ad Guds Vilie mætte

verda hid allra fyrsta openber a oss/ j pui eilijfa Lijfenu/ og vor greodar Vilie mætte þar fullkomnast. Þa þar er komed/ sem um vier hid fyrsta/ huor Not vier hofum feinged af Christi Fædingu/ z latum þa alldrei af/ ad þacka Gude fyrer hána/ vm alla Eilijfd/ med ollum heilegum Guds Einglum/ Syngiande med þeim an aflats/ þetta þeirra Lofgiordar Vers. Dyrd sie Gude j Vpphædū. Þangad ad kemast/ og þar ad fagna med ollum Guds Vtvoldum eilijflega/ þad veite oss E/ ud/ Fader/ fyrer Nyfædda Soninn sinn Jesum Christum/ j Krapte heilegs Anda/ Amen j Jesu Nafne/ Amen.

## Sunudaginn mille Joola og Attadags/

Evangelium/ Luc. 2. Cap.



OG hans Fader og Mooder vndrudust þad/ huad af honum sagdest/ Og Simeon blessade þau/ og sagde til Mariu Moodur hans. Sia þu/ þesse er settur til Falls og Vppriisu margra j Israel. Og til Merkis/ huørium moote mun Mælast. Og sialfrar þinnar Ond mun Suerd j giegnum smiuga/ suo auglioos verde Hugskots Hiortu margra. Og þar var þa Anna Spakona/ Dotter Phanuels/ af Kyne Asser/ hun var og komin til sinna Aara/ og hafde lifad j sio ar med sijnum Eignarmanne/ fra Meydoome sijnum. Og þesse Eckia hafde nær fiora Vetur vm Attrætt/ huør ed eige gieck wr Musterenu/ þioonande Gude Noott og Dag/ med Fostum og Bænahallde. Þesse gieck samstundis þangad ad/ z prijsade Drottin/ og sagde af hm̄/ til allra þeirra s̄ Endurlausnarenar bidu til Jerusalem. Og er þau hofdu allt fullgiort epter Logmæle Drottins/ sneru þau aptur til Galileam/ til Borgar sinnar Nazareth/ En Sueirninn vox vpp/ og styrktest j Anda/ fullur Vijsdooms/ og Guds Naad var med honum.

## Exordium.



Ja Mattheum Gudspiallamanne/5. Cap. stendur so. Eingiñ kueiker Lioos til þess/ad setia þ vnder Mæleask/helldr yþer Lioosa halldiñ/so þad lyse ollum þeim sem j Hwsenu eru. Nu er Endurlausnariñ vor Jesus Christus( Vt aþ huoriuin vær hæþum a þessum þremur þyrerþarande Natyjdis Dogum/ heyrt kient og Predikad) þad skiæra Neimsins Lioos sem lyser j Myrkrunum/ suo sem Johañes vottar/8. Cap. þar þyrer villde Gud Drottiñ/ j eng vañ mata/lata þad huled vera/edur vnder Mæleaske geymt/ so þ giæþe ecke sijna Byrtu þra sier. Helldur eru þad sierdeilis þiorar Kiertastikur/ yþer huoriar sa goode Gud heþur lated þetta Blessada Lioosed sett verda/so þad lyste ollum Moñum j Heimenum. Sa þyrste Stiakiñ var Bethlehem/huar ad Hyrdurunum byrtest allra þyrst þetta Lioosed/ þyrer þa gledelegu Einglaña Predikun/huerier ad sungu Drottne þañ lystelega Loþsaunginn/seigiande. Dyrd sie Gude j Upphædum/Luc.2. Himen iñ sem var vpp yþer Austurvegs Vitringunum/huad var hñ añad eñ ein Lioosastiake/a huorium Herrañ Christur lyste þeim so Dasamlega/ og þurdanlega/ad þeir þyrer Leidarvijser eirnrar Stiornu/ geilu þunded hañ/og komed til hans/Matth.2. Huad var þad Egyptska Ryked añad eñ eirn Lioosa halldur/yþer huorium ad þetta Himneska Lioosed lyste/ a sijnum Vtlegdartijma/ þegar hans Forelldrar vrdu ad þlyia med hañ þangad/þyrer Oþryke/og Oþsokn Herodis Konungs. Sa þiorde Lioosa stiakeñ/yþer huorn Gud Himneskur Fader/sette þetta eilijþa og sañna Lioosed/Da er Gydingaña Kyrkia e Musterere/huiad j þessa Dags Evangelio stendur/ad Forelldrar Herrans Jesu Christi/ Joseph og Maria/haþe bored hañ j Musterid/ huad skied heþur aþ sierlegu Guds Rade og Vilia/so ad hañ skyllde þess betur/af oss Moñunum þecktur verda. Og eru hier nu tuær Persónur j Musterenu/ þess vegna aþ Gude tilskickadar/ad þær skule vitna vm þeñañ Nyfadda Jesu/ ad hañ sie sa rietteog sañe þyrer heitne Messias/so s.m Einglarner heþdu adur þyrre kient og bodad Hirdurunum/ j hans blessadu Fædingu/ huad oss kiemur til hiña bestu Farsælldar nota/Þui heþdum var ecke odruvijse þeckt þetta blessada og Nyþædda Barned/ eñ þ være so e eñur sliett og riett natturleg Barn/ þa heþdū vier ecke kuñad a þeñañ vorn Endurlausnara ad

trwad. Eñ heþdum vier ecke æ hañ trwad/ þa heþdum vier ecke helldur Saluholpner orded. Og vilium vier nu skoda og yfervega ad þessu siñe/ j tueimur Smægreinum/Vitnisburde þessara tueggia Persónaña/ ß er Simeonis og Auñu/med þeim Lærdoomum/og Amiñingum/sem hier kuña vt af/þid allra styrsta og einfalldlegasta ad dregast. Hier til vnd= erst Gud ad senda oss Styrk og Adstod sijns gooda heilaga Anda/ j vors Endurlausnara Jesu Nafne/. Amen.

# Fyrre Greiniñ.

OG hans Fader og Mooder vndrudust þ. ef cf. Þegar Joseph og Maria voru komiñ j Musterid/med þeñañ siñ Son/Jesum Christum/til ad gefa hañ Drottne æ Hendur/ þa skrifar Lucas Gudspiallamadur/Ad Simeon hafe tefed Barned Jesum sier j Fang/og gicfed hm þrin Æru Titla edur Nøfn/og kallad hñ fyrst Mañaña Hialpræd/Lioos Heideña Þiooda/ Og Israels Dyrd. Huar vm vier fæum næst Guds Hialp ad heyra talad æ Kyndelmessu. Vppa þesse Ord Simeonis ha þa Forelldrarner Herrans Christi forundrad sig/eñ ei j þañ mæta/ad þau vissu ecke vel ædur/ad þesse siñ Sonur var meire hættar eñ oñur Børn/ sem fædast af Natturlegum Forelldrum/þui þad hafde Eingelliñ ædur vtþryckelega sagt Mariu Meyiu fyrer/ þa hañ bodade heñe Getnadiñ Endurlausnarans vors/seigiande. Þad af þier mun fædast/skal kallast Sonur Guds/Luc. 1. Hid sama kuñgiørde og so Eingelliñ Joseph/so sem lesa mæ hia Matth. 1. Helldur forundra þau sig þar yfer/ad þe= ssi Vitnisburdur Simeonis/sem hañ ber Herranum Christo/er samhlioda hinum ødrum Vitnisburdum/sem bæde Elisabeth fyrer Fædingena/ Einglarner og Hirdararner/ epter Fædingena/ høfdu honum bored/ og sia þau nu/ad þad kiemur smæm saman fram/sem vm Messiam hefur vered spád og talad. Þar næst furda þau sig/og dæst ad þui Millte= verke/sem Drottiñ hefur læted vid þau framkoma/ þar hañ virder þau so mykels/ad hañ lætur þañ fæfæka Joseph Timburmañ/ kalladañ vera Fadur/sijns elskulega Eingetins Sonar. Eñ Mariu vera hans Nát= túrlega Moodur. Vm þuilijka Forundran/talar so sialfur Endurlausnariñ vor/hia Joh. 5. seigiande. Faderiñ elskar Soniñ/og syner hon= um allt

Kij

um allt þad han̄ giörer/og en̄ mun han̄ syna hönum önur Verk meire/ so þier munud undrast.

Af þessu Dæme Josephs og Mariu/lærum vier/ ad furda oss uppa Guds oseigianlega Mÿskun og Almætte/og ad dædst ad þeim stoora Leyndardoome/Herrans Christi Holldgunar. Þad mæ maklega seigiast um þen̄an vorn Nyfædda Endurlausnara/ad han̄ sie furdanlegur/so sem han̄ kallast j Doomara Bookin̄e/13. Furdanlegur er hans Gietnadur/ hvør er ed skiede af sierlegre Heilags Anda verkan/ fyrer utan Kallmans Tilverknad. Furdanleg var hans Fæding/ þuiad han̄ fæddest af einne hrein̄re/Oflecka dre Meyu. Furdanleg var hans Kien̄ing/þui þa han̄ kiende/ þa dædest Folked þar ad/og furdade sig þar uppa/ Luc.2. Furdanleg eru hans Verk/þui þa Folked sæ þau/þa medkiende þad/ ad þad hefde sied undarlega Hlute/Luc.5. Furdanlegt var hans Andlaat a Kross enum/ j hvøriu ad skiedu mørg Undur og Furduverk. Furdanleg var hans Upprisa fra Daudum/ þui han̄ uppreis af sialfs sÿns eigin̄ Krapte. Þa var og so Himnaforin̄ hans miøg furdanleg þui hn̄ situr nu til hægre Handar Guds j Dyrden̄e/og bidur þar fyrer oss. Med þui þa/ad øll hn̄s Verk eru so furdanleg/og dæsamleg/ ad eingin̄ man̄legur Skilningur kan̄ ad grÿpa þau edur grunda/þa giætum ad oss/ og grenslustum ecke ofmiøg/edur fram̄ yfer mæta/ med vorre Man̄legre Skynseme/epter þessum og þuilÿkum Guds Leyndardoomum/og Furduverkum/so vier føllum ecke j neirn Vanda edur Vantrw/Helldur/ þad sem vorre veykre Skynseme vill falla of þungt/ þa tokum þad einfalldlega med Trwarhøndum vorum.

Og Simeon Blessade þau. Hier kan̄ einhvør ad spyria/hvørnin̄ þættad hafe vered þessare Simeonis Blessan/ sem er/ ad med þui þesse goode og gamle Madur var Riettlætur/ og Gudhræddur/ so sem liost er af Ordum Gudspiallaman̄sins/ Lucæ. Þa hefur han̄ oskad Joseph og Mariu/alls hins gooda/ og sagt þau sæl og blessud/ þar Drottin̄ hafde virdt þau þess framar ødrum/ad læta þau vera Forelldra þuilÿks Barns/ sem være alls Man̄kynsins Endurlausnare/ og Saluhialpare. Simeon/ blessar hier og so þetta Barned/ en̄ ecke j þan̄ mæta/ ad þad þyrfte Blessunar vid/þui þad var sialfur Blessunarin̄ar Brun̄ur/og þad Sæded/ j hvør

ed/ j huøriu blessast ættu allar Þiooder/ Gen. 12. Helldur blessar hn̄ þad so/ ad hañ oskar Rykenu Herrans Christi/ allrar Farsælldar og goods Framgangs/ Og hefur hn̄ þessa sijna Blessan/ vissulega teked og utdre-iged af Psalme Davids/ þeim 45. og sagt/ O þu æskelegaste unge Sv-eirn/ þu ert hiñ fríðaste á medal Mañanna Barna/ Astudlegar eru þij-nar Varer/ þar fyrer blessar Gud þig/ og þiñ Stooll varer um Allder og ad eilijfu.

Vær skulum og so med Simeone/ færa vorum nyfædda Endurlausn-ara/ Blessan og Lofgiørd/ fyrer allra sijna Velgiørninga/ sem hañ hefur oss veitt/ med siñe signudu Hingadfædingu. Blessum hañ fyrer sijna Holldgan og Hingadburd/ Fyrer sijna Kuøl og Pijnu/ sem hañ fyrer oss lided hefur/ Fyrer siñ Dauda/ Upprisu og Uppstigning til Himens/ hu-ad allt oss er skied til Riettlætis/ og eilijfrar Sæluhialpar.

Þar næst eigum vier ad nema þad af Dæme Simeonis/ ad Oska og unna huør ødrum Luckū og Blessunar æ jafnañ/ og lijka vel vorum Mot-stødumøñum/ epter þui sem Ande Drottins Amiñer oss/ fyrer Muñ Post-ulans Paals/ seigiande/ Blessed þa sem ydur Offsækia/ Blessed enn Bøl-ved ecke.

Og Simeon blessade þau/ og sagde til Mariu Moodur hans/ Siá Þesse er settur til Falls og Upprisu margra j Israel.

A tuent miñest Simeon hier/ j þessum sijnum Spaadome. Fyrst seiger hañ so/ um þetta Nyfædda Barned/ ad þad sie sett mørgum til Fa-lls/ Huad samhliooda er Spaadoome Esaia Spaamans. Nu kañ skie þu meiger spyria/ Huørniñ skal eg skilia þad sem Simeon seiger hi-er um Christum/ ad hañ sie settur til Falls mørgum? Nu ef mier stend-ur ecke aññad af hans Fædingu/ eñ Fall og Fordiørfun/ huad stodar hun mig þaa? A eg ad trwa þui/ ad Gud hafe sendt siñ Son j Heimiñ/ til þess/ ad Mañskiepnañ fielle j meire Synd/ eñ hun var ádur j fallen/ ve-gna Falls vorra fyrstu Forelldra/ Adams og Evu? Nei/ þar sie fiærre. Og soddañ Þanka skalltu ecke laata Diefuliñ blaasa þier j Briost/ Þui þad er Oþolanlegt og augliost/ Ad ecke sende Gud Son siñ j Heimiñ/ ad hañ fyrerdæmde Heimiñ/ helldur ad Heimuriñ skyllde frelsast. Item So elskade Gud Heimiñ/ ad hañ gaf oss siñ Eingietiñ Son/ ad aller



þeir

þeir sem a hñ trwa/skyllde ecke pyrerparast/helldur hafa eilijft Lijf/Joh. añ. 3. Nu eru þar marger sem ecke trwa riettelega a Christum/helldur hafa adskilianlegar rangar Meiningar vm hañ/ so sem ad voru Gydingar/og þeir Phariseí/huorier ad hneyxludu sig a hans Personu/og hielldu hañ alleinasta ad vera Josephs Timburmans Son. Sumer hneyxludust a hans Lærdoome/og spurdu huadañ hañ hefde siñ Wijsdom? Sumer a hans Lifnade/og kolludu hañ Ofneytslu Mañ/og Wijnsuelgiara. Sumer a hans Fatækt og Dauda/og søgdu/odrū hefur hñ hialpad/eñ sialfum sier gietur hañ ecke hialpad. Og þo þeim være alldrei so margt og myked Predikad/af Herranum Christo/og hans Guddoomlegum Verkum/ þa voru þeir þess argare j siñe Villu/ og villdu ecke lata sier seigiast/huors vegna Postuliñ Paall klagar yfer þeim/og seiger/ 1. Cor. 1. Vier Predikum Jesum Christum/sem er Gydingum Hneyxle/eñ Heidingiū Heimska. Eg vil ecke tala ad siñe vm þa Diefuls Villumeñ/ sem sijdañ hafa vppvakest/ sem eru þeir Arianar/ sem neitudu þui/ ad Christi være sañ Gud/og marger adrer fleyre/huoria opteangt er vpp ad telia. Huad skulū vier margt hier vm tala/Mūnu þar ecke eñ nu a vorū Døgum fiñast marger/þeir sem hneyxla sig a þeim Nyfædda Jesu Christo? Þui er verr/Ad þar eru þeir til midt a medal vor/ſ steyta sig a hñs Riettlæte/j þañ mata/ ad þeir meina sig skie stooran Oriett/ef Drottiñ leggur Straff sitt vppa þa/vegna Synda og Glæpa/sem þeir hafa drygt. Og þar þuert a moote/ ef hañ af siñe mykelle Þolenmæde/ hefur Medlijdingarseme vid þa/og straffar þa ecke strax vppa ferskañ Gierning/þa skiedur þad/ad þeir verda þess Athugalausare/ᵹ Hirdulausare/ Drya Synd og Skom̄ a Skom̄ ofañ/ og hyrda ecke huad epter kiemur. Nia ollum þessum/sem so eru a sig komner/ og ganga a Vegum Villudoomsins/ Þa a heima Spadoomur þesse Simeonis þar hañ seiger/ Hañ sie settur morgum til Falls/ sokum þeirra stooru Synda/sem þeir dryggia.. Nu kañ einhuor framveigis so ad seigia/ Fyrst Christur er settur sumum til Falls/ eñ summum til Vpprisu/ þa er þ vijst ſ Caluinistar hallda/ad Gud hafe ætlad suma til eilijfrar Glotunar/ eñ suma til Saaluhialpar. Eñ þar er langt fra/þui Gud vill ad aller Meñ skule verda Saaluhólpner/og komast til Sañleiksins vidurkieñingar/1. Tim. 2.

Item

Item/ hia Matth. 11. Seiger Endurlausnariñ vor. Komed til miñ aller. Aungvañ tekur hañ hier vndañ/ helldur bijdur hañ ollum til sijn. Nu þo ad Mañeskiañ af siñe Syndum spilltre Natturu/ og fordiarfan-legum Blindleika/ vilie ecke taka þessu Bodenu/ þa er Skullldiñ hia hen-ne sialfre/ eñ ecke hia Gude. Til Dæmis ad taka. Ef einhuer spyrde ad/ huørs vegna Gud hefde skapad Soolena? þa være honum þar til su-arad/ ad þess vegna hefde hañ þad giort/ ad hun skyllde lysa Verølldiñe/ og vpplioma hana/ Eñ þo hun med Byrtu siñe spille Sioon þeirra/ sem ecke eru ædur vel Siaande/ ef þeir horfa j hana til Leingdar/ þa er þad ecke Sooluñe sialfre ad kieña/ helldur Veykleika þeirra sem j hana horfa. So er og ecke helldur Sokiñ hia Gude/ þo marger hneykslist/ og steyte sig a þessum Asteytingar Steine/ Herranum Christo/ helldur er þ Mañana eigiñ Galenskap ad kieña/ epter þui sem þar stendur hia Ose-am 13. Þijn Olucka kiemur af þier sialfum Israel.

Þar næst seiger Simeon/ ad so sem þesse Sueirniñ/ sie settur morgum til Falls/ so se hñ og so settur þar a mote/ morgum til Vpprisu j Israel. Huørn siñ Spaadoom hañ hefur visselega vtdreiged/ af Ordum Esa-iæ Spaamans/ 28. Cap. Siaaid (seiger Drottiñ þar) Eg legg j Zion eirn Grundvallar Stein/ eirn kostulegañ Hyrningar stein/ Huer hñ trua-er/ sa flyr ecke/ þad er/ sem Spaamaduriñ/ villde suo nycked sagt hafa/ Huør hañ truer/ & helldur sier fastlega vid þeñan Hyrningar stei-niñ og Hellubiarged/ sem ad er vor Drottiñ Jesus Christus/ hañ flyr ecke/ þad er ad skilia/ hañ verdur alldrei til Skamar nie Minkunar.

Þar fyrer miñ Brooder/ høfum þad til Huggunar/ hier vt af/ ad þo vid med Syndum ockar/ høfum mællt styggia Lifande Gud/ og steypa ockur alldrei so diupt nidur/ j Ledin og Oklarende margskonar Illgiørder og Ranglætis/ þa samt/ ef vid flyum til þessa Hellubiargsins/ Herrans Jesu Christi/ sem ockur er settur til Vpprisu/ og stidium ockur vid hañ med Truñe/ þa mun hañ alldrei verda ockur til Falls/ so sem hinir ødrum/ sem forherter fram fara/ j Skemmum og Vømum/ og alldrei læta sig vænka til ad giøra Jdran/ fyrer sijnar Synder/ helldur sem fratt sem vier kloppum a hans Naadardyr/ mun hañ taka ockur sier vid Hend/ og reysa a fætur aptur. Siaaum til/ ad strax þegar Moyses Gude Matkur

 hafde

hafde epter Guds skipan/ fleiged a Helluna j Eydemerkinne/ Num. 20. Þa sprakt Vatn þar ut af/ so Folked gat slockt sinn Þorsta. Eins skiedur þad og so/ ef vær med Staf Bænarinnar/ og sannar Idranar/ slaaum a þa blessudu Lijfs ins Hellu/ vorn Drottinn Jesum Christum/ þa mun hann af sier giefa þad Vatn/ og þann Svaladryck/ epter huorn oss mun alldrei þyrsta/ vm alla Eilijfd. Og so þetta verde ei oflangt/ þa vilium vier vikia til þess seirna Partsins/ j huorium talad verdur vm þær sierlegustu Dygder/ sem þesse Gudhrædda Kuinna Anna/ hafde j Fare sijnu.

## Annur Greininn.

Fyrst var þad Lofsvert a þessare Kuinnu/ ad Gud hafde virdt hana þess ad giefa henne Spadooms Anda/ huad rada ma þar af/ ad hun verdur kollud hier Spakona. So siaum vier hier/ ad Gud leggur ecke sijdur til þui Kuennlega Kynenu sijnar Nadar Gafur/ enn Karlkynenu/ suo sem skied hefur/ bæde j þui Gamla og Nya Testamentenu. Nu þo Kuinnunum sie fyrerboded/ Almennelega ad kienna j Sofnudenum/ epter þui sem þar stendur/ 1. Cor. 14. Þa samt sem adur/ er þeim ecke bannad ad uppfræda sijn Born/ og Heimelis folk/ og lesa Guds Ord fyrer þeim/ heima j Husenu/ þa so vid liggur.

Annur Dygd/ s þessare Kuinnu var launud/ er þesse/ ad Heilagur Ande ber henne Vitne/ ad hun hafe vered skijrlijf/ og lifad med sijnum Ecktamanne j sio ar/ Christelega og Hreinferduglega. Huar af/ allar fromar og Gudhræddar Jomfruur/ Ecktakuinnur og Eckiur/ eiga ad læra/ huornenig þær skule sier vel/ Erlega og skickanlega haga og hegda/ suo Gude lijke/ og j þeim meige verda til Sæmdar/ og ollum ut j fra/ til goods Epterdæmis. Fyrst/ lijka so sem Anna kom Mey til sijns Ecktamans/ og lifde med honum j heilogum Hiuskap/ j sio ar/ og hiellt sier sijdann j sinu Ekkiustett Heidarlega/ j 22. ar. So skulu og so Ingismeyarnar/ halldа sig til Jungfrurlegs Skijrlijfis/ næst Gude og hans Orde/ og lata ecke af sier falla/ j Æskublome sijnu/ sinn Jomfruur Krans/ hafande fyrer sier loflegt Dæme þeirrar skyrlijfu Rebeccu/ og Saru/ Gen. 24. Tob. 6. Sem og eirnin margra annara Ingispijkna/ huoriar helldur hafa viliad Lijfed lata/ enn skammadar og Mynkadar ad verda af nockrum. Þar

Giptu

Giptu Kuiñurnar verda hier og so Amintar/ ad þær giøre so sem Aña giørde/ liþa med Ecktamaſie ſijnum/vel og þromlega/hallde med þeim/eñ ecke med odrum/ſie ſamræda med þeim/eñ ecke æn þeirra/ edur þeim ver Nende j Hiwsſtiorniñe/ ſuo ad þeirra Hiwsbændur meige haþa Hiartans Glede/og Vnan ad bwa ſaman vid þær/þui ſo ſeiger Syrach.26.C. Sæll er ſa Madur ſem Dygduga Konu heþur/þar þyrer tuoþalldaſt hans Aara tala. Ein good Forſtødu Kona er ſijnum Mañe Feginodur/ og giører hønum eitt gott Rooſamt Lijþ. J ſama mata eiga Eckiurnar að liþa Hæverſklega/vera ecke O:ſteþulegar/Ohocþſamar/O:bliugar eda liþa j Vellyſtingum/og Dryckiuſkap/ Tit. 2. Helldur eiga þær med goodre ſkickan og Epterdæme/ ad kieña og vppfræda adrar Vngar Meyar/ſo þær meige aþ þeim læra gooda Hegdun/og ſkickanlegt Framferde/huørt ed ſkartar betur eñ nockut Sylfur/ Gull edur Ein:ſteinar.

J þridia lage/ er þad miøg loþlegt/ j Fare þeſſorar goodu Kuiñu/ Auñu/ad þo hun være gomul/og hnygiñ æ efra Alldur/ſo ſem Gudſpiallamaduriñ vottar/ad hun haþe haþt nær þiora Vetur vm Attrætt/ ſamt ſem ædur/talde hun þ ecke epter ſier/ad ganga jaþnlega til Muſteriſins/og þiona Gude Noott og Dag/med Feſtum og jduglegre Bæn/og Hiartans Andvarpan.

Lærum hier af aller/ Vnger og Gamler/ ad elſka og ſtunda ſannarGudrækne/alla vora Lijþdaga/og vera ſ̃ eptaſt þar vid/ ſem Gude Ord er kient/og vm Hønd haþt/þui þar æ eingiñ Hlute ad vera oſſ ſo kiær/ ad vier elſkum ecke meira Guds Hws/og hans Ord/ ſem hañ lætur þar jnne kient og Predikad verda/Huørt ad er Kraptur Guds/til Sæluhialpar/øllum þeim ſem þar æ trwa/ſo ſem Poſtuliñ ſeiger. Einkanlega og ſierdeilis/eiga þeir gomlu og Ollderudu/ad læta ſijnar Ermar Natur vera ſiñ Preſt og Amiñingar mañ jaþnlega þar vm/ad þad ſie ecke langt epter þyrer þeim/ſo þeir kuñe þeſſ betur/ad ſnwa ſier til Drottiñs/x bwa ſig til eiñrar gledelegrar og Farſællrar Burtþarar aþ þeſſu Heime og jnnganga ſijdañ j þa Dyrdena/ſem huerke heþur Auga ſied/ og ecke Eyra heyrt/nie j nockurs mans Hiarta komed. Huerrar Sælu niotande ad verda/eff veite Gud Fader/ j Naþne ſijns Sonar Jeſu Chriſti/Loþ adur og Bleſſadur/ ad eilijfu/ AMEN.

# A NyArs Dag/ Evangelium.

Luc. 2. Cap.

I þañ Tijma. Epter þad/ad Atta Dagar voru lidner/og þad Barned skyllde Vmskeraſt/ var hans Nafn kallad JESVS. Huad ed kallad var af Einglenum/adur eñ þad/ hañ var gietiñ j Moodur Kuide.

## Exordium.

I Psalmenum/116. Hroopar David vpp/ og seiger. Æ/huad skal eg Endurgiallda Drottne/ fyrer alla hans Velgiorninga/ er hañ veiter mier? Nu ef David/sem var eirn heilagur Madur/ Ja/ Eirn Madur epter Guds Hiarta/Elskade Drottiñ/ og liet alla sijna Lyſting/vera j hans Logmaale Dag og Noott/ Vandrædest so miøg þar vm/huad hañ skule giallda Drottne/ fyrer allt þad gott/ sem hañ hefur af hans Nende/ þeiged og medteked. Huad skulum vier þa seigia/Aumer/vesæler & suivirdeleger Syndarar? huoria Drottiñ hefur lided/ecke alleinasta þetta vmlidna ar vt/ helldur og so allañ voren Alldur/og hefur ecke straffad oss fyrer vort Ranglæte/huert vær høfum þo Dag epter Dag/Ja/stund epter stund/Iñdrucked eins og annad Vatn. Vær meigum seigia so sem Tobias sagde til Eingelsins Raphaels/sem med hønum ferdadest/Tob. 9. Þo eg (seiger Tobias) giæfe hier Asaria miñ Broder/ sialfañ mig til eigenlegs Þræls/ þa være þad einskis verdt hia þijnū Velgiørningum. Giætum ad/huilijka/og huad marga Velgiørninga vær høfum þeiged af Guds Nende/a þessu vmlidnu are. Hefur hañ ecke giefed oss Lijf og Luckulan/Heilsu og Heilbrygde/og allt þad sem gott er/og vær høfum vidþurft/bæde fyrer Lijf

og Sal

og Sæl? Hañ hefur ſendt oſſ ſijna Heilogu og bleſſudu Eingla/ til ad vernda oſſ og geyma/ a ollum vorum Vegum/ huorier opt og tijdum hafa vered miog Hættuſamer/ eins og hañ ſende Raphaelem til Tobiam/ ſo vier ſkylldum ecke ſteyta Foot vorn a Steine/ Pſalm. 91. Þetta er eitt ſtoor Velgiorningur. Mykell var ad ſonu ſa Velgiorningur/ ſem Raphael Eingell veitte Tobiæ/ þa hañ frelſade hañ fra þeim ſtora Fiſke/ ſm̃ honum villde granda. Eñ langtum ſtærre er ſa Velgiorningur/ ſem Drottiñ hefur oſſ audſynt/ a þeſſu gamla are/ þar hañ hefur frelſad oſſ fra þeim Helvijſka Dreka/ Dioflenum/ ſem vm kring hefur geinged/ ſ eitt Greniande Leon/ ꝛ leitad ad þm/ ſem hñ hefur mætt fa uppſuelgt. Stor Velgiorningur var þad ꝛ ſo/ ſem Raphael audſynde Tobiæ j þui/ ad Audga hañ med eirnre goodre og Gudhræddre Eckta Kuiñu/ og ſtoorum Audæfum. Eñ myklu dyrmætare Audæfe/ hefur Drottiñ giefed oſſ a þeſſu vmlidnu Aare/ Þui hañ hefur ecke alleinaſta Bleſſad oſſ hid ytra/ helldur og eirniñ (huad yfergnæfer) andlega hid jñra a Saluñe/ þui vær erum fyrer hañ/ j ollum Portum Auduger ordner/ j ollum Lærdoome og ſkilninge/ ſo ſem Poſtuliñ ſeiger/ 1. Cor. 1. Eingelliñ Raphael ſm̃ Tobia fylgde/ nefnde ſig Aſariam/ huad ad þijdeſt ſo myked ſem Hialp edur Adſtod Drottins. Vær meigum maklega ſaña þad/ ad vær hofum a þeſſu vmlidna are/ reint Hialp og Adſtod Lifanda Guds/ huors vegna vær meigum og ſo med Tobia/ kalla hañ vorn Broodur/ og hroopa vpp og ſeigia. Æ/ Jeſu miñ Brooder/ þo og giæfe þier ſialfañ mig til eiginlegs Þræls/ þa være þad einſkis verdt hia þijnum Velgiorningum. Vær vilium j tueimur Smagreinum yfervega Gudſpialled.

1. Hin fyrre ſkal vera vm Vmſkurnena Chriſti.

2. Hin onnur/ vm hans Bleſſada og ſæta Nafn. Sa Goode Jeſus hialpe oſſ hier til af ſiñe Naad/ fyrer ſijns Nafns ſaker/ Amen.

## Fyrre Greiniñ.

VMſkurniñ var eitt Sacramentum/ þeſſ Gamla Teſtamentis/ af Gude ſialfū jnſett/ og Forfodurnū Abraham/ a ſamt hñs Epterkomendum giefed/ ſo ſem leſa maa/ Gen. 17. J huorin Abraham Lofar þui Gude/ fyrer ſig/ og ſijna Epterkomendur/ ad hañ ſkule hallda og hafa

 ſañañ

sañañ Gud/Skapara Himens og Jardar/fyrer siñ Gud/trwa hans Fyrerheitum/vm þad Fyrerheitna Sæded/sem Gud hafde Lofad/ ad fædast skyllde af hans Epterkomendum/øllum Mõñum til Endurlausnar. Hñ Lofade og/ ad Þiona Drottne j allre Gudrækne/og Hlydne hñs Bodorda/alla sijna Lijfdaga. Hier a moot Lofade Gud hønum/ ad hann skyllde vera hans Gud/og hans Sædis æfenlega. Vppa þeñañ Saattmaala/ a millum sijn og Abrahams/ Jñsette Gud Vmskurnar Sacramented þetta/ huørt ad var hallded fyrer Haad og Spott af Heidingiũ. Ei þad sañast þo hier sem Postuliñ seiger/Ad Faaviska Guds sie hygnare eñ Vijsdoomur þessarar Veralldar. Oss nægest þad Christnũ Mõñum/ad vier vitum/ad Endurlausnariñ vor/hefr huørutueggia þetta Sacrament Vmskurnareñar og Skijrnareñar helgad/ a sijnum allra helgasta Lijkama/1. Cor. 1. Eñ siaum huad Endurlausnariñ vor/ hefur good vmskipte giørt oss/ a Nya Testamentesins tijma/þar þeir tooku sitt Endurfædingar Sacramentum/ med Benium og Bloodvøkũ/ þar tokum vier Nya Testamentesins Børn/vora Endurgietning/med lijtellre Vatnsins A=dreifingu/ an allra Harmkuæla. Huar vt i/vier eigũ ad þeckia og þacka/Guds Linkyndasamt Epterlæte/og ættum þui ad elska Skijrn vora þess meir/Huoria eirn af Lærefedrunum/ kallar Fadm og Koss Christi.

Hier kañ einhuør ad spyria og seigia/Huad kom til þess/ad Jesus liet Vmskiera sig so sem oñur Børn/ a þeim attunda Deige? Munde hañ nockud þurfa þess vid? Nei/ onguañeigiñ/Þuiad Vmskurnar Sacramentid var giefed alleinasta þeim syndugu/sem forþienad høfdu Guds Reide og eilijfañ Dauda. Eñ siaum til/Nu hefur Christur ongua Synd giørt/þui alldrei hefur vered fundiñ Flærd j hñs blessada Munne/so sem Esaias seiger/ 53. Þar med var hañ og suo Herra yfer Løgmaalenu/Helldur eru þar til nockrar adrar sierlegar Ordsaker.

Su fyrsta Ordsokiñ/ huar fyrer Christur villde Vmskierast/ er/ ad hañ giørde sig Løgmaalenu vndergiefiñ/vppa þad/ hañ frelsade þa/ sem vnder Løgmaalenu voru/fra Løgmaalsins Boluan/Gal. 4.

Su oñur Ordsøkiñ var/ad hñ þar mz auglysde sig ad vera/sañañ Isroelita/komeñ af Abrahams Sæde/og eirn riettañ Lim Safnadarens/huør ed a þeim Dogũ/þecktest af Vmskurnar teiknenu.

Þridia

Þridia Ordsokiñ hans Vmskurnar var/Ad hañ med þessu sijnu Allra helgasta Bloode/sem hñ wthellte hier j Dag/Læknade oss/sem af Syndunum vorum slegner/og særder/fra Hvirfle og til Ilia/Og fer Endurlausnaranum vorum hier ecke olijkt/og einum goodum Læknismeistara/Þuiad þegar nockur er veykur edur Siukur j øllum Lijkamanum/þa eru þeir vaner ad taka þeim sama Mañe Blood/bæde a Hofdenu/so og lijka a hægra Armleggnum/so ad fyrer Bloodtokuna/ verde sa veyke og siuke/þess Heilbryzdare og Hraustare. Eñ siaum til/Er ecke þesse Nyfædde Jesus Høfud vort? Ja/ vissilega/Hñ er Høfud Safnadarens/ hañ er og so hægre Hondiñ vor/eñ vier Limerner. Hier j Vmskurneñe j Dag/er teked Blood a Hofdenu/og hægra Armleggnum vorum. Þad er a þeim allra helgasta Jesu Lijkama/vppa ꝥ/ad allur vor Syndum spillte Lijkame/verde Heilbryggdur og hreiñ. Hier lijdur Skapariñ/so ad Skiepnañ Endurleysest. O/huilijkur Velgiorningur er þetta? O/huad Oumrædeleg er þesse Elska Guds/ vid oss aumar Mañeskiur? Sie þar nu nockur hier a medal vor/ sem er j eirn edur añann mata/ sturladur og særdur/ a sijñe Saalu og Samvisku/hañ kome hier/ og Riode sig j Vmskurnar Blooddropunum vors Hiartans Endurlausnara/ Jesu Christi. Rijker Kaupmeñ/ þegar þeir kaupa af ødrum mykid Gots/þa plaga þeir ecke ad Betala strax vppa eirn Tijma/alla Voruna/ helldur gialda þeir j fyrstu/þridiung eda Fiordung Verdsins/ eñ hitt ꝥ s epter er/Betala þeir/ þegar Marked edur Kaupstefnañ skiedur aptur. Eins giørde Endurlausnareñ vor/Jesus Christus/hañ kom j þeñañ Heim/vppa þad/hañ keypte oss med sijnu dyrmæta Bloode/fra eilijfre Glatun/Og þar ꝥ leggur hñ hier strax j Vmskurniñe siñe/nockud af Verdenu vt/sem er sitt Allra helgasta Blood/so sem til eins Pants/ ad hañ vilie seirna meir j Pijnuñe siñe/ giora Fullnægiu Betaling/ fyrer allar Veralldareñar Synder.

Fiorda Ordsøk Vmskurnareñar Herrans Christi/var su/Ad hañ Bevijsade sig ad vera/riettañ og sañañ Mañ/eñ ecke eirn Anda/ so sem Postuliñ seiger/Heb.2. Ad hañ hafe ecke teked Einglaña Natturu vppa sig/helldur Abrahams Sæde. Af ollu þessu siaum vær/huad sieer ad Endurlausnariñ vor hefur teked til ad giora oss til Gooda/sem er

strax á þeim áttunda Deige/epter sijna blessudu Fæding og Hingadburd Huar fyrer hönum sie eilijft Lof og Þacker.

# Annar Parturinn/ Er um Nafned Jesu.

VAR hans Nafn kallad JESVS/ huad ed kallad var af Englenum/ et c. Med þui ad Gud sialfur/ gaf Abraham annad Nafn/enn hann hafde ádur haft/Gen. 17. Þa tooku Gydingar þa Sidvenju hadann/ad þeir gáfu Børnum sijnum Nøfn/ under eins og þau voru Umskorinn/á áttunda Deige/epter þeirra Fæding/Og kiemur allt þetta saman vid skickum Gydinga Lydsins/ um Heiti og Nafngiøf Herrans Christi. Enn þad bar á millum/ad þar Gydinga Børn fengu sijn Nøfn hier á Jørdu/ af Mønnum giefenn/þar fieck Jesus sitt Nafn á Himnum/ uppe j þeirre Himnesku Raadstofunne/ Heilagrar Þrenningar. Þetta blessada JESV Nafn/er eitt dyrmætt Nafn/ Þui þad merker Saluhialpara/Endurlausnara/ og Frelsara. Enn huad vantar þa á? Þegar vier erum frelsader fra ollu illu/ þegar vier erum Endurleyster fra eilijfum Dauda? Sannarlega/er eckert dyrmætara enn Frelsid/ Ja/þad eilijfa Frelsed. Eckert dyrmætara enn Saluhialpinn/Ja/ su eilijfa Saluhialpinn/ Þetta Nafn/er eitt Naadarfullt Nafn. Kongar og Stoorherrar láta kalla sig hina allra Nadugustu/enn þar er stundum lijtel edur einginn Reinta med Nafne. Enn Jesus Endurlausnarinn vor/hann er sá riette Naadar brunnurinn/af huørs Fyllingu vier høfum aller feinged Naad fyrer Naad. Þetta Nafned eiga aller sem Jesum elska/ og hans Naadar vilia niotande verda/ ad Innskrifa á Hiarta sitt/ med þui Raudlita Bleke/ Herrans Jesu Christi blessada Bloods/so vier gleymum þui alldrei/huorke j Lijfe nie Dauda. Hondinn/med huerre vær skulum þad skrifa/skal vera H. Ande/sem kallast Fingur Guds. Penninn á ad vera sønn Trw/Rom. 3. Þeir Heilogu Christnenar Lærefedur/ hafa so Hiartanlega gladt sig/ og Forlistad/ j umþeinkingu/ og Heilagre Ihugan þessa Nafnsins/ ad þeir hafa sagt/ Þad være Fegurdar saungur j Eyrunum/ Hunang á Tungunne/og Fagnadar Lysting fyrer Hugskots Augunum.

Hugleidum nu frammveigis/huørsu vijdt og breydt/þetta blessada JEsu Nafn vttekur. Endurlausnaranum vorum var þetta Nafn þrisuar

sinnum

ſinum gieþed. Fyrſt ædur eñ hañ var gietiñ j Moodurlijþe/Luc. 2. Þar næſt a ſialfre Gietnadar ſtunduñe hñs/Luc. 1. Og j þridia lage/a Vmſkurnar deigenū hñs/Huar med auijſad var/ad þetta bleſſada J. A F-ned ſkyllde til Gagns og gooda koma/bæde þeim ſem fyrer hañ hefdu lif-ad/a fyrſta Heimſins Alldre/ſo og eirniñ þeim ſem lifdu a Tijma hñs Hieruiſtar/ og ecke ſijdſt þeim ſem ſijdañ/epter hans ſyndelega Vm geng-ne/ hier j Heime lifad hafa/ og lifa allt til Heimſins Enda/ So ad Poſtuliñ ſeiger riettelega/ad Jeſus med ſijnu kreptugu Nafne/ſie ſamur vid ſig j Giær/j Dag/og ad eilijfu/Heb. 13.

Þeſſe Kraptur JEſu Nafns/nær til allra Riettrwadra/þeim til ei-lijfrar Sæluhialpar. Eñ til Dioflaña/og añara Oguðlegra/til eilijf-rar Skielfingar. Þuiad j Nafne JEſu ſkulu oll Knie ſig beygia/bæde a Himne/a Jørdu/og j Heluijte/Phil. 2. Þetta JEſu Nafn/Bleſſar oß j Jñgaungu vorre til þeſſa Lijfs/og þ riett j ſialfre Skijrneñe. Þad Bleſſar oß a øllum vorum Hieruiſtardegum/og einkum a vorum Burt-ferdar deige/og ad ſkilnade vid þeñañ Heim.

Vm Jacob Forfødur er þad leſed/Gen. 28. Ad þegar hañ flydde fy-rer ſijnum Broodur Eſau/j Meſopotamiam/þa vard hañ Nættſtaddur a Veigenum/j einu Platze/ſem ſijdañ kalladeſt Bethel/og ſem hañ lag-de ſig til Suefns/þa took hañ eirn Stein/og liet hañ vnder ſitt Hefud/ Yfer huørium Steine hañ ſuaf ſo vært/ ad hañ ſæ j Draume eirn Sti-ga vpprieyſtañ til Himna/ og a efra Stiga Endanum/ſæ hañ Gud/ og Guds Eingla vpp og nidur fara vm Stigañ. Þeſſe Draumur rætiſt a oß/ øllum Riettrwudum Chriſtnum Møñum/ Ef vær tekum JEſu Nafn/og leggium vnder vort Høfud/þa ſiæum vier midt j Daudanum/ Veigiñ til Himna/ og kuñum hæglega med Einglaña Fylgd/ ad komaſt til vors Himneſka Fødurs/ og heyra þeſſa hans Rødd/ad hañ vilie bleſſa oß/þad verdur oß eirn vakande og Bleſſadur Draumur. J þeſſu bleſſada Nafnenu/hofum vier alla Bleſſan/huad eg vil nu af Lioſum Ritningareñar Ordum ſtuttlega beuijſa.

Fyrſt/hofum vier j þui/Syndaña Fyrergiefning/ſo ſem S. Petur vo-ttar/ſeigiande. Þeſſum Jeſu bera aller Spameñ Vitne/ad huør ſem helſt a hans Nafn trwa/ſkule faa Syndaña Fyrergiefning/ Act. 10.

Þeiſſ

Þetta er ecke lijtils verdur Velgiørningur. Sæler eru þeir seiger David/Psalm. 32. Huorum Syndernar eru Fyrergiefnar/ & Misgiørdernar eru ecke Tilreiknadar.

Þar næst høfum vier j þessu JEsu Nafne/Frid og Rocseme Samviskunnar/ so sem þad stendur skrifad/Rom.5. Med þui vier erum Riettlæter ordner/høfum vier Frid vid Gud/j verum Herra Jesu Christo.

J þridia lage/høfum vier j þessu sætasta JEsu Nafne/ Saluhialpena/so sem Eingellinn vottar/ad hann mune sitt Folk Saluholped giera/ & huør sem þetta Nafn Drottins akallar mun holpenn verda. Joel.2.

Þa er enn j fiorda lage Arfleyfdar Riettureinn/sem vær faaum af þessu JEsu Nafne/um huern Johannes vottar/1. Cap. Seigiande/Ad Gud hafe giefed þeim øllum Magt Guds Børnum ad verda/sem a hans Nafn trwa.

J fimta mata/stendur oss þad Gagn af JEsu Nafne/ad vier gietum med þui wtdrifed Diøflana/ecke alleinasta fra ødrum/ helldur og so fra oss sialfum. J mijnu Nafne skulu þier Diøfla wtreka/ seiger Endurlausnarinn vor Jesus sialfur/Mar.16. Og Lærisueinarner sem wt voru sender ad predika/ hroosudu þui fyrer Herranum Christo/ ad j hans Nafne hefde Diøflarner sialfer orded ad flyia/og hlijda sier.

Þad siøtta Gagn af JEsu Nafne/Er Bænheyrslann vor/Þat liggur ecke lijted a/ ad Madur verde Bænheyrdur af Gude/ strax sem hann bidur hann. Nu seiger Endurlausnarinn vor sialfur/ sa eilijfe Sannleiks Mañurinn/ad huors vier bidium Fødurinn j sijnu Nafne/ þad skulum vier faa. Hier ofan a/leggur hann tuøfalldann Eyd/og tuøfallt Fyrerheit/suo þad er Onøgulegt/ad þad kunne ad bregdast. Hier hlijt eg ad hroopa upp med Pale Postula/ og seigia. O huilijk Dypt Audæfanna/ og Spekennar/er j þessu sæta og signada JEsu Nafne/oss Mønnunum giefenn? Smæked þui og smacked/huad sætur ad Jesus er/ bæde j sialfum sier/og sijnu Blessada Nafne. Sæler eru aller þeir sem a hann trwa. Þessarar sømu Sælu/Oska eg ydur og mier/ og ollum þeim Søfnude sem j Jesu Christo er/ J þessu hans sama Nafne.

AMEN.

# Sunnudagin næstan epter Atta Dag.

## Evangelium/ Matth. 2. Cap.

EN þa þeir voru j burt farner/ Sia/ Ad Engell Drottins Vitradest Joseph j Draume/ og sagde/ Statt vpp / z tak Barned/ og Moodur þess til þijn/ og flý j Egypta land/ og ver þar/ allt þangad til eg seige þier/ þuiad þad er epterkomande/ ad Herodes mun leita Barnsins ad fyrerfara þui. Og hann stood vpp/ took Barned og Moodur þess til sijn/ vm Nootr/ og for j Egyptaland/ Og var þar allt til Dauda Herodis/ So þad vppfylltest/ huad sagt er af Drottne/ fyrer Spamannin/ er seiger. Af Egyptalande kallade eg Son minn.

# Exordium.

VIer lesum j Exodi Book/ 2. Cap. Ad þegar sa Hardrætuge Kongur Pharao/ bijfalade ad myrda øll Sveinborn þeirra Ebresku/ Þa hafe Mooder Moysis þad til bragts teked/ þa hun sa sier eckert Raadrææm/ eg Fære/ odruvijse ad koma þessum sijnum Syne vndann/ Ad hun giorde eitt lijted Kistelkorn/ af Reyr/ og bræde þad vtann med Bike/ og lagde Sveininn þar j/ liet sijdan Kistelenn j Sefed vid Aarbackann. Med hueriu Moodurinnar Raade/ og vppfæddinn ingu/ ad Moyses vard ecke alleinasta/ fyrer Guds Dasamlega Hialp og tilsioon/ fra Daudanum frelstur/ j þad sinn/ Helldur og eirninn/ giordest hann þar epter/ Leidtoge Israels Folks/ og færde þad vt af Egyptalande/ so sem þar vm maa framar lesa/ j somu Book.

Þesse Historia/ var ein auglioos Fyrermyndan/ vppa Endurlausnara vorn Jesum Christum. Fyrst j þann maata/ Ad lijka sem Moyses/ var ecke alleinasta þar tilskickadur/ ad fliotna Israels Folke/ med Loggum Riette/ og vndervijsa þui og kienna/ helldur og so ad Frelsa þad/ og

wtleida fra þeim Egyptſka Prældoome. Eins lyka kom Jeſus/ ecke einungis til þeſſ/hingad j þeñañ Heim/ad kuñgiora oſſ Gud æſett Rad og Vilia/vm vora Sæluhiálp. Helldur ad hañ leyſe oſſ fra þeim Helvijſka Prældoome. Þar næſt/ſo ſem þad/ad Dioffulliñ kom Pharaoni til þeſſ/ad ſitia epter Lijfe Moyſis/ſtrax ſa hñ var fæddur/ſo hindrud yrde Vtleidſla/og Frelſe Iſraels Folks af Egyptalande. Eins giørde eñ nu/ſa Helvijſke Ovinur/ þa Chriſtur var fæddur/ þa kom hñ Herodi til/ad ſtunda epter hans Lijfe/ ſo hañ giæte hindrad þad/ ſem hañ viſſe oſſ Mønnunum læ meſt æ/ſem var Endurlauſnar verked vort.

J þridia lage/ſo ſem þad Moyſes vard furdanlega/og Dæſamlega frelſadur med Lijfe/af Hende Pharaonis/ þar øll øñur Sueinbørn þeirra Hebreſku vrdu ad deya. Eins var og ſuo/ vor Bleſſade Endurlauſnare Jeſus/frelſadur af Hende þeſſ grimma og Bloodgyruga Herodis Kongs/ þar hñ vard ad flya j Egyptaland/ huar hñ nockra ſtund dualdeſt/og vpp olſt/ ſuo ſem Moyſes hia Pharaonis Doottur. Vm þeñañ Flottañ Drottins vors Jeſu Chriſti/ſem hñ vard vppa ſig vorra vegna ad taka/ vilium vier høndla j þetta ſiñ/ hid ſtuttlegaſta. Sa goode Heilage Ande/ hialpe oſſ hier til med ſiñe Nad/ ſo þad verde Gude til Lofs og Dyrdar/eñ oſſ til Vppvakningar og Sæluhialpar/þad heyre Gud j Jeſu Nafne/Amen.

Fyrſt er oſſ athuzande/æ huørium tijma ad Drottiñ vor Jeſus Chriſtus/hafe orded ad flya j Egyptaland/ þad ſeiger Textiñ oſſ/ ad þad hafe vered epter þad/ad þeir Auſturvegs Vitringar voru j burt gengner ꝛ búner ad Offra þeſſum Nyfædda Kongenñ ſijnar Giafer/Gulle Reykelſe og og Myrru. Joſeph og Maria voru bæde Fatæk/ og høfdu ecke neitt/þad þau kyñe fyrer ſig ad leggia og Barned/ æ Veigenum/ Eñ Reyſañ ſem þau ættu fyrer Hende/ var bæde laung og erdug/ Þeſſ vegna ſier ſialfur Gud þeim fyrer Neſte/og Fararbeina vppa Veigeñ/ og lætur þau ecke fyrre af ſtad fara med Barned/ enn Auſturvegs Vitringarner hafa Offrad ꝛ gefed þui ſijnar Gæfur/mz huoriñ ad þau kuñu bæde ad biarga ſier og Barnenu/æ þeſſare ſiñe Mæduſemu Reyſu. Og er þetta eiñ ſtor Huggun/fyrer alla Sorgfulla ꝛ Munadarlauſa/

ad Drottiñ Gud vill sialfur forsorga þa/og giefa þeim þad þeir vid þurfa/til þessa Lijfs Vpphelldis. Ja/hañ er so trwr/ad hañ lætur ongvañ Reindañ edur Freistadañ verda/fram yfer Megn/1. Cor. 10.

Þar næst er oss Adgiætande/af huørs Rædum og Aeggian/Joseph ꝛ Maria hafa teked þetta Omak vppa sig/ ad flya j Egyptaland. Ecke tooku þau þad hia sialfum sier/helldur giordu þau þad/ epter Avijsan og Tilsøgn Guds Eingels/huør sendur var til Josephs/ad seigia hm̃ þetta fyrer j Draume. Nuar af oss stendur su Huggun/ad Drottiñ er jafnañ nalægur þeim sem hañ ottast/huørt sem þeir eru helldur sofande edur vakande. Nuad vijda lesum vær j heilagre Ritningu/ad Guds Einglar hafe komed/og byrst Guds Børnum j Suefne? Sofande var Jacob Forfader/ þa hann sa Eingla Guds vpp og nidur farande vm Stigañ/Gen. 28. J Suefne kom Eingell Drottins til Eliam/ þa hañ la vnder Eykeñe/1. Reg. 19. Og til Peturs þa hañ svaf j Fangelseshwsenu/a millum Vardhalldsmañaña/Act. 12. Eins lijka koma eñ nu j Dag Einglarner til Guds Barna/ þegar þau eru sofande/ þad er/þa þau vgger sem sijst/og þau er sem Ovarust vm sig/þa eru Einglarner þeir Þionustusømu Andar/þeim sem allra nalægaster/ Heb. 1.

Framveigis stendur so j Textanum. Statt vpp ꝛ tak Barned/ꝛ Moodur þess til þijn/og fly j Egyptaland. Þesse Ord Eingelsins/eru oll full Lærdooms og Vppfrædingar/ þui skulum vier þau vandlega yfervega og ad þeim giæta.

Fyrst er oss hier merkiande/Ad ecke befalar Eingelliñ Joseph/ ad taka med sier vppa Reysuna/ Gull/ Sylfur/edur adra Hiegomlega Hlute/ helldur seiger hañ/ad hañ skule taka Barned med/þañ dyrmæta Fiesioodiñ/huørs onguer þeir meiga an vera/sem vel ꝛ farsællega vilia byria og vtenda syna Reisu/þui þo vier høfum eckert añad med oss/ þa erũ vier þo samt holpner/ þa vier høfum Jesum vorn/ꝛ fylgd og Fer med oss/epter þui sem David/ad Orde kiemst. Þa eg hefe þig Drottiñ/þa hirde eg huørke vm Himen nie Jørd/ Psalm. 73. Þegar j Ritningunñe verdur gieted Flootta Forfedraña/edur añara/þa stendur þar/ad þeir hafe med sier teked Kuiñur synar og Børn/ Og er þad hier vel athugande/ad þar sem vm þuilijkt Efne verdur talad/þa er allrjafnt fyrst

gieted Mædraña/og sydañ Barnaña/so sem heyra Ma/af Ordum Foꝛ
ꝑodurfins Jacobs/huar ed so sagde til sijns Mags Labans. Gief mi'
er mijnar Kuiñur og Børn/ huar ꝑyrer eg heꝑe þionad þier/ Gen.30.
Item/ J odrū stad stendur/ad hn̄ haꝑe vppstaded vm Nootkena/og tefed
badar sijnar Ectta Kuiñur/og þær tuær Ambætter/og sijn elleꝑu Børn/
og ferdast. Sama verdur og so vm Moysen lesed/Exo. 4. Eñ a
añañ hatt talar Eingelliñ hier til Josephs. Nañ neꝑner ꝑyrst Barned/
og sijdañ Moodurena/Ecke seiger hañ so. Tak þu Moodurena og Bar'
ned med þier/helldur/Tak þu Barned og Moodurena. Nuar med hn̄
vill audsyna/ad þetta blessada og Nyꝑædda Barn/ sie længtum ædra og
Ypparlegra eñ Maria/edur adrer Meñ/þui þad var bæde heñar/ og voꝛ
allra Sæluhialpare og Grædare.

Þa er oss ꝛ eirniñ þad athugande/aꝑ Ordū Eingelsins/Ad hañ seig
er ecke til Josephs/Tak þitt Barn/helldur kiemst hañ so einfalldlega ad
Orde/ og seiger. Tak þu Barned. Audsynande þar med/ ad ecke være
Joseph riettur/ edur Nætturlegur Fader Herrans Christi/ helldur være
hañ ad eins hans Foosturꝑader/settur til þess/ad giæta ad honum/ a hn̄s
Signudu Vngdooms árum/og Vppvaxtar tijma. So er hier þa Me'
ining j huoriu ꝛ einu Orde Eingelsins/sem hn̄ talar.

Framveigis verdur hier j Gudspiallenu/gieted Stadarens/til huo'
rs ad þau Joseph og Maria attu ad ꝑlya/ med þetta blessada Barned/
epter Guds æsettu Raade og Vilia/sem var j Egyptaland. Þo þet'
ta Land være ádur ꝑyrre/ a Døgum Forꝑedurfins Josephs/ eitt ægiætt
og gott Rijke/ og þar geinge þa vel fram/ og skickanlega/ einer og adrer
Nluter/so sem lesa má/ bæde j Genesis Book/ og Davids Psalmum.
Þa samt sem ádur/votta Historiu skrifarar/ad þad haꝑe sijdar þar epter/
spillst og fordiarꝑast/bæde med Nardydge/Aꝑgudadyrkun/og ødrum má'
rghattudum Syndum og Glæpum/sem þar siñe drygder voru. Eñ hu'
orneñ sem þetta var a sig komed/þa ꝑordast þo ecke Jesus Endurlausnare
vor þangad ad ꝑlya/vndañ sijnum Ovinum. Nier aꝑ sieaum vier
Ad þo ad ein og øñur Þiood/edur Folk/sie alldrei so Ogudlegt/þa vill
þo Drottiñ ecke clldungis yꝑergieꝑa þad/helldur lætur hañ þui ꝑrambo
dna verda sijna Nnad/og vill sialꝑur koma/og vera þui nálægur/ sue
framt

fralltil ſeiñ þad vill ſioraſt ſiña Synda/ og ſnwa ſier til Guds. Huad Þ·gudleger & vonder voru þeir/ſem lifdu fyrer Flooded/ſamt ſem ædur/ſende Drottiñ hañ Riettlætesins Predikara Noa/til þeirra/& liet vndervyſa þeim/ef ſkie mætte/þeir hefde viliad ſiæ ad ſier. Þ·gudleger voru þeir j Sodoma. Þ·gudleger þeir j Niniue/Þo villde Gud ecke/ ad þeir ſkylldu fyrerfaraſt/ epter þui ſem hañ ſialfur ſeiger/ Ezech. 33. Cap. Eg vil ecke Dauda þeſſ Synduga. Helldur ſende hañ þeim Jonam Spæmañ/og liet hañ ſeigia þeim til ſiña Synda.

Sialfur Endurlauſnariñ vor Jeſus/ kiemur hier til Egyptalands Jñbyggiara/og er hia þeim. So þar finſt traudlega þad Land/edur ſo vond og Þ·gudleg Þiod/ad þar ſie ecke einhuor ſa/ ſem Herrañ Jeſus vill hia giſta.

Hier af meiga aller þeir ſier Huggun taka/ſem Verølldiñ hatar/og er j moote/Ad þo þeir ſieu vtrekner/og burtu flæmder/fra ſijnum eigiñ Hwſum/ og lijka vel af ſijnu Fødurlande/ þa vill þo Gud ſialfur/ſiæ þeim fyrer Samaſtad/ huar þeir meige med Fride jñe bwa/og byggia. Sióum til/huad dæſamlega Gud vardveitte Joſeph/þegar hans Bræd ur ſelldu hañ j Framande maña Hendur. Hañ gaf honum fyrſt Viſt og Veru/j Potiphars Hwſe/og vpphoof hañ ſijdañ/til eins mykelshattar Hofdingia/j Egyptalande. Furdanlega frelſade Gud Moyſen/af Hende Pharaonis/Exo.2. David af Hende Sauls Kongs/ 1.Sam.23. Eliam Spæmañ/vndañ Ofſokn þeirrar Ogudlegu Jeſſabel/1.Reg.19. Og gaf øllum þeim vm ſijder/goodañ Samaſtad/ſem þeir mattu Vggelauſt j vera/fyrer ſijnum Ovinum. Eins hefur Gud eñ nu j Dag/noog Rææd til/ad vernda og vardveita þa ſem hañ ottaſt.

Þad er ſkrifad vm eirn Byſkup/ ad Nafne Felix/ Ad þegar hans Ovíner ſoocktu epter honum/og villdu myrda hañ/fyrer Lærdoom ſiñ/ ſem hañ kiende/þa hlióp hañ flwed vndañ þeim/og geymt ſig j litlu Skote/hia einum Mwr/Eñ af ſierlegre Guds Tilſkiæ/þa hafe eiñ Konguloo ofed/og ofed Vef ſiñ þar fyrer framañ/ſem Byſkupiñ var jñe/ ſo þeg ar hans Oviner/ſem leitudu epter honum/geingu þar fram hia/þa ſau þeir hañ ecke/meintu og eirniñ þar ønguañ jñe fyrer vera/ ſem eiñ Kongulo hefde fyrer vtañ ofed. Þeſſe/ og oñur þuilijk Dæme/huørniñ

enum hafader/og lijtels virdter framar odrum/Epter þui sem hann siaꝩ ur þ Spaer/hia Matth. 5. Cap. seigiande. Saeler eru þier/ nær Menernet forsmaa ydur/og Offsookn veita/ fyrer mijnar Saker/og tala þ giegn ydur alla Vondsku þo liugande.

Þar næst/vegna Erfidismuna þeirra/sem þeir verda ad hafa sijfellᷞ lega j Embætte sijnu. J þridia lage/vegna Motmælis og Motkas sts sem þeir hliota ad lijda. J fiorda lage/fyrer Einfallldlegleika og Forsialegleika/ sem Herran bijdur þeim ad vera med prijddum. Suo seigiande/ Vered einfallder sem Dwfur/ og slæger sem Hoggormar/ Matth. 10. J fimta maata/so sem þad eirn Akurmadur/hefur þoᷣ rf fyrer/ad hafa gott Sæde/til ad sa j Akur sinn. So er þad og so naᷣ udsynlegt/Ad eirn Kiennemadur/kunne vel og skilie sijnar Trwar Hoffudᷣ greiner/og Articula/Huorium hann a nidur ad sa/med Ordsins Kiennᷣ gu/j Hiortu sinna Tilheyrenda. Þui huornig kann þad eirn ødrum ad ki enna/sem hann sialfur ecke veit edur kann?

J siotta og sijdasta maata/ Vilie Akurmadurinn hafa nockur Not og Gagn/af sinne Akurvinnu/þa hlijtur hann ad bidia Gud/ ad Blessa hana/ og giefa þad/ad þad Sæded/sem hann hefur nidur sad/maatte fæꝛa Huᷣ ndradfalldann Avoxt. Eins verda og so Kiennemenener ad giora. Allᷣ rei meiga þeir so sa Sæde Guds Orda/ j bland sinna Tilheyrenda/ ad þeir bidie ecke Gud/ af Hiarta og Alvoru/ ad þad meige Avoxt fæꝛa j þeirra Hiortum.

Nu viliumm vier þessu næst/ heyra nockud lijted talad um Sæded/ og huornig þui ma samlijkia vid Guds gooda Ord.

Fyrst skiede þad j þann maata/ad j Sædenu er Nattursegur Varme/ Af huorium Varma aptur vpp vex og Blomgast/Korned a Kornstaungᷣ unum/þa Sumared kiemur. So er þui og vared/fyrer þui Andᷣ lega Sædenu/sem er Guds Ord/ þad hefur Natturlegann Varma/ og Hita j sier/einkum þa þui verdur nidur sad j good Guds Barna Hiorᷣ tu/epter þui sem þar stendur/j Psalm. 19. Og hia Jerem. 23. Cap. Þar Spamadurinn/vnder Personu sialfs Herrans Christi/talar so/og sei ger. Er ecke mitt Ord lijka sem eirn Elldur?

Þar næst/so. 3 þad/ad Sæded er heft/og til þess eins þienanlegt/ad þui

þui verdur nidursæd j Jørdena/ vppa þad/ad þ giefe af sier apstur/ecke einfalldan/Tuofalldan edur þrefalldan Avøxt/helldur Hundradfalldan. So sæst og ecke helldur Guds Ord nidur af Kiennemannanna Munne/til þess/ad þad sie Avaxtarlaust/Helldur bere Avøxt til eilijfs Lijfs/Gal.6.

J þridia lage/ þa er Sædenu þui sem j Jordena verdur nidur sæd/ su Magt og Kraptur giefinn/Ad þo þad sie grytt Jord/ sem ofan a þui liggur/þa vex þad þo ecke ad sijdur vpp/og bærer goodann Avøxt. So er þui og vared/Ad þo marger Motstødumenn og Kietkarar/vilie nidurkiefja med Prætum/og Følskum Argumentis/þad gooda Sæded/sem er Guds Ord/sem nu nooglega yfergeingur. Þa lætur Herrann þeim þad ecke talast/edur j nockurn mata Luckast.

J fiorda lage/Þar Akurmadurinn nidur sæer/einu og ødru Korne/j sinn Akur/ þa meinar hann ad fa af huøriu einu Korne/ Hundradfalldan Avøxt/þad er/Ad hn meinar/ad hann mune af huørre einne Kornstøng fa Hundrad/edur hálft annad hundrad Korn. Eins være þess af Hiarta og Alhuga Oskande/ad þad Sæde Guds Orda/sem vær rétsæum a medal vorra Tilhøyrenda/meige ecke einungis Hundradfalldann/ helldur Þusundfalldann Avøxt færa/hia einu og sierhuøriu Guds Barne/ so mundi Erfide vort ecke forgiefens verda j Drottne/1.Cor.15.

Epterfylger nu þad þridia/sem oss er adgiætande/og ahrærer Adspurn Lærisueinanna/ þar þeir spyria Christum ad/ huad Epterlijking þesse hafe ad merkia/sem hann framsetur.

Af þeirra Epterdæme/skulum vier hafa þetta til Lærdoms/sem er/ Ad lata oss ecke þyckia Minkun edur skomm ad þui/ad spyria Presta vora/og adra Guds Ords Þienara/huørninn vier eigum þad ad skilia/ē vier þykiumst ecke sialfer riettann Grundvøll a hafa/Breitande þar vel/ epter Dæme þess gooda Nicodemi/Huør ad var einn mykels hattar Madur/ e Hofdinge j Jsrael/Joh.3. Einnin Gielldingsins/sem var Willdarmadur Drottningarennar Candaces/j Postul. G.8. Cap. Og sialfs Herrans Christi Postula.

Nu epterfylger/ad minnast a Andsuar/ē Herrann Christur giefur Lærisueinum sijnum/þa þeir spurdu hann ad/ huad þesse Epterlijking hefde ad þijda? Hier til suarar hn þeim med faum Ordum/og seiger. Ydur


er vnt

er vilt ad vita Leyndardooma Guds Rijkis. J hvorium Ordum han giefur oss ollum/sem þiona eigum j hans stad/Guds og Christinene/ þan Lærdoom og Aminning/ Ad vier skulum Nogvarlega og med Spekt goo dre/framflytia sitt heilaga Evangelium. Þar næst giefur han oss þa Vidvorun/sem odrum eigum ad kiena/Ad vier lætum oss hvorke j Lette nie Nefningarleyse fundna vera/so myked sem Embætte voru vidvijkur/ Þui so stendur hia Postulanum Paale/1.Cor.4. Nu heimtest ei meir af Verkstiornarmonnunum/Enn þad þeir finnest trwer. Og skal þad so sagt vera um þann fyrra Partinn/j Herrans Nafne.

# Annar Parturinn.

EPterfylger med faaum Ordum/ad minnast a hina adra Greinena/ hvor ed utþyydar um þad Fiogra handaslags Sæde/ edur um þa ferfolldu Guds Ords Tilheyrendur. Hvorium hinum fyrstu/ad lijkt verdur vid þad Sæded/sem fellur utan hia Veigenum/ verdur Fotum troded/ og Fuglar Loptsins eta þad.

Tvent er oss hier athugande/ Fyrst þad/ hvad skiliast a fyrer þennann Veiginn/hvors hier verdur gieted/ sem er Mannsins Hugskot edur Hiarta/sem fullt er med jllar og fullvirdelegar Hugrenningar/ so sem ad eru Hiortu Othoorsmanna/sem lifa j allskonar Sindum/ Ohoofe og Losta seme. Um hvoria Spaamadurinn Esai. 51. Talar nockurneiginn so/ a þennann hatt/og seiger. Þu hefur giort þinn Lijkama ad Jordu/ sem uppa er geinged/og so sem ad einum Gotustijg/þeim sem fram hia gan ga. Þad er Dioflenum/ sem umsitur Mannsins Hiarta/ og slær þar jnn margskonar jllum þankum/so sem ad eru aller þeir/ sem ecke vilia nema Motstodu veita þui hinu Vonda/helldur giora allt þad/sem þeim naudlega j Hug og Hiarta kiemur. J þess hattar Manna Hiortum/sa Guds Ord onguann Avoxt ad færa.

Hier næst vilium vier skoda og yfervega/ hvar fyrer ad Dioflullin verdur lijktur vid Fugla Loptsins. Fyrst skiedur þad þess vegna/ ad þeir eru af Natturunne til/miog liettfærer. Andar/og Fuglum pliotare/til ad fliuga um Lopted/ z giora ad hvad Mennerner ad hafast. Þar næst/so sie þad/ad Myfluguruar eru j stoorum Hoopum/ þyckt til samans j Loptenu

einkum þegar Varmeñ er. So hallda og so Dioꝼlarner / fiet j dymu og þokusomu Lopte. J þridia lage / lijkiast þeir vid Fugla Nimensins / þess vegna / Ad so sem þad / ad Fuglarner tijna smaasmugleꝼa og vandlega upp / huørt og eitt Korn / sem nidur dettur a Jordena / og þeir kuña ad na. So er og so Dioꝼullin Astundunar samur / og Jdeñ / til þess / ad bera sig ad na / og burthripsa / þær bestu og sætustu Nugganer / vor Mañanna Hiertum / sem fuetkiast af þui Himneska Sæde Guds Orda.

Sliaum þar ꝼyrer til / ad vier stondum j mote Dioꝼlenum af ollu Mogne / og Mætte / Og giørum þad fyrst med Heitre og Alvarlegre Bæn / e kalle til Drottins / Huiad so sem þad / ad Fuglarner styggiast vid / og hrædast / þa Meñ hropa og kalla hatt / So hrædast og so / og burtu vykia Dioꝼlarner / þa vier hroopum til Lifanda Guds / og bidium hañ j Jesu Nafne / ad standa hia oss / so ad Andskotiñ fae oss eckert Mein giort. Þar næst skulum vier Dioꝼlenum Motstødu veita med Kostgiæfne / og Athugasemd jafnañ / epter þui sem þar stendur / 1. Pet. 5. Vaked / og vered Sparneytner / þuiad ydar Motstandare Diofulliñ / geingur um kring / sem Grenianda Leon / og leitar ad þeim / sem hañ kuñe upp ad suelgia.

J þridia lage / so sem þad / ad Akurmeñerner / plaga ad uppsetia hingad og þangad / Hrædur um Akuriñ / suo ad Fuglarner styggest helldur vid þær / og giøre þess sydur Skada a Kornenu. So eigum vier og so / Ad setia a millum Dioꝼlaña og vor / Kuøl vors Herra og Krossens Pijn / sem Keypte oss fra Dauda / suo sem vier syngium j Morgun Psalmenum vorum / Þui hun er þad sem alla Dioꝼla hefur yfervuñed.

Añar Partur edur Flockur Tilheyrendaña / um huørn Herrañ talar / hier j Epterlijkinguñe / og lijker vid þad Sæde / sem falled hafe j Grytta Jord. Þa eru fyrst / þeir aller / sem eru Ostøduger / og falla fra a Freistingar tijmanum. Þar næst þeir / s fyrer Christi Saker eckert lijda vilia / læzast vera j Dag goder Christner Meñ / og Frelsadarens Limer / Eñ a Morgun eru þeir Heidingium verre. A añare Stunduñe / læzast þeir bidia Gud / eñ a añare Bølva þeir og formæla. Þa þeir eru j Kyrkiuñe læzest þeir vera heilager so s eirn Eingell / Eñ strax sem þeir koma ut fyrer Kyrkiu Þroskulldiñ / eru þeir Dioꝼlum verre. Þesse þeirra jll Dæme / eigum vier ad varast / eñ hafa saña Þolenmæde / j allskonar Krosse og

Motgange/epter þui sem sialfur Herrañ Christur seiger/hia Matth. 24
Sæler eru þeir sem stöduger blijfa allt til Enda.

Þeim þridia Flockenum Tilheyrendaña/lijker Herrañ Christur vid þad Sæde/sem fiell a medal Þyrna. Hier er oss adgiætande/ huad merkiast a fyrer Þyrnana/þad wtleggur Herrañ sialfur/sem er/ Fyrst Augsyke og Buksorg. Þar næst Rijkdoomur/þegar Madur fester Hiarta sitt vid Gotz og Peninga. J þridia lage Vellystingar þessa Heims.

Fyrst skulum vier vita/Ad so sem þad/ad Þyrnarner Blomgast snogglega/og eru fagrer Alits/eñ hafa þo samt styngande Brodda. So Blomgast og so þeir Agiernu Veralldar meñ/vm stundarsaker/ Þar epter hliota þeir/ad breña med þeim Rijka Mañe/j Oslockuanlegum Ellde.

Þar næst/so sem þad/ad Þyrnarner meida Meñ og særa/þa vid þa er komed. So særa og so/Audæfe og Rijkdomur/Mañaña Hiertu/þa þeir elska Mamon ofmiked/og vill toma þeim til ad girnast/ alltiafnt meir og meir. Sækiunst ecke þar fyrer/epter Aud og Rijkedæme/nemie eñ so sem goodu Hoofe giegner/so ad vier missum ecke þar fyrer/Frid og Rooseme Salareñar/sem þui heilage Augustinus ad Orde kiemst.

J þridia lage/so sem þad/ad a medal Þyrnaña eru optast nær Ormar og Eyturkyndur. So fylgia og so/ Aud og Rijkdome marger Lester.

J fiorda lage/so sem þad/Ad Þyrnarner Nidurkiefia Sædenu. Eins lijka Nidurkiæfer Rijkdoomurin þui blessada Sæde Guds Orda/hia allmorgum/so sem ad skiede þau Ananiam og Saphiram/huor ad/þo þau sæte vnder Predikun Postulans Peturs/ þa huxudu þau samt meira vm Rijkdom siñ/eñ þad hañ kiende/huors vegna þau duttu bæde Dauð nidur/Act. 5.

Þeim fiorda og sijdasta Hoopnum Tilheyrendaña/Lijker Herrañ Christur/vid þad Sæde/sem fiell j gooda Jord.

Þrent er þad sem þessum sijdasta Hoopnum a ad vera lagad. Fyrst er þad/ ad heyra Orded vel og Rækelega. Þar næst/ad bijhallda þui j goodu og Siðsomu Hiarta. Og j þridia lage/ad bæra af þui Auoxt j Þolenmæde/ epter þui sem sialfur Endurlausnariñ vor Jesus talar hier j Nidurlage Gudspiallsins.

Af þessu ollu kuñum vier ad sia og merkia/huad lijtel og aumvirdeleg

ad sie

ad sie Hiørdiñ Herrans Christi/ad reikna a mote þeim stora Hoop þeir-
ra O-gudlegu/ þar ecke verdur Hoolpiñ/ vtañ alleinasta fiorde Partur
Mañkynsins. Bidium þar fyrer Gud Jñelega og alvarlega/ J Nafz-
ne sijns sæta Sonar Jesu Christi/ad hañ sende oss sapnañ siñ gooda hei-
laga Anda/sa ed verke þad j vorum Hiørtum/ Ad vier jduglega/ og med
Averke/ mættum heyra Guds Ord/ og bæra hønum ætijd/ eitt Jdrande
Harmþrungiñ og sundurkramiñ Anda/ til Offurs/fyrer Synder vorar/
einniñ saña Polenmæde/ j allskonar Motgange. Huar til oss sende Gud
Fader/Rijkdoom siñar Nadar /og þad fyrer Forþienustu og Verdskulld-
an sijns Hiartkans Sonar Jesu Christi/Huorium med Fodurnum/og H.
Anda/ sie Loff/Dyrd og Vegsemd/ sogd og sungiñ af øllum Tungum/
nu hiedan j fra/og til Eilijfdar/Amen.

# Suñudagiñ j Føstu Jñgang.

## Evangelium/ Matth. 3. C.

J þañ Tijma. Kom Jesus af Galilæa/ad Jordan/
til Johañem/vppa þad hañ skijrdest af hønum/ Eñ
Johañes varnade hønum þess/ og sagde/ Mier er
þorf ad eg skijrest af þier/ og þu kiemur til mijn?
Jesus suarade og sagde/ Lattu nu so vera/ þuiad suo
hæfer oss allt Riettlæte vpp ad fylla. Og þa liet
hñ þ epter hønu. Eñ er Jesus var skijrdur/ stie hañ jafnskiott vpp
wr Vatnenu. Og sia/ ad Himnarner lukust vpp yfer hønum/
Og Johañes sa Guds Anda ofan stijga/ sem Dwfu/ og yfer hñ ko-
ma. Og sia/ Ad Roddiñ af Himne sagde/ Þesse er Sonur miñ El-
skulegur/ad huørium mier vel þocknast.

## Exordium.

HVad mykel og stoort Dasemdarverk/ad Gud Drottiñ/ hefe giort
a medal añara siña Furduverka/ bæde a Sioonum og Votn-
unum/þad kuñum vier allvijda ad lesa j heilagre Ritningu.
Mÿked og stoort Dasemdarverk var þad/ þa hñ sundurskipte

 Hafenu

Hafenu Rauda/ so þad stood sem eirn Mwrveggur/ a badar Sydur/ a medan̄ Jsraels Folk gieck þar j giegnum/ Exo. 14.

Myked var og so þad Guds Furduverk/ sem han̄ giørde a Sionum/ þa han̄ var sialfur Jn̄anbords/ med sijnum Læresueinum/ En̄ Skiped la vnder A-føllum/ af Stormvidre/ og Siafar Bolgu/ þa hastade hn̄ a Vindin̄/ og safnskiott vard Logn myked/ Matth. 8. Cap.

Nu so sem han̄ giørde sijnar Dasemder a Sioonum/ So hefur hn̄ og so/ ecke sijdur þar giørt/ a þeim fersku Vøtnum. Var þad ecke eitt min̄isstædt Dasemdarverk Lifanda Guds/ sem þar skiede vid Jordan/ a Døgum Josuæ/ vm huørt han̄ sialfur skrifar/ j sin̄ar Bookar 3. Cap. Ad þegar Prestarner sem bâru Sattmaals Ørk Drottins vndan̄ Jsraels Folke/ lietu sijnar Fætur j Jordanar Vatn/ þa adskilde þad sig/ Og Josua gieck þurrum Footum þar j giegnum.

Þad var og so myked Furduverk/ sem Spamadurin̄ Eliseus/ giørde vid Jordanar Flood/ þa han̄ sloo Møtle sijnum a Vatned/ þa skiptest Aaen̄ j sundur/ suo Eliseus gieck þar j giegnum/ Huar vm lesa ma/ 2. Kongan̄a B. 2. Eins skiede þad lyka/ ecke an stærstu Furdu/ Ad þa Naaman hin̄ Syrlendske þuode sig sjø sin̄um j Jordan/ epter skipan Elisei/ Þa vard han̄ Heilbrygdur af sin̄e Spitelsku. En̄ þad sem nu j Dag skiedur vid Aana Jordan/ þad er øllum Dasemdarverkum/ & Jarteiknum ødra. Þui siaum til/ Nu j Dag kiemur til Jordanar/ ecke Sattmaals Ørk Drottins/ helldur han̄/ huørs Fyrermyndan Sattmaals Ørkin̄ var. Þui so seiger S. Paall/ Rom. 3. Ad Gud hafe skickad Jesum Christum/ til eins Naadar stools/ fyrer Truna j hans Bloode.

Nu j Dag adskilst ecke Jordan/ so sem a Elisei Døgum/ Helldur opna sig nu Himnarner vpp yfer Jordan/ so ad Guds Føðurs Raust heyrest klaarlega. Jesus Guds Sonur auglysest hier Opinberlega. Og heilagur Ande/ kiemur sialfur yfer hn̄/ j Dufu Lyking. J Dag giørest Jordanar Vatn/ ecke þienanlegt til þess/ ad burtþuo og hreinsa Lykamlega Spitelsku/ huørke Naamans nie an̄ara/ Helldur giørest nu Jordan/ og øll øn̄ur Vøtn/ fyrer Guds Ord/ og Jesu Christi Skijrn/ hentug til þess/ ad vera eitt Endurgietningarlaug/ j huørre ad aller þeir sem skyrder veda/ j Nafne heilagarr Þren̄ingar/ verda afþuegner øllu̅ sijnu̅ Syndu̅.

Og

Og viliũm vier nu hier epter heyra/stutta og einfallda Vtskijring Gudspiallsins/ Huørt ed sundurskiptest j tuær Smagreiner.

1. Og hlioodar hin fyrre vm Samtal Johan̄is ꝫ Herrans Christi.

2. Hin an̄ur vm þa Vidburde sem skiedu/ þa Jesus var skijrdur.

Gud hialpe oss med sin̄e Nad/ so vier mættum þetta Gudrækelega yfer vega/ Amen.

# Fyrre Greinin̄.

MArgt gott og Nytsamlegt/kien̄er oss þetta heilaga Evangelium. J fyrstu setur Skijrnin̄ Herrans Christi/oss þad fyrer siooner/ Huad myked Gagn og eilijft Sælarnot/ vier høfum þar af/ þa vier verdum skijrder j Nafne heilagrar Guddomsins Þren̄ingar. Lætum oss þar fyrer/med allre Hiartans Audmykt/yfervega Skijrnena vors Drottins Jesu Christi.

J Vpphafe Gudspiallsins stendur so. J Þan̄ tijma. Kom Jesus af Galilæa/ad Jordan til Johan̄em/vppa þad/ad hn̄ skijrdest af honum. Hier er oss fyrst athugande/ æ huørium tijma þad hafe vered/sem Jesus kom til Johan̄em/ sem var þa/ Þegar Johan̄es Predikade fyrst j Eydemørku Gydingalands/og sagde. Giøred Jdran/ þuiad Himnarijke er nalægt/Matth. 3. Jtem/ Þegar han̄ fram sette fyrer þa Phariseos og Skriptlærdu/sem komu til hans Skijrnar/þa hørdu Løgmals Predikun/seigiande so til þeirra. Þier Nødrukyn/ Huør hefur kient ydur ad flyia fyrer tilkomande Reide/ Giøred verdugan̄ Avøxt Jdranaren̄ar. Þesse var nu tijmen̄/æ huørium Jesus vor Endurlausnare kom til Johan̄em/ad lata skijra sig.

Hier af skulum vier þad læra/ Ad sie so/ vier viliũm ad Jesus kome til vor/so sem han̄ kom til Johan̄em/þa breytum epter hn̄s Dæme/ verum audmiuker og Lijtelater/so sem han̄ var/ Han̄ hiellt sig ecke verdugan̄ þess/ad han̄ skyllde vppleysa Jesu Skoofuueinge. Somu Audmykt synde og so æ sier/Forfaderin̄ Abraham/þegar han̄ stood fyrer Gude/og jatade sig ad vera Dupt og Øsku/Gen. 18. Einnin̄ þad vtvalda Verkfære Guds/Postulin̄ Pall/ Huor ed af san̄re Audmykt vid Lifanda Gud/jatar sig ad vera synstan̄ Postulan̄a/og ei þess verdugan̄/ad hn̄

 meige

meige Postule heita/ 1. Cor. 15. Hafe nu þesser og þuilijker Hatt-
upplyster Meñ/ audmykt sig so/ og lijtelæckad fyrer Gude Lifanda/ skyllo
um vier þa ecke/ sem længtum miñe Gæfur høfum þeiged/ myklu framar
audmykia oss/ vnder Vollduga Guds Hønd/ vppa þad/ vier verdum vpp
hafder a Vitiunar Tijmanum?

Þessu næst skulum vier athuga/ vm huoriñ Stad/ edur Platze/ ad Her-
rañ Christur hafe komed/ þa hañ foor ad læta skijra sig. Gudspialla-
madurinn seiger/ Hañ hafe komed af Galilæa. Þetta er nu þuert a mo-
te Gydingum. Þeir høfdu adur sagt til Nicodemum/ ad hañ skyllde ran-
saka og skoda/ þad af Galilæa rise ecke Spamadur vpp/ Joh. 7. Sia
þeir nu/ hier þuert a mote/ og skode sijna Blindne/ Var ecke Jesus vpp
aliñ j Galilæa? Luc. 2. Hoof hañ ecke þar fyrst sitt Kieñemañlega Em-
bætte? Giorde hañ þar ecke/ sitt fyrsta Dasemdarverk? So siaum vier
hier/ Ad þad er satt sem sialfur Guds Ande seiger/ fyrer Spamañinn Esai.
55. Mijner Þankar eru ecke sem ydar Þankar/ og mijner Veiger eru ec-
ke sem ydar Veiger/ seiger Drottiñ.

Eñ Staduriñ til huors vor Endurlausnare kom/ þa seiger Gudspi-
allamaduriñ/ ad vered hafe Jordan/ Hañ gietur hier og so/ huert ad vered
hafe Erendid/ sem er þad/ Ad hañ skijrdest af Johañe. Med þui þa/
ad sialfur Endurlausnareñ vor Jesus/ Guds Eingietiñ Son/ villde læ-
ta skijra sig. Þa ma Skijrneñ vissulega eitthuad gott verka/ hia oss
Mañunum/ Og sañarlega mun hun vera einu og sierhuoriu Guds Bar-
ne harla Naudsynleg/ j synum Christendome/ og j sijnu Embætte.

Nu ef einhuor gyrnest ad vita/ a huerium Alldre Herrañ Christur
hafe vered/ þa hañ liet sig skijra/ Þa var þad a hans þrijtugasta Alldurs
Are/ a huerin hañ jngieck og eirniñ sitt Kieñemañlega Embætte/ Og
var þesse hans Skijrn/ so sem ein Jnvijgsla/ til hans Kieñemañlega Em-
bættis. Þar nu Drottiñ vor Jesus Christus skijrdest/ ecke fyrr eñ
hañ var so til Alldurs/ og Aara komiñ/ Þa vilia sumer Villumeñ/ sem
kallast Anabaptistæ/ edur Endurskyrarar/ ad Børniñ sieu ecke færd til
þeirrar heiløgu Vatnsskijrnar/ fyrr eñ þau eru fulltijda. Þar a moot
suørum vier/ Ad Ordsøk/ huar fyrer Christur hafe ecke skijrst/ strax a vng-
doms Aarum sijnum/ eins og vor Børn/ sie su/ ad Skijrniñ var þa ecke

jnnsett

sett/Þui hun byriadest ecke fyrre/en a hans Alldurs/29. are/ Þa Johañes tok fyrst til ad skijra. Þegar Christur fæddest j Mañlegu Hollde þa var Vmskurnin tijdkanleg/ en ecke Skijrnin. Huernin kuñe hann þa sig skijra lata/ fyrr en skijrnar Sacramentid var jnsett/ og af Johañe Handterad? En vær skulum eptersylgia Befalningu vors Drottins Jesu Christi/ þar hñ so bijdur og skipar/ Leifed Bornunum til mijn ad koma/og bañed þeim þad eige. Mar. 10.

Nu vilium vier skoda og yfervega/ Ordsaker þær/huar fyrer Herrañ Christur villde lata skijra sig.

Hin fyrsta var þesse/Ad hañ villde þar med styrkia og stadfesta/Johañis Lærdoom/Embætte og Skijrn/þui þa Johañes took fyrst til ad Predika og skijra vid Jordan/þa þotte Gydingum þad vndarlegt/ad hañ skylldi med nyum Lærdoome/Stipta nya Ceremoniu Skijrnareñar/ huør ed var myklu ødruvijs/en þær Mosaisku/og Levitisku Hreinsaner/edur Þuottar voru/ad huøriu þeir eirnin fundu/ vid Johañem/og spurdu hann ad/huar fyrer hañ skijrde/ Fyrst hañ være huørke Christur/ecke Elias/ ꝛ ecke Spamadur? Þar fyrer var Johañe þørf a slijkum Vitnisburde Herrans Christi/so eingiñ Madur skyllde gieta tuijlad vppa hans Skijrn/þad hun være af Møñum/helldur af Rade og Skickun þeirrar heilagu Guddomsins Þreñingar/huør ed sig hier openberade.

Auñur Ordsøk til Herrans Christi Skijrnar/þa var þesse/Ad hañ villde þar med lata vijgia sig/til sijns Kieñemañlega Embættis/ huert hañ jñgieck og vppa sig took/vnder eins og hañ skijrdest. Þegar Prestarner j þui Gamla Testamentenu/voru vijgder/edur stadfester til sijns Embættis/ Þa skiede þad mz sierlegum Ceremonium. Þui fyrst hlutu þeir/adur en þeir byriudu sitt Embætte og Þionustugiord/ad lata hreinsa sig og þuo/so sem lesa ma j Exo. Bok. 29. ꝛ 40. Cap.

Eins villde og sa Ypparste Kieñemadur/ og Erkebyskup/Drottiñ vor Jesus/stijga ofan j Jordanar Vatn/ þa hañ jñgieck sitt Kieñemañlega Embætte/ En eige giorde hañ þad þess vegna/ ad hañ þyrfte med nockrar Hreinsunar/ so sem hiner Prestarner/med þui hañ vissi af eingre Synd/og eingiñ Suik vrdu fundiñ j hans Muñe/edur Ordum/ Helldur vppa þad/ ad hañ vppfyllte allt Riettlæte/ suo sem hañ sialfur hier

seiger og vottar/ til huorrar Uppfyllingar/ ad þetta hans Lijfelæte og Hlijdne þ. yrde.

Þar næst villde vor Drottiñ Jesus Christus læta skijra sig/ vppa þad hañ Fyrermyndade þar med/ og yfer segde/ sijna særu Pijnu/ og Bitrañ Dauda/ sem hañ villde lijda vorra Synda vegna/ Þui huad var hñs Nidurdyfing j Vatned/ edur Vatnsins Yferhelling/ añad eñ Merking þess/ ad hañ munde søckua sier nidur/ vnder Straum Gudlegrar Reide? Enn Uppstyging hans aptur vr Skijrnar Vatnenu/ Teiknade hans Dyrdlegu Uppris u fra Daudum/ og þad hañ munde ecke j Daudanum Blijfa/ helldur ad hañ munde læta sien sig aptur/ med Sigre og Vegsemd. Og þess vegna/ samlijker hañ sialfur siñe Pijnu vid eina Skijrn/ suo sem lesa mæ hia Lucam Gudspiallamañe/ 12. Cap. Þar hañ so ad Orde kuedst/ og seiger. Eg hlijt ædur ad læta skijra mig med eirne Skijrn/ og huørsu þreyngest eg þar til hun fullkomnast. Eirniñ spyr hañ Jacobum og Johañem ad/ huørt þeir kuñe ad drecka þañ Kaleik/ sem hañ munde drecka/ eda huørt þeir kyñe ad skijrast þeirre skijrn/ sem hañ munde skijrast? hia Matth. 10. Cap. Huad allt hañ talade vm sijna Pijnu.

J þridia lage villde vor Endurlausnare Jesus/ skijrast hier af Johañe j Añe Jordan/ So ad hann beuijsade sig þar med/ ad vera sañan Natturlegañ Mann/ enn ecke Sioonhuerfing nockra. Item/ ad hann hefde ecke Himneskan Lijkama vppa sig teked/ helldur Natturlegan/ Ja/ vert eiged Holld og Blood.

J fiorda lage/ liet Herran Christur sig skijra/ vppa þad/ ad hann með Skijrnareñar Medtekningu/ vitnade sig ad vera/ Sattmæla bundeñ vid Kyrkiu þess Nya Testamentis/ og ad hann være hennar Høfud/ so sem hañ og eirnin Bevijsade sig ad vera Lid og Lim/ Kyrkiu þess Gamla Testamentis/ fyrer Medtekning Umskurnar Sacramentesins.

Fimta og sijdasta Ord søk/ Herrans Christi Skijrnar/ var þesse/ Ad hañ med sinne allra helgustu Skijrn/ Helgade og vijgde vera Skijrnarlaug/ til eins Heilsusamlegs Floods/ og Rijkuglegrar Hreinsunar syndanna.

Nu vilium vier fara æfram lengra/ og heyra huørnen Johañes seler vnder vid Herran Christum/ vm hans Erende/ Gudspiallemadurenn Mattheus seiger. Ad hñ hafe varnad honum þess/ og sagt/ Mier er þørf

ad eg

ad eg skijrest af þier. Sañarlega/ ef vier viliu̅ skoda og yferveiga/ fyrer hueriar Ordsaker/ad su heilaga Skijrn sie jn̄sett og stiptud/og sydan af Moñunum brwkud/þa sijnest j snoggu Alite/so sem þad/ad Johañes hafe haft Riett vppa ad standa/þar hañ varnar Christo ad skijrast. Seiger ecke sialfur Endurlausnarin̄ vor so/hia Joh.3. Ad þeir einer þurfe Skijrnareñar vid/ sem af þeirre fyrstu Fædingu eru fædder/ Holld af Hollde/þad er/synduger Meñ/ af syndugum komner. Kieñer oss og so ecke sialfur Ande Guds/ hia Marcum Gudspiallamañe/ 1.C. Ad Skijrn Johañes hafe vered ein Jdranar Skyrn/til Syndaña Fyrergiefningar? Nu hafde vor Endurlausnare Jesus øngrar Yfferbootar Þerf/þui hañ var af siñe fyrstu Fædingu sañ heilagur/og Eingetin̄ Guds son. Og Eingellin̄ Gabriel/þa hañ bodade Jomfru Mariu/Gietnadin̄/þa kiemst hañ so ad Orde/og seiger/Ad þad heilaga sem af heñe mune fædast/skule kallast Sonur Guds/Luc.1. Huor vill þar fyrer seigja/ ad Johañes hafe ecke riettelega suarad Herranum Christo/ og sagt/ Jeg hefe Þorf ad skijrast af þier/ og þu kiemur til mijn?

Hier af hofum vier oss þad til Lærdoms ad taka/ af Dæme Johañis/Ad vier eigum æ og alla Tijma/ad jata og vidurkieña/ad Jesus sie øllum Einglum og Moñum ædre/ Og huersu myklar Gafur sem eirn edur añar hefur þeiged af Gude/þa er hañ þo ecke añad/ eñ so sem Dupt og Aska hia honum ad reikna.

Framveigis skulum vier vita/ ad þo þad sie ad søñu mykels Lofsverdt/ad Johañes er so stadfastur/ & alvarlegur j siñe Jatningu/vm Herrañ Christum/þa ber hn̄ þo hier wti/ecke ad sijdur villt/þar hn̄ varnar honum ad skijrast/og þar fyrer talar Endurlausnarin̄ vor so til hans/og seiger. Lattu nu so vera/þuiad so hæfer oss allt Riettlæte vpp ad fylla. Sieum nu hier af Dæme Johañis/ huad snarlega Mañeskiañ Jæ/lijka vel hiner Heilogustu Meñ/kuña ad falla og forsiæ sig/ jafnvel j þeim Hlutum/sem sijnast ad hafa hid mesta Gudrækniñar skyn og æsynd. Og geingur þad hier ei olijka til fyrer Johañe/so sem fyrer S. Petre/þa hañ villde ecke/ ad Herrañ Christur skyllde þuo sijnar Fætur/ þa suarade hann honum og sagde/ þuoe eg þig ecke/þa hefur þu ei Hlutdeilld medur mier/ Joh. 13.

 Og

Og hofum vier þad hier wt af ad læra/ Ad oss ber huorke nie hæfer/ ad grenslast smamsmugliga epter huorium Hlut/ edur leita epter Orsokuñe/ alls þess sem Gud skipar wtheimter edur skickar/ helldur eigum vier ad epterfylgia skylldu þess Embættis/ sem oss er a Hendur faled/ enn befala hitt añad Gude.

Nu sem Johañes heyrer af Herranum Christo/ huad nyked þar sie j hofe vm/ ad hañ læte skyra sig/ þa seiger Gudspiallamadurin/ Ad hañ hafe læted hañ epter honum.

Þetta er nu su retta Guds Barna Art og Eigenlegleike/ ad vilia giarnañ hlyda Gude/ og hans Syne Jesu Christo/ lijka vel j þui/ sem yperganga þeirra skilning. Þanne hier vppa hofum vier/ a sialfre Hierrans Christi Modur/ þui þa Eingellin bodade heñe Getnaden hans/ þa sijnest heñe þad so sem Omøguliegt/ spyr þar fyrer ad/ huornen þad kuñe ad skie/ Eñ sem Eingellin vnderviser heñe þad/ þa gefur hun sig strax til Frids/ og seiger/ verde mier epter Orde þijnu. Eins lijka/ þegar S. Petur villde ecke/ ad Herrañ Christur skyllde þuo sijnar Fætur/ suo sem strax var aminnstur/ og hañ heyrde huornen Christur suarade sier/ þa sagde Petur samkundis/ ad hañ skyllde ecke alleinasta þuo Fæturnar/ helldur og so Hendurnar og Hofudid. Þuilijk Hlijdne a ætijd ad verda fundin/ hia þeim sem vilia vera j Guds Barna tolu/ sem er/ ad þeir giefe allañ siñ Vilia/ vnder Guds Vilia. Vm þessa Hlijdne talar Samuel/ 1. Sam. Bok. 15. Meinar þu (seiger hañ) vid Kong Saul/ Ad Drottiñ hafe Lyst a Offre og Breñefornum/ so sem a þui/ ad hlyda Raust Drottins/ Sia Hlijdne er betre eñ Offur.

Nu vilium vier taka oss wt af Skijrneñe Herrans Christi/ j Añe Jordan/ Eina miñisstæda og agiæta Huggun/ huor ad er þesse/ Ad vier skulum vita/ Ad vor blessade Endurlausnare/ liet skijra sig af Johañe/ a þui þrijtugasta og sijdasta Fagnadar og Vtleidslu Are Gydinga/ þui siaum til/ Gydingar voru suleidder j þad Fyrerheitna Landed/ þa lided var fra Heimsins Skopun/ 2493. ar/ Eñ Christi Skijrn skiede 3992. arum epter Veralldareñar Skopun. Þar fyrer hleipur sa tijme/ fra þui Folked var j Canaans Land jnleidt til 30. Fagnadar Ara. Huar af vier hofum þa Huggun/ Ad Christur sie komiñ hingad j þeñann Heim/ þess

Erindis

Strijdis/ ad hañ ávegade oss/ fyrst hier j Rÿke Nádareñar/ og sÿdann áñare Heims/ j Rÿke Dyrdareñar/ þad eilÿfa Fagnadar ár/ edur Aflausnar ár. Eñ Aflausnar áred/ edur Jubilæred/ hafde þañ Riett og Frÿheit/ ad á þui sama áre var allt laust læted/ þa voru Þrælarner lauser giefner/ af sÿnum Þrælldóme/ og huada Gotz vndan einum hafde geinged/ þangad til/ þui var apturskilad.

Eins og j sama máta høfum vier hier eirniñ vort Lausnar og Nádar ár/ þuiad vorar Synder eru huldar/ og Misgiorder vorar eru nu jñsigladar/ Yferfrodslunum er nidursøckt/ og dreckt j Hafsins Diwp. Latet oss þui af Hiarta langa epter þui sÿdasta og eilÿfa Lausnar og Gledeáre/ sem vor blessade Endurlausnare hefur oss afrekad á Himnum vppe/ med sïne allra heilogustu Skyrn/ og sïne Dÿrmætu Forþienustu/ Pÿnu og Dauda/ med sïne Sigursælu Vpprisu/ og Dyrdlegre Himnafør.

J ødru lage høfum vier og eirneñ þa Huggun/ hier wt af/ Ad þar Herrañ Christur/ stÿgur hier sialfviliuglega ofañ j Aana Jordan/ þa vppfyller hañ miog Huggarsamlega/ þa Fyrermyndan vm Eattnæls Ørkena/ huer þa ed boreñ var wt j Aana Jordan/ þa hindradest Aareñar Rensl/ so Jsraels Børn feingu frÿañ Gang/ og Hættulausañ Veg og Gøtu/ jñ j þad Fyrerheitna Landed/ epter þa Mædusemu Pilagrÿms reisu/ sem þad hafde átt j Eydemerkuñe/ j heil 40. ár. Eins skiedur hier/ ad þar sa sitiande Nádarstolliñ/ vor Drottiñ Jesus Christus/ stÿgur ofañ j Jordan/ ad láta skÿra sig/ þa ridur hñ oss þar med/ Veg og Gøtu/ jñ j þad eilÿfa Fødurlanded. Hañ stiller og eirniñ/ og til baka drÿfur alla Strauma og Vatnsgusur Gudlegrar Reide/ og lætur ecke Vatnsstrauma þess Rauda Dreka/ og Diofuls/ oss afdrepa verda/ nie helldur Bylgur Motgangsins dynia edur brÿta yfer vora Sæl/ þa vier ad eins mænum vorum Augum til hans og helldum oss vid hañ/ Og skal þ so sagt vera vm þa fyrre Greinena.

## Auñur Greiniñ.

ENN þa Jesus var skÿrdur/ stie hñ jafnskiott vpp wr Vatnenu. Og siá ad Himnarner lukust vpp yfer honum.

Þetta er nu þad fyrsta Dasemdarverk / sem skiede j Skyrninne Christi. Vier lesum j Gen. B. 9. 7. Cap. Ad þegar Gud Drottinn sa Jllsku Mankynsins / Og ad Jordinn var full Ranglætis / Þa hafe hann yrad þess / ad hann hafe nockurn tijma skapad Manninn / og hafe þess vegna upp lofed Gluggum Himensins / og lated Rygna yfer Jordena / þui Ognar lega / Vatnsfloode / j huoriu allt Mankyned fórst / ad vndanteknu Noa oz þeim ætta Salum / sem med honum voru j Orkenne. Enn þar ad Himnarner lukust upp yfer Christo / þa hann skyrdest j Jordan / þar til voru adrar længtum Gledelegre Ordsaker.

Hin fyrsta var su / Ad vær sem skyrder erum / j Nafne heilagrar Þrenningar / Og trwum a Jesum Christum / skylldum þar af vita / ad Jesus hefur afteckad / og wtvegad oss / frijann og fullkomlegann Jnngang / j Guds / og Jesu Christi Rijke / Þui so seiger sialfur Endurlausnarinn vor / til Nicodemum. Sannlega / sannlega seige eg þier / Nema so sie / ad einhuer vorde Endurfæddur / af Vatne og Anda / þa kann hann ecke jnn ad ganga j Guds Rijke / Joh. 3.

Annur Ordsok þar til / Ad Himnarner lukust upp / yfer Herranum Christo / þa hann skyrdest / er þesse / Ad bæde þu og Eg / sem skyrder vordum j heilagrar Þrenningar Nafne / meigum vera fullvisser þar uppa / ad nær sem helst vier giorum Bæner vorar til Guds / og bidium hann j Jesu Nafne / vm þad sem Gude kann ad vera til Dyrdar / enn oss til Salar Velferdar / þa vill Gud opna Himeninn / fyrer vorre Bæn / og Bænheyra oss / og vm sijder / þa þar ad kiemur / ad vier eigum ad skrijda vid Daudann / þa munum vier fa ad sia Himeninn opinn fyrer oss / og Jesum Christum standa til Guds hægre Handar / Reidubwinn til þess / ad taka vid Salum vorum / og þetta er nu hin allra stærsta Rad / sem huorium og einum Rietttrijstnum Manne veitest / fyrer Skyrnena Herrans Christi.

Annad Dasemdarverked / sem skiede / þa Christur skyrdest / er þad / Ad Johannes sier heilagann Anda nidurstyga sem Dwfu / og yfer hann koma.

Endurlausnarinn vor Jesus / þa hann wtsende sijna tolf Læresueina / til ad giora Kraptaverk j sijnu Nafne / talade hann til þeirra / þessum Aminningar Ordum / seigiande / vered forsiaaler sem Hoggormar / enn einfallder sem Dwfur / Matth. 10. So skulum vier vita / ad þar Heilagur

Ande

Ande kiemur hier yfer Herrañ Christum/ j Dúfu lÿke/ þa hefur þad ecke helldur skied an Ordsakar/ Helldur skiede þad til eins stadfastlegs Vitnisburdar þar um/ ad Jesus være sa hiñ sanne/ hia huørium vier mætum fiña þañ rietta Fromleika/ Milsde og Einfalldleika/ vid oss aumar Syndugar Mañeskiur/ Huørs vegna hñ vitnar so um sig sialfur/ hia Matth. 11. seigiande/ Læred af mier/ þui eg er Hoogvær/ og af Hiarta Lÿtelætur.

J añañ mæta høfum vier þa Huggun/ af Nidurstigningu heilags Anda/ yfer Lausnarañ Jesum Christum/ Ad vier meigum vera visser og Dekader þar uppa/ ad hañ hefur afrekad oss þeñañ sama gooda Anda/ & ad hañ uthelle honum yfer oss/ j Skÿrneñe/ so hañ skÿre oss med sÿnum siøfolldum Aufgiøfum/ so sem sa Syrlendske Naaman/ vard siøsiñum yfer hueigiñ j Aañe Jordan/ & vard heilbrygdur.

Eñ Amiñing su sem vier meigum taka oss þar ut af/ Ad heilagur Ande liet sig sia/ og var utsendur yfer Christum j Skÿrniñe/ j Dúfu lÿking/ er þesse. Fyrst/ huørniñ þeim eige ad vera vared/ sem uppa Christum eru skÿrder. Sem er j þañ mæta/ Ad lÿka so sem þad/ ad Dúfañ elskar jafnañ Frid/ hefur ecke Gall/ nie heyska Reide/ er Hreinferdug/ Skÿrlÿf og Einfolld/ So ber ollum Christnum Moñum/ sem Endurfædder eru/ fyrer Vatn og Heilagañ Anda/ ad vera einfolldum/ elska Frid og Samþycke. Jæ/ Oss ber ad vera hreinum og skÿrlÿfum/ Kiærlyndum og miskuñsomum/ til alls hins gooda/ eñ lÿkiast ecke þeim Hioofgiørnu Hrøfnum/ sposkum Hegrum/ ed Opacklætum Gaukum.

Þar næst/ so sem þad Dúfurnar/ þa þær tÿna Korned sier til Matar/ þa lesa þær ur Kornenu/ þad sem hreinast er/ eñ skilia hitt þad Oþreina epter. Item/ so sem þad Dúfañ dreckur ecke giarnañ utañ hreint/ og Osaurgad Vatn/ So ber oss og eirniñ/ sem skÿrder erum/ ad hallda oss til þess hreina og Omeingada Sædis Guds heilogu Orda/ og til þess lifañda Vatns/ sem utflÿtur af Nadarbruñenum/ DRottne vorum Jesu Christo.

J sÿdasta mæta viljum vier taka oss þad til Lærdooms/ ad lÿka so sem þad/ Ad Dúfañ sem Noe utsende/ þa Flooded took ad þuerra/ kom aftur j Orkena/ med Oliufuist j sÿnu Nefe/ Huad ed var so sem eitt Frid-

ar og Nædar Teikn. Eins skulum vier vita/ ad giörer su Himneska
Dufañ/ sem er heilagur Ande/ Hun flytur oss good Tijdende med sier/
þa vier skiruñst/ sem eru þesse/ Ad Gud sie nu sattur ordiñ/ vid oss/
og ad hans Reide/ sem yfer oss/ og mote oss var/ hafe nu teked Enda/
fyrer huoria heilags Anda Huggun/ oss bære ad þacka Gude vorum Þo-
olanlega.

Þad þridia og sijdasta Furduverked/ sem skiede j Skijrneñe Christi/
þa er þetta/ þar Gudspiallamaduriñ seiger Og sia/ ad Roddiñ af
Himne sagde/ þesse er Sonur miñ elskulegur/ j huorium mier vel þo-
cknast. Spámaduriñ Amos talar so/ j siñar Spádoomsbookar/ 3. Ca-
pitule (seiger hañ) Oskrar/ huer skyllde ecke ottast? Drottiñ/ Drottiñ tal-
ar/ huor skyllde ecke spá? Siaum til/ Hier talar nu sa eilijfe Gud/
ofan af Himnum/ skylldum vier þa ecke giæta ad hans Ordum/ og bevara
þau/ og yfervega med allre Kostgiæfne/ j vorum Hiortum? Þesse Gu-
ds Fødurs Vitnisburdur/ um siñ Eingietna Son/ hañ er vtdreigiñ/ bæde
af Psalme Davids/ þeim odrum/ þar so stendur/ Drottiñ hefur talad til
mijn/ Þu ert miñ Sonur/ j Dag Fol eg þig. Sem og eirniñ af Spá-
dooms Book Esa. 42. Cap. Sia þu/ (seiger Spámaduriñ þar) Þad
er miñ Þioon/ eg helld honum vid/ og miñ sa hiñ Vtvalde/ a huoriñ mijn
Saal hefur Giedþeckne. Eñ Elskulegañ kallar hañ hier siñ Son/
med þui/ ad hañ er af Verulegre eisku/ eirn Gud med Fødurnum/ huor
ad er su ædsta Eining/ og hin Vendanlegasta Elska. Hier af hefum
vier þau Not/ ad med þui vor Medalgongu Madur Jesus Christus/ kall-
ast hier elskulegur Sonur Fødursins. So verdum vier og eirniñ/ j þeir-
re heilögu Skijrn stadfester/ til ad verda Guds og Heilags Anda (sem oss
verdur þar giefeñ og meddeildur) elskuleg Oskabørn. J añañ máa-
ta/ So sem þad/ ad Faderiñ vottar hier/ Ad hañ hafe Hiartanlega Vel-
þocknan a sijnum Elskulegum Syne/ So meigum vier og eirneñ/ Hu-
gga oss þar vid/ bæde j Lijfe og Dauda/ Ad med þui/ ad vier erum
j hans Nafne/ og vppa hans Nafn skijrder/ Þa erum vier og sue vel-
þocknanleg Guds Børn/ med þui hann hefur giort oss sier þocknanlega
j sijnum Elskulegum Syne. Nu/ Vier þockum Lifanda Gude/
fyrer þessa Skijrnar Nád/ Og bidium framveigis/ ad hañ vilie halda

…n og vorum Eptirkomendum/ under þeirre somu Nad/ allt til Veralldarennar Enda/ Amen AMEN.

## Fyrsta Suñudag j Føstu.

### Evangelium/ Matth. 4.

NA var Jesus leiddur af Anda a Eydemørku/ uppa þad hañ freystadur yrde af Dioflenum. Og þa hñ hafde fastad fiorutiger Daga/ og fiorutiger Nætta/ Hungrade hañ. Og Freistariñ gieck til hans/ og sagde/ Ef þu ert Sonur Guds/ þa seig þu/ ad Steinar þesser verde ad Braudum/ Huorium hñ suarade og sagde/ skrifad er. Madurinn lifer ecke af einusamañ Braude/ helldur af sierhuorju Orde þui/ sem framgeingur af Guds Muñe. Þa took Diofulliñ hañ med sier/ j Borgena Helgu/ og sette hann uppa Musterisins Bustena/ Og sagde til hans. Ef þu ert Guds Sonur/ fleyg þier hier ofan af/ þi skrifad er/ ad hñ mune bioda Einglum sinum um þig/ ad a Hondum bere þeir þig/ so þu steyter ecke Foot þiñ vid Steine. Eñ Jesus sagde til hans/ eñ aptur er skrifad/ eige skalltu freista Drottins Guds þijns. Og eñ aptur flutte Diofulliñ hañ med sier/ uppa eitt Ofur hatt Fiall/ og synde honum oll Rijke Veralldarennar/ og þeirra Dyrd/ Og sagde til hñs/ allt þetta mun eg giefa þier/ ef þu framfellur/ og tilbidur mig. Þa sagde Jesus til hñs/ Far þu burt fra mier Andskote/ þuiad skrifad er/ Drottiñ Gud þiñ skalltu tilbidia/ og honum einum þiona. Og sia þu/ ad Einglar komu til hans/ og þienudu honum.

### Exordium.

J Fyrre Samuelis Bookar/ 15. Cap. Er skrifad um Saul Kong/ Ad hñ hafe af Hatre Ofsookt David/ og þad bæde Leynelega/ og Openberlega/ Fyrer þañ skulld/ ad Gud hafde fastad honum fra sier

 vegna.

vegna siñar Ohlÿdne/eñ útvaled David aptr j hñs stad/og lœted smyria hañ til Kongs/ Eñ þess meir sem Saul ofsokte David/þess meire Vin-ustu hafde hañ af Folkenu/sem hañ átte yfer ad stÿra. Eñ huer-iñ gieck þad til um sider fyrer Saul? Ritningiñ seiger/hañ hafe fallet á sitt eiged Suerd/sier til bana. Eins lÿka gieck þad og so fyrer Di-ofleñum/Hañ vissi þad vel/ad hañ munde um alla Eilÿfd/verda fra Gu-de burt rekiñ og útskúfadur/Eñ Herrañ Christum þar á mote/smurdañ vera/til eins æfenlegs Kongs/og Kieñemans. Þar fyrer sparade hañ ec-ke med allre siñe Grimd og Vondsku/ad veita hönum Atræser/ og freista hans/so sem sia má af þessa Dags Gudspialle/ og þad sama ecke einn siñe/helldur j heilar þriar Reisur.

J Heilagre Ritningu verdur minst á margar hardar og snarpar Holm-gaungur/ sem halldnar hafa vered/ bæde á Himne og Jördu.

Mykel Orusta hefur þad mätt vera/sem þar skiede á Himnum/ þeg-ar Hofud Eingelliñ Michael/bardest vid Drekañ/Apoc. 12. Ecke var þad helldur lÿtel Einvÿgis Glÿma/sem Guds Madur Job þreitte vid Andskotañ/ þa hañ sloo hañ med Kaunum/ fra Huirfle/ og allt til Ilia/Job 1. Judith og Holophernes geingu á Holm samañ/Item David og Goliath/Allt þetta voru ad söñu mykel A-þrif/sin þesser Re-yndu sÿn á mille/Enn þo hefur eingiñ Orusta/eckert Einvÿge vered/so hardt og mykelfeinglegt/so sem þad/þegar Diöfulliñ var suo diarfur/ ad hañ vogade ad bioda sialfū Guds Syne á Hoolm. Eingiñ Orusta hefur og helldur betre Afdrif og Endalÿkt feinged/eñ þesse. Þui j þessu Strÿd-enu var yfervuñeñ/sa sterke Hervopnadur/s̄ umkring geingur sem greniande Leon/ so vier höfum fyrer Jesu blessada Sigurviñing/feinged Frid/ og meigum vera Ohræddir þar um/ad Diöfulliñ giefur ecke skadad oss framar meir/med sÿnum Freistingum. Seigium þar fyrer/med Post-ulanum /Lofadur sie Gud/sem oss hefur Sigurin̄ giefed/fyrer vorn Fr-elsara Jesum Christum.

Vœr viliumj Jesu Nafne/yfervega Textañ/og þad j 2. Smägreinū.
1. Og er hin fyrre um Atvik og Kringumstædur/þær sem leida til þe-ssarar þrefalldrar Freistingar/sem Herrañ Christur leid j Eydemörkuñe.
2. Auñur um sialfar Freistingarnar/med þeim fleyrum Atvikum s̄ þar ad hnÿga.

Gud

Gud giefe oss þetta ad meiga so yfervega/ ad þad verde honum eilijfū
til Lofs/ eñ oss sialfum til Sælar gagns j Jesu Nafne.

## Fyrre Greiniñ.

ÞRent er oss serdeilis athugande/ j þessu fyrra Greinarkornenu. 1. Tija-
meñ/ æ huorium Herrañ Christur hafe leiddur vered/ vnder þessar þun-
gu Freistingar. 2. Af huorium hañ hafe leiddur vered. 3. Huor ver-
ed hafe Staduriñ/ sem hañ holde þessar Freistingar j.
Þad Tijmanum vidvijkur/ þa er þad audræded af þessu Ordkornenu/
sem hier stendur j Upphafe Gudspiallsins/ ÞA. Ad þad hafe vered
strax epter Skijrn Christi/ j Aañe Jordan/ þa hañ var vijgdur af sijnū
Himneska Fodur/ til sijns Predikunar Embættis/ med þeirre Openberre
Vitnisburdar Raust/ Þesse er miñ elskulegur Sonur/ & c. Þegar nu
Diöfulliñ heyrer þessa Raust/ Og Vitnisburd Fodursins vm Christum/
og hañ sier þad Himnarner lukust vpp yfer hönum/ og heilagur Ande fer
ofan yfer hañ j Dwfu lijking/ Þa þeinker hañ strax med sier/ ad vissilega
mune þesse sem hier nu skyrest j Jordan/ vera þad riettu Kuiñuñar Sæ-
de/ og sa Fyrerheitne Messias/ vm huorn spaad hafe vered/ ad hañ skyllde
sundurmeria Höggormsins Hofud/ Þar fyrer forsoomar hañ sig ecke/ he-
lldur giefur sig strax til ad freista Jesu Christi/ æn alls vndardrattar.
So siaum vier hier af/ vid huoriu Riettrænud Guds Born hafa ad bu-
ast/ hier j Heime/ sem er/ Ad þau verda meir og framar af Diöflenum
æsoockt/ eñ þeir hiñ Ogudlegu/ þui hañ þykest alla reidu/ hafa þa j sijn-
um Kloom og Nete þangad/ og giefa komed þeim vær eirnre Synd/ j ad-
ra/ þa hañ vill. Til Dæmis ad taka/ Ef eirn Stadur eda Kasta-
le/ giæfe sig vilinglega æ Hendur þeim sem æ hñ villde Heria/ þa þyrf-
te sa same ecke leingur/ ad æsækia hñ med Strijde/ Skotum edur Vmsātr.
Eins er þui og vared/ fyrer þeirre Mañeskiu/ sem so er Hertekiñ af Di-
öflenum/ ad hun er alla Reidu ordiñ hans Þy og Þræll/ þa þarf hann
ecke leingur ad þuinga hana/ eda ad skiota sijnum Freistingar Pijlum j
heñar Hiarta/ þui hañ veit/ ad hun er alla reidu ordiñ sijn eigiñ Eign.
Eñ ödruvijs vill þad tilganga/ fyrer þeim/ sem j þeirre heilögu Skijrn/
hafa Suared Gude Fodur/ Syne og heilögum Anda/ Trw og Hollustu/

Eñ afneytad Dieflenum/og ollum hans Verkum/Dieffullin sier þa ei-
ke j Fride/og lætur alldre af ad Ofsækia þa/huorke Noott nie Dag/st
hñ giete komed þeim/fra sijnu Christendome/Mætlijka og þegar eirn fiet-
kur Strijdskappe/sæker akaflega epter/ad na einu Stad edur Festingu.
So meiga þa aller þeir/sem Gudrækelega vilia lifa/j Christo Jesu/
biuast vid Freistingum/ og Ofsoknum/epter þui sem Postulin seiger/
2. Tim. 3. Item/seiger Syrach so/Barn mitt/Villtu Guds Þionu-
stu madur vera/þa bu þig vid Freistne/Cap. 2. J einu Orde ad seigia/
Þa þeir hellst ꝫ eru Jnlijfader Herranū Christo/ fyrer þa Heilogu Va-
tns Skijrn/ og þueiged hafa sijn Klæde j Lambsins Bloode/ þeir hinu
sömu hafa sier æ tijd ad vænta/einhuorrar Hreckvijse/og Illskuþats af Di-
eflenum/so sem vier meigum hier arþryckelega sia/a Herranum Christ-
o/Huar ed strax epter þad hañ var skijrdur/ þa var hañ freistadur.
Þar fyrer skyllde einginñ so þeinkia/edur sier fyrer sinne setia/ þo Dieffull-
iñ freiste hans/j eirn edur añañ mata/ad hañ sie þar fyrer af Gude yf-
ergiefeñ/helldur skulum vier reña Hugskots Augum vorum til þess sem
sialfur Guds Sonur vard ad lijda/j Eydemorkeñe/þa hañ var Freistad-
ur/ Ecke var hañ þar fyrer af sijnum Himneska Fodur yfergiefiñ. Eda
yfergiefur og ecke helldur sa Himneske Faderiñ oss/nær vier verdum fr-
eistader/so framt/sem vier holldum oss fast vid vorn Sigurvigara/Je-
sum Christum/og hans heilaga Ord/helldur mun hañ lata Freistingena
fa þañ enda/ad vier giætum vel stadest. 1. Cor. 10.

Hier a mote skulum vier þad varast/ad þo so sie/ad vier j Skijrnerñe
sieum ordner Guds Born/og Erfingiar Himnarijkis/so ad Dieffullenn
hefur ecke framar neitt med oss ad giora/ Þa lifum þo ecke Vgglauser/
edur j Athugaleyse/helldur skulum vier hyxa þar vm/ad þetta Lijf er ecke
annad/eñ standandi strijd ꝫ Baratta/Iob. 7.

Þar næst skulum vier hier læra/Ad so sem þad/ ad Dieffullin Freist-
ade Christi/strax þa hañ skyllde vppbyria sitt Predikunar Embætte/Eins
giorer hañ eñ j Dag/hañ asæker þa hellst/og freistar þeirra/sem Gud he-
fur sett til hæstra Embætta/so hañ giete hindrad þa fra þui/ad þiena
Gude/og hans Christne/ þui hañ veit þad vel/ad ef hañ giætur fellt þar
hans og sterku Eikernar/ þa mune sier epter a seirra/freutlaust vera/ ad
fa

ska nidur til Jardar Greinernar/ og þa Vngu Kuistena.

Þad er skrifad vm Leoned/ad þad rædest sijdra logum/ á þad sem veyke og slæmt er/ Eñ þar á mote sæke þad epter ad reyna sijna Orku/ og Afls mune/ á þui sem sterkt og Rambyggelegt er/ huort þad giete þad sundurbroted og mulled. Eins Nurar Andskotiñ ecke vm/ ad stijda suo freklega á þa aumu og Lijtelmegnu j Christneñe/ helldur á þa stooru/ sem setter eru til ad stioorna/og stijra ödrum vndergiefnum/ Ja/þess meira og stærra Nafn/og gott Rijkte sem eirn hefur/ þess afsiádare er Diöfulliñ/ad fella hañ/ so sem auglioos Dæme eru til/ bæde forn og nij. Aaron/sa Ypparste Prestur/ huorn sialfur Gud hafde vtvaled/ var morgum Merkelegum Gáfum prijddur/so sem Ritningiñ vottar/sa me giek Sathan hm̃ so nærre/ad hañ kom honum til Afgudadyrkanar. Eins lijka freistade hñ Davids/og allara mykelshattar Maña/ j þeirre Veralldlegu Stiettene.

Framar hlioodar so Textteñ. Þa var Jesus leiddur af Anda á Eydemork. Ecke á þetta so ad skiliast/Ad Diöfulliñ/edur jllur Ande nockur/hafe leidt Herrañ Christum/á Eydemerkina/Helldur var hñ leiddur þangad af heilogum Anda/so sem Gudspiallameñerner/Marcus og Lucas votta. Eñ ecke skiede þesse Leidsla heilags Anda med þeim hætte/ad hañ tæke hañ Naudugañ med sier/j Lopt vpp/helldur veyk Endurlausnareñ vor þangad sialfviliugur/af sierlegre Verkan H. Anda.

Hier af lærum vier þad/huorniñ Gud plagar ad höndla/ vid þa sem hañ vill vpphefia/til mykelshattar og viktugra Embætta/sem er j þañ máta/Ad hañ reyner þa fyrst og proofar/ mz adskilianlegū hætte So Reynde hañ Joseph j þui/ad hañ var settur j Fángelse/ ádur eñ hann var vpphafeñ j Egyptalande. David var j Eydemorku/ og geymde Nierd/þar til hañ var smurdur til Kongs/og so marger adrer.

Þar næst skulum vier læra/af Vtleidslu Herrans Christi/j Eydemorkena/þad/Ad so sem á Forlijkunar Hátijdeñe þess Gamla Testamentis/var framleiddur eirn Lifande Hafur/vppa huorn ad lagdar voru allar Folksins Synder/og var þar epter j burt sendur j Eydemorku/Levit. 16. Eins lagde Gud allar vorar Synder/vppa vorn Drottiñ Jesum Christum/Esa. 53. So ber hañ nu allar vorar Synder á sier/ vt j Eyde-

mørkena/og fleyger þeim j Hafsins Diwp/ Mich. 7. So þeirra verdur ecke hiedan af minst/um alla Eilyfd.

Christur hefur og so/med þessare siñe Vtleidslu j Eydemørkena/ vilied tilreida oss Veg til Paradysar/ huadan vorer fyrstu Forelldrar voru wtrekner. Vær ættum um alla Eilyfd/wtelucKter ad vera/fra Samfielagskap Guds/ og hans heilogu Eingla. Eñ þar þuert a mote/ad hafa Vmgeingne med Villudyrum/og þeim Heluisku Heggormum/Eñ Herrañ Christur geingur hier j vorn stad/ Og er j fiorutyger Daga/ og fiorutyger Nætta/ a medal Villudyra/ wtelucKtur fra øllum Meñum/ So hañ kiæme oss aptur j Samfielag/og Selskap Guds/ og hans heilogu Eingla. Vær hofdum eirniñ þad forþienad/ad vier skylldum æfinlega vera þ utan alla Huggun/og Hugsuølun Guds og Maña/þar fyrer er nu Christur hier Huggunarlaus/einsamall/hafande ønguañ þañ/ sem hañ kuñe sig til ad hallda/ Vppa þad/ hañ aftekade oss eilyfa Huggun/hia sinum Himneska Fodur.

Vidvørun hofum vier oss hier af ad taka/ sem er/Ad vier giefum oss ecke sialfkrafa/edur af vorum eigiñ Dærlegheitum/ frañ j Freistingar/ edur til Stryds vid Diofuliñ. Helldur skulum vier bijda þangad til/ ad sialfur Guds Ande leider oss wt j Eydemørkena/ þad er/ leggur oss Kross og Freistingar vppa/So þurfū vier ecke ad tuijla/ad sa same Guds Ande/ sem hefur leidt oss til þessa Strijdsins/ hañ mun og suo standa med oss/og styrkia oss.

Vier hofum og so þa Huggun/ hier wt af ad taka/ j huørskonar Freistingum/og Motlætingum/ad Diofulliñ giefur ecke j þui hinu minsta/giørt oss Mein/nema sialfur Gud leyfe honum þad/Huod nøgglega bevijsast/af Dæme Jobs. Og hia Matth. 8. C. stendur/Ad Dioflarner sem Herrañ rak wt af þeim Diøfulooda/ j Gergesena Lande/ hafe ecke þorad ad snerta Suijnahiørdena/edur fara j hana/utan Jesus leyfde þeim þad. Þar fyrer meigum vier j alla stade O-hrædder vera fyrer Diøflenum/og hans þyum og þrælum/ Sem ad eru Galldrameñ/ og þeir sem fara med Særingar/ og adrar Oleyfelegar Diofuls Vppafindingar/ Þui þoott aller Dioflar være j eirn Hoop saman komner/ þa megnudu þeir þo eckert a mote oss/framar eñ Gud villde þeim leyfe til giefa

þutad

Þuiad oll vor Hofud Hár eru talin̄/og þar fellur eckert af þeim á Jo-
rd/án Vilia þess Himneska Fodursins/Matth.10.

Stadurin̄/j huørium Endurlausnarin̄ vor leid/ þessar sijnar þungar
Freistingar/ seiger Gudspiallamadurin̄ vered hafe Eydemork/ En̄ huør
þesse Eydemork hafe vered/kiemur ecke ollum eitt saman̄/oss vardar og ei
helldur um/þar epter ad grenslast/En̄ þad er audrædt/af Ordum Gud-
spiallaman̄sins Marc. 1. Cap. Ad þad hafe vered soddan̄ eitt Eyde-
plaz/sem eingin̄ Madur hefur vered/edur jbuæd/þui han̄ seiger/ad Her-
ran̄ hafe vered þar med Villudyrum.

Hier kan̄ einhuør ad spyria/Huar fyrer Herran̄ hafe helldur vered fr-
eistadur j Eydemorkenne/ en̄ an̄arstadar? Oss til Lærdoms er þad skied/
So ad vier skylldum þad þar af Læra/ Ad huørier hellst sem elska mieg
Einsetur/og taka sig j burt fra odrū Mon̄um/ til þeirra helldur Diofull-
in̄ sig allra mest/og sæker epter ad freista þeirra/og koma þeim j Osu-
kru. Sin̄um til/so leinge sem Adam og Eva/voru bæde til samans
huort hia odru/j Paradijsar Alldengarde/og hofdu sijna Rædu um Gud
og hans heilaga Ord/þa þorde ecke sa Helvijske Hoggormur ad nælæg-
iast þau/En̄ sem Adam spacerade lijtin̄ Spøl j burtu/ og Eva var ein
somul epter/siæ/ strax gaf Diofullin̄ sig til skrafs vid haná/Og talade
so um fyrer henne/med sinne Lyge Tungu/ad hun fiell j særgrætelega Ey-
md og Hormung. Þa David gieck einsamall uppa Þakenu/ á sijnu
Huse/þa freistade Diofullin̄ hans/og kom honum til ad drya Hoor/ 2.
Sam. 11. Þar fyrer/nær sem hellst vier fin̄um j Hiarta voru og Sa-
lu/til nockra Diofulsins Freistinga/þa fordunst Einveru og Idiuleyse/
þeinkum þar uppa/sem Salomon seiger j sinne Predikunarbook/ 4. C.
Vei þeim(seiger han̄)sem einn er/þui nær han̄ fellur/þa er þar eingin̄
sem han̄ reyse á Fætur aptur. Nu ef vær viliū vita/fyrer huør-
iar Ordsaker/ad Herran̄ Christur hefur viliad láta Diofulin̄ freista sijn̄/
þa eru þar til sierdeilis þriar Ordsaker.

1. Hin fyrsta er su(Epter þui sem Lærefaderin̄ Hilarius fram̄setur)
Ad eingin̄ skyllde Ugglaus vera um sig/j þessum Heime/huørsu heilag-
ur og mykels hattar sem hn̄ være/þui hafe Sathan ecke skam̄ast sijn vid/
ad rædast á Herran̄ Christum/til ad freista hans/þar han̄ visse þo fyrer

 vissi/

vijst/ad hañ var Eingietiñ Guds Sonur/ Skyllde hañ þa ecke myklu diarfare vera vid oss auma Vesalingat

2. Hiñ heilage Augustinus leggur hier til þessa Ordsøk/og seiger/ Ad Christur hafe þess vegna láted Andskotañ freista sijn/ Ad hañ kiende oss med sijnu Dæme/ huor Vopn og Veriur vær skylldum hafa/ j giegn hønum/ so vier kyñum ad hallda Sigrenum/ Þuiad so sem þad/ ad eirn Kapteirn edur Strijdsherra/ kieñer sijnū Strijdsmoñū/ s Ovaner eru vid Strijded/huornuñ þeir skule diarflega ganga á moote sijnum Ovinum. Eins lijka kieña þessar Herrans Christi Freistingar oss/ sem erum andleger Strijdsmeñ/huørniñ þad vier eigum ad standa á mote Eilldlegum Pijlum þess hins hreckvijsa.

3. J þridia lage/Villde Herrañ Christur reina Freistingar/vppa þad ad hañ hefde Medaumkan/og Medlijding med oss/ þa vier verdum freistader/og ad hañ huggade oss/og kiæme til Hialpar/á Hørmungar Tijmanum/ epter þui sem Postuliñ seiger/ Ebre.5. Vier hefum ei þann Byskup/sem ei kañ Sampijning ad hafa med vorum Breysleika/hellldur þañ sem freistadur er á allañ hátt/lijka sem vier/þo án Syndar.

Þad er skrifad vm hiñ heilaga Anthonium/Þa hañ hafde yfferstaded margar og þungar Freistingar/þa hafe hañ spurt so/og sagt/ Æ Hiartans Herra/Huar varstu/ þa eg var j þessum mijnum Naudum/og Freistingum? Huar til ad Herrañ skyllde hafa suarad hønum á þeñann hátt/og sagt. Jeg var j kringum þig/og hugde ad/ huørniñ þu hielltst þig/ so eg mætte hialpa þier. Og þessar eru hinar sierlegustu Ordsaker/huar fyrer Herrañ Jesus/villde lijda Freistingar Andskotans vorra vegna/j Eydemørkeñe.

Eñ framveigis stendur so j Textanum. Og þa hañ hafde fastad fiorutijger Daga/og fiortijger Nætta/Hungrade hañ. J þessum Ordum/er oss þad fyrst athugande/Huørniñ Herrañ vor Jesus Christus/hafe vered vnderbwiñ/þa hñ vard freistadur af Dioflenum. Guds spiallamadur iñ seiger/Ad hañ hafe fastad j fiorutijger Daga/ og fiorutijger Nætta.

Hier af lærum vier þad/ Ad nær sem hellst/ vær eigum ad strijda á mote Andskotans Freistingum/ þa eigum vier ad bwa oss þar til/ med

Føstum

Føstum og Bænahallde/og vera miñuger þess/sem sialþur Gud Rædlegur oss/hia Luc. 21. Vackted ydur/so ydar Hiertu þyngest ecke/aþ Oþate og Oþdryckiu/og med Sorgum þessarar Næringar. Hijþdum Aminningu Postulans Peturs/ 1. Pist. 5. Cap. Vered Sparneitner/ og vaked/ Þuiad ydar Motstandare Dioþulliñ/geingur vm kring/sem grenjande Leon/epterleitande þeim hañ suelge.

Nu viliumi vier stuttlega heyra/huoriar vered haþe Ordsaker til þessarar Herrans Christi Føstu/j Eydemorkiñe/Og eru þær þriar sierdeilis.

Hin þyrsta er su/ Ad hañ villde þar med giora Forlijkun/þyrer Oþreglu vorra fyrstu Forelldra/Adams og Evu/þa þau ætu aþ þui bañada Trie j Paradijs.

Þar næst/so sem þad/Ad Herrañ Christur doo a Krossenum/ vppa þad/hañ frelsade oss þra eilijþum Dauda. So hungrade hañ og so/vppa þad/ad hn̄ þrijade bæde Adam/og alla Adams Nidia/þra eilijþu Hungre.

J þridia lage/Fastade Herrañ vor Jesus/j þioruttijger Daga/ og þioruttijger Nætta/ Ad hañ Aminte oss þar med/ad þasta/og hallda oss þra allskonar Syndum og Ranglæte/so myked sem oss være mogulegt/ Og er þad so sagt vm þañ þyrra Partiñ.

## Auñur Greiniñ.

ANnar Partuiñ/ hlioodar vm þær þriggia handaslags Freistingar/ sem Herrañ Jesus leid j Eydemorkeñe.

Ord/ok og Spære/til þeirrar þyrstu Freistingareñar/tekur Dioþullinn sier/aþ nærverande Tilstande Herrans Christi. Þui þa Jesus hafde nu fastad þioruttijger Daga/ og þioruttijger Nætta/j Eydemorkuñe/ & hañ hungrade/ Þa gieck Freistariñ til hans/ og sagde/Ef þu ert Guds Sonur/ þa seig þu ad Steinar þesser verde ad Braudum.

Þad er Dioþulsins gamul Vijsa og Vane/ Ad hañ gieþur vel Gaum og Giætur ad/ þegar ein Mañeskia/ sem aþ Hiarta elskar Gud siñ/ ratar j nockurskonar Eymd og Motgang/og so snart sem hañ merker þad/ þa ástundar hañ þad mest hañ kañ/ ad hañ giete so talad vm/ þyrer somu Mañeskiu/ad hun hallde oll þau Loþord og Fyrerheit/ sem Gud heþur j sijnu Orde/gieþed þeim sem hañ elska/þyrer Niegomia og Barnamal.



Somu

Sømu Adferd hefur hañ hier j frame/vid Herrañ Christum. Hans hr-
eckvijs Asetningur er/ ad koma Jesu/ til ad tuijla þar vppa/ huørt þad
Guds Ord kuñe ad vera satt/sem hañ heyrde til sijn talad/j Skijrneñe/ad
hñ være Guds Elskulegur Sonur/med þui hañ lide hier j Eydemørkeñe
soddañ Neyd og Hungur/og hafe nu fastad/ j heila fiorutijger Daga og
Nætur samfleytt. Bijdur hønum þar fyrer/ og bijfalar/ad hañ skule nu
Reyna til/huørt þad sie satt/ad hañ sie Guds Sonur/og skule þui giø-
ra eitt Dasemdarverk/og seiga/ad Steinar þesser skule verda ad Braud-
um. Alijka og hefde hñ so sagt og talad/Ef Moyses kuñe med siñe Bæn
ad fa þad/ad þar komu so margar Backtelur/yfer Herbrøder Israels ba-
rna/ so þær þecktu Jordena nær tueggia Alna hatt/Num. 11. Item/
Ef Moyses kuñe ad odlast þad af Drottne/ad Steirniñ gaf af sier nø-
gianlegt Vatn/Exo. 17. Huar fyrer skalltu þa ecke gieta komed þui
til leidar/ ad Gud late Steinana verda ad Braudum/ einkanlega/ Ef
þu ert hans Eingieiñ Sonur? Þetta hefur nu vered Argumentum e
A-stæde Diofulsins/j þessare fyrstu Freistinguñe. Eñ huøriu suarar He-
rrañ Jesus Dioflenum hier til? Hañ slær hañ strax med þui Guds Or-
de/sem stendur skrifad/Deut. Book. 8. Cap. Ad Maduriñ life ecke all-
einasta af Braude/helldur af sierhuøriu þui Orde/sem framgeingur af
Guds Muñe.

Hier kañ nu einhuør ad spyria/huørt Herrañ Christur hafe ecke gie-
tad snwed Steinunum j Braudid/lijka so sem hañ snere Vatnenu j Vijn
j Cana Galileæ? Þar til suarast so-leidis. Vissulega gat Herrañ
Christur þad giert/hefde hñ viliad/ þui hañ var Natturlegur/ og Al-
mattugur Guds Son/og smurdur med Krapte/ epter Holldenu/ lijka
vel til þess/ ad giora Dasemdarverk. Eñ med þui hañ var ecke til þess
Erendis/af heiløgum Anda/ a Eydemørku vtleiddur/ ad hañ skyllde j
þad, siñ giera þar Dasemdarverk/ helldur vppa þad/ ad hañ epter sijns
Føburs Vilia/skyllde verda Freistadur af Dioflenum/þa suarar Herrañ
Christur hønum/riettelaga hier vppa af Guds Orde.

Lærdoom þañ høfum vier oss hier vt af ad taka/Ad vier skulum for-
dast/ad giefa oss j langa Disputatiu vid Diofuliñ/ Helldur skulum vi-
er epter Herrans Christi Dæme/setia a mote hans Freistingum/ Guds

elgeo

eiged Ord/og hønum med einu Orde fra oss vijsa/ so sem hañ giørde/ j heilar þriar Reisur. Hefde Eva so giort/og ecke hallded langt Samtal vid Høggormiñ j Paradijs/þa munde huørke hun nie vær/hafa ratad j þuilijka Olucku/og Hormung/sem vier añars hefum j ratad.

Huggun hofum vier og eirniñ/ oss hier af ad taka/ sem er/ Ad nær sem helst vier kuñum ad rata j Armood edur Fatækt/ so oss skorter Braud/og verdum þar fyrer ad lijda Hungur/þa skulum vier ecke leyfa Dioflenum ad freysta vor/med Þioofnadar Adburdum/helldur skulum vier varpa allre vorre Ahyggiu vppa Drottiñ/ þa mun hañ vissulega sia oss fyrer Braude/ og oss Dagsamlega forsorga/ huad hønum er/ epter sijnu Guddoms Almætte/auduellt ad giøra/ Þuiad suo sem þad/ hañ hefur skapad alla Hlute af øngvu efne/so er og so hans Magt stoor/ad hann kañ an Medals ad hallda Mañeskiuñe vid Lijfed/nær hañ vill/ Eñ sie so/ad Gude þocknest ad brwka Medal/til Mañsins Vpphelldis/ þa er hañ þo samt ecke bundeñ til Sidveniulegra Medala/ s̄ er/Fiskur/Braud/ Kiot og añad/ s̄ vier plegū Almeñelega oss til Muñs ad leggia/ Helldur/huad hellst/sem hañ skipar/ad skule þiena til Mañsins Næringar/þad allt verdur hønum strax ad goodum Notum/so sem sia ma/a Dæme Israels Barna j Eydemørkuñe/ Deut. 8. Huar ed lifdu j. 40. ar/fyrer ofan Braud/og bevijsade Gud þar med/ad hañ gaf þeim Maña af Himnum/ad Madureñ lifde ecke af einu saman Braude/helldur af sierhuorju þui Orde/sem framgeinge af Guds Muñe. So siaū vier þad hier af/ad Brauded af sialfu sier til/nærer oss ecke/Helldur/helldur þad voru Lijfe vid Magt/þ þad kroptuga Ord Guds/s̄ Braudenu samteingest. Þar fyrer skylldum vier ecke lata oss nockurn tijma vr Miñe falla/ ad vier lesum vorn Bordpsalm/ og blessum vora Fædu/ þa vier gaungum til Maltijdar.

Auñur Freistingiñ/ sem Andskotiñ Freistade Herrans Christi med/j Eydemørkeñe/Var Oftraust/og Drambseme/ Huar vm Gudspiallamaduriñ so skrifar. Þa took Diøfulliñ hañ med sier/j Borg ena Helgu/og sette hañ vppa Musteris Bustena/og sagde. Ef þu ert Guds Sonur/ þa fleyg þier hier ofan af/ Þuiad skrifad er/ ad Einglum sijnum hafe hañ boded vm þig/ ad þeir a Hendum bere

 þig

þig/ so þu steyter ecke Foot þiñ a Steine. Þad er eitt af Diofulsins Hreckium og Suikaporũ/ ad þa hañ sier/ ad hñ gietur ecke komed einu Guds Barne/ til ad efa Guds Ord/ og hans Nꝏdar Fyrerheit/ þa snyr hñ vm Bladenu/ og leggur sig þar til/ ad hñ giete komed Mañeskiuñe til Drambseme/ og Hof-ferdugheita/ so sem være hun ollum odrũ heilagre. Þad heiter med riettu/ ad Diofullin setie Mañ vppa Musteris Bustena/ þa hñ gietur talad so vm þ einum eda odrum/ ad hm̃ þyker eingiñ vera siñ Lyke/ huorke j Gudrækne/ Froomleika/ nie odrum Mañkostum. J þuilykañ mata freistade hñ þess stollta/ og Hofmooduga Phariseara/ og sette hañ vppa Musteris Bustena/ þa hañ kem hønum til ad koma fram fyrer Guds Auglit/ med þessum Ordum/ og seiger. Eg þacka þier Gud/ ad eg er ecke so sem adrer Meñ/ Ræningiar/ Oriettvyser/ Hoordoomsmeñ/ eda so sem þesse Tollheimtumadur. Med þessare Drambseme gat Diofulliñ so yfervuñed þeñañ Phariseara/ ad sialfur Gud fellder þeñañ Doom yfer hañ/ ad hañ hafe ecke geinged Riettlætur heim aftur j sitt Hws/ þui huer sig sialfañ vpphefur/ hañ skal nidurlægiast/ Luc. 18. Cap.

Añar Aferd edur Mæte sem Diofulliñ brukar til þess/ ad setia Mañeskiuna opt og tydum vppa Musteris Bustena/ er þesse/ Þegar eirn edur añar þykest vera so Grundvalladur j Guds Orde og goodum Sidum/ og so Trwarsterkur/ ad honum þyker þad Omøgulegt vera/ ad hann kuñe þadañ j fra/ ad falla fra Trwñe/ edur rata j Otierlegt Lyfterne. Þa soddañ Þankar koma j Mañsins Hiarta/ huad er þad añad/ eñ Freistariñ hefur þa sett hañ vppa Musterisbustena? J þuilykañ mata vard sa gødde og Gudhrædde David freistadur/ þar fyrer seiger hañ/ j Psalmenum. 30. Eg sagde þa mier gieck vel/ ad eg munde alldrei falla. Eins lyka vard S. Petur settur vppa Musterisbustena/ af Andskotanum/ vegna Oftraustsins/ sem hañ hafde a sialfum sier/ Þui þa Herrann Christur sagde til siña Læresueina/ ad þeir munde aller hneyxlast a sier/ þa suarade Petur til/ og sagde/ þo aller hneyxle sig a þier/ þa skal eg þo alldrei hneyxlast/ þar þ skyllde einginn freysta meira vppa sig/ edur af sier hallda/ eñ goodu Hoofe giegner. Vær skulum og so varast/ ad láta Diofuliñ gieta sett oss vppa Musterisbustena/ huad ad skiedur/ ef vier af

Ærygþrugheitum

Ærugyrugheitum/ girnustum ædra edur Ypparlegra Embætte/ enn Gud hefur eirn og sierhuorn tilkallad/ helldur blijfum þeigensamlega vid þad/ sem Herrann hefur oss tilskickad/ so sem hinn Vijse Syrach Rædleggur/ 3. Cap. Og Postulinn Pall/ 1. Cor. 7.

Enn oss til Huggunar/skulum vier þ hier wt af taka/ad so s þad/ad þott Diøfullinn sette Christum vppa Mwsteris bustena/ þa gat hann þo samt ecke hrunded hønum þar ofan fyrer/ Eins lijka mun hann ecke þa fellt/til Slijsa/ Limena Herrans Christi/vm alla Eilijfd.

Hin þridia Freistinginn/sem Herrann Christur þolde j Eydemørkenne/ var su/ Þa Diøfullinn villde hafa komed hønum til Afgrundar/og Afguda dyrkunar. Hier lætur Diøfullinn j Ljoose/alla þa Illsku og Hreckvijse/ sem j hønum byr. Og er þad fyrst/Ad hann er eirn Blygdunarlaus Ande/ Þui þar hann hefur nu ecke einusinne/helldur j heilar tuær Reisur/ vered ofervunenn af Herranum Christo/ þa skammast hann sijn huorke nie blygdast vid/ad koma aptur j þridia sinn/ og freista hans. O Herra Gud kome til/ Hafe hann nu so giort vid Hofudid/huad meine þier þa/ ad hann mune giøra Limunum? Hafe Herrann sialfur mætt lijda þuilijkt/ Vid hueriu munu þa Þienararner meiga bwast?

Hier næst syner Diøfullinn sig/ad vera eirn Offlugann og sterkann Anda þar hann fyrer Guds Tillatseme/ flytur Herrann Christum med sier/vppa Mwsterisbustena/og þadan aptur/og vppa eitt Ofurhætt Fiall.

J þridia lage/bevijsar hann sig hier ad vera/eirn vppblasenn Drambsemennar Anda/j þui/hann dyrfest ad Oska þess af Herranum Christo/ad hn framfalle/og tilbidie sig/og hallde sig fyrer þann/sem Ræda meige/ ollum Rijkium Veralldarennar/ og meige gefa þau/ huerium sem hann villie. O/ Straffe þig Gud/ Sathan/þusund Viela Smidur.

Enn eirn argann Lygara/ bevijsar hann sig ad vera þar med/ ad hann eignar sier/ ad meiga gefa þad ødrum/ sem hann a ecke sialfur neitt j/ Þuiad Jordenn er Guds/og allt þad þar inne er/seiger David/Psalm. 24.

Hier af skulum vier þad læra/Ad lijka sem þad/ad Diøfullinn synde Herranum Christo/ so sem a Augnabragde/oll Rijke Veralldarennar/& þeirra Dyrd. So er og j sama mata/oll su Glede og Hærlegheit/ sem Diøfullinn lofar ad gefa Manneskiunne/ecke annad enn skamvinn Skiemt

 un/sem

un/sem valla varer um eitt Augnablik ad reikna/ a mote þeim eilijfu
Helvijsku Kuslum/og Himnarijkis Dendanlegre Dyrd/og Sooma.
Hier um skylldu þeinkia aller þeir/sem vilia vinna þad fyrer Aud ⁊
Rijkdom/ad þeir giefa sig fra Gude/og vilia helldur þiona Dioflenum
so sem(þui midur)ad Dæme finnast til. Þesser ættu jduglega ad hafa j
Hiarta sijnu/og Þanka/þesse Jesu Christi Ord/sem standa hia Matth.
16. Cap. Huad stodar þad Mannin/þo hann kynne ad vinna alla Veroll-
dena/ og lijda Tøpun a Sælu sinne? Seige þar fyrer huør og eirn/
mz Herranum Christo/þa hann merker þad/ Diøfullinn vill freista hans j
soddann mata/ og draga fra Gude til sijn/Far fra mier Andskote/ eg
skal hallda mier vid minn Gud/ og treysta honum af øllu mijnu Hiarta/
bæde j Medlæte og Motlæte/ j Lijfe og Dauda/ Ja/ seige sierhuør suo
sem Kong Josaphat sagde ædur fordum/ til Jerusalems Innbyggiara/
og þeirra af Juda/ Trwed a Drottinn ydar Gud/so mun ydur vera O-
hætt/og trwed hans Spamønnum/þa munu þier fa Lucku/af annare Pa-
ralip. 20. Cap. Seigium ørugguer j Trwnne med Job/Þo þu Dr-
ottin taker Lijfed af mier/þa skal eg þo samt vona a þig/ Job 13. Og
med S. Petre/Herra huørt skulum vier fara fra þier? Þu hefur Ord
eilijfs Lijfs/Joh.6.
Nær vier so giørum j huørskonar Freistingum/sem Andskotinn æfstijd
er oss med/þa mun þad Obrygdanlega skie/ ad sa vonde Andskote mun
forlata oss/so sem hann forliet Christum/ Og so sem þad/ad Einglar
komu til Jesu og þionudu hønum einu. So mun Gud befala sijnum
Einglum ad giæta vor/og þiona oss/þui so stendur þar j Psalmenum.
91. Drottinn er þitt Trwnadartraust/ sa hinn hædste er þitt Athuarf/
Þar fyrer mun þig eckert vondslegt henda/ og einginn Plaga mun næ-
lægia sig til þijns Heimkynnis/þui hann hefur boded sijnum Einglum um
þig/et ct. Iklædum oss þar fyrer Guds Herskrwda/og strijdum j Kra-
pte Christi manlega/a mote øllum Freistingum/so munum vier um sijd
er/fa ad heyra þessa Gledelega Huggun/ Sæll er sa Madur/sem Freist-
ingena lijdur/þui epter þad hann er reyndur/mun hann edlast Lijfsins Kor-
onu. Huøria hina somu Lijfsins ⁊ Dyrdarennar Koronu/oss giefe Gud/
j Nafne sijns Sonar Jesu Christi/ Amen.

Anast

# Añañ Suñudag j Føstu.

## Evangelium/ Matth. 15.



Esus gieck j burt þadañ/ Og foor j Lands hꜳlfur Tyri ꝛ Sydonis. Og siꜳ þa/ ad Canversk Kona gieck wt af þeim sømu Takmorkum/ Kallade og sagde. Herra/ Sonur Davids/ Myskuna þu mier/ miin Dotter kuelst jlla af Dioflenum. Og hañ suarade heñe engvu Orde/ Hans Lꜳresueinar geingu til hans/ bꜳdu hañ og sogdu. Lꜳttu hana fara/ af þui hun kallar epter oss/ Eñ hañ suarade/ og sagde. Eg em ecke sendur nema til Fortapadra Sauda/ af Hwse Israels. Eñ hun kom/ og tilbad hañ/ seigiande Herra/ hialpa þu mier/ Eñ hañ suarade heñe/ og sagde. Þad er ecke gott ad taka Brauded Barnaña/ og kasta þui fyrer Hundana/ Eñ hun sagde/ Satt er þad Herra/ Eñ þo eta Hundarner af Molum þeim/ sem detta af Bordum Drottna þeirra. Þa suarade Jesus/ og sagde. Þu Kona/ mykel er þiin Trwa/ Verde þier suo sem þu villt. Og ꜳ þeirre sømu Stundu/ vard heñar Dotter Heilbrygd.

## Exordium.



Ad verdur lesed j Genesis Bok. 42. Cap. Vm Joseph og hans Brædur/ Þa þeir komu j Egyptaland/ og villdu Kaupa Korn/ sier til Biargar/ Ad Joseph hafe synt sig Reiduglegañ vid þa/ talad þeim hardlega til/ og kallad þa Niosnarmeñ. Þar ꜳ ofan hafe hañ halldid Simeone epter hia sier/ j Fiotrum og Fangelse/ eñ wtheimt ad Beniamin/ sem var Jacobs yngste Sonur/ skyllde færast sier/ so hañ være siñ Þienare/ Gen. 44. Cap. Þesse Vidhendlum Josephs vid Brædur siina/ er so j Sioon ad sia/ so sem hañ hefde ecke att Atkarmoot vid þa/ edur hañ hefde alldeilis onguañ Neista Broodurlegrar Elsku/ haft til þeirra. Aliika/ og med sama moote/ Audsyner sig sa Hiñneske Joseph/ Drottiñ vor Jesus Christus/ j þessa Dags Evangelio/ vid þa Canversku Kuiñuna/ Hañ leyfer ecke ad eins/

 ad heñar

ad heñar Dotter skule med Dioffulsins Fiotrum bundiñ vera/ helldur þeiger hañ þar ad auke/ vid heñe/ og nær hañ um sijder/ virder hana nockurs Andsuars/ þa synest þad vera meira af Þiooste/ eñ Medaumkan/ þui hñ seigest ecke vera sendur nema til Fortapadra Sauda/ af Hwse Israels/ J einu Orde ad seigia/ Herrañ Christur hagar hier so Ordum sijnum og Vidmoote/ vid þessa Canversku Kuiñu/ ad hun hefur mátt þeinkia/ ad þar være eingiñ Von til/ ad hun hefde sier framar/ nockrar Nádar/ edur Myskunar af honum ad vænta. Josephs Brædur medkiendu/ ad þeir hefdu med sijnum Syndum þad forþienad/ þo þeir yrdu nu fyrer þuilijkre O blijdu og hördum Ordum/ af Rádsmañe Kongsins j Egyptalande/ sem þeir feingu ad heyra. So mætte og so/ su Canverska Kuiñañ/ og vier aller med heñe/ játa og medkieña/ ad vier hofum forþienad Longum sijdur eñ þeir/ med Syndum vorum/ þad/ ad Herrañ Christur skylde ecke ad eins/ þeigia vid Bænum vorum/ helldur og eirniñ sijna á sier Reide suip vid oss/ þui huad opt hefur hañ forgiefens kallad til vor j sijnu heilaga Orde/ og Amint oss til Yfirbootar? Er þa ad furda sig þar yfer/ þo hañ láte oss kalla nockra Stund til sijn/ ádur eñ hañ Bæn heyrer oss? Eñ hier á mote/ á oss ollum ad vera þad til stærstu Hiartans Huggunar og Glede/ ad so sem þad/ ad Joseph/ þo hañ synde sig j fyrstu/ bystan og ofugañ vid sijna Brædur/ þa hafde hañ þo samt hid jñra/ Hiartgroona og Broodurlega Elsku til þeirra/ so hans Hiarta brañ af Kiærleika j honum/ og gat ecke leingur leint sier/ fyrer þeim. Eins hefur og so Herrañ Christur/ hier eitt Broodurlegt Hiartalag/ til þessarar Canversku Kuiñunar/ og allra vor/ so sem sia má á Endalyktiñe/ ádur eñ þau skildu. Og viliu vier nu heyra einfallda Utlegging þessa Gudspialls/ og þad sama j þremur Smágreinum.

1. Og er hin fyrsta um Kryngumstædur þær/ s̄ vid vijkia þessu heilaga Evangelio.

2. Añur um þa þrefallda/ Reinslu/ sem þesse Kuiña vard ad þola.

3. Hin þridia skal vera/ um þa Dyrdlegu Sigurviñing/ og Ending/ sem hun fieck á þessare Reynslu/ Med þeim Lærdoomum/ og Huggunum/ sem hier ad hnijga.

Herra Jesu Christe/ vertu j Verke med oss/ so sem þu ert vanur/ og

gief

Gieß ad þesse vor Umþeinking/meige verda þier til Loßs/eñ oss til Upp vakningar/ og andlegrar Huggunar/Amen.

# Fyrsta Greiniñ.

SO myked sem þui ßyrsta Greinarkornenu vidvijkur/ vm Atvik/ edur Kringumstædur/sem ahrœra þessa Dags Evangelium/þa hliodar suo hier vm Textuñ. Og Jesus gieck burt þadañ/ og foor j Landsalfur Tyri og Sydonis.

Ordsok og Efne þar til/ Ad Herrañ Christur vijkur j burt ur Gydinga Lande/fra sijnu Eigen Folke/til huors hañ var þo sierdeilislega sendur/eñ ßerdast aptur j þad Heidna Land Phenitien/j huoriu ad voru þesser tueir Stader/ Tyrus og Sydon/ Þa var su skarpa Disputatia/ sem Jesus haßde hallded/vid þa Skriptlærdu og Phariseos/ vm Mañasetningana/aß huorium þeir hielldu meir og ßramar/enn af Guds eigeñ Orde/og Beßalningu/ so sem sta Maa aß sama Capitula Matthei/ Sem þetta heilaga Evangelium stendur j. Og so ӯ Herrañ Christur ßormerker/ ad hañ gietur ongvu til leidar komed vid þa/ og þeir villdu ecke hlijda Sañleikanum/ þa talade hañ suo til siña Læresueina/ og seiger/ Lated þa ßara/þeir eru blinder/og blindra Leidtogarar/Matth. 15.

Hier aß hoyum vier þad ad læra/ Ad Herrañ Christur er ecke bundeñ med sitt heilaga Ord/vid nockurt vist Platz/ Stad edur Land/ Helldur nær hañ sier/ad bæde hañ/og hans heilaga Ord er ßoracktad/aß einum edur odrum/þa vijkur hañ burt þadañ/og ßer aptur þangad/ med sitt Ord og Velgierninga/sem honum er giegnt og teked/Þui so seiger Herrañ sialßur/j ßyrre Samuelis B.2. Cap. Huor mig heidrar/þañ vil eg heidra/Og sa mig ßoracktar/hañ skal ßyrerlitiñ verda.

Dæme hier vppa/vilium vier taka/aß einum goodum Fodur/nær hñ kallar sijn Born til Bords og Maltijdar/eñ þau vilia ecke giegna honū/ edur koma/ elskande meir Leik og Laafgiæde/eñ Fodursins blijdt Bod/Þa Reidest Faderiñ Bornunum/ sem von er a/ og lætur Dyrnar aptur ßyrer þeim/so þau verda ad þarßnast Matarens. Eins geingur þad til/ þegar Herrañ Christur bijdur oss Moñunum j sijnu heilaga Orde/til þesrar Andlegu Saalar ßæduñar/ eñ vær sætum þui ecke/ ecktum meira

D d iij ßyrer

ꝥ Glaum og Glys þessa Heims/ eñ Jesu blijdlegt Bod/ þa tekur hñ ꝥra oss þad Himneska Braudet/ Eñ sender j stadiñ Hungur Ordsins/ Epter þui sem þar stendur/ hia Spamañenum Amos/ 8. Cap. Sia þu/ seiger Drottiñ/ Eg vil senda Hungur j Landed/ ecke Hungur epter Braudi/ edur Þorsta epter Vatne/ helldur epter þui/ ad heyra Ord Drottins. Latum oss þar ꝥyrer sia so til/ ad Herrañ Christur vijke ecke burtu/ ꝥt vor um Kyrkium og Skoolum/ nie vorum Hwsum og Hiortum/ helldur kost um Kappsæ/ so ad haga oss og hegda/ vid Guds Ord/ og hans Þienara/ ad hñ haꝥe Lyst til ad vera hia oss/ og æ medal vor/ med sijnu Nadar rijke/ ꝥt sæll er sa Madur/ hia huorium Herrañ Christur byr og bygger.

Þad añad/ sem oss er hier athugande/ aꝥ þessu ꝥyrsta Greinar korne nu/ er vm Kuiñuna/ sem hier verdur gieted/ og vm heñar Hwskross/ og huorniñ hun hagar sier og hegdar þar iñe. Gudspiallamaduriñ talar hier so vm. Og sia þu/ ad ein Canversk Kuina/ gieck wt af þeim somu Takmørkum. Þetta Ordkorned/ Sia þu/ Þad Amiñer oss/ ad vær skulum vandlega giæta/ ad þui s̃ hier skiedur/ Lijka sem Gudspiallamaduriñ heꝥde so sagt og talad. Þad er ad søñu eirn stoor/ og ꝥurdanlegur Hlutur/ ad Gydinga Folk stygger j burt ꝥra sier/ þañ Fyrerheitna Heimsins Frelsara/ Eñ Heidingiar og Aꝥgudadyrkarar/ medtaka hann aptur. Þar næst stendur j Textanum/ Ad þesse Kuiña haꝥe vered Canversk/ Þad er/ hun haꝥe vered komiñ aꝥ Canaan/ edur aꝥ þui Canverska Folke/ huorit Gud hafde ædur ꝥyrre ꝥormællt/ ꝥ Muñ Forfødursins Noa/ Gen. 9. Og sagt/ Bølvadur vere Canaan.

Hier aꝥ meigum vier taka oss þad til Huggunar/ Ad eꝥ so kañ ad skie/ ad eirn edur añañ sturlar þad j sijnu Hiarta/ ad hañ þykest komiñ aꝥ illum og Ogudlegum Forelldrum/ Þa læte hañ sier til Hugar koma/ þau Ord Drottins/ sem hañ talar/ ꝥyrer Muñ Spamañsins/ Ezechiel 18. seigiande/ Sonuriñ skal ecke bera Fødursins Misgiørning/ og Faderiñ ecke Sonarens. Ja/ huør og eirn/ s̃ j slijkañ Mæta/ verdur Freistadur/ skyllde giora/ so sem su Canverska Kuiñañ giørde/ Ad þo hun være komiñ aꝥ þui Bolvada Canaans Aꝥkuæme/ þa helldur hun sier þo samt til Jesu. Þad hier stendur j Gudspiallenu/ ad þesse Canverska Kuiñañ haꝥe geinged wt aꝥ Heidingiaña Takmørkum/ Tyro og Sydone/ þa

verdum vier þar med Amintet. Fyrst/huad myklu goodu/ad Kross og Motgangur kome til leidar/ sem er/ Ad hañ tekur allt Athugaleyse burt fra Mañeskiuñe/ og lockar hana/til ad leita ad Herranū Christo/ ecke so sē Stridsmeñ Gydinga/leitudu ad hm̄ fordum/j Grasgardenum/ Þa þeir med Hnepptugum Huga gripu hañ/og færdu j Fiotur/ helldur med audmiukre og alvarlegre Bæn/og angrudu Hiarta. Þesse Kuiñña hafde lifad allt til þessa/ j stooru Athugaleyse/ so hun skeytte huorke vm Herrañ Christum/nie vm sijna Saalar Velferd. Eñ sem Kross og Motlæte sæker hana heim/þa kiemur þ heñe af stad/huort hun vill/edur vill ecke/so hun geingur vt/og leitar sier Lijknar/fra Herranum Christo. Jaa/ so sem þad/ Ad þess meir sem Vatned Vox yfer Jorduñe j Noa Floode/ þess hærra Lyfte þad Orkiñe vpp. Eins giora og lijka Bylgiur Motlætingaña/ Þess meir sem þær brwsa og Reisa sig ordugar/þess meir Lyfta þær bæde Hug og Saalu Mañeskiuñar vpp til Lifanda Guds/ so þau nalgest hañ.

Hond Drottins er alyka til ad jafna/so sem eirn Segulsteirn/huor ed Mañaña Hiørtu snerter/einkanlega/þa þau eru ordiñ Steinhord/ ꝛ dregur þau nedan vr Diwpe Hormungaña/vpp til syn/þar þ talar David so/j Psalm. 130. Burt vr Diwpenu hroopa eg Drottiñ til þijn.

Þar næst/so sem þad/Ad su Canverska Kuiñañ/geingur hier vt/ecke alleinasta/fra þeim Heidnu og Ogudlegu/Tyri og Sydonis/ Iñbyggiurum/helldur og so fra þeirra Takmerkum/ So eigum vier eirniñ ad skilia oss andlega/ ecke alleinasta vid Samfielagskap jllra Maña/ og Heimsins Vellystingar/helldur og so/ ad fordast og flyia/allt þad sem oss kañ ad leida og locka/til Syndaña.

Þad er og so mykels Lofs verdt/j Fare þessarar Kuiñu/ Ad þo hun være Heideñ/og af Heidnum komiñ/þa fer hun ecke eins og adrer heñar Landsmeñ/til siña Afguda/edur j Goda hwsed/ad bidiast fyrer/vm Hialp/vegna siñar Doottur/ helldur flyr hun/og fer til þess rietta og saña Naudhialparans/ vors Drottins Jesu Christi.

So eigum vier og so/ad fordast ad leita oss Lækningar/hia neckiū edrum/eñ hia Endurlausnaranum vorum Jesu Christo/huort sem vier þurfum heñar vid/vegna vor sialfra/edur vorra Astvina.

Nu vilin̄ vier framveigis þa ad heyra/huørnin̄ þeſſe Canverſka Kuin̄a hagar ſier/þa hun kiemur til Herrans Chriſtum. Gudſpiallamadurin̄ ſeiger/ad hun hafe hroopad epter honum/og ſagt. Herra/ Sonur Davids/Myſkuna þu mier. Þeſſe Bæn er ad ſcn̄u fæerd/en̄ þo Kroptug og Trwarmykel/Gaumgiæfum hana þui vel og rækelega/ ſo vier mættum nockud gott af hen̄e nema.

Fyrſt er hier athugande/ ad Bæn þeſſarar Kuin̄u/ hefur ecke vered nockurt Munngiælfur /Flapur/edur gálauſt Barnahial/Helldur þuilijk Ræda/ſem fram hefur floted/ af einu bren̄ande Hiarta/ huad ráda ma af þui/ad Lærefaderin̄ Lutherus ſeiger/hun hafe hroopad og ſagt/Ach/ edur Æ/Herra/huørt Hliood vier plegum ecke giarnan̄ ad láta heyra til vor/vtan þegar oſſ tekur eitthuad ſárlega til Hiarta.

Munum oſſ þar fyrer/ nær vier giørum Bæner vorar til Lifanda Guds/ad vier giørum þad af Alvøru/og klockvu Hiarta/ſo ad ſu Klogun eige ecke heima hia oſſ/ſē ſialfur Gud fram̄ ſetur/hia Spámann̄enū Eſaiam/ſeigiande/ Þeſſe Lijdur nálægeſt mig med ſijnum Mun̄e/og heidrar mig med Vørū ſijnū/en̄ þeirra Hiørtu/eru lángt fra mier/29. C.

Þar næſt giører hun Bæn þeſſa/ecke af neirne Fáviſku/edur Vidurrǽde/helldur af ſtoorre Farm̄ſyne/ og ſkynſeme/þui hun tilbidur hier ergvan̄ an̄an̄/ en̄ þan̄ ſama/ ſem Gud hefur ſialfur ſkipad/ j ſijnu heilaga Orde/ ad tilbedin̄ ſkyllde verda. Skamaſt meiga ſijn/ þar fyrer/ hia þeſſare Kuin̄u/bæde Papiſtar og adrer/ ſem tilbidia heilaga Framlidna Men̄/edur Lijkneſkiur/vm huøriar David ſo talar/ j Pſalm. 115. Og ſeiger/ad þær hafe Mun̄a og tale ecke/Augu og ſiae ecke/ Eyru og heyre ecke.

Framar meir er oſſ þad athugande/ Ad hun kallar Chriſtum ecke einungis Herra/ Helldur og ſo Davids Son. Þar hun kallar han̄ Herra/ þa jatar hun og vidurkien̄er/ad han̄ hafe Magt til ad hialpa/ j allskonar Neyd og Hørmungum. Hun jatar og ſo/ad han̄ ſie eirn Almáttugur Gud og Herra/yfer øllum Hlutum/ og eingin̄ ſie hans Lijke/ Pſ. 35.

En̄ þar hun kallar han̄ Davids Son/ þa medkien̄er hun/ ad han̄ ſie ſa ſami Forerheitne Meſſias/og Heimſins Frelſare/ſem Fædaſt átte af Davids Ættkuijſl.

So

So skulum vier læra þad hier af/ Nær vier giørum vorar Bæner/ huørneñ vier eigum riettelega ad tilbidia Jesum/ sem er. Vær eigum ad akalla hañ og tilbidia/ sañañ Gud/ og sañañ Mañ/ j eirne Personu/ eñ ecke so sem sumer Villumeñ vilia/ Ad Herrañ Christur sie allemasta tilbedeñ/ epter Guddomenum/ eñ ecke epter Mañdomenum.

Framar meir lætur þesse Konuskiepna j lioose/ huar um hun bidur/ sem er um Nаad/ Vægd og Myskun/ bæde fyrer sig og sijna Doottur/ huar hun seiger miøg jlla kueliest af Dioflenum. Þad hefur an efs maatt vera ein hrædeleg Pijna/ og Hiarta Sorg/ sẽ þesse Konukynd hefur haft ad bera/ þa hun vard ad sia þar uppa/ bæde seint og snemma/ ad heñar Hiartkiæra Dootter var suo hrædelega kualiñ/ og krameñ af Dioflenum/ ad hun hafde øngua Roo eda Huijld/ huørke Noott nie Dag/ og þui er oll Von þar a/ ad hun hafe vered so akoff j þui/ ad leita sier Myskunar hia þeim/ sem Nægd Myskunar og Endurlausnareñar var hia ad fa og fiña.

Hier af hofum vier oss þad til Lærdooms ad taka/ huørniñ þad/ ad Foreldrañа giede og Hiartalage eige ad vera vared/ til sijña Barnakyndar/ sem er/ Ad þeir eiga ad hafa þau Hiartanlega kiær/ og bidia fyrer þeim/ þui Børniñ eru ein Edla Gafa Guds/ og eirn Forkostulegur Skenkur þess allra hædsta. Ja/ sialfur Gud Himneskur elskar þau/ og virder so mykels/ ad hañ seigest vilia tilreida sier Lofgiørd/ ut af þeirra Muñe/ Psalm. 8. Vor einka Endurlausnare og Emanuel/ Jesus Christus/ hefur sialfur teked Smaborniñ j Faang/ Lagt sijnar Signudu Hendur yfer þau/ blessad þau og sagt/ Leifed Børnunum til mijn ad koma/ og bañed þeim þad ecke/ þuiad/ þuilijkra er Guds Rijke/ Marc. 10. Þeir heilogu Guds Einglar a Himnum/ ala þuilijka Vñ fyrer Smabørnunum/ ad þeir giæta ad þeim/ og vernda fra ollum Slisum/ so þau steyte ecke Foot siñ a Steine/ Psalm. 91.

Vilium vier reña Augum vorum til añara Skiepna Guds/ sem hañ hefur skapad/ eñ hafa þo ei þeiged Maal nie Skynseme/ eins og vær/ þa siaum vier huilijka Umhyggiu þær bera fyrer sijnu Afkuæme. Þad er skrifad um Hoggormiñ/ Ad þa hañ hefur droped Unga þess Fugls/ sem heiter Pellecanus/ þa hoggve same Fugl sitt Briost j sundur/ med sijnu

Nefe/og læte so sitt Blood reña ofan a Augana/ suo þeir verde lifande aptur/Sie þetta satt/ huad ættum vier Meñerner þa ad giora/sem Gud hefur gefed bæde Vit og Skyn? skylldum vier ecke myklu framar/elska vort Afkuæme/huørt Gud hefur virdt so myklis/ad hañ hefur þad skapad/epter siñe eigen Mynd? Eñ huorniñ þad tilgange fyrer sumū huørium Forelldrum/þar vm er Sion Søgu rijkare/ Þar finast þeir/sem ecke alleinasta hata so sijn Børn/ ad þeir vilia huørke heyra þau nie sia/ helldur reka þau fra sier ølldungis/og giøra þeim ecke hid minsta gott/ Þuilijkt Ræktarleyse vill Gud i ønguañ maata lijda.

Þar næst verdur oss fyrer Siooner sett/af Dæme þessarar Kuiñu/ og heñar Doottur/huad mykel og margvijsleg/ad sie Mañeskiuñar Eymd hier i Lijfe/so þar finst traudlega þad Hws/ edur bygdt Bool/ sem ecke hafe siñ sierdeilis Kross og Motgang/sie þad ecke a Forelldrunum/so er þad/ añadhuørt a Børnunum/Hiwnunum/edur og so a þeirra Gotze/suo þad vill sañast/sem sa Vijse Syrach seiger/40. Cap. Ad þad er eirn aumlega Hørmulegur Hlutur/vm allra Maña Lijf/fra Moodur Kuide/allt til þess/þeir eru i Jørdena grafner/huør ad er vor allra Mooder. Þar er ætijd Ahyggia/Otte/ Von/ og med þad seinasta Daudiñ/ Jafnvel hia þeim/sem i stoorum Heidre sitia/sem hia þeim minsta a Jerdu/Jafnvel hia þeim er Sylke og Coronu bera/ sem þeim/sem Klæder eru grærre Nempu. Þesse Vmþeinking vorra Eymda og Armædu/ ætte a og alla tijma þiena oss þar til/ ad vier kyñum ad verda forsiaaler/ giøra Jdran vorra Synda/og læra ad elska Gud. Og skal þad suo sagt vera/ vm þad fyrsta Greinarkorned.

## Auñur Greiñiñ.

ANNar Partur Gudspiallsins hlioodar vm þa freballda Reynslu/sem þesse Kuiña vard ad lijda. Gudspiallamaduriñ seiger/ Ad þa huñ hroopade epter Herranum Christo/og bad hañ vm Hialp/þa hafe hñ ecke suarad heñe eiñu Orde. Þetta hefur mætt falla þeirre aumu Sorgfullu Kuiñu næsta þungt til Hiarta/ ad Herrañ Jesus virdte hana ecke Andsuars/helldur þeiger hañ vid heñar Bæn. Og siaaum vier/ fyrst hier/ huørniñ Gud plagar ad høndla vid oss stundum/þa oss liggur a/

og vies

og vier køllum til hans i vorre Neyd/ sem er/ ad hañ þeiger vid Bænum
vorum. Nier kañ einhuør ad spyria/ huørniñ slijkt kome til? þar hañ
skipe þo sialfur/ Psalm. 56. Akalla þu mig a Nøermungar Tijmanum/
eg vil Bænheyra þig/ eñ þu skallt prijsa mig. Og hia Spamañenum
Esa. 65. Cap. Seiger hañ/ Þad skal skie/ ad ædur eñ þeir kalla/ þa
vil eg andsuara þeim/ og medañ þeir eru eñnu ad tala/ vil eg heyra þat
Nuad heyre eg hier? Er þa Gud nockud Ohalldeñordur/ so hñ uppfylle
ecke þesse sijn Fyrerheit og Loforder? Nei/ langt fiærre/ helldur eru þar
vissar Ordsaker til/ huar fyrer Gud dregur vndan opt og tijdum/ Bænhey
rslunna vora/ og suarar oss ecke so fliott/ vppa vora Supplicatiu/ sem vier
giarnañ viliũ.

1. Fyrst skiedur þad þessvegna/ so vier mættum kañast þar vid/ ad vier
hoꝼum ecke alleinasta med vorum suꝼvirdlegum Syndum/ þad forþienad/
Ad Gud skylldi leggia oss Kross og Motgang vppa/ helldur og so/
ad hañ skyllde afseigia oss sijna Nialp og adstod.

2. Þar næst dregur Gud og so vndañ Bænheyrslunna vora/ so vier skulum
verda þess heitare og akafare i Bæna akallenu/ Es. 26.

3. Og i þridia lage/ so ad Nialp Drottins verde oss þess Gledelegre/
og Nuggunar samlegre/ sem hun kiemur seirna fram/ eñ vier sialfer þess
þrosare og afbiðdare/ til ad þacka Lifanda Gude/ fyrer sijna Nadarrijka
Nialp/ og ad hun falle oss alldrei ur miñe þadan i fra/ so leinge sem
vier lifum.

Vier skuluñ og so taka oss þad hier vt af til Nuggunar/ ad þo ad Gud
andsuare ecke Bænum vorum/ strax sem vier kollum til hans/ þa meigum
vier ecke strax þar af alyckta/ ad Gud hafe olldungis yfergiefed oss/ og
ad vier hofum oss ecke framar hia honum Nadar ad vænta/ nei/ ecke so.
Siaum Dæme þeirra Neilogu Mañа i fordum tijd. Kallade ecke Noe
til Drottins eitt heillt ar/ i Ørkiñe/ ædur eñ hañ vard Bænheyrdur/ og
vtlerddur þadañ. Joseph i Egyptalands Fangelse i þriu ar. Israels
Folk i Egyptalande/ i mørg ar. David i siñe vtlegd/ i tiju ar/ og so
marger adrer/ huorier sargrætelega hafa veinad/ og klagad yfer þessare
Hogneñe. Seiger ecke hiñ heilage David/ i Psalm. 10. Drottiñ/ þui
geingur þu so fiarlægt/ Og geymer þig a Nørmungar tijmanum?

Og j Psalm. 13. Drottin̄/ huørsu leinge villtu so ølldungis gleyma mier? Huørsu leinge hylur þu þitt Andlit fyrer mier? Huørsu leinge skal eg vera Sorgande j miñe Sælu/ og ængra mig so j mÿnu Hiarta Daglega? Item/ J Psalm. 69. Klagar hin̄ heilage David so/ og seiger/ Eg hefe hroopad mig moodan̄/ min̄ Hals er hæs/ Syn̄en̄ forgeingur/ þad eg so leinge hlyt ad bijda epter mijnum Gude. Og en̄ aptur seiger han̄ j Psalm. 83. Gud þeyg ei þan̄in̄/ og vert ei suo þagmælskur/ et ct. En̄ so sem þad/ ad bæde David/ og adrer fleyre Guds Men̄/ vrdu vm sÿder Bænheyrder og frelsader af þeirra Anaudū/ So mun Gud z so visslega Bænheyra oss/ ef vier holldum fast æfram̄/ j Trwñe og Bæna ækallenu/ So sem þeir/ seigiande/ Þo Duøl su fæzest fram æ Natt/ fra þui til Morguns sijdan̄/ mitt Hiarta æ Guds æst og Matt/ efa ei skal ei nie kuijda.

Framveigis þar hier stendur/ ad Læresueinarner Herrans Christi/ hafe beded fyrer þessare Konu skiepnu/ og sagt. Herra/ lættu hana fara/ af þui hun kallar epter oss. Þa hofum vier oss þar af/ þetta til Amin̄ingar ad taka/ Ad nær sem vier heyrum/ edur siæum/ ad vor Samchristin̄ Næunge/ ratar j nockurskonar Freistingar/ eda Hørmung/ þa er tilheyrelegt/ og skylldugt/ ad en̄ur Guds Børn/ bidie fyrer honum til Guds/ ad han̄ vilie giefa honum eitt Nadugt Frelse/ fra siñe Eymd/ huad hid sama Ande Drottins bijdur oss ad giøra/ med þessum Ordum/ j Pistle hins heilaga Jacobs/ 5. Cap. Sie nockur siukur ydar æ mille/ sa kalle til sijn Ølldungana Safnadarens/ og læte bidia fyrer sier/ et ct. Þuiad Bæn þess Riettferduga mæ myked/ þa hun er Alvarleg.

En̄ Ordsøkena/ huar fyrer Herran̄ Christur hafe giefed Læresueinunum so hart Afsuar/ sem hier epterfylger/ þa þeir bædu fyrer þeirre aumu Kun̄u/ Hana tilleggur Læresaderen̄ Chrysostomus/ og seiger/ Ad Herran̄ Christur hafe visiad kien̄a þar med/ ad Men̄ skylldu ei so ølldungis reida sig vppa an̄ara Fyrerbæner/ ad þeir forsoomade þar med/ ad bidia fyrer sialfum sier/ helldur være þad Naudsynlegt/ og Gude þocknanlegt/ ad vier komum sialfer fram̄ fyrer Gud/ med vorar Bæner.

Epterfylger su øn̄ur Reynslan/ sem þesse ængrada Konuskiepna vard ad vtstanda/ sem er þesse/ Ad Herran̄ Christur so sem vtelykur hana hier/ fra sijnu

fra sijnu Rijke/Þuiad þegar Lærisueinarner bidia fyrer henne/þa tekr Herran hardlega vnder vid þa/og seiger. Eg er ecke sendur nema til Fortapadra Sauda af Huse Jsraels. Mykel og þung var ad sonnu su fyrsta Reynslan/þa Herran Christur þagde vid þeirre aumu Cananversku Kuinnu/Enn þesse er langtum stærre/ Þui huad er þetta annad/enn so sem hann hefde so sagt og talad/ Þu ert ecke af mijnu Saudahuse/ Þu ert ecke innskrifud j Lijfsbookena/ helldur j Daudans Bock/ Ja/j þad suarta Registred/þar fyrer þarftu ecke ad vænta hier neinnrar Nadar hia mier.

O Herra Gud/Huad hrædeleg Ord eru þetta? Ja/þau hafa vissulega geinged þeirre aumu Kuinnu j giegnum Merg og Bein. Vissulega hefur Sathan j þetta sinn/ecke forsomad sig/ helldur hefur hann blased ad þessum Freistingar Kolum med/og bored sig ad telia so vm/ fyrer þessare Vesolu Konuskiepnu/so hann giæte komed henne til Orvæntingar/ Hann hefur Predikad hid innra so fyrer henne og sagt/ Heyrdu nu til/huørnin hann suarar/ þu hefur nu feinged þa vrlausn sem þier ber med riettu/sem er/ ad þu siert ecke j tølu Guds Barna/ edur vtvalinn til þess eilijfa Lijfsins/þitt Nafn sie ecke skrifad a Lijfsbookena/helldur sie þad j mijnu Registre/Þar fyrer er þ til Onijtis/þo þu hallder afram j Bænenne/ Þetta og þuilijkt hefur Diøfullinn Predikad j hennar Hiarta. Enn huørninn hagar hun sier þa/j þessum harda Reinsluskoolanum: Gudspiallamadurinn seiger/ad hun hafe ecke af lated/ helldur hafe eins epter sem adur/komed og tilbeded hann/seigiande. Herra/Hialpa þu mier. Enn so ad vier mættum fa riettann Skilning/a þessu Andsuarenu Herrans Christi/ Þar hann seigest ecke vera sendur/nema til Fortapadra Sauda/ af Huse Jsraels. Þa skulum vier þad vita/ Ad Herrann Christur talar hier ecke vm þa Sending/ sem hans Himneskur Fader sende hann/ til ad Endurleysa Mannkynned/ þui su sending heyrde øllum jafnt til/ bæde Gydingum og Heidingium/ Helldur talar hann hier vm Sending sijna til ad predika Evangelium/ huør Sending ad heyrde alleinasta þeim af Huse Jsraels til/ þad er Gydinga Folke. Epter þui sem Postulinn seiger til Rom. 15. Eg seige ydur/ad Jesus Christus var Þionustumadur Vmskurnarennar(þad er þeirra Vmskornu Gydinga) fyrer Guds Sannleika saker/til stadfestu Fyrerheitanna/ sem til Fedranna eru skien. Vijke þar

ꝼyrer j butktu aller Villu Andar/ſem vilia ælÿckta/vt aꝼ þeſſu Herrans Christi Andſuare/Ad Guds Næd/ og hans Sonar Jeſu Christi Pallde og Forþienuſta/heyre ecke øllum Møñum jafnt til/þui ſo ſkriꝼar Poſtuliñ Pæll/Tit. 2. Ad ſu heilſuſamlega Guds Næd/ ſie auglioſ ordiñ øllum Møñum. Item/vottar Guds Ande hia Spæmañenum Ezechi. 18. C. Ad Gud vilie aller meñ ſkule Sæluholpner verda/og þar ſkule eingiñ tapaſt. Og j ødrum ſtad ſeiger Skriptiñ ſo/ Ad Jeſus Christus ſie dæeñ ꝼyrer alla Meñ/og jaꝼnvel ꝼyrer þa ſem ꝼyrerꝼaraſt.
Aꝼ þeſſu øllu ſiæum vier vtþryckelega/ad þo Jeſus Christus være komiñ allemaſta til þeſſ/ad Predika j eigiñ Perſonu ꝼyrer Gydinga Folke/ og ad giora hia þui ſijn Dæſemdarverk/þa var hañ þo ønguu ſijdur komiñ til þeſſ/ad lijda Kuøl ſijna og Pijnu/ ꝼyrer alla Meñ/ So vel ꝼyrer Heidingia ſem Gydinga/ epter þui ſem hañ ſialꝼur vottar/ hia Johañe 10. Cap. Eg ſeiger hañ/Gieꝼ mitt Lijꝼ vt ꝼyrer mijna Saude/ Eg heꝼe og adra Saude/ſem ecke eru aꝼ þeſſu Saudahuſe/ þa byrior mier og ſo hier til ad leida/og þeir ſkulu heyra mijna Rauſt/og þar ſkal vera eitt Saudahus og eirn Hirder.

Hier aꝼ vilim vier taka oſſ þetta til Amiñingar/j allskonar Neyd og Angiſt/Ad vier ſkulum hallda oſſ ꝼaſt vid Gud/ ꝼalla ꝼram ꝼyrer hañ og vera ſtadꝼaſter j Bæna ækallenu/ þangad til hañ hialpar oſſ Giørum ſem Forꝼaderiñ Jacob giørde/þa hañ glymde vid Gud/Vijſt tok Herrañ ſo hart æ hønum/ ad hans Lærbein Koſtadeſt/ Hañ bad hañ og ſuo ſleppa ſier/eñ Jacob hiellt hønum þeſſ faſtara/og ſagde/eg vil ecke ſleppa þier/vtan þu bleſſer mig.

Su þridia Reinſlañ/ſem ſu Canverſka Kuiñañ vard ad þola/og vtſtanda/Pa var þeſſe/ Ad Herrañ Christur lijker heñe vid eina Hundtijk/ og ſeiger. Pad er ecke gott ad taka Brauded Barnaña/og kaſta þui ꝼorer Hundana. Pad er næſta tijdkanlegt/j heilagre Ritningu ad þeir aumuſtu/og ꝼoracktanleguſtu Meñ/plaga ad kallaſt/ ſo ſem til Hædungar/Hundar. Dæme þar vppa hoꝼum vier/aꝼ Abner og Jſboſeth/ 2. Sam. 3. Aꝼ Abiſai og Symei/ Item/ æ Haſael/ Huor ed ſo talade vid Spæmañiñ Eliſeum/ þa hañ med Grætande Tærum ſagde hønum ad hañ munde vppbreña þa ꝼoſtu Stade j Jſrael/ et ct. Þa ſuarade hañ

Huad

Huad er þiñ Þienare eirn Hundur/ ad hañ skal giøra so storra Hlute?
Þad er sem hũ hefde so myked sagt/ er eg alldungis so Vitlaus/Ræru-
laus og afsiña/ ad eg skyllde soddan giøra.

Hier vit af siæum vier j huorre Meiningu Herrañ Christur hafe lykt
þeirre Cananeisku Kuiñu vid eirn Hund/sem er j þañ mata/ad þad Folk
sem hun var afkomiñ/hafde ecke meira Vit a sijnũ Gude/og hũs sañ-
re Þeckingu/ eñ eirn Hundur hafde. Eñ huad gierer nu þesse miog
þiaada Kuiña til? Ecke hleypur hun burtu/þo hun heyre Christũ eñ aftur
suara sier hardlega/ helldur stendur hun stødug/so s eirn Mũrveggur/
og tekur þesse Herrans Ord upp þolenmoodlega/og seiger. Satt er þ
Herra/Eñ þo eta Hundarner af Molum þeim/sem detta af Bord-
um Drottna þeira. Þad er sem hefde hun so sagt/og talad/ Eg mæ
medkieña Hiartans Herra/ ad eg er hia Gydingum (þijnu Folke) ad reik-
na/eige meira verd/ eñ ein Hundtyk/ eñ þar fyrer kantu ecke ad utelykia
mig/fra þiñe Naad/þui Hundarner eiga og so nockurn Riett j Hwse siña
Herra/sem er þesse/ad þeim er ecke bañad/ad vera vnder Bordenu/og tij-
na Molana sem nidurdetta/eda taka vid Beinum þeim/sem Hwsbondiñ
kastar fyrer þa. Þar fyrer/ med þui/eg er þijn Hundtyk/ þa Oska eg
ecke meira eñ þad/eg meige eiga Hunda Riett/og na Mola þiñar Gi-
æsku og Myskunar/so er bæde eg og mijn Dootter holpiñ þar med.

Hier lætur su Cananeska Kuiñañ j Lioose/ sijna sñre Hiartans
Audmykt/vm huøria David talar/j Psalm. 51. Harmþrungiñ og sund
urkramiñ Ande/er þad Offred sem Gude þocknast/vm hana talar og suo
Postuliñ Petur/1. Pist. 5. Cap. Lijtelæcked ydur/vnder Volldnga Gu-
ds Hond (og Fyrerheited kiemur sijdañ vppa/so hlioodarde) so mun hann
vpphefia ydur (þad er/ Bænheyra og hialpa ydur) a Vitiunar tijmanũ.

Lærum þar fyrer þad af þessare Cananeisku Kuiñu/ Ad
reidast ecke/þo ad vier mættum Aminter verda/og kallast Hundum lijker/
j þui ad vera Hirdulauser/og athugalauser/j þui sem vorum Salu hial
par efnum vidvijkur/einkum af þeim/ sem Gud hefur j siñ stad sett/ ad
Vandlæta og adfiña siña vegna/þa ødruvijse geingur til eñ vera a/og Gu
ds Ord bijdur/Helldur skulum vier medkieña vorar Synder/ suo er Gud
trwr og Riettlatur/ad hañ fyrergiefur oss þær/ og hreinsar oss af ollum

 vorum

vorum O-hreinleika/ 1. Johannis Pistle 1. Capitula.

Þar næst/ Þar Herrann Christur lyker þessare Heidnu Kuinnu vid Hun bana/ þa skulum vier/ sem eins erum af Heidingium komner/ so sem hun/ ecke skammast vor þar vid/ ad læra nockud af Hundanna Dygdum.

Þad er ein Art og Náttura Hundanna/ Ad þeir eru trwfaster vid sinn Herra/ og Hwsbonda/ fylgia honum epter/ Og þo so meige tilbera/ ad þeir misse Sioonar a honum/ þa linna þeir þo ecke fyrre/ enn þeir hafa hann vppe aptur/ Eins eigum vier ad giöra/ vier eigum ad epterfylgia Drottne Gude vorum/ allt til Dauda/ epter þui sem þar stendur/ j Open ber. B. 2. Vertu trwr allt til Dauda/ og mun eg gefa þier Koronu Lijfsins.

Aunnur Art og Náttura Hundanna/ er su/ Ad þeir eru giarnann audsueipn er z hlijdiger synum Herra/ so þo Hwsbondinn haste a þa/ og fra sier hrinde/ enn kalle sijdann til sijn aptur/ þa koma þeir ei ad seirna skrijdande til hans. O Gud giæfe/ ad vier mættum j þuilijkann máta breyta epter Hundunum/ þui huad opt skiedur þad/ ad vier styggium vorn Herra a Himnum/ med adskilianlegum Syndum/ og M. sgiordum vorum/ suo hann hefur fulla Ordsok/ ad hurta oss fra sier. Enn vier skulum hlijda Raustu Drottins/ þar hann kallar a oss aptur til sijn/ fyrer Munn Spamannsins Malach. 3. Seigiande/ Snwed ydur til mijn/ so vil eg snwa mier til ydar/ Ja/ leit um Drottins/ medann hann maa finnast/ og þad sama med sarre Idran/ og Hiartans Angre og Trega/ fyrer vorar synder/ so sem giorde Petur/ Maria Magdalena/ og þeir Bersyndugu/ So mun Gud ei framar minnast vorra Misgiorninga/ Þuiad Myskunseme Drottins varer fra eilijfd til Eilijfdar/ yfer ollum þeim sem hann ottast/ Psalm. 103.

## Þridia Greinin.

NV er ad minnast med einu Orde/ a þa Gledelegu Sigurvinning/ og Ending/ sem su Cananeiska Kuinnan fieck/ a þessare freka(l)ldre Reyn slunne. Vm sijder/ þegar Herrann vor Jesus þyckest nogu leinge hafa Disputerad vid hana/ og reyndt hennar Trw/ þa giefur hann henne fenann Gullvæga Vitnisburd/ z seiger. Þu Kuinna/ mykel er þijn trwa/ Ver de þier epter þui sem þu villt. Þesse Herrans Christi Vitnisburdur/ er ecke

Olijkur

vlgkur þeim/sem hñ haꝼde ædur giefed/þeim Heidna Hundrads Heꝼdingia/ hia Matth. 8. Cap. Þa hañ sagdest ecke haꝼa ꝼunded þuilyka Trw j Jsrael/so sem hia honum. O huad ꝼurdanlegt er þetta/ þesse Konuskiepna bidur Herrañ Jesum/ei vtan vm Mola siñar Myskunar/ eñ hun ꝼær hier ꝼleyteꝼullañ Fiærsiood hans Gudlegrar Nadar/ þui heñar Dootter verdur Heilbrygd a Lijkamanum/ eñ hun sialꝼ a Sæluñe. Furdanlegt er þad og so/ ad Herrañ Christur gieꝼur sig so sem vñeñ fyrer Trw þessarar Konukyndar/ Huar aꝼ vier meigum siaa/huad Christo haꝼe geinged til þess/ad hañ synde sig j ꝼyrstu so sem Reiduglegañ vid hana sem er/Ecke til þess/ad hañ villde reka hana ꝼra sier/Helldur vppa þad/ ad hun mætte þess meir eꝼlast j Trwñe/ Bæna akallenu/ Guds Elsku/ soñu Lijtelæte/og ødrum Christelegum Dygdum/og Mañkostum.

Vor Drottiñ Jesus Christus/styrke oss med siñe Naad/so vier mættū strijda eitt gott Stryd/a medan vier liꝼum hier/hallda Trwñe/og goodre Samvisku/og ødlast vm sijder þa Oꝼorgeingelegu Dyrdareñar Koronu a Himnum/Þad heyre og veite oss øllum Gud Fader/ huørium med Synenum/og heiløgum Anda/ sie Heidur og Þackargiørd/nu hiedan j ꝼra/og ad eilijꝼu/A M E N.

## Þridia Suñudag j Føstu.

### Evangelium/ Luc. 11. Cap.



G Jesus rak wt Diøful þañ er dumbe var/ Og þad skiede/er Diøfulliñ var wtfareñ/ ad hiñ Mallause talade/ z Folked vndradest þad/eñ nockrer wt af þeim søgdu/ Fyrer Beelzebub Diøꝼla hoꝼdingia/ ka driꝼfur hñ Diøꝼlana wt. Adrer freistudu hñs/og leitudu af hønum epter Teikne aꝼ Himne. Eñ er hñ sa þeirra Hugreñingar/ sagde hañ til þeirra. Huørt Rijke sem j sialꝼu sier er sundurþyckt/ þad mun eydast/og huørt Hws mun yfer añad hrapa. Og eꝼ Andskotiñ er j sialfum sier sundurþyckur/ huørneñ maa hans Rijke, þa standast? Fyrst þier seiged mig fyrer



Belzebub

vill falla oss j burt wr þessum Eymdardal/ jñ j Himnarykis Vist og Sæ-
lu/ þa skulum vier fegner skilia hier vid/ epter Dæme Postulans Paals/
j Pistlenum til Philipp. 1. Cap. Eg gyrnest ad leisa j burtu/ og vera
hia Christo. Og hia Luc. 2. Seiger sa Gamle Simeon/ Nu læt-
tu Drottiñ þiñ Þion j Fride fara/ epter Orde þijnu. Þessum og øllū
ødrum Heilla Dæmum/ vors Endurlausnara Jesu Christi/ ad meiga epter
fylgia/ j Lyfe og Dauda/ j Medlæte og Motlæte/ Þad veite oss Gud
Fader af siñe Naad/ Huørium ad sie Dyrd og Lof/ Vegsemd og Æra/
Nu hiedan j fra/ og ad eilyfu/ Amen.

Gyrnest nockur ad lesa frekare Vtskyring/ yfer þetta Gudspiall/ þeim vijsa
eg til Predikunareñar/ sem stendur fyrsta Suñudag j Adventu.

# A Skijrdag/ j staden Gudspiallsins/ Plagast ad wtleggiast Pistellin/ 1. Cor. 11. Cap.

Elskuleger Brædur. Þui þad/ huad eg hefe af Drottne medteked/ þad hefe eg ydur feinged/ Af þui ad Drottiñ Jesus/ a þeirre Nætt er hañ var suikeñ/ took hann Brauded/ giørde Packer/ braut þad/ og sagde. Taked og eted/ þetta er miñ Lykame/ sa fyrer ydur verdur giefeñ/ giøred þad j mijna Miñing. Samuleidis og eirniñ Kaleikiñ/ epter þ hañ hafde Kuølldmaaltyd-ena eted/ seigiande. Þesse Kaleikur er Nytt Testamentum j mijnu Bloode. Giøred þetta so opt sem þier drecked þar af/ j mijna Miñing. Þuiad so opt sem þier eted af þessu Braude/ og drecked af þessum Kaleik/ skulu þier þar med kuñgiøra Dauda Drottins/ þangad til hañ kiemur. Huør hañ etur af þessu Braude/ og dreckur af þessu Kaleik Drottins Overdugur/ sa er sekur vid Holld z Blod Drottins. Eñ huør Madur proofe sig sialfañ/ og ete so af þessu Braude/ og drecke so af þessum Kaleik. Þuiad huør hañ etur og dreckur Overdugur/ sa etur og dreckur sialfum sier Doom/ giørande ecke Greinarmun a Drottins Lykama.

# Exordium.

I Fyrre Book Konganña 19. Cap. Lesum vier/ vm þañ Dyr-lega Drottens Spámañ Eliam/ Ad hañ hafe vered so Of-soktur/ af þeirre vondu og O-gudlegu Jessabel/ ad hañ hla-ut ad flya vndañ heñe/ a Eydemórku. Og sem hañ kom-mt þangad/ lagde hañ sig vnder eitt Einerberiatrie af Mæde/ sofnade/ og bad Gud ad taka sig j burt/ Eñ Eingell Drottins kom/ hrærde vid hañ og sagde/ Statt vpp og snæd/ og sem hañ leit j kringum sig/ Sia/ þa lá þar eitt steykt Braud hia hans Hofde/ og ein Kaña med Vatn/ og sem hañ hafde eted og drucked/ lagde hañ sig aptur ad sofa/ Og Eingelliñ kom aptur j añad siñ/ took á honum og sagde/ Statt vpp og snæd/ þui þu att lángañ Veg fyrer Hondum/ Og hañ stood vpp/ át og drack/ og gieck j Krapte þeirrar Fædu/ j 40. Daga og 40. Nætur/ allt til Guds Fi-alls Horeb.

Þesse Flootte Spámañsins fyrer Jessabel/ setur oss fyrer Sioner/ Flootta vorn/ sem vier verdum ad hafa hier j Lijfe/ á medan vier erum j þessu Daudlega Hreise vors Lijkama. Þui huad er Lijf vort og Vingei-ugne hier j Heime/ añad eñ sijfelldur Flootte/ Ofsokner og Armæda. Sæker ecke Diøfulliñ epter/ ad æneita og fordiarfa oss/ á Noott og Dei-ge/ vakande og sofande/ ecke sijdur eñ Jessabel/ sokte epter Lijfe Spámañ-sins. Eñ hier kiemur ecke til vor eirn af Einglunum/ sem Gud skapade j Vndverdu/ og kallast Þionustusamer Andar/ helldur sialfur Soñur Guds/ sem er Eingell þess Mykla Raads/ og færer oss ecke Braud og Vatn/ so sē Eingelleñ Spámañenū/ helldur sitt eiged Holld og Blood/ til ad eta og drecka/ j Alltaresins Sacramente/ hvrar Fædu/ ef vier verd-uglega neytū/ þa kuñū vier j heñar Krapte & styrkleika/ ad ganga til Gu-ds Fialls Horeb/ þad er/ ad jñkomast j þa eilijfu Himnarijkis Vist/ og Sælu/ huar oss mun vm alla Eilijfd/ alldrei Hungra nie þyrsta/ ei hell-dur af Diøflenum nie hans Arum/ Of-sokter verda. Vm þessa andle-ga Fædu/ ad heyra nockud flegra talad/ giefur oss Ordsok þesse vor vpp-leseñ Texte/ sem skrifadur stendur/ j fyrra Pistle til Corenth. 11. Cap.

Og eru þad sierdeilis fim Punctar/ sem eg vil Amiñast/ og afhræra þetta

Þetta Næverduga Giestabod/ Herrans Jesu Christi Kuølldmaaltijdar/ j huoriu hann frammreider oss og giefur/ sinn allra Helgasta Lijkama og Blod j/ med/ og vnder Braude og Vijne.

Hinn fyrste skal vera/ huør þetta Alltaresins Sacramentum hafe innsett sem er/ vor Herra Jesus Christus.

Annar/ huenær hann hafe þad innsett/ sem er/ A þeirre Nootku/ sem hann var Forrádinn/ af Judas Suikara sijnum.

Þridie skal vera þar vm/ huad þetta Sacramentum sie/ sem er (epter Vtleggingu vors gooda Lærefødurs Lutheri) Holld og Blood Herrans Christi/ vnder Braude og Vijne.

Fiorde/ huøriunn hann hafe þad innsett/ sem er sijnum Læresueinum/ vnder huørra Nafne/ ad innelykiast aller Christner Menn.

Fimmte og sijdaste/ skal vera þar vm/ haur fyrer hann hafe þad innsett/ sem er/ ad vier skylldum minnast a hans Dauda og Pijnu/ og alla hans Forþienustu.

Þegar Christur spurde Petur ad/ og adra Læresueina sijna/ huørt þeir villdu og so yfergiefa sig/ so sem huner adrer sem hann hafde Predikad fyrer/ Þa suarade Petur/ bæde sijn og annara Læresueinanna vegna. Herra/ Huert skulum vier fara fra þier? Þu hefur Ord Eilijfs Lijfs/ Joh. 6. J þessum Innsetningar Ordum Herrans Christi Kuølldmaaltijdar/ er Ord eilijfs Lijfs. Giætum þess vegna ad þeim/ so framt sem vier villum helldur hreppa eilijft Lijf/ enn eilijfan Dauda/ og bidium Gud ad innsigla þ j/ vorum Hiørtum/ Gud giefe þad j Jesu Nafne.

## Fyrste Parturinn.

NV vm þad fyrsta Ordid/ sem er so hliodande/ Vor Herra Jesus Christus. Þesse same Jesus/ sem hier verdur gieted j Vpphafe Pistel sins/ hann hefur þetta Sacramentum innsett/ Enn þui kallast hann VOR/ þui hann var oss fyrerheitinn/ sijdann sendur j Holldted/ Pijndur/ Deyddur/ og vpp aptur risenn/ og allt þetta vorra vegna/ enn ecke sinna/ Þui er haun vor. Þar næst/ kiemur Ordkorned/ HErra. Hæst er Herra boded hia Þrælunum/ Vær erum Þrælar hans aller/ hlijdum þui þa/ sem þesse goode Herra/ og Trwfaste Hirder seiger. Huad heiter hann? Jesus/ Sælu

 Hialpare:

Hialpare/Endurlausnare/Christur vor smurde Kongur/adsle Kieñemad-
ur/og Spæmadur. Phariseariñ sagde ꝼordum/Luc. 18. Jeg er ecke
so sem adrer Meñ/Eñ þad mæ betur sañast æ Jesu vorum/ hañ er ecke
so sem adrer Meñ/Lygegiarner edur ꝼallvallter/ sem lijtt mæ trwa/ Hañ
er Skapare vor/Hañ er Endurlausnare vor/ hañ er Gud sa sem leider
oss j allañ Sañleika.

Hier af hoꝼum vier þañ Lærdom/ Ad huad hañ seiger oss/ j þessum
sijnū Iñsetningar Ordum/þad er satt/Og huad hñ heiter oss/þad er stod-
ugt og bregdst alldrei. Hañ seiger oss/ad hñ gieꝼe oss sitt allra Heilag-
asta Holld med Braudenu/j Sacramentenu/og sitt Blood med Vijnenu
Þad er satt/ huad sem Dioꝼulliñ þar æ moote seiger. Hañ heiter oss/
ad vier skulum eiga Holld sitt og Blood j Sacramente þessu/ og alla
þess Forþienustu/þad stendur stodugt hia ollum þeim sem æ hañ trwa/
og ecke eꝼa hans Fyrerheit.

Huggun þa hoꝼum vier oss hier aꝼ ad taka/Ad þetta er VOR He-
rra/ sem þetta Sacramentum heꝼur iñsett oss til gooda. Þetta eru ecke
Einglarner/sem oss eru þo gieꝼner til Þienustu/ Eñ sijdur Ovinuriñ/
sem oss stundar ad skada og suijkia/helldur er þetta VOR Herra/sem æ-
tijd er vor Askvin/huorniñ sem vier Þrælarner breytum vid hañ. Þeir
Maccabei ꝼordum hoꝼdu j Strijdsmerke sijnu þesse Ord/ Huor er suo
sem vor Gud. Vier skulum haꝼa j voru Andlegu Strijdsmerke/þesse
Ord/Huor er so sem vor Gud og Herra Jesus Christus. Vnder þessu
Merke vuñu þeir margañ ꝼagrañ Sigur æ sijnum Ovinum. Eñ vnder
voru Merke/ sem so stendur j Vpphaꝼe/ VOR Herra Jesus Christus/
Þar er oss Christnum Moñum ollum Siguriñ vijs.

Amiñingar korn skulum vier og so taka oss af þessum Vpphaꝼs Ord-
um Iñsetningareñar/ sem er/ Ad trwa einꝼalldlega/og stoduglega/ þui
sem Christur seiger oss hier/ og læta oss ecke ꝼara midur eñ Læresueinum
hins Heidna Pythagoræ ꝼordum/Þui þa nockur villde Disputera æ mote
þui sem hañ haꝼde kient þeim/þa hoꝼdu þeir engua Vorn æ mote þeim
sem vid þa Disputerade/ vtan þessa/hañ heꝼur kient oss þad/ hañ heꝼur
sagt þad/þui er þad satt. Pytagoras var einꝼalldur Madur/þo hann
være lærdur/og kuñe snarlega ad ꝼara villt/Eñ vor Herra Jesus Christus

er Gud og Madur/og þer alldrei villt/og kieñer alldrei rangt. Þad skal nu so vera um þad fyrsta.

## Añar Parturiñ.

ANNar Puncturiñ er þar um/huenær ad Endurlausnariñ vor Jesus/ hafe jñsett Kuølldmaaltijdar Sacramente þetta/sem er/Ecke a Glede Dogum sijnum/huøria hañ faa hafde hier j Heime/Ecke helldur a þeim Deige/þegar hañ var j Brudkaupenu j Cana/og var þar Gladvær/med Gladværum/og fagnade med Fagnendum/ suo sem Postuliñ Paall skipar oss ad vera/ Helldur jñsette hañ þad/a sijnum sijdasta og stærsta Hrygdar tijma/þad er/a þeirre Noottu/er hañ Forradiñ var/so sem hier stendur j Textanum.

Nu med þui hañ hafde leinge ádur til forna/ brued sig under þeñan Sorgartijmañ/Þa skulū vier vita og læra hier/ad hm̃ hefur þa eckert Ord O-forvarandis af Muñe falled/helldur hefur hañ þa hid allra skyrlegasta/ og j einfalldasta máta/ talad vid sijna Læresueina/ og vandad og valed huort Ord j þessu sijnu Testamente.

Huggun su sem vier høfum hier af/ ad Jesus vor jñsette sitt Sacramentum/ A þeirre Noott sem hañ forradiñ var/er su/ Ad vier meigum auglioslega sia/ ad O-seigianleg hefur mátt vera Elska vors Drottins Jesu til vor/þar hañ gleymde øllum þeim Kuølum/ sem hañ átte sialfur ad lijda/eñ liet sier vera umhugad/um Saaluhialpar Efne vort/og Jñsetning þessa Sacramentis/Og sañast hier nu þad/sem eg j upphafe ad an Amintest/ad hañ Elskade sijna allt til Enda.

Almeñelega geingur þad so til/ad þegar Daudakuøliñ liggur sem hardast a/þa slaa Meñ øllum ødrum Þaunkum fra sier/ eñ hyxa alleinasta um sijna nærverande Kuøl og Pijnu. Eñ Jesu vorum gooda Hirder fer ødru vijs/hañ slær fra sier øllum Kuala Þaunkum/ Eñ lætur sier vera mest umhugad/ad jnnsetia oss þa Lijfkroptugu Saalarfæduna/ Holldsins og Bloodsins sijns. Þad er fyrer eina Furdu uppteiknad/um Constantinū Keysara/ huørniñ hañ handlade vid siñ Ovin Julianum/þui þa Julianus hafde sett sig upp a mote honum/ og teked fra honum Land og Lyde/þa fyrergaf hñ honū þad ecke alleinasta/helldur giørde hñ og so ad

Erfingia sijnum/ og Eptirkomara j Keysaradæmenu/ þegar hañ hafde Goott teked/ og meinte hañ munde ecke leingur lifa. Eñ meira er ad furda sig uppa Naad vors Herra Jesu Christi/vid oss auma Meñ/ Vier vorum honum frafallner/ og samt sem ædur fyrergiefur hann oss/ ecke allo einasta þetta Brot/ helldur og eirniñ tekur hann oss til alls Arfs epter sig/ æ þeirre sømu Nottu/sem hann var þo Forrædeñ vorra vegna/ Huorn Arf hañ Jñsiglar oss/ j Sacramente sijns Hollds og Bloods.

Hugganarsamlegt er oss þad og so/ ad hañ innsetur oss þetta Dijrmæta Sacramentum sijns Hollds og Blods/ æ sijdasta Tijma sijns Lijfs/ Huar med hañ ævijsar/ad hañ vilie oss ecke yfergiefa æ sijdasta tijma vors Lijfs/ helldur lata oss þetta Sacramentum/ sem allra Kroptugast verda/ þuiad oss liggur þa og so mest æ.

Vær skuluñ og eirniñ hier af/hafa þessa Aminning/ad so sē Christur innsetur þetta sitt Sacramentum/hellst æ Burtferdar tijma sijnum/ So eigum vier og so/ætijd rækelega þetta Sacramentum ad tijdka/Eñ þo einkanlega/ og allra hellst/ æ vorum Burtferdar tijma/þa vier eigum ad skiliast vid þeñañ Heim.

Þar næst og j aññañ mata/ Lijka so sem Endurlausnariñ vor Jesus/ giefur þetta Sacramentum/fyrst sijnum sorgande og skiulande Læresueinum/ So skulum vier og lijka/ þetta Naaleita Sacramentum/einkanlega og hellst brwka/þa Samviskañ særer oss/og vier kuijdum fyrer/ad vier munum missa Naad/ og andlega Naveru vors sæta Endurlausnara/ vegna vorra synda. Þad er nu um Tijmañ.

## Þridie Parturiñ.

NU vilium vier heyra/huad þetta Sacramentum Alltarissins sie/ eda huorier Hluter þar iñe afhendest og medtakest. Þar um kuñum vier ecke riettara ad kieña/ edur seigia/ eñ vor goode Lutherus ævijsar oss/ j vorum litla Catechismo/Ad Sacramentum Alltarissins/ sie sañarlegt Holld og Blood/vors Herra Jesu Christi/under Braude og Vijne/Innsett oss Christnum Moñum/ad eta og drecka. Huar af audsied er/ ad tueir Jardnesker Hluter/sem er Brauded og Vijned/samteingast j þessu Sacramente/vid tuo Himmneska Hlute/sem er Hollded og Blooded Christi.

Huortueggia

Huørtueggia medtekum vier/ og huørtueggia þetta/ afhender oss Kraptur Pyñuñar/ og Forþienustuñar Jesu/ sem þetta huørtueggia/ med Truñe og sañre Jdran medtokum.

Lærum hier af/ huad trwlega/ og Nakuæmlega/ ad Jesus vor hondlar hier vid oss/ j þessu Sacramente/ Ecke giefur hañ oss Holldet og Blodet sitt/ samteingt vid nockra vidurstyggelega/ edur hrædelega Hlute/ helldur samteingt vid þa Hlute/ sem Mañsins Natturu falla best j Gied/ og Nytsamlegaster eru til Næringar/ so sem ad eru Braudet og Vijned. Vel nærer nu og gledur Braudet og Vijned Hungradañ Maga/ Eñ laangtum betur nærer og gledur/ Holldet og Blodet Endurlausnarans vors/ bæde Sal og Lijf Jdrande og trwande Mañeskiu/ j Sacramentenu/ Og er oss þetta bæde Huggun og Lærdoomur.

Vær skulum og so taka oss hier wt af Amiñing/ til ad vera Þolenmooder/ bæde j Krosse og Motgange. Braudet sem oss afhendest j Sacramentenu hlijtur margt ad lijda/ ædur eñ þad verdur Braud/ Þad verdur bæde ad malast vnder Kuørn/ Þad verdur ad sigtast j Staldreñū/ Þad verdur og so ad bakast og steykiast j heitum Ellde. Lijka eirnñ Vijned/ a medañ þad vex a Eykeñe j Vijnberiunum/ þa hlijtur þad ad lijda bæde Hita og Kulda/ Frost og Bruna Vedrattuñar/ Sijdañ hliota Vijnbereñ ad pressast hart vnder Vijnþrwguñar Skrwfu/ ædur eñ Vijned kiemur wt wr þeim. Eins eigum vier Christner Meñ (huørium Drottiñ giefur þetta Heilaga Sacramentum) ad lata oss vel lynda/ huad sem vier j þessu Lijfe hliotum ad lijda/ þad heiter ad taka viliugur Herrans Christi Kross vppa sig/ og hønum epter ad fylgia/ suo sem Presturiñ wtleggur þad/ fyrer Vtdeilingu Sacramentesins fyrer Alltarenu. Gleymum ecke þessare Amiñing/ þui þad er oss vijst/ epter Forsøgn Postulans/ 2. Tim. 3. Ad huørier sem Gudrækelega vilia Lifa/ þeir hliota marga Offsokn og Motlæte/ a adskiliaulegañ hatt ad lijda/ Og bera so Bemerke Jesu Christi/ a sijnum Lijkama/ huar til vier ættum ætijd fwser ad vera/ þui Verdkaup vort er mykeð a Himnum.

J añañ Mata høfum vier hier og so Amiñing/ wt af þeim synelegu Elementum Brauds og Vijns/ sem er/ huørniñ vier skulum elska huer añañ Jñbyrdis/ þuiad lijka so sem/ ad af morgum Mielkornum/ verdur

eitt Miel/Og eitt Deig/Og eitt Braud vm syder/So eigum vier i chri-
stelegre Elsku/saman ad vaxa/til eins andlegs Lijkama/huers Hofud ad
er Christur. Item/So sem i Vijnenu/eirn Dropeñ leggst til añars/og
hiñ þride til þeirra tueggia/þangad til þar verdur vm syder fullur Mæ-
ler Vijns af/So eigum vier fyrer Kiærleikañ/ ad vaxa og þroast sinbyrd-
is/so vier verdum Drottne vorum/þad rietta Gledeñar Vijn/og honum
vel smackande. Hier vppa hlijdet nu Amiñingiñ/ sem Pistuliñ hefur til
Folksins fyrer Alltarenu/þar hañ seiger/ad huor skule añañ elska/so sm̄
Christur hefur oss elskad.

I þridia lage/þar Drottiñ tekur Braudid/giører þacker sijnum Hi-
mneska Fødur/ Item/ Kaleikiñ og blessar hañ. Þa skulum vier hafa
þar af þessa Amiñing/Ad vier epter blessadre vijsu vors Endurlausnara
Jesu Christi/þockū Gude Fodur/og hm̄ hiartanlega þar f/ad hñ hefur
læted briota Mystere sijns Lijkama/ vorra vegna/og giefed oss Lijkama
siñ og Blood/ til eirnrar andlegrar Sælar Fædu og Dryckiar. Vier
skulum og so miñast hier/ æ þa eilijfu og Osundurslijtanlegu Eining/
sem skiedur æ millum vor/og Christi Lijkama og Bloods/ i þessare Sæ-
luhialplegu Fædu/Holldsins og Bloodsins Christi/ Þui suo sem þad er
Omogulegt/ad þa Fædañ hefur Hylldgast med Mañenum/ad hun ver-
de adgreind fra Mañsins Lijkama þadan i fra/ huersu smatt og smatt
sem Lijkamiñ være i sundur saxadur/ So er þad og suo Omogulegt/ ad
Holld og Blood Herrans Jesu Christi/ æ hueriu vier hofum suo leing-
ge fædst i Sacramentenu/ verde adskiled fra Sælu og Lijkama/ Rietta
truande og Idrande Christeña Mañа. Þesse Fæda er Kroptugre eñ
ødur Fæda/hun melltest ecke nie smelltest med oss/ Helldur melltir hun
oss og smelltir/so hun giører oss af Syndugum Meñum Riettlata/af
Bolvudum Blessada/Af Reideñar Bornum/Nadareñar børn/ Af Da-
udum Lifande/ Og af Fordæmdum Moñum/ Saluholpna Meñ/ Þui
kañ oss eingiñ ad hrifsa edur næ/vr Hondum Christi/Eph.2. Helldur
huort sem vier lifum eda deyum/ þa erum vier þo samt Drottins.

# Fiorde Parturiñ.

I fiorda

J Fiorda Partkornenu/loßade eg ad tala þar vm/huørium Herran Chr-
istur heßde þetta Sacramentum innsett/ sem er/ sijnum Læresueinum/
Hui so stendur j Jnnsetningar Ordunum. Vor Herra Jesus Christus
A þeirre Naatt sem hann Forraaden var/ Took hann Brauded/ giørde
Packer/ Braut þad/ og gaf sijnum Læresuemum. Sømuleidis
epter Kuølldmaaltijdena/ Took hann Kaleikinn/ Giørde Packer/ Gaß
þeim hann og sagde/ drecked aller hier af/ et cet. Þessum Ordum tal-
ar nu Christur ecke alleinasta til sinna Postula/ helldur til allra Christenna
Manna/ þuiad þeir sem ædur j Vpphaße/ hietu Christi Læresueinar/ þeir
voru kallader epter æ/ j Antiochia Christiani/ edur Christner Menn/ þeg-
ar þeirra Tala þiolgade/ sem lesa maa j Postulanna Giørningum/ 11. Cap.
Og er þad þui eitt og hid sama/ huørt ad j Jnnsetningar Ordunum stendur
sijnum Læresueinum/ eda sijnum Christnum Mønnum. Jn Summa ad
seigia/ Christi Læresueinar/ og Christner Menn/ eru aller þeir/ sem medte-
ked haßa þa heilogu Skijrn/ og þar med æ Hendur geingest/ sijnum Gu-
de og Endurlausnara. Hinn heilage Chrisostomus Læreßader/ talar
hier merkelega vm/ og seiger/ Ad lijka so sem Jsraels Folk/ þreck ecke ad
smacka þad sæta Himna Braud/ fyrr enn epter þad/ þad var komed j gie-
gnum Haßed Rauda/ So verdur og eirninn/ ongum þeim/ þad Himneska
Manna/ Holldsins og Blodsins Christi/ j Munn lagt/ edur meddeilt/ vt-
an þeim/ sem ædur haßa læted sig skijra/ og Endurfæda/ j þui Rauda
Haßenu Skijrnarennar. Hier leggst og so Ordkorn til/ j Jnnsetningar
Ordunum/ þar Christur seiger/ Drecked aller hier af. Huar af vier
lærum/ Ad Lærdoomur Papista/ er eirn Villu Lærdoomur/ þar þeir leißa
ecke Leikmønnum/ edur Ovijgdum Mønnum ad bergia vtan æ Brau[illegible]
enn loßa þeim ecke ad drecka af Kaleiknum/ af huørium ad Christur sagde
þo/ ad ALLER skylldu drecka/ huar yßer ecke er j voru Lande ad klaga/
Gude sie Loß.

Þar næst skulum vier athuga hier/ ad Christur vtdeiler øllum sijnum
Læresueinum þetta Heilaga Sacramentum/ lijka vel Petre sem honum
afneitade/ eirninn Thomase sem ecke villde trua hans Vpprisu fra Da-
udum/ og þad furdanlegast er/ lijka vel Suikaranum Judas/ sem hann þor-
ried þo og sueik/ med einum Suikara Kosse. Og meigum vier hugga

 oss hier

oss hier vid/ad Christur er ecke komiñ til þess/ad kalla Riettlæta/helldur Synduga til Jdranar/so sem Mattheus seiger/ 9. Cap.

Morg slurlud Skiepna mætte so seigia og þeinkia/Med þui ad Christur er Heilagur/og an allra Synda/og hans Holld og Blood er eirna eiginn heilagt/Þa kañ skie vill hañ ecke hafa j þessu Giestabode vtan Heilaga og hreina Gieste. Þar a moote heyrum vier hier/oss til mestu Huggunar og Hugsuolunar/ad Christur hafe gefed Holld sitt og Blood/sijnum Lærisueinum/ Eñ huad aumur og veykur Hoopur hans Lærisueina hafe vered j þañ tijma/þad er augliost af þui/ ad þeir hneyxludust fyrst aller a honum/og flwdu sijdañ j burt fra honum/þegar hans Kuol byriadest/so sem þar vm stendur j Pijningar Historiuñe/samt og ædur jnnsetur Jesus vor þessum Storsyndurum sijna Kuølldmaaltyd. So Hugge sig nu aller Syndarar/ huort þad eru helldur Karlar eda Kuiñur/hier vid/ Ad þo vier sieum øll Gietiñ og fædd j Syndeñe/og þo vier vitum vel/ ad j voru Hollde byr eckert gott/og þo vier hrosum jafnframe/af Mañlegum Breyskleika/huad ecke er Vndur/ fyrst sa Riettlæte fellur siosiñum a Deige/þa samt sem ædur skalum vier ecke ad helldur Ørvænta/ helldur Hugga oss þar vid/ad vor Himneske Raphael/er ecke komiñ j þeñañ Heim/vegna þeirra Heilbrygdu/ þui þeir þurfa ecke Læknarans vid/ so sem Christur sialfur seiger/helldur vegna þeirra siuku. Og þess vegna hefur hañ jnnsett þetta heilaga Sacramentum/alleinasta fyre sundurknosadar og hrygguar Samvitskur/so sem vier og eirneigiñ syngiū j Psalmenum. Tru þu riett suo ecke efest/ Olyrkuum su Fædañ gefest/ huørra Samvitsku Synden lyr/ Sorg og Mæda j Hiarta byr. Item/ Jesus til sijnu aumum bijdur/eg vil Myskun veita ydur/Heiler giyrnast ei Grædarañ/Gagnlaus lyst þeim su Ment hañ kañ. Og skal þetta nu vera Huggun vor/vt af þeirre fiordu Greiniñe.

Amiñing skulum vier og so taka oss hier/ af þessum Innsetningarennar Ordum. Og gaf sijnum Lærisueinum. Sem er þesse/ Ad ef vier vilium ganga riettelega/og Verduglega til þessa Sacramentis/og hafa Not og Gagn þar af/ þa eigum vier ad hafa a oss Art og Sid Christi Lærisueina/einkum j þui/ad vilia længtum helldur ganga fra Eignum og Odulum/fra Kuiñu og Børnum/og lijka vel fra sialfu Lijfinu/

ennu/enn þad /vier gaungum fra vorum Lavarde og Læremeystara/ Herranum Jesu Christo. Vier eigum og so/ ad hafa þad Kienneteikn a oss/ sem Christur skipar sijnum Læresueinum ad hafa/ og lata sig af þeckia/sem er/ad elskast innbyrdis af Hiarta. Þar vm hefur adur nockud vered auiked.

Hier vt af skulum vier taka oss þessa Vidvorun/sem er/Ad vier gangum ecke O verduglega til þessa heilaga Sacramentis/med þui/ ad oss giefast hier so Dyrmæter Hluter/sem er Holld og Blood sialfs Christi/ vnder Braude og Vijne. Þad er liooft af Ordum S. Paals/I. Cor. II. Ad huorier sem Overduger ganga til þessa Sacramentis/þeir eta og drecka sialfum sier Doom/og eru þar med seker vid Holld og Blood Drottins. Enn huorier eru þa Overduger Giester þessa Sacramentis? Þeir eru Overduger Giester/sem ecke hafa Angur og Trega fyrer sijnar Synder/ Og þeir sem enguann godann Asetning hafa/ til ad bæta og betra Lifnad sinn og Framferde/Þesser somu eta og drecka sialfum sier Doom. Huad hrædelegt Hefndar straff er þetta/ad eta og drecka sialfum vier Doom/ og ad verda sekur vid Holld og Blood Drottins? Stundlegann Dauda doom þiker morgum þungt ad lijda/ Vier siaum þær skiepnur/sem til Dauda eru Dæmdar/huorsu skialfande og titrande þær eru/af Ogn Strassins/sem yfer þeim hanger. Enn huersu hrædelegra mun þad þa vera/ad verda fyrer þeim eilijfa Dauda Doomenum. Gud forde oss þeim Doome j Jesu Nafne.

Annad Straffed sem kiemur yfer O-verduga Gieste/ Christi Kuollds maaltijdar/er þad ad vera sekur vid Holld og Blood Drottins/Huad er þad annad/enn ad vera so sekur sem Judas/ sa sem Forrièd sinn Herra? Eda suo sem Herodes/sem Spottade og Gabbade hann? Eda so sem Pilatus/sinn Dæmde hann þuert a mote Samvisku sinne til Dauda? Eda ad vera so sekur/sem þeir Ogudlegu Strijdsmenn/sem sloou Jesum/ og hræktu j hans blessudu Asionu. Hrædelegt er so sekur ad vera. Siaum þar fyrer til/ad vier gaungum med saare Jdran til þessa Giestabods/so vier verdum ecke fundner j þessum Ogudlega Hoop/ Huad annad er ad eta og drecka Holld og Blood Christi j Sacramentenu(huad ollum veitest/sem til Altarezins ganga þess Erendis) Enn annad er Nytsamlega/ og sier til

Sæluhialpar/ ad eta þad og drecka/ og þad veitest ecke vtan Idrande Mañeskium. Ef eirn goodur og Dyrmætur Riettur være fyrer þig eda mig/ a Bord boriñ/ og vid færum og kostudum honum j Suijna Stock eda Suijna Trog/ mundum vid þa ecke þikia hiner Heimskustu og Suivirdelegustu Meñ/ ad spilla so einum Dyrmætum Riette/ Þo er enn Suivirdalegra/ ad medtaka Holld og Blood Christi/ j hreckvijsañ Muñ/ Idrunarlausañ/ Trwarlausañ og Gudrækníslausañ. Vorustum þar fyrer/ miñ Brooder og Syster/ ad gieffa Holldenu og Bloodenu Herrans Christi/ slijkañ andstyggelegañ og fwlañ Judas Koss. Hier eiga og so Kieñemeñerner/ ad taka sier Vara fyrer þui/ ad vtdeila þetta Naleita Sacramentum þeim Overdugu/ sem alldrei vilia af jllu læta/ og byria fyrre eitt Hneyxle/ eñ þeir hafa fullgiort añad. Þuiad Drottiñ seiger med klærum Ordum/ til siña Lærefueina/ hia Matth. 7. Eige skulu þier giefa Hundunum Helgedoom/ Varped eige helldur Perlum ydar fyrer Suijn/ Helldur byriar Prestunum/ ad vndervijsa slijkum forhertum Samviskum/ j huoriu Sælarfære þær sieu staddar/ og taka þeim alvarlega Vara fyrer Guds stranga Doome/ og þeirra sialfra eilijfre Fyrerdæming/ þui giora Kieñemeñerner riett/ þo þeir vijse þeim fra þessu heilaga Sacramente/ sem Openberer eru ad Stoorsyndum og Hneyxle/ suo sem hiñ H. Chrisostomus seiger/ Þeir sem Ofrijke fremia/ edur j añañ mata O=hreiner eru/ skulu ecke takast til þess Næverduga Sacramentis. Þetta skal nu vera Vidvermiñ/ vt af þeim fiorda Partenum.

## Fimte Parturiñ.

J Fimta og sijdasta mata/ lofade eg ad miñast a/ huorniñ/ og huar fyrer/ vier skulum brwka þetta heilaga Sacramentum Alltaresins. Þat vm tala so Jñsetningar Ordiñ. Giored þetta/ so opt sem þier Dreckid þar af/ j mijna Miñing. Fyrst skulum vier vita/ Ad huar sem Handterad er þetta Heilaga Sacramentum/ þa a þad ad vera Handterad/ epter þeirre Adferd/ sem sialfur Herrañ Christur jñsette þad j fyrstu/ þad a huorke ad aukast ne vanast/ þar fyrer a Brauded og Vijned ad blessast/ med Drottenlegre Bæn/ og Jñsetningar Ordunum/ þui so kiendir j Textanum. Took hañ Brauded/ giorde Packer/ og braut þad

z gaf synu Læresueinū. Sømuleidis z eirnin Kaleikin/epter Kuøldmaaltijdena/og sagde/Dreckid aller hier af. Nier skulum vier nu vita/ad Kraptur Sacramentesins kiemur ecke af Ordum Prestsins helldur af þeim Almattugu Jnnsetningar Ordum Christi/ Og lijka suo sem þad Ord/sem Gud sagde j Upphafe Skøpunareñar/til allra Lifande Skiepnañ Vaxed og margfalldest/og uppfylled Jordena/hefur eñ nu j Dag siñ Krapt. So hefur og so vor DRottenleg Bæn/og Jnnsetningar Orduñ eñ nu siñ Krapt/ til ad vijgia/og Kroptugt ad giøra/ þetta Heilaga Sacramentum/ huar sem þad er riettelega Lijdkad/j ølluñ Heimenum/Eñ þesse Blessun DRottenlegrar Bænar/og Jnnsetningar Ordaña/giører eñ þa ecke Sacramentid/ utan þar sie bæde sa sem utdeiler/og hiner/ sem til Alltaresins ganga/ þui Drottiñ seiger/ ad vier skulum medtaka þad/eta og drecka þad. Eñ þo ad Blessuniñ sie sogd yfer Braudenu og Vijnenu/og sijdañ geymt/eñ ecke brukad/þa er þad ecke Sacramentum/Huad sem Papistar þar a mote kieña. Eñ so a þad til ad ganga j Christelegre Samkundu/ad Presturiñ take Braudid/ blesse þad/ og afhende þeim sem til Guds Bords ganga/ Item Kaleikiñ/og giefe þeim ad drecka af hønum/ Þegar þad Verk er nu framkuæmt a badar sijdur/þa loksins er þad Sacramentum Hollsins og Blodsins Christi.

Þesse Ord sem hier standa seinast j Jnnsetningar Ordunum Christi/ Giøred þetta j mijna Miñing. Kieña oss/Huar til vier skulum bruka þetta heilaga Sacramentum/sem/til eins Pants/ Skijrteinis og Jnnsiglis/uppa þa Oseigianlegu Elsku/sem Jesus Endurlausnare vor/hafde til vor/þar hañ leid fyrer oss Pijnu og Dauda/huar fyrer vier eigum hñ ad lofa og prijsa/ allt þangad til hañ kiemur til þess sijdasta Doms.

Huggun þa skulum vier taka oss hier/ut af Nidurlage Jnnsetningar Ordaña/ad med þui ad Drottiñ vor Jesus Christus/skipar oss ad giøra þad/Þad er/ad ganga til Guds Bords/j sijna Miñing/þa lætur hñ þar med j liose/ad hañ vill vier skulum opt miñast a þa Velgiørninga sem hñ auglysgade oss j Pijnuñe/og afhender oss j Sacramentenu Alltaresins/huorier Velgiørningar ad eru/ Fyrergiefning Synddaña/ og Eilijf Saluhialp/So opt/ og eñ optar/ vill hañ sialfur miñast a alla þessa Velgiørninga/og alldrei lata sig þeirra Jdra/oss til eilijfra Saalarnota

J Genesis B. 43. Lesum vier/ vm þa Illu og Ogudlegu Josephs Brædur/ad Joseph hafe vm sijder fyrergiefed þeim/þau suik/sem þeir syndu honum j þui/ þeir selldu hañ j Framande Land j Þrældom/ Og þar a ofan til meire Elskumerkis/hafe Joseph haft þa til Giesta/ vid sitt eiged Bord. Eñ Gud kome til/ Huad mykell Mismunur er hier j mille Christi / og Josephs? Langtum meire Armædu hefum vier bakad Jesu Christo vorum blessada Broodur/ helldur eñ Josephs Bræ dur kuñu nockurn Tijma sialfum Joseph ad baka. Huar vm Spamadurinn so talar/Þu hefur mier Armædu auked/mz þijnū Syndū. Es. 49. Samt sem ædur setur hañ oss vid sitt Bord/ j Sacramentenu/og giefur oss Þusundsinnum Þusund/dijrmætare Fædu og Riette/eñ Joseph kuñe ad giefa Brædrum sijnum/þar hañ a Bord ber fyrer oss/ sitt Holld og Blood/huad er ad Reikna Josephs Riette vid slijka Fædu? Joseph hafde Brædur sijna einu siñe til Giesta/Eñ Brooder vor Jesus/hefur oss til Giesta so opt sem vier vilium/ og oss Hungrar og þyster epter hans Maaltijd. Og vegna þess ad Joseps Brædur feingu ecke mørg Giestabod hia honum epter þad/þa vrdu þeir hrædder/þa Fader þeirra dóo/ ad hañ munde miñast þeirra til Ills/og bædu hañ þui Fyrergiefningar apftur vppa nytt. Þeñañ Kuijda hefur Jesus vor fra oss teked/ Hañ bijdur oss ecke einusiñe til Giesta/helldur opt/Jaa/so opt sem vier viliū og gyrnunst. Þar fyrer/so opt sem þu geingur til þess Heilaga Sacramentis/og Kuølldmaaltijdar Drottins/þa lættu þier koma til hugar/huad þar stendur vm þañ sæla Johañem/sem er/ad hū hafe leiged a Brioste Jesū vm Kuølldmaaltijdena/Eñ laangtum sælre erum vier/þar vier liggium so a Briooстum Jesu/ad vier etum hans Holld og dreckum hans Blood/ ecke verdur Jesu vorum nær komest j þessu Lijfe/ eñ so.

Ad sijdustu vilium vier taka oss hier eina ægiæta Similitudinem/ edur Epterlijking/vt af einum goodum Hwsfødur/og framande Giest/ sem til hans kiemur/ og þiggur hans Veiting til Matar og Dryckiar/ huorniñ þad/ad sama Giestkomande Mañe/bere og hæfe ad skicka sier og hegda/ vid siñ Velgiørdamañ og Veitara. Fyrst/ er þad halldiñ heimskur og Osuiñur Madur/sem ecke vill koma til Giestabods/þa hañ er bodiñ af einum Ypparlegum Herra/edur sier mykly ædre/helldur þo

smærer

smæer hans Virduglegt Tilbod/ So eru og aller þeir heimsker/ og Do-
fuuier Meñ/ sem ecke vilia koma til Herrans Christi Kuølldmæltydar
nar hañ þeim bijdur/ eñ hañ bydur þo jafnlega/ einum og sierhuorium/
med þessum æstrædlegum Ordum/ seigiande. Komed til myn aller/ þier
sem Erfided/ og Þunga erud þiæder/ eg vil Endurnæra ydur/ Matt. 11.
Þar næst er þad eirn Heimskur og Dærlegur Drusse/ sem flanar og fle-
ter sier so til Bords/ eda Mæltijdar/ ad hañ hefur ecke þueiged Audlit
sitt og Hendur/ ædur eñ hañ geingur til Bordsins/ hia sijnum Herra og
Veitara. So eru og so/ aller þeir Overduger Giester Herrans Christi
Kuølldmæltijdar/ sem ecke hafa þueiged sig/ i heitum Jdrunartærum/
ædur eñ þeir ganga til þess heilaga Alltaresins Sacramentis. Eñ Hand-
lijned/ edur Vatnsþurkañ/ sem þeir eiga ad þurka sier æ/ eru Nædar Fy-
rerheit Lifanda Guds sem skrifud standa i hans heilaga Orde/ vppa hu-
ert/ eirn og sierhuer æ sig ad reida/ og þeim stadfastlega ad trwa/ bæde i
Lijfe og Dauda/ þui þau bregdast off alldrei/ epter þui sem sialfur Gud-
urlausnariñ vor seiger/ Himen og Jørd forganga/ eñ mijn Ord forgan-
ga ecke/ Luc. 21. J þridia lage/ er sa Giestur jlla skickadur/ og O-
hæfur ad sitia ad Borde/ hia sijnum Veitara/ sem hefur i framme/ añad
huort nockud Ohæfelegt/ ellegar talar Heimskulega og Fævijslega/ yfer
sijns Herra Mæltijd/ eñ giæter ecke ad þui sem hm̃ er veitt. So byr-
iar og eirniñ øllum Bord Giestum Herrans Christi/ ad siæ sig vel fyr-
er/ ad læka sijna Hiartans Þanka/ alleinasta bygda og Grundvallada ve-
ra/ vppa Ord og Fyrerheit Lifanda Guds/ eñ hufa ecke vm nockurn Nie-
goma/ sem vid kañ ad bera/ hingad og þangad/ helldur athuga/ bæde God-
girne Veitarans/ sem er Jesus Christus/ so og huad hañ veiter/ sem er
Holld sitt og Blood/ og þar jafnframt/ huad þar med giefst og veitest/
sem er Guds Nad/ og Syndañā Fyrergiefning/ Riettlætid og Sæluhi-
alpiñ. J fiorda mata er þad eirn Opeckur Giestur/ sem hleypur
suo fra Borde sijns Herra/ og Veytara/ ad hañ þacke honum ecke ædur
fyrer Mat og Dryck// sem hañ hefur þeiged vid hans Bord. Eins le-
ka eru aller þeir/ sem gleyma ad þacka Herranum Jesu Christo/ fyrer
þa andlegu og dijrmætu Sælareñar Fædu/ sem þeir hafa i Sacrament-
enu þeiged/ sem er/ fyrer hans allra heelagasta Holld og Blood/ sem þar

vesdeiligt/ i / með og vnder Braude og Vijne/ so sem sa goode Lutherus kieñer/ Nuorium hans Lærdome vier eigum vissulega/ og stadfastlega ad trwa/ eñ ecke Falskieñingum og Duættinge añara Villumaña z Kettara.

Vier vilium bidia Gud Himneskañ Fødur/ j Nafne sijns Sonar Jesu Christi/ Ad gefa oss øllum/ sem til þessa Heilaga Sacramentis eigum ad ganga/ siñ Verdiga gooda heilaga Anda/ sa ed sijre oss og stierre/ ad vier mættum verdugl ega ganga til þessa Giestabodsins/ so vier mættum sijdar meir vera Verduger þar til/ ad sitia til Bords/ med Abraham/ Isaach og Jacob/ j þeirre Glede/ sem hvorke hefur Auga sied/ ecke heyrt Eyra heyrt/ og alldrei hefur j neins Mans Hiarta komed/ Pad veite oss Gud/ j Jesu Nafne/ Amen/ AMEN.

## A Føstudagiñ Langa/ Stutt og Einfalldlegt Agrip

med sijnum hellostu og sierlegustu Lærdoms Greinum/ yfer Pijningar Historiuna Drottins vors Jesu Christi.

## Exordium.



Lofkuæde Salomonis/ 4. Cap. Talar sa Himneske Brwdguminñ/ Drottiñ vor Jesus Christus so/ til þeirrar andlegu Brwdaretñar/ sem er/ Ctæpnadarens/ edur hvers og eins Riettrwads Christens Mans/ seigiande/ Pu hefur særet mitt Hiarta/ mijn Syster/ Elskuleg Brwdur/ Pu hefur særet og þæugad mitt Hiarta. Tuisvar sinnum verdur hier hid sama Jþrekad/ um Brwdena Herrans Christi/ Ad hun hafe særet Hiarta sijns Brwdguma. Eñ ef vier giætum vel ad/ þa siaum vier aumar og Syndugar Maneskiur/ Ad vier hefum ecke einu siñe/ edur tuisuar/ særet Hiarta vors Endurlausnara/ helldur þrisuar/ og þadañ af margfalldlega. Huad hrædelega særdest hañ vorra Synda vegna/ þa hañ þreytte vid Dauðañ/ Sveittest Bloodugum Sueita/ Lær þram a sijna blessada Asionu flatur/ so sem añar Madkur/ Og mætte þyggia Styrk af einum Engle/ so sem sijdar fram kiemur j Pijningar Historiuñe.

langa

Hvad mykelega ſærdeſt hñ og ſo vorra vegna! Þa hñ var tekeñ og Reyrdur Bøndum ſamañ j Drooma/Hrakiñ og hrædur/fra einum Ranglætum Doomara/til añars. Eg vil ecke tala vm þad/ hvad hañ Bleſſadur vard ad lyda/bæde fyrer þui Andlega/og Veralldlega Vallde. Var hañ ecke ſleigiñ þar/j ſyna bleſſudu Aſionu? Hræktu ecke þeir Ogudlegu Skalkar j hans Signada Andlit? Komu þeir ecke fram med Lingvøkva/a mote honum/med morgum ødrum Hædungum/ ſem þeir ſillegdu þui bleſſada og ſaklauſa Lambenu Guds/ ſo hañ klagar þar yfer/ hia Spamañenum/Eg er Fyrerlitning Folkſins/Madkur eñ ecke Madur/ Pſalm. 22. Og j ødrum ſtad/Þu hefur auked mier Mædu/med þynum Syndum. So ſiaū vier hier(mijner Elſkanleger) Ad vier høfum ecke einuſiñe edur tuiſvar/ ſært Hiarta vors Bleſſada Endurlauſnara/ helldur Oſeigianlega opt/ Huar vm fleyra ſkal verda talad/ut af hans Pyningar hyſtoriu. Og vilium vier heñe ſundurſkipta/ j fim̄ Smaparta/edur Greiner.

J þeirre fyrſtu vilium vier ſkoda og yfervega/hvad margt og myked ad vor allra ſætaſte Endurlauſnare hafe ætt ad lyda og þola vorra vegna/ bæde vid Fialled Oliveti/og ſo lyka j ſialfum Graſgardenum.

J añare Greiniñe/ vilium vier fa ad heyra/hvad til hafe geinged/ þa hañ var hafdur jñ fyrer þad Andlega Vallded.

J þeirre þridiu ſkulum vier athuga/hvad giørſt hafe/ þa hañ Bleſſadur ſtood fyrer Doome Pilati/ꝛ þeſſ Veralldlega Valldſins.

J Fiordu/hvad ſkied hafe/þa vor Hiartans Herra var utleiddur til Aftøkuſtadarens.

J Fimtu og ſydustu/ ſkulum vier Hugleida hans Kroſſfeſting og Dauda/med Teiknum þeim/ſem þar ſkiedu. Og taka oſſ ſo ut af ſierhuerre þeſſare Grein fyrer ſig/nockur Huggunar Blomſtur/ſem vier ſkulum forvara og geyma/j Hyrdſlu vors Hiarta/allar vorar Lyfſtunder.

Gud Himneſkur Fader/virdeſt ad ſenda oſſ Krapt ſyns gooda heilaga Anda/So vier mættum ſo yfervega þa ſaru Jeſu Chriſti Pynu/og bitran Dauda/ ad vier mættum fa þar af Huggun/bæde j Lyfe og Dauda/ Amen j Jeſu Nafne Amen.

A Føstudagiñ

# Fyrsta Greiniñ.

SO myked sem vidvijkur þeirre fyrstu Greiniñe/ huør ed hlioodar vm þad hrædslega/og hetfelega Daudastrijd/sem vor Drottiñ Jesus Christus hiellt j Grasgardenum Gethsemane/þa skrifa so þar vm Gudspiallamenñerner/Ad hañ hafe teked til ad hryggiast/skiælfa/ og Harmþrængiñ ad verda/og talad so til siña Læresueina/ Mijn Saal er hrygg allt j Daudañ. Og sem hañ var staddur j þessum sijnum stærstu þreyngingū/Aminte hañ ecke alleinasta þa/ad þeir skylldu vaka/ og bidia/ so ad þeir fielle ecke j Freistne/helldur bad hañ og so sialfur/j heilar þriar Reysur/ Ad ef þad være mogulegt/ þa mætte sa Kaleikur fra sier takast/ sem hañ ætte ad drecka/eñ sette þo samt/þad allt j sijns Fodurs Villa/ Og sem hañ bad so siñ Himneska Fødur/ þa skrifa Gudspiallamenñerner/ ad hønum hafe byrst Eingell af Himne/huør ed styrkte hañ/Og sem þar kom ad/ad hañ þreytte vid Daudañ/ Took hañ Akaflegar ad bidia/ og hans Sueite vard sem Blooddropar/þeir fiellu a Jerdena.

Myklum og stoorum Hørmungum/ætte sa goode Guds Madur Job ad mæta/ þa hañ var sleigiñ mz Kaunū fra Huirfle til Ylia. so sem lesa ma/Jobs B. 2. Eñ þusundsiñum meire Hørmungū/ og Kualningum ætte vor blessade Blodbrwdgume/Drottiñ Jesus Christus ad mæta/vorra vegna. Hañ audmykte sig so/fyrer sijnum Himneska Fødur/ Ad hañ fiell flatur fram̄ a sijna Asionu til Jardar/ Vppa þad/Ad hann med sijnu Lijtelæte/bætte fyrer miñ og þiñ/ Hofmood og Drambseme.

Hañ gaf fra sier alla sijna Himneska Glede/eñ liet sijna Saalu hryggva verda/allt j Daudañ/Vppa þad/hañ leyste oss fra eilijfre Hrygd/enn giæfe oss aptur/eilijfañ Fognud og Glede. Hañ skalf og tytrade/ j Grasgardenum/vppa þad/Ad vier skylldū ecke ad Eilijfu/ skiælfa og titra/helldur meiga koma med Gladværu Hiarta/fram̄ fyrer Gud/og giæta so staded med Æru/fyrer hans Auglite.

Hañ sueittest Bloodugū Sueita/vppa þad/Vær skylldū ecke eilijflega sueitast Bloodenu/ j þeim Helvijska Ellds Loga. Hañ þreytte vid Daudañ/ vppa þad/ Ad vær skylldū ecke smacka Daudans Beyskleika helldur skylde hañ verda oss ad einum sætum Suefne. Hañ vard so

Mattlaus

Mæktlaus & Aflvana vorra vegna/ad hañ vard ad þiggia Styrk af ein um Eingle/uppa þad/ad hañ styrkte oss aumar Mañeskiur/bæde a Sa lu og Lijfe/Og sende oss sijna heilaga Eingla til hialpar/einkanlega a vorre Andlætsstundu/þa vier eigum ad skilia vid þetta Lijf. Hañ var hier j Grasgardenum/ fyrer utan alla Huggun og Hugsuolun/og sialf vel siña bestu Vina/sem voru hans Læresueinar/uppa þad/Ad vier skyllduñ ecke ad eilijfu verda Huggunarlauser/& yfergiefner af Lifanda Gu de/Huør ad er vor beste og trwfastaste Afvinur.

Siaum nu hier til/ þu Christin Saala/ huad margt og myked/ ad þiñ allra sætaste Endurlausnare hefur utstaded/þiña og miña vegna/ j Grasgardenum/og hugga þig hier vid/bæde j Lijfe og Dauda.

## Auñur Greiniñ.

ANNar Partur Pijningar Historiuñar Drottins vors Jesu Christi/ setur oss fyrer Siooner/Huorniñ þad/ad hañ var bundiñ/færdur fy rer Caipham/og þad Andlega Valldsed/Þui strax epter þad/hañ hafde yfer staded/þær þungu og sáru Kualaña Hrijder j Grasgardenum/ sem strax var Aminst/þa kom Judas(og m& hm̃ mykell Flock Strijdsmaña) og forried siñ eigiñ Herra og Lavard/m& eiñi Suikara Kosse/Og jafn skiott geingu Strijdsmeñerner ad Jesu/& løgdu Hendur a hñ & gripu hñ og færdu hañ so bundiñ til Caiphas Kieñemañahøfdingia/ leitudu sijd añ Liugvitna j giegn hønum/ad þeir giæte hønum j Hel komed/ og sem þeir gaatu ecker funded Herranum vorum Jesu Christo/Þa leiddu þeir fram um sijder/tuo Falsvotta a mote hønum/ Huerier ad søgdust hey rt hafa hañ seigia/Ad hañ kyñe ad nidurbriota Mustere Guds/og a þr emur Døgum uppbyggia eitt añad. Eñ Jesus þagde & suarade øngun til þessara Lyga. Þa sagde Kieñemañahøfdingiñ/ Jeg sære þig vid Lifande Gud/ad þu seiger oss /ef þu ert Christur Sonur Guds. Jes us suarade/Þu seiger þad/þo seige eg ydur/Ad hiedan j fra muñu þier sia Mañsins Son/sitiande til Kraptarens hægre Handar/ og kom ande j Skyu Himens. Eñ sem Kieñemañahøfdingiñ heyrde þad/Reif hañ sijn Klæde/og sagde/hañ Gudlastar. Huad virdest ydur? Eñ þeir suorudu og søgdu/hañ er Dauda sekur. Og þeir hræktu j hans Asionu

og slöou hañ med Knefum/ etc. Nær sier þu Syndug Mañeskie ia eñ vppa nytt/huad myked þiñ Endurlausnare hefur þiña vegna lided og þolad/ j Nøse/ og fyrer Dome Caiphæ Kieñemañahøfdingia. Þu og aller vær/ hefdum þad forskulldad/ ad oss skyllde eins og Dioflenum (sem syndgudu/ hafa vered uidurkastad til Helvijtis/ 2. Pet. 2. Cap. Ja/ Ad vier skylldum hafa vered bundner a Hondum og Footum/ og kastader j þau ytstu Myrkur/ þar ed vera mun Gop og Tañagnystran/ Matth. 22. Eñ Christur liet sig hier binda/ so ad vier skylldum verda frijer fra þui Helvijska Bafte Dioflsins/ Syndareñar/ Daudans og Helvijtis. So munum vier nu þacsem Reidum oss vppa Jesu Dijrmætu Forþienistu Pijnu og Dauda/ ecke framar bundner og reirder verda/ med Dioflsins Fiøtrum/ hellдur erum vier alla reidu komner j Bindine Lifande Maña/ 1. Sam. Bok. 25. Cap.

Hañ leid þad/ ad læta sla sig j sijna blessada Asionu/ fyrer Doome þessara Andlegu/ Vppa þad/ ad vær skylldum ecke til Mynkunar og Skammar verda eilijflega/ þa hañ kiemur til ad dæma allt Holld. Eirnin/ ad vier skylldum ecke slegner verda/ med þeim stranga Guds Dome/ sem þar stendur/ þia Matth. 25. Fare þier Bolvader fra mier/ j Eilijfan Elld/ sem fyrerbuen er Dioflenum og hans Arum. Hañ vmbar þolenmoodlega/ þo hñ være vptar eñ einusiñe Ranglega aklagadur/ so hñ frelsade oss fra Løgmalsins aklogun/ og allra þeirra/ sem oss vilia Ranglega tiltala. Hñ var spottadur/ og med Hrakum spyttur/ j sitt Signada Andlit/ So vier skylldum ecke af Dioflenum eilijflega Hæddur/ Spottader og Hrækter verda j Helvyte. Hañ var saklaus suo sem eirn Gudlastare til Dauda Dæmdur/ Huar med hañ afrekade oss þad/ ad vier vegna vorra margfalldra Synda/ med huorium vier Daglega Dagsfyggium og Lostum Lifande Gud/ skylldum ecke fyrerfarast/ hellдur ødlast eitt Dyrdlegt Rijke/ og Fegurdar Koronu/ af Hende Drottins/ so sem þar stendur j Spekeñar Bookar/ 5. Cap. Þetta ætte eiñ nu ad nyu/ ad vera sierhuørre Jdrande Mañeskiu/ ein Lijffroptug Huggun og Hugsuølun.

## Þridia Greinin.

lǽnga

HVilikt vier framvegis skoda/og athuga/Hvad margt og mykid ad vor Hiartans Herra og Endurlausnare hafe lidid/þa han stood fyrer Doomstole Pilati/ og þess Veralldlega Valldsins. Gudspiallamennerner votta/ad han hafe þar aptur uppa nytt/vered Ranglega aaklagadur/ Ad honum hafe vered jafnad þar saman vid eirn Spillvirkia/og Manndraps ara/sem hiet Barrabas/vered Afklæddur sijnum Fötum/Bundinn/og Ettur/Ifærdur einu Purpura Klæde til Hædungar/sett Þyrnekorona aa hans Höfud/feinginn Reyrvondur j sijna hægre Hond/ vered byrgdur og sleiginn/hroktur um Höfudid med Reyrvendenum/ sagt suo til hans uppa Spott/Spaa þu oss Christe/huor er sa þig sloo: Og margar adrar Hædungar seigia Gudspiallamennerner/ ad þeir Ogudlegu Diofuls Kroppar hafe lagt honum til/so þad er ad merkia/ ad þeim Ofbiode ad tala þar um/og minnast þar aa.

Skadu hier til/ þu aumur Syndare/So var nu Herrann Christur sa allra heilagaste og Saklausaste sleiginn/færdur og Lemstradur/fyrer þijnar og mijnar/og allar Veralldarennar Synder/Esa. 53. Ja/Hann var klagadur/fyrer Landsdoomaranum Pontio Pilato/So ad vier aa sijdasta Deige/skylldum ecke af Diefletnum klagader verda/ fyrer þeim stranga Guds Doome. Hann var til Hædungar hrakinn og hriadur/ jnnan um alla Borgena/ur einum Stad/og ur einu Stræte j annad. Og fierdeil is var hann sendur so sem annar Spiefugl fra Herode/j einu huijtu Klæde til Pilatum aptur/Uppa þad/Ad þeir Helvijsku Arar/skylldu ecke giora Gys/og Gabb ad oss/og hrekia oss sijn aa mille eilijflega. Sa Lijflause Mordingie Barrabas var tekenn framm fyrer hn/og laus gieffenn/ En hann Blessadur aptur til Dauda urskurdadur/ So vier mættum frijer verda/fra þeim eilijfa Dauda Doome. Hann leid þad/ ad hans Blessade Lijkame være strijktur og sleiginn/med Suipum/allt þar til/ ad þar var ecke heil Uru aa hans Hollde/So vier skylldum ecke nie þm Glo ande Helvijskum Hoggormum/ Strijkter verda ad eilijfu j Helvijte. Hann liet Iklæda sinn Alblooduga og Saarum sollna Lijkama/j eitt Purpura Klæde/Uppa þad/Ad hann Iklædde oss/þessu Alblooduga Klædenu sijnu/sem merker hans Riettlæte/og þad skyllde vera vort Fegurdarskart/þa vier aa sijdasta Deige/ eigum ad koma framm fyrer Auglit Lif-

anda Guds. Han̄ var med einnre Þyrne koronu Kryndur/ So han̄
bætte og borgade fyrer vora Drambseme og Hofmod/ sem vier hofdum/
þa vier villdum grijpa epter Koronu þess allra hædsta Guds/ og verda ho
num lijker/ Og ad han̄ þar næst/ giæfe oss þa eilijfu Gledennar og Dyrdar
ennar Koronu a Himnum/ þa vier skilium vid þetta Lijf. Han̄ tock
eirn Reyrvønd j sijna hægre Hond/ Huar med han̄ audsynde sig ad vera/
þan̄ rietta Dyrdarennar Konung/ sem ecke sundurbrijtur þan̄ Brakada Re
yr/ og ei vtslockur þan̄ riwkanda Lijnkueikin̄/ Esa. 42. Han̄ vard
hier fyrer hinum stærstu Hædungum/ Vppa þad/ Ad han̄ afrekade oss ei
lijfa Sæmd og Sooma a Himnum. Þar var eingin̄ sm̄ hafde Sam
aumkan med honum/ og kiende j Brioste vm han̄/ vppa þad/ Ad sa Him
neske Faderin̄ kiende j Brioste vm oss/ j allskonar Hormungum og Mot
lætingum/ sem oss kun̄a ad hondum ad koma/ Jerm. 31.

# Fiorda Greinin̄.

SA fiorde Partur Pijningarhistoriun̄ar Drottins vors Jesu Kristi/
Setur oss fyrer Sioner/ Vtleidslu hans til Aftøkustadarens. Huar
vm Gudspiallamen̄erner skrifa. Þa tooku Strijdsmen̄erner Jesum/
og færdu han̄ wr Kapun̄e/ og færdu han̄ aptur j sin̄ eigin̄ Klædnad
og leiddu han̄ vt/ so ad þeir Krossfestu han̄/ og han̄ bar sin̄ Kross.
Hier vppfyllest nu og frammkiem ur/ þad a Herranum Christo/ sem Esa
ias Spamadur hafde adur vm han̄ spad/ 53. Cap. Seigiande/ Ha er
sem þad Lamb sem til Draps er leidt. Giættu nu ad/ þu Christ
en̄ Man̄eskia/ huad þin̄ Endurlausnare hefur hier ad lijda þin̄a vegna.
Han̄ liet þa Omilldu Strijdsmen̄ og Bødla leida sig vt af Jerusal
ems Stad/ vppa þad/ han̄ opnade fyrer oss þa Himnesku Jerusalem/
huor ed vorra Synda vegna/ var aptur læst og lokud. Strijdsmen̄
erner rifu vpp aptur hans Saar og Beniar/ þa þeir færdu han̄ wr Pur
pura Kapun̄e/ So ad vor Synda saar skylldu oss ecke eilijflega sulfa/
helldur skylldu þau med hans Kropfuga og Dijrmæta Bloode Grædd ve
rda. Þeir løgdu Krossin̄ vppa hans blessada Hrigg/ og lie tu hn̄ bee
ra han̄/ huad han̄ og eirnin̄ viliugur giørde/ Vppa þad/ Ad han̄ audsyn
de þar med/ ad han̄ være þad Lambed Guds/ sem bære allar Heimsins

Synder

Synder/Esa.53. Hañ liet sig wolfæra til Afloku/ og Pijslastadar-
ens/ So vier skylldum ecke koma j þañ eilijfa Pijsla og Kualaña stad/
sem hyrerbwin er Fiandanum/og øllum hans Arum. Þetta er eine
Hiartanleg Huggun fyrer alla Stoorsyndara sem a Christū trwa.

# Fimta Greinin.

J Fimta og sijdasta Maata/syner oss Pijningar Historian Drottins vors Jesu Christi/Huornin þad/ Ad hañ hafe vered/ a millum tueggia Spillvirkia Krossfestur/med þui fleyra sem þar ad huijgur.

Hier sier þu aumur Syndare/ huilijkar Kualer þu hefur bakad þui Blessada og Saklausa Lambenu Guds/og vm sijder komed honum j þañ Forsmanarlegasta Krossens Dauda. Hañ hanger hier þiña synda vegna Nakin a Krossenum/Vppa þad/Ad vier/j/og fyrer hñs Forþienustu feingium þad riett Nuijta Sakleysesins/ Heilagleikans/og Riettlætesins Klæde. Hañ hieck a eiñu Trie so sem añar Illvirke/so hañ bætte og borgade fyrer þa hrædelegu Synd vorra fyrstu Forelldra/sem þau giørdu/þa þau atu af þui forbodna Trie. Hañ var a Høndum og Footum a Krossin negldur/ Til ad auglysa þad/ vier værum j hans Blessudu Høndum teiknader/ suo hann gleymde oss ecke vm alla Eilijfd. Hañ hieck a millum Himens og Jardar/ Audsynande þar med/ad hañ være sa sañe og riette Medalgangare/a millum Guds og vor Mañana. Hañ hieck a Krossenum/med beygdum Knium/ Lærande þar med j Lioose/oss til eilijfrar Huggunar/Ad hañ vilie vera vor Trwstur og Talsmadur/hia sijnum Himneska Fødur/ og bidia fyrer oss Daglegalega. Hañ beygde sitt Signada Hofud a Krossenum/Synande þar med þa breñande Elsku/sem hañ hafde til vor/sem er Ad hañ villde kyssa oss/og giarnsamlega heyra oss/og Bænheyra/þa vier til hñs køllū. Hans Syda var opnud mz Spioote/Vppa þad/ ad hñ audsynde/ad hñ villde lata sier vora Synd og Naudsyn ætijd til Hiarta ganga. Sijnar Blessudu Fætur heingde hñ nidur a Krossenū/ So vier mættum hugga oss þar vid/Ad hañ hefde fundur broted Høggormsins Hofud/og alla hans Magt og Slægd vnder sijna Fætur lagt. Hañ var a millum Spillvyrkia teiknadur/So ad vier skylldum ecke

vera j Nood Dieflaña Eilijflega/ helldur j Selskap heilagra Eingla.
Hañ vtbreidde sijnar bædar Hendur/ Frambiodande ollu Mañkyneni/ sijna Naad/ þui hañ vill ongvañ fra sier reka/ helldur alla þa sem Jdrande til hans flyia/ Millþelega j siñ Myskunar Fadm medtaka.

Hañ matte umbera þad/ ad Striidsmeñerner tæke hans Klæde fra honum/ og skipte þeim sijn a mille/ So ad þeir Helviijtsku Aarar skylldu ecke Ræna oss ad eilijfu/ vorum Riettlætis skrꝍda/ hvorium hañ J-fær er oss/ j þui heilaga Skijrnareñar Sacramente. Fyrer þeim sem hañ Krossfestu/ bad hañ/ Ad siñ Himneske Fader villde fyrergiefa þeim þeirra Synder/ Vppa þad/ Ad vier skylldum ecke vegna vorra Synda/ med hvorium vier hofum hañ a Krossen̄ neglt/ eilijflega Fyrerfarast/ og Fordæmast. Hañ saa med stooru Angre og Hiarta sorg/ standa vnder Krossenum/ sijna Moodur/ og þañ Læresvein sem hañ elskade/ Vppa þad/ hañ sæe oss/ og vær hañ aptur/ a sijdasta Deige/ med Glede og Fegnude. Hañ Fyrerhiet odrum Ræningianum (sem hieck honum til hægre Handar/ og Jdradest) Paradijsar Glede og Fegnude/ og soor honu̅ eirn sterkañ Eyd þar vppa/ So vier sem syndgast hofum/ j hvern hellst Handa mata sem þad er/ Skylldum vera visser og Vefader þar vm/ Ad ef vier Jdrunst af Hiarta vorra Synda/ þa skylldum vier a sijdasta Deige/ verda setter honum til hægre Handar/ og heyra þesse Gledelegu Ord til vor tolud/ Kome þier blessader mijns Fedurs/ og eignest þad Rijke/ sem ydur er fyrerbwed fra Vpphafe Verolldar. Hañ klagar sig hier a Krossenum/ saargrætelega fyrer sijnum Himneska Fodur/ og seiger/ Mift Gud/ Miñ Gud/ Hui hefur þu yfergiefed mig/ Vppa þad/ Ad vier skylldum ecke eilijflega j Helviijte klaga/ og seigia. O Gud/ O Gud/ hui hefur þu so vtskwfad mier fra þijnu Auglite/ og yfergiefed mig ad eilijfu? Hañ leid Ofurmaata mykeñ Þorsta? Vppa þad/ Ad hañ bætte fyrer Ohoof Adams og Evu/ sem þau hofdu j Paradijse/ sem og eirnin̄ fyrer vort Ohoof/ sem vier optsiñis hofum/ j Mat og Drick. Hañ hroopade vpp og sagde/ Þad er Fullkomnad/ Svo ad vier skylldum vera visser þar vppa/ Ad hañ hefde Fullkomnad allt vort Endurlausnar verk/ og ætvegad oss aptur eilijft Lijf og Sæluhialp.

Ad sijdustu/ Gaf hañ vpp siñ Signada Anda a Krossenum/ og befalade

Taanga
ade hañ j Hendur sijns Himneska Fødurs/og doo so þeim stundlega Da-
uda/ Vppa þad/Ad vier skylldum frelsader verda fra þeim eilijfa Dauda.
Siaum til(mijner Elskanleger)allt þetta hefur vor Hiartans End-
urlausnare Jesus/ vorra vegna lided/a Krossens Alltare. Huør þetta ve-
it/og trwer þui/hañ kañ ad hugga sig hier vid/ a mote øllum Freistingū
og Areasū Andskotans. Vær skulū eirniñ lata oss alla þessa hans Pij-
nu og bitrañ Dauda til Hiarta ganga/og vera ecke sijdur/eñ þær Dauðu/
Skynlausu og Mallausu Skiepnurnar/ helldur skulū vier af þeim læ-
ra/ med betrun umbæta vorn Lifnad og Framferde. Su Natturlega
Soolin a Festingar himnenum byrgde sitt skiæra Lioos/þa Herrañ Chri-
stur liest a Krossenum. Skyllder þu þa ecke Christiñ Sala/afleggia þij-
na Hræsne/og allt Fals skyn? Fortiallded j Musterenu rifnade j
sundur j tuo Parta. Huar fyrer sundur rijfur þu ecke og so/Skylu þiñ-
ar Vantrwar/sem hanger fyrer Augum þijns Hiarta? Jørdiñ ska-
lf j Dauda vors Endurlausnara/huør þo er miøg sterklega Grundvøllud.
Skyllde ecke þitt og mitt Hiarta/og so skialfa og titra/vegna ockar Sy-
nda/ sem Sonur Guds hlaut ad bera? Þau hørdu Bierg og Klett-
ar brustu j sundur og kloffnudu. Skyllde og so ecke Hiarta eins Syndugs
Mans sundurbresta/ þa hañ þeinker um sijnar Yfertrodslur og Glæpe?
Grafer þeirra Framliduu lukust upp/og Lijkamer margra heilagra Ri-
su upp/ og geingu ut Grefunum. Huar fyrer vaknar ecke og so/og uppe-
rijs þitt Hiarta/sem j Syndunum er daudt?
O þu Christiñ Sala/ Giær þu ad þessu/og ber þier a Briost med
Folkenu/ sem stood hia Krossenum og sa uppa Jesu signada Andlat/
Snu þier til baka aftur/ fra þijnum Vonda Vege/ og jata Drottne
þijnar Synder/Enn medkieñ/ad hañ hafe saklaus fyrer þær lided/ Kv-
øl og Pijnu. Ef ad þu so giører/þa Jdrast þu riettelega þiña Synda/
og verdur Guds Elskulegt Barn/og Erfinge Himnarijkis. Huar til
oss hialpe Gud Fader/ fyrer Kuøl/ Pijnu og Bitrañ Dauda vors
Hiartans Endurlausnara Jesu Christi/ Huerium med Fødurnum og
heiløgum Anda/ sie Eilijft Lof/Dyrd/Heidur og Vegsemd/ Nu hied-
añ j fra/ og ad Eilijfu/ AMEN.

# A Vpprisu Hatijd Endurlausnarans vors Jesu Christi/ Evangelium/ Marc. 16. Cap.



OG þa ed Þuottdaguriñ var vmlidiñ/ Keyptu þær Maria Magdalena/ og Maria Jacobi og Salome/ dijrleg Smyrsl/ ad þær kiæme og Smyrde Jesum. Og miøg snema Morguns eirn Þuottdagaña/ komu þær til Grafarenar/ vm Soolar Vppruna. Og þær søgdu sijn aa mille. Huør mun vellta fyrer oss Steinenum af Grafarmuñanum? Og sem þær litu þangad/ sau þær ad Steiniñ var Afvelltur. Eñ hañ var ad søñu næsta mykell. Og þær geingu jñ j Grøfena/ og sau eitt Vngmeñe sitia til hægre Hlidar/ skrijddañ sijdu Klæde huijtu/ og þær vrdu Ottaslegnar. Eñ hañ sagde til þeirra Eige skulu þier hrædast. Þier leited ad hinum Krossfesta Jesu af Nazareth/ Hañ er Vpprisen z er ecke hier. Sied þañ Stad/ huar þeir løgdu hañ. Helldur fare þier burt/ og seiged hans Lærésueinum og Petre/ þad hañ mune ganga fyrer ydur j Galilæam. Þar munu þier sia hañ/ so sem þad hañ sagde ydur.

## Exordium.



HAD er eitt harla Naudsynlegt og ageætt Heilræde/ sem sa haatt Vpplijste Guds Madur/ Postuliñ Paall/ giefur øllum Riett-christnum Moñum/ J ødru Sendebrefe til Timoth. 2. Cap. Þar hañ so ad Orde kiemst/ og seiger. Hafdu j Miñe Jesum þañ sem af Dauda er vpprisiñ/ et c. Saññarlega vardar oss myked vm þessa Postulans Amiñing/ Þui huørke gietum vier lifad nie dæid/ med gladre og goodre Samuisku/ utan so sie/ ad vier huggum oss þar vid/ ad Jesus er oss Fæddur/ fyrer oss Pijndur/ Dæeñ og upp aptur risen/ huar med hañ endade allt vort Endurlausnar verk. Jaa/ þo oss falle aller adrer Hluter vr Miñe/ utan Jesu Vpprisa fra Daudum/ þa nægde oss þad ad Eilijfu. Diøfulliñ sa Helvijtiske Ovin/ og Saalar Mordinge/

Þer med añan Miñis Zedil/og Rꜳdleggur oss/seigiande. Hafdu j Mi-
ñe Synder þijnar/og huad myked jllt þu hefur giort/ꜳ mote þijnu Gude
og Skapara. Minstu ꜳ jlla og O-gudlega Þꜳnka þijna/ꜳ Ogudleg
Ord þijn og Verk/Minstu ꜳ þad/og þeinktu alldrei/ad þu munet vera j
Nꜳd edur Vingan vid Lifande Gud hier fyrer. Þa er nu gott ad fly
ia til þess gooda Miñis Zedilsins heilags Anda/z seigia/Eg vil miñast
ꜳ Jesum miñ/sem af Dauda uppreis/og vita huort hñ hefur ecke Si-
gurinn vñed/ꜳ Syndunum mijnum/og alls Mañkynsins. Huar fyrer
sleppte Daudinn honum/ef Synden er ecke bætt? Eda er ecke Daudinn Ve-
rdlaun Syndarennar? Hefde ein Synd vered Obetolud/ af þeim s Jes-
us tok uppa sig/þa hefde hñ alldrei kuñad ad losa sig fra Daudanum. Eñ
nu fyrst hañ er af Dauda Vpprisen/þa hefur hañ fyrer allar Synder
bætt/og fullkomlega betalad. Eg vil hugsa um Jesu Vpprisu/mier til
eilijfrar Huggunar/ Eñ um Synder mijnar vil eg ecke hugsa/ mier til
Orvæntingar. Hugsa þu Diofull um þijnar Synder/þu ꜳtt onguañ En-
durlausnara/ eins og eg/ eg vil hugsa um Vpprisu Sigur Jesu mij-
ns. Añan Miñis Zedil hefur sa Helvijtske Ovinur j frame/ og sei-
ger. Minstu Madur ꜳ Synder þijnar/sem Gud leggur ꜳ þig/minstu
ꜳ þær/og meintu alldrei/ad Gude mune þikia vænt um þig/þar hñ la-
tur þig so Kueliast. Þa er gott ad suara Diofleinum so aptur. Nei/
Eg vil hafa j Miñe Jesum þañ af Dauda er Vpprisen/ Hañ hefur
mier med siñe Vpprisu/ utvegad Dyrdlega Vpprisu/ ꜳ hiñum Efsta
Deige. Þa fæ eg þa Dyrd og Glede/ vid huoria allar Tijmanlegar
Hormungar eru ecke verdar ad samlijkiast/edur samañ ad jafnast. Þa re-
ine eg þad j Sañleika/ ad stundlegar Motlætingar þessa Heims/ orsa
Oumælelega mykelllrar Vegsemdar. Ja/Miñing þesse Jesu Vppri-
su fra Daudunum/er oss Omissande/bæde j Lijfe og Dauda. Omissande
er hun/ꜳ medan vier lifum/þuiad Diefullinn sier oss alldrei j Fride/so
hañ brygsle oss ecke um þad Ranglæte/sem epter loder vid vora Natturu/
Hñ kuelur Samviskuna/og Þꜳnka vora med þui. Eñ þar ꜳ mote/ er
ein good Lækning/ Miñing Jesu Vpprisu. Hañ er Vpprisin oss til
Riettlætis/seiger Postulinn Pall/ Rom. 4. Þetta Jesu Vpprisu Ri-
ettlæti/duger oss Truudum/ ꜳ mote allri vorri Natturu Ranglæte.

Meire Kraptur er j Vppriſu Riettlætenu Jeſu/ til ad giora oſſ Holpna/ eñ j voru Nátturu Ranglæte/ til ad glata oſſ. J Daudanum meigum vier Vppriſu Miñingareñar Jeſu þo ſyſt an vera/ ef vier ſkulum ecke jlla deya. Þui þegar þar er ad komed fyrer Mañeſkiuñe/ ad hun a ſiñe ſijduſtu Sottarſæng lijtur j burt vr þeſſu ſtundlegu Lijfe/ ſem þa er a Enda komed / og jnn j Daudann/ ſem þa er fyrer Hondum/ þa mun Daudiñ vera eins til ad ſia/ ſuo ſem añad hrædelegt Myrkur ⁊ Dima/ vt af huørre Dimu/ ad Saaluñe mañſins ſkyllde þikia ſier Omøgulegt ad rata/ edur komaſt/ ſæe hun þa ecke midt j Daudans Myrkrum/ þañ Liomande Stijg og Gøtu vndan ſier/ ſem Jeſus vor gieck/ j giegnū Daudañ ⁊ til Lijfſins. Eñ ſem Saaliñ ſier med Truar Augunum/ Jeſu Lioomanda Gøtuſtijg/ j giegnum Daudañ til Lijfſins/ þa treyſter hun ſier til ad rata epter/ fyrer heilags Anda Adſtod. Huor vill þa ſeigia/ ad þad ſie ecke gott og Naudſynlegt Raad/ ſem Guds Ande giefur oſſ/ fyrer Muñ Poſtulans Paals/ Ad vier ſkulum hafa j Miñe/ Jeſum fra Daudum Vppriſiñ. A þetta Heilræde miñer oſſ nu Tijmeñ/ ſem er þeſſe Dyrdlega Paaſkahatijd/ a huørre Gud liet ſkie/ og tilfalla/ þañ Dijrmæta Vppriſu Siguriñ Jeſu. Og viliū vier nu giefa oſſ til/ ad Ala þeſſa Vppriſu Miñing j vorum Hiortum/ og ſkoda af þeſſu H. Evangelio/ þ ſē oſſ ſyneſt hentugaſt vera til Lærdoms/ Huggunar Amiñingar/ og Vppvakningar. Eñ Gudſpialled ſkulum vier j tueimur Smaagreinum yfervega/ af huørium.

Su fyrre/ ſkal vera vm Kuiñurnar/ ſem geingu til þeirrar Heilegu Grafar Herrans Chriſti.

Añnr vm þa Merkelegu Paaſkadags Predikun/ ſem Eingelliñ fram ſette fyrer þær/ hia Grofeñe.

Vor bleſſade Sigurhofdinge/ Jeſus Chriſtus/ huør ed deyde vorra vegna/ Eñ lifer þo/ fra Eilijfd til Eilijfdar/ og hefur Lykla Helvijtis ⁊ Daudans/ Hañ ſende oſſ øllum ſijna Naad/ ſo vier mættum nockud gott hier af nema/ oſſ til Glede og Velferdar/ Amen.

## Fyrre Greiniñ.

J Vpphafe

J Upphafe Textans stendur so. Og þa Huottdaguñ var umlidin
keyptu þær Maria Magdalena/Og Maria Jacobi og Salo-
me Dyrleg Smyrsl/ad þær kiæme/z Smyrde Jesum. Lucas Gud-
spiallamadur seiger/Ad þegar Christur hafe allra sijdast ferdast fra Ga-
lilæa til Jerusalem/þa hafe honum fylgt epter/ margar goodar og Gud-
hræddar Kuiñur/sem bæde hafa elskad hañ fyrer sijna Kieñing/Og mo-
rg oñur Dasemdarverk/sem hañ hafde audsynt a þeim/j þui/ ad utdrijfa
fra þeim Ohreina Anda/so sem hañ giorde Mariu/af huørre hañ vt rak
sio Diofla/ Og ad Lækna þær af ymeslegum Soottarferlum. Tuent
var þ sierdeilis/s kom Kuiñunum til þess/ad epterfylgia Herrañ Jesu.
Fyrst/Ad þær syndu sig Packlatar sijnum Herra/fyrer alla þa Vel-
giørninga/sem þær hofdu af honū þeiged. Þar næst/ med þui/ ad
Paaska Hatijdiñ var j nand/þa villdu þær ecke vid hañ skilia/Þui þær
hafa meint/ ad þær munde(kañ skie) meiga þa ad heyra/ hñ þa Predika/
s vant var. Vel vissu Kuiñur þessar af Natre þui/s Gydingar hofdu
a honū/og þad þeir villdu fyrerkoma honum/huonær sem þeim giæfest
Fære þar til. Eñ samt æsetia þær sier ad fylgia hm̄ so leinge s þær
gleta/og þo þad ætte ad kosta þeirra eiged Blod/Lijf og Lime/þa skule
þær alldrei yfergiefa hañ. Þetta huxa þær nu og samtala med sier/
ecke einungis med lausum Ordum/huør vid adra/ helldur fullkomna þær
þad med Verkunum/ Þui þa hañ var vtleiddur til Aftokustadarens/ þa
fylgdu þær honum epter. Þa hñ var festur a Krossiñ/ og hieck þar
so sem hiñ Argaste og veste Jllrædis madur/þa voru sumar af þeim vnd-
er Krossenum Gratande/sumar stoodu þar skamt fra. Þar læta sier
þetta ecke eñ þa nægia/ þui þa hañ er Andadur/ og bwed er ad Grafa
hañ/þa fara þær þangad sem hans Blessade Lijkame liggur/og huxa ecke-
ert þar vm/huorium þad lijkar vel eda jlla. Mykel þesse Elska.
Skamast meigū vier nu vor Christner Meñ/a þessū Dogum/fyrer El-
skuleysse vort. Vier vitum þad/ad Jesus Endurlausnare vor er af Da-
uda vpp aptur riseñ/og sitter nu/j eilijfre Dyrd med Fodurnum/og þeim
heilaga Anda/og bidur fyrer oss/og giorer oss Vafalatanlega til Groda/
Eñ þo Elskum vier hañ ecke Nalfpartiñ so myked sem Kuiñurnar elsk-
udu hañ/þa hañ var Andadur/og bwed var ad Jarda hañ. Ja/huerniñ

 ad vier

ad vier elskum Jesum/ og epterfylgium hønum/ a þessum sijdustu Tijm-
um/ þad er Gude sialfū best kuñugast/ og er Sioon Søgu Lioosare. A/
Gud Naade/ Gud Naade/ Dæme nu huør med sialfum sier. Nuad tregt
komed er oss til þess/ ad fylgia Jesu vorum epter/ med þessum Neilogū
Kuiñum? Til huørs erum vier so Neñingarlauser/ sem ad ganga þang-
ad edur Ferdast/ sem Guds Ord er kient/ og Predikad er wt af Forþienu-
stuñe Herrans vors Jesu/ Pijnu hans og Dauda/ Vpprisu/ og Vppstign-
ing. Enn ecke voru Kuiñurnar so/ Bæde komu þær til Afstokustadarens/
a Fostudagiñ langa/ þa hañ var Pijndur/ og suo lijka til Grafareñar a
Paaskadags Morguniñ/ þa hann Vppreis. Ecke stendur þad helldur/
ad þær hafe þetta sier fyrer Omak taled/ Enn huad opt telium vier oss to-
lur/ þa vier eigum ad ganga til Guds Hwss/ og seigium/ Nu er kallt
Vedur/ nu er Stormur og Regn/ þad og þad geingur ad/ so ecke giet eg
j Dag fared til Kyrkiuñar. Mun þetta ecke vera satt? Munu ecke
marger so seigia/ og laata sig af Dioflenum/ fra Goodu hindrada verda?
Eñ lijted Elskumerke sijna þesser og þuilijker/ Endurlausnara sijnum Je-
su/ sem so giøra og tala/ Lijted giæta þeir ad þeim hørdu/ og hrædelegu
S. Paals Ordum/ sem þar standa/ 1. Cor. 16. Ad huør sem ecke elske
Drottiñ Jesum/ hañ skule vera Bølvadur. Laatum oss þui j Jesu Nafn
ne/ vmflyia þuilijka Bølvan/ so vier meigum faa ad hreppa þad/ sem
Kuiñunum veittest/ Þad er ad sia Jesum/ og heyra hañ vid oss tala/ Gle-
delegum Ordum/ so sem hañ talade vid þær.

Nuønær komu Kuiñurnar þa til Grafareñar? Þad seiger Gudspialla-
madуriñ/ Ad vered hafe/ þegar Þuottdaguriñ var vmlidiñ. Gydin-
ga Folk hafde þa Sidveniu/ ad þad hiellt sijna Paaska j heila sio Daga
samfleitt/ epter Befalningu sialfs Guds. Eñ af þessum sio Døgum var
mest hallded til þess fyrsta og sijdasta Dagsins/ þui þa var fyrerbodiñ oll
Vñia og Erfide/ Eñ a hinum fim̄ Døguñum sem þar a mille voru/
Leifdest ad þioona nockud. Þar fyrer eru nu Kuiñurnar kyrrar þañ fyr-
sta stoora Sabbathsdagiñ/ sem er a Laugardagiñ/ Enn a Suñndaginn
epter/ sem var annar Sabbatsdaguriñ/ þa hafa þær sig þegar j Býtijd/
wt til Grafareñar. Ja/ Þeim er so myked vmhugad/ ad forvitnast vm
Gre̦ena sijns Blessada Astvinar/ ad þær gieta ecke lagt sig fyrer/ eg

ecke kiemur þeim (kañskie) Dwt a Auga alla Nootkena/ Helldur eru þær ad tilbwa Smyrsliñ/ og þad Dyrlega Salve/ ad smyria Jesu Lykama mz. Allt þetta er Lofsvert/ j Fare þessara Kuiña. Fyrst þ/ Ad þær hallda Sabbathsdagiñ/ og eru heima/epter Guds Befalningu. Nof um þetta þa epter þm/ Og holldũ nu j Dag/ Vpprisu hatijdena Endurlausnarans vors/ Sem og allar adrar Hatijder/med sañre Gudrækne/og lætum þad vera Jdiu vora/eñ ecke añad/ad tala og þeinkia/vm þa Sigursælu Herrans Christi Vpprisu fra Daudum/og þacka honum af Hiarta þar fyrer.

Og miog sneña Morguns/eirn Þuottdagafia/komu þær til Grafareñar vm Soolar Vppruna. Ecke hefur þessum goodu Kuiñum fyrr vered fært/ad ganga wt til Grafareñar Herrans Christi/eñ þær ha þa þad giort/þui þo þær hefde fyrre wtgeinged/þa hefde þær (kañ skie) ecke ratad/eda kuñad ad fiña Grøfena/vegna Nættmyrkurs. Eñ siaum hier til/huørniñ Gud giører vel og Dasamlega vid þa/ sem sneña eru a ferle/ad leita hans/og giøra sijdan sijna Kallan.

Vier lesum/Ad þegar Hyrdararner j Bethlehem/geymdu og voktu yfer Hiardeñe siñe/ Luc. 2. Þa hafe þeim fyrst vered Bodadur sa Gledelege Bodskapur/ Ad Endurlausnare alls Mañkynsins være j Heimiñ fæddur. Eins skiedur þad hier/þar Kuiñur þessar eru vakande/og siña a felle/þa er þeim fyrst af øllum Bodadur/Vpprisu Fognudur iñ Herrans Christi. Lætum þar fyrer Sæler vorar ætijd vera vakande til Drottins/Psalm.63. Þui so seiger Spekiñ sialf/Eg elska þa sim mig elska/Og þeir sem ærla leita mijn/fiña mig/Ordsk. B.8. Cap.

Og þær søgdu sijn a mille/ Huør mun vellta fyrer oss Steinenum af Grafarmuñanum? Og sem þær litu þangad/sau þær ad Steinrañ var afvelltur. Hier skulum vier athuga þad/Ad þessum Kuiñum veittest meir eñ þær Oskudu/ Þær voru ad vandrædast alleina þar vm a Veigenum/huørn þær mundu fa til þess/ad vellta fyrer sig Steinenum af Grafarmuñanum/Enn þegar þær koma nær og nær/ þa sia þær ecke alleinasta/ad Steirniñ var burtvelltur/helldur og so þar med ad Strijdsmeñerner sem vakta ættu Grofena/eru aller j burtu/og Einglar Guds komner aptur j þeirra stad/Og þo þær fynde ecke þañ Framliona

lidna Lykamañ Christi j Grøfeñe/ þa fiña þær þo samt Christum sialf-
añ Lifanda a Veigenum j Heimreisuñe/ huad þeim var þusundfallt
Gledelegra. So fellur þad jafnañ til/ þegar þeir bidia Gud vm. no-
ckud/ ē elska Christum. Jacob Forfader oskade sier þess ad eins/ ad
hañ mætte fa ad sia Joseph Son siñ/ Eñ Gud veitte honum þad ad auk/
ad hañ fieck ad sia hañ j mykellre Tign j Egyptalande. Aña Sam-
uelis Mooder/ og Elizabeth/ Mooder Johañis Skÿrara/ Oskudu sier
þess af Gude/ ad þær mættu fa ad eiga Son/ eñ Gud bætte þui vid
Boon þeirra/ ad þær feingu ad eiga þuilyka Syne/ sem miøg vel
voru þecker Gude og Moñum. Maria Guds Mooder bad Gud þess
ad Heimsins Endurlausnare mætte fædast j Heimiñ/ þar vm vard hun
so Bænheyrd/ ad Guds Sonur kiøre hana sialfa sier til Moodur. Els-
skum þui Gud vorn/ sem meira vill giefa oss/ eñ vier kuñum ad oska.

Og þær geingu iñ j Grøfena/ og sau eitt Vngmeñe til Hægre
Handar sitianda/ sem hafde sijdt Klæde huijtt/ og þær urdu Otta-
slegnar. Margt hefur þessum goodu Kuiñum mætt til Hugar koma/
þegar þær sau Grøfena opna/ og ad Steiniñ var burtvelltur fra Graf-
armuñanum/ Þær hafa mætt so þeinkia/ ad Gydingar mundu enn nu ad-
nyu/ hafa af Hatre sijnu og Hreckvijse/ teked j burtu Lykamañ Christi, vr
Grøfeñe/ So ē merkia ma/ af Ordum Mariu Magdalenu/ sem sagde
til Christum/ Huor heñe syndest ad vera munde eirn Grasgardsmadur/
Herra (seiger hun) Sie suo þu hafer teked Lykamañ myns Herra j
burt/ þa vijsa mier huar þu hefur lagt hañ/ so eg meige sækia hañ? Jo-
hañ. 20. Eñ þo þær mætte vera fullvissar þar vm/ huert Christi Lyka-
me være j burt/ edur ecke/ þa hafa þær mod sier/ ad þær skule treista sialf-
um sier bezt/ og ganga þui iñ j Grøfena/ Eñ sem þær eru þar iñ komnar
fiña þær þar añad/ eñ þær ættu Von/ og epterleitudu. Þær ættu þar von
a Framlidnum Christi Lykama/ hañ fiña þær þar huorge/ eñ ē þær sia
sig betur vm/ lijta þar eitt Vngmeñe sitia hægrameigeñ j Grøfiñe. Matt-
heus seiger/ ad þetta Vngmeñe hafe vered Eingill Drottins/ huør ed vi-
ssulega hefur þess vegna synt sig j Mynd eins Vppvaxtar Mans/ ad þe-
ir heilegu Einglar. Eldast alldrei/ helldur eru ætijd j sama Asiktublome/
so sem Vnger Meñ plaga ad vera a sijnum Vppvaxtar Alldre.

Þar

Þar næst er oss hier athugande/ad Gudspiallameñerner seigia/Ad Eingelliñ sem Kuiñur þessar sáu j Grøfeñe Herrans Christi/ hafe vered sitiande/eñ ecke standande/edur fliugande. Huar med hañ áuijsar/ad oss sie fyrer Christum/ sem af Dauda er Vppriseñ/útvegud Huijld og Nægd/Sess og Sæte á Himnum. Þegar Endurlausnariñ vor fæddest/þa voru Einglarner ecke sitiande/helldur so sem j añare Strijds Fylkingu standande/so sem lesa má j Fædingar Historiuñe Christi/Eñ þa hañ Vpprijs/þa sijna þeir sig sitiande/ huar med þeir heilögu Andar áuijsa/ad þad Strijd sem var á millum Endurlausnara vors/og Diøfulsins/ sie nu úte og endad. Eingelliñ þesse/huors hier gietur/ hañ situr til hægre Handar j Grøfeñe/eñ ecke til vinstre/Huggande oss þar med/ad vier erum nu ordner fyrer Vpprisuna Christi fra Daudum/hægre Handar Born Guds/sem ádur vorum Harmkuæla Born/& Sorgar Born.

Þar næst vijsar Eingelliñ oss til/med þessare siñe Setu til hægre Handar j Grøfiñe/Huar vier eigum ad standa á efsta Deige/hia Doomara alls Hollds/sem er/Ecke til vinstre/helldur til hægre Sijdu/Matt. 25. Þetta er eirn Gledelegur Páska Fognudur.

J þridia lage seigia Gudspiallameñerner/ Ad Eingell þesse hafe vered skrijddur sijdu Klæde huijtu. Jesus Endurlausnare vor/ þa hañ birtest Johañe Gudspiallamañe/j Openber. B. 1. Cap. Og sagde/Jeg var Daudur/og siá/Eg life um Allder Allda/þa var hañ eins Klæddur og Eingell þesse. So munum vier og erñiñ sijdar meir j Eilijfu Lijfe/standa frame fyrer Lambsins Stoole/Jskrijdder huijtum Skrúda og Pálmavidur j vorum Höndum/hroosande án Aflaats/þeim Dijrmæta Vpprisu Sigrenum Drottins vors Jesu Christi/Þa er þad komed fram vid oss/sem Drottiñ hefur heited/öllū Jdrande og Trúudum Møñum/Ad þo vorar Synder sieu Raudar sem Blood/þa skulu þær Snioohuijtar verda/ Og þo þær sieu Raudar s Roos/ þa skulu þær verda sem Ull/ Esa. 1. Þa er heyrd Bæn Davids/þui þa hefur Gud so þueiged sijna Vtvalda/ j Bloode Lambsins/ ad þeir eru ordner huijtare eñ Snioor/ Psalm. 51. Æ/Lofadur sie Gud fyrer slijka Huggun.

Framvegis stendur so j Textanum/Og þær vrdu Ottaslegnar. Vier lesum j Genesis Book/ Ad þegar Joseph sende epter Brædrum

sijnum/og liet Ransaka þeirra Secke/og þar fundust Peningarner/sem giefner hofdu vered fyrer Korned/ og lyka vel Bikar edur Skaal Josephs/þa stendur þar/Ad Brædur hans hafe vered Ottaslegner/þeir vissu sig eckert Illt hafa giört/eñ væntu sier þo Dauda straffs. Eins foor þessum goodu Kuiñum/ þær þottust j goodre Meiningu hafa geinged wt/ad smyria Lijkamañ Christi/eñ fundu þad j Grofeñe/s þær attu ecke von a/eñ Lijkamañ Christi fiña þær þar ecke/ og verda þui Ottaslegnar.

Vt af þessum fyrra Partenum/skulum vier taka oss þad til Lærdooms og Nuggunar. Fyrst/Ad med þui/ad Kuiñurnar fundu Guds Eingla j Grofiñe Christi/þa eru Grafernar vorar eckert Diofla Bæle/Nelldur Eingla Borger/þar ed Guds Einglar taka vara a Molldum vorum og Beinum/ so eckert vort Bein brotne/Psalm.34.

Lærefader iñ Gregorius/reiknar vpp/epter Ritningareñar Avijsan/sex Eingla/ sem vered hafe bæde j Grofeñe/ og kringum Grofena Christi. Eirn þeirra er sa sem Marcus Gudspiallamadur getur hier j Textanum/ad seted hafe til hægre Handar j Grofeñe. Tueir eru þeir sem Maria Magdalena sa sitiande/añañ vid Hofdalaged/eñ añañ vid Footalaged j Grofeñe. Hiñ fiorde er sa/ sem Steinenñ vellte af Grafarmunanum/ & sat a honum. Hiñ fimte og siotte/eru þeir tueir Einglar/sem Kuiñurnar sau wte fyrer Grofeñe/ og spurdu þær ad/ þui þær leitudu hins Lifanda/ a medal Daudra. So hefur þa vered fullt wte og jnne/ af Guds Einglum/vid Grofena Endurlausnarans vors. Eins verda og so Einglar Guds a sijdañ/allt j kringum Lijkame vora/sem Jesum Drottiñ/þegar þeir liggia j Grofum sijnum/þui þeir vita/ad vier munum verda j ødru Lijfe sier lijket/þar fyrer elska þeir oss/ & skilia ecke vid oss/ huørke a medan vier lifum hier/ nie þa vier erum sofnader j burtu hiedan. Latum oss þar fyrer/ alldrei hafa Vidbiod a Grofum vorum/ nie nockra Christeña Maña/helldur Huggum oss vid þad/ad vier eigum ecke einsamler j Grofunum ad liggia/helldur verdur Eingla Skare Drottins þar hia oss/allt þangad til/þeir a þeim sijdasta Deige/leida oss iñ j Himnarijke/huar vier munum sia Gud Fødur/ og vorn Endurlausnara Jesum Christum/Auglite til Auglitis.

Annur

# Auñur Greiniñ.

NV kiemur ꝏ epter/ sa Gledelegaste Bodskapureñ/ vm Christi Sigursælu Vppriſu fra Daudum/ med einu Orde. Og Eingelliñ sagde til þeirra (seiger Textiñ) Ottest ecke/ þier leited ad Jesu af Nazareth/ sem Krossfestur var/ hañ er Vppriseñ/ og er ecke hier.

Þetta eru Gledeleg Ord/ sem Eingelliñ talar hier til Kueñaña/ þar hañ seiger/ Ottest ecke. Gud hefur j ondverdu skapad Eingla sijna gooda/ og j þeim sama Gooda hafa þeir æ tijd blifed og staded/ þui er þad eingiñ Furda/ þo þeir tale alldrei añad eñ gott/ sierdeilis og einkum/ vid þa sem leita ad Endurlausnara sijnum/ og vilia komast j þeirra Selskap/ so sem Kuiñur þessar girntust. Eñ Diøfulsins Einglar/ og Arar/ hafa añad Nætkalag og Atferd/ Þeir skielfa opt Mañeskiuna/ bæde med siñe Diøfullegre/ og Ogurlegre Asynd/ og morgu ødru moote/ Eñ sem þeir eru buner ad skielfa hana/ þa Hugga þeir hana alldrei aptur. Eñ ødruvijs fer (sem von er ꝏ) þeim blessudu og goodu Guds Einglum/ so sem sia ma af þessum Kuiñum/ Ottest Ecke/ seiger hañ/ og leggur til Ordsøkena seigiande. Þui þier leited ad Jesu af Nazareth/ sem Krossfestur var. Þad er sem hañ hefde so myked sagt og talad/ Eingiñ þarf sa ad ottast Jesu Dyrd/ nie Lioma hans heilogu Eingla/ sem ad Jesu leitar/ Nu leite þid ad honum/ þui þurfe þid ecke ad ottast hvort helldur þier siaed hañ eda mig. So er þetta eitt dyrt og Onvissande Vitnisburdur/ sem Eingelliñ ber Kuiñunum/ ad þær leita ad Jesu. Eñ hvad er þad ad leita ad Jesu? Þad er ad leita epter Guds Fødurs Vendanlegre Naad og Myskunseme/ epter Tijmanlegre og eilijfre Velferd/ epter Himnarijke og allre þeirre Glede/ sem Gud mun sijnum vtvoldum þar veita.

Lærum nu þar fyrer j Dag af Kuiñunum þessum/ ad leita ad Endurlausnaranum vorum Herranum Jesu Christo/ Eñ sie svo þier þike þu ecke so fliogt fiña hañ sem þu villt/ þa mundu þig/ og gief þu ecke vpp ad leita/ so framt sem þu villt hafa nockud gott af honum. Optar eñ einu siñe komu Kuiñurnar til Grafareñar/ ad leita epter sijnum Herra/ eñ so skiede/ ad hañ kom sialfur vm sijder j Leiternar ꝏ moote þeim/ og

 heilsade

Heilsade þeim so Vingiarnlega/ og ástudlega/ so sem̃ þa eirn goodur Brooder/Heilsar siñe Elskulegre Systur/edur so sem þa eirn Astkiær Brwdgume/heilsar siñe Hiartans Elskulegre Brwdur/Þa hefur þad fyr am̃komed vid þær/sem þar stendur j Lofkuæde Salomonis/Þu kysser mig med Kosse þyns Muñs/1. Cap. Eins verdur þad og so fyrer oss/ Ef vier þreytunst ecke ad leita Jesu vors/þa verdr þad vyst/ad hñ mū ecke sijdur koma á mote oss/eñ hñ kom á mote þessū Kuiñū/og þeim tueimur s geingu til Emaus. Og seigia/Vertu velkomiñ miñ Broder/& myn Syster/ Þu hefur leinge leitad myn. Nu gief eg þier alla myna Forþienustu/sem eg hefe afrekad j Pynu miñe/ Jeg gief þier allañ Avøxt miñar Vpprisu/ og sialfañ mig/suo þu skallt hiedan af vera miñ/ bæde á medañ þu lifer hier/og so lyka á Andlaatsstunduñe þiñe/og epter Lyfed/ eilyflega med mier lifa. Æ/ Sæler eru þeir/Jaa/Þusundsiñum/Þusundsiñū sæler eru þeir sem so leita epter synum Endurlausnara.

Nu kañ einhuor ad seigia/Christur er Vppstygiñ til Himens/hñ er nu ecke leingur hier á Jørduñe/eins og þa Kuiñurnar leitudu hñs/ huørniñ kañ eg hañ þa ad fiña/eda huar skal eg ad hm̃ leita? Fyrst miñ Broder og Syster/skalltu leita epter hønum/j hans heilaga Orde/ þar fiñur þu visselega einhuoria þa Grein fyrer þier/sem syner þier Jesum riett so sem hañ er/med allre siñe Naad og Forþienustu/ og ad hañ hafe bætt og borgad fyrer allar þynar Synder. 1. Joh. 2.

Þar næst skalltu leita ad hønum j Aflausueñe/ og Sacramentenu Alltaresins/ þar fiñur þu hañ so nalægañ/ ad þu medtekur þar vnder Braude og Vyne hans eiged Holld og Blood/huørt ad er eirn viss Pantur og Jnnsigle þar vppa/ad þu siert sañarlega Guds Barn/og Erfinge Himnarykis.

J þridia lage/ Vilier þu fiña Jesum þiñ/ þa leita þu ad hønum/ Dags Daglega j þynū Bænum/og bid þu Gud af Hiarta/ j Jesu Nafne/vm Naad og fyrergiefning allra þiña Synda. Sañarlega/sañarlega miñ Brooder og Syster/Ef þu leitar so ad þeim Krossfesta Jesu af Nazareth/þa vertu Okuydiñ og ottast ecke/þui þu hefur þa funded Naad hia Gude. Hañ er Vppriseñ og er ecke hier (seiger Eingelliñ) Æ/ þetta eru good og Gledeleg Tydende/Ad Jesus er vppriseñ fra Daud

um/og liggur nu ecke leingur Andvana j Grøfeñe/ Og til meira Merk
is og Stadfestu þar vm/þa syner hañ þeim Legstadiñ tomañ/ og Lyk-
blæuna sem epter var skiliñ. Mun Kuiñurnum hafa þetta rett skeeft?
Mun Eingillinn tala þetta med berum og liosum Ordum? Ja/ med
so berum Ordum talar hañ þad/ ad Dioffullinn kann ecke sialfur ad færa
þar Fingur vti. Jesus af Nazareth/sa sem var Kroßfestur/ epter hu-
ors Lykama þier leited/Hañ er Vppriseñ. Skilianleg eru Ordiñ/og
skilmerkeleg. Huad er þa orded af þui Orde Dioffulsins/ sem hañ sagde
vm Christum/og David ämiñest j Psalme sijnum/41. Ad þegar hañ fi
elle einu sinne(j Daudañ) þa munde hañ alldrei vpp aptur rijsa? Þad er
orded ad Lygum/og til Skamar og Smanar er þad orded/sem von er a.
Eñ skulum vier framar taka epter Ordum Eingelsins. Hañ er Vpp-
riseñ. Ecke seiger hañ/ad Endurlausnariñ vor sie af odrum vpprekst-
ur. Audsynande þar med/Ad Jesus er fyrer siñ eigiñ Guddoms Krapt/
af Dauda Vppriseñ. Vier lesum þad bæde vm Spæmeñena/ og
Postulana/ ad þeir hafe giefad vppvaked Meñ af Dauda/ Eñ einginn
þeirra gat sialfañ sig vppvaked fra Daudum/þad ætte Endurlausnare
Mañkynsins ad hafa fram yfer adra Menn.

Furdanlegt Dæme lesum vier/2. Kong. B. 13. Cap. Ad þa eitt Fr
amliden Madur var grafiñ j Grøf Elisei Spæmans/ og hañ kom vid
Bein Spæmañsins/þa lifnade sa hiñ Daude aptur/eñ kyrr lau þo Be
in Spæmañsins. Eñ huor er so sem Endurlausnare vor/ huer ed ecke
ad eins Lyfgar adra/helldur og so sialfañ sig? Og þess vegna kallar S.
Päll hañ Frumgrooda þeirra Daudu/1. Cor. 15. J Hebreska Textan
um stendur/ad Eingilliñ hafe sagt/ Sioed þañ Stad/ huar þeir logdu
Herrañ vorn/ydar og miñ. Þetta er ecke lijtel Huggun/Ad Einglarner
taka sig saman vid oss/aumar og syndugar Mañeskiur/Og þar sem vi-
er vorum ædur Dioflum lijker/ þar erum vier nu fyrer Jesu Sigursælu
Vpprisu ordner Einglū lijker/j þañ mata/ ad vier eigum sama Herra o
Nimaum sem þeir.

Framveigis stendur so j Textanum. Fared og seiged Læresueinum
hans og Petre. Hues adrer Gudspiallameñerner koma hier nockru edru
vijs ad Orde/og seigia/Seiged Brædrum hans og Petre/ad hañ muñe

ganga fyrer ydur j Galilæam/ et cet. Hier lætur nu Herrañ vor Jesus Christur/oss kallast sijna Brædur/ huad oss er ein Hiartanleg Huggun. Christur var ad søñu Brooder vor/allra fyrst/j Fædinguñe siñe/Enn a medañ hann var j siñe Nidurlægingu j þessu Lijfe/og hañ hafde ecke enn nu yfersfaded Kuøl sijna og Dauda/þa kallar hañ sig ecke Broodur vorn/ Eñ strax ad þessum Sigre vñum/og hañ er fra Dauda vpp aptur risiñ/ þa kallar hañ oss Brædur/hañ þikest þa noog Raad hafa feinged til þess ad veita oss Broodurlegañ Giørning. Joseph/a medañ hañ var j Myrkuastofuñe j Egyptalande/Openberade hañ þad ecke hinum ødrum Jacobs Sonum/ ad hañ være Brooder þeirra/ Eñ sem hañ var j burt vr Myrkuastofuñe/og settur til þess mykla Heidurs og Herradooms/ad rada yfer øllu Landenu/Sia/þa hid fyrsta liet hañ sig j Liose/og sagdest vera Brooder þeirra/og þad var þeim længtum Huggunarsamara/þui þeir saau þa/ ad þeir munde þar myked og gott af hliota.

Seiged Brædrum hans og Petre(seiger Eingelliñ). Hier kañ einhuør ad spyria. Huørniñ kiemur þad til/ ad Eingelliñ kallar alla hina Læresueinana Brædur Jesu/vtan Petur eiñ/hañ kallar hañ sijnu rietttu Nafne? Kañskie Herrañ hafe ecke viliad virda hañ þessa Æruttitils/ ad læta hañ kallast Broodur siñ? Nei/ecke so/helldur af þui/ad Petur hafde meira syndgad/eñ hiner adrer Læresueinarner/j þui/ad yfergiefa Christum/og afneyta hønum sijdañ med Eyde/þa verdur hañ hier a Nafn nefndur/ so hañ mætte vita/og Hugga sig þar vid/ ad þott hañ hefde einusiñe falled/og gleymt Nafnenu Jesu/þa hefde þo ecke Jesus gleymt hans Nafne. Þar f. miñ Brooder og Syster/Hafer þu Afneytad þijnum Herra Jesu Christo/med S. Petre/ j þui/ ad drygia þa og þa Synd/Hafer þu lifad j Ofaate og Ofdryckiu/j Munadarlijfe og Lostasemе/j Sualle og Saurlijfe/j Vndaᵹerle og Lygum/Ja/Huor helldst Synd sem þad vera kañ/þu fiñur þig sekañ j/ Þa giør þu so sem S. Petur giørde/Gack þu vt/og græt beyskleg a/þessar og allar adrar þijnar Synder/og bid þu Gud vm Fyrergiefning a þeim/so mun hñ ecke gleyma þijnu Nafne ad eilijfu.

Nu vilium vier framveigis skoda/ huørt Gagn og Nytseme vier høfum af Jesu Christi Vpprisu fra Daudum. Otelianlega margar Nytsemder

fender høfum vier þar af/ Eñ ein er þesse a medal añara/ ad vier hefum
fulla og alla von Dyrdlegrar Vpprisu fra Daudum/ a Dooms Deige/
f Jesu Sigursælu Vpprisu. Sö er nu þa þesse Bodskapur Eingel
sins/ad Jesus af Nazareth/sem var Krossfestur/hañ sie Vppriseñ/Hañ
er ad Reikna j allre vorre Trwarjatningu/ so sem eirn Gimsteirn j ein-
um Gullhring/og eitt Edla Nyste j eirnre Gullfeste/þui hañ er Dyrn æt
astur af øllum Trwargreinum vorum/ og allar adrar vorar Trwargrein-
er eru vppa hañ Grundvalladar/ so sem þar stendur/ 1.Cor.15. Enn
ef ad Christur er ecke vpp aptur riseñ/ þa er vor Predikun Onyt/ þa er
og ydar Trw Onyt. Eñ vier findunst þa eirniñ Liugvottar Guds/med
þui vier høfum vitnad j giegn Gude/ þad hañ hefde Christum vppvak-
ed/huørn hañ hefde ecke vppvaked. Item/j sama Capitula/ litlu sydar.
Eñ ef Christur er ecke vpp aptur riseñ/þa er ydar Trw Onyt/ so eru þi-
er þa eñ j ydrum Syndum/ þa eru og hiner sem Sofnader eru/ fortapad-
er. Ecke rydur lyted a þessum Trwar Articula/ þui veikest hañ/ þa er
allt Evangelium Onytt/og øll Trw Guds Barna/ og allt añad sem oss
er ar oz Dag Predikad/ vt af Guds Naad/være þa Lyge/þa være ongrar
Fyrergiefningar Syndaña ad vænta hier j heime/ ꝛ ongrar Saluhialpar
være þa ad vænta neinu Mans Barne j ødrum Heime. Eñ Lofadur
sie Gud/ sem hefur ecke ad eins/ låted sinn Son Deya vorra vegna/ hel
dur og so/ vpp aptur rysa/ oss til Riettlætis og Saluhialpar. Og
skal þad so stuttlega sagt vera/ vt af þessu Heilaga Evangelio. Pe-
im eilyfa Dyrdareñar Konunge/og Daudans Sigrara/vorum Hiarkans
Herra Jesu Christo/ Asamt med Fødurnum/ og Heilegum Anda/ sie
Eilyft Lof og Dyrd/ Heidur og Vegsemd/af øllum Tungum/Eingla
og Maña/ sogd og Sungiñ/Nu hiedann j fra/og ad Eilyfu/
Amen/ A M E N.

# A Annañ Dag Paaska.

Evangelium/ Luc. 24.



G ſkœ/ Ad tveir af þeim geingu a þann ſama Dag/ til nockurs Kauptwns/ þad ed var fra Jeruſalem ſextige Skeidarwm/ ad Nafne Emaus. Og þeir voru ad tala um alla þa Hlute ſijn a millum/ ſem vid hoͤfdu bored. Og þad ſkiede/ þa þeir Rœdduſt vid/ z ſpurduſt a ſijn j millum/ ad ſialfur Jeſus nalœgdeſt þa/ og gieck jafnfram þeim. Enn þeirra Augu voru ſuo halldinn/ ad þeir þecktu hann eige. Og hann ſagde til þeirra. Hvad er þad fyrer Rœdu ſem þid hoͤndled yckar a mille reikande/ og erud hryggver þar af? Þa ſuarade eirn/ er Cleophas var ad Nafne/ og ſagde til hans. Ertu alleina ſo Okiendur til Jeruſalem/ ad þu veiſt eige/ hvad a þeſſum Doͤgum þar inne gioͤrſt hefur? Enn hann ſagde til þeirra. Hvad er þ? Þeir ſoͤgdu til hans/ þad/ af Jeſu hinum Nadverſka/ hvoͤr ed var Spamanns madur/ Mattugur j Verkum z Ordum/ þ Gude og oͤllu Folke. Og hvoͤrnin ad vorer Hoͤfud Preſtar og Hoͤfdingiar/ ſelldu hn̄ j Fyrerdæming Daudans/ og Krosſfeſtu hn̄. Enn vier vonudum ad hann munde Endurleyſa Iſrael. Og yfer allt þetta er nu hinn þridie Dagur j Dag/ er þetta ſkiede. So og hafa ſkielft oſſ nockrar Kvinnur af oſſ til/ þær ed fyrer Lyſingena hoͤfdu hia Groͤfenne vered/ og fundu ecke hans Lijkama/ komu/ z ſoͤgdu ſig hafa ſied Englana Sioner/ þeir ed ſoͤgdu hann lifa. Og nockrer wt af oſſ geingu til Grafarennar/ og fundu eins lijka ſem Konurnar hoͤfdu ſagt/ enn hann fundu þeir ecke. Og hann ſagde til þeirra./ O/ þier Heimſker og treger j Hiarta/ ad trwa þui oͤllu ſ Spamennerner hafa talad. Hlaut Chriſtur ecke þetta ad lijda/ og inngange ſo j ſijna Dyrd? Og hann took til fra Moyſe/ og oͤllum Spamoͤnnum/ og lagde wt fyrer þeim allar Ritningar/ þær ed af honum voru. Og þeir tooku ad nalgaſt Kauptwned þad þeir geingu til/ Og hann liet þa ſem villde hann leingra ganga/ þeir neyddu hann og ſoͤgdu. Ver þu hia oſſ Herra/ þuiad Kvoͤllda tekur/ og a Dagenn lijdur. Hann gieck þa inn og var hia þeim. Og þad ſkiede/ þa hann

ſat med

ſat med þeim til Bords/ad hañ took Brauded /Bleſſade þad og braut/og rette ad þeim/ Þa opnuduſt þeirra Augu/ſo ad þeir þecktu hñ/Og hñ huarf fra þeirra Augum. Og þeir ſøgdu ſijn a mille. Brañ ecke ockar Hiarta j ockur/ þa hñ talade vid ock a Veigenū/ og opnade ꝑ ockur Ritningarnar? Og þeir ſtoodu vpp a ſomu ſtund/ og ſneru aptur til Jeruſalem/ ꝛ fundu þa ellefu ſamañſafnada/ ꝛ þa ſ med þeim voru. Huørier ed ſøgdu/ Drottiñ er ſañarlega vpp riſeñ/ og hefur byrſt Simone. Og þeir ſøgdu huad giørſt hefde a Veigenū/ ꝛ huørniñ þeir hefdu þeckt hñ j þui hñ braut Brauded.

## Exordium.

HAD er mykel og epterfakanleg Hiſtoria(a medal añara j þui Gamla Teſtamentenu) ſem Gud Drottiñ Allsheriar hefur laated vppſkrifa/vm Joſeph j Egyptalande/ Huør Hiſtoria þo ad oſſ meige nooglega kuñug vera/þui hun kiemur ſo vijda fram/ þa ſkulum vier þo ecke laata oſſ leidaſt ad heyra hana vpp aptur. Vær høfum heyrt vm Joſeph/ad hañ hafe vered ſelldur af ſijnum Bræ-drum j Egyptaland/og þar ſettur vered j Faangelſe/Ecke fyrer Odygd/ helldur fyrer holla og trwa Þienuſtu. Eins giørdu og Gydingar vid Chriſtum/fyrer allar þær goodar Kieñingar og Daaſemdarverk/ſem hañ giørde hia þeim/ Þa fieck hañ ecke añad til Launa eñ Faangelſe/ og ad-rar Hraadungar. Joſeph vard ad vera vm þriu aar j Myrſtuaſtofu/ So hlaut og eirniñ vor Endurlauſnare/ſo hñ fullkomnade vort Endurlauſnarverk/ ad vera þria Daga/ og þriaar Nætur j Filſnum Jardar. Vier leſū eñ framar j Geneſis Bok/Ad Joſeph hafe jñañ þriggia aara/ vr Fangelſe ꝛ Myrkuaſtofu vtleiddur vered/epter Kong Pharaonis Bef-alingu/og ſkipan/Og ſydañ ſettur til Hofdingia Egyptalands/næſt ſial-fum Kongenum. Sama Tign og Vra(þo med ødrum hætte)fiell vo-rum Bleſſada Endurlauſnara til/ og þeſſum Joſeph/Þui þa hañ haf-de leiged j Grofeñe þria Daga og þriaar Nætur/ ſuo ſem Joſeph ad Taratøluñe j Faangelſenu/Þa vppreis hañ med Dyrdlegum Sigre/Klæd



dur

dur Kiettlætesins/ og Odaudlegleikans Skrwda. Eñ ef vier framm veigis skodum Historiu Josephs/ Þa finum vier j heñe/ huorniñ Þad/ hñ hafe høndlad vid Bræddur sijna/ Þa Þeir til hans komu/ sem er/ Ad hann liet Þa ecke Þeckia sig/ talade hardlega til Þeirra/ og kallade Þa Niosnar meñ. Eins giorde og eirniñ vor liufe Lausnare Jesus/ vid Þessa tuo sijna Læresueina/ sem til Emaus geingu/ Hañ liet Þa j fyrstu ecke Þeckia sig/ helldur sette framm fyrer Þa skarpa Løgmaals Predikun/ vid huoria Þeir so viknudu/ og komust vid j sijnu Hiarta/ ad Þeir vm sijder Þeckia hañ j Giesta Herbergenu/ mootlijka og Jacobs Syner/ Þecktu Joseph Broodur siñ ad lokum/ epter Þad/ hañ hafde reint Þa j margañ maata. Hier vm skuluñ vier nu faa ad heyra nockud framar talad/ m. Hialp Drottins/ j einfalldre Vtleggingu Gudspialsins. Eñ med Þui/ ad Þetta Heilaga Evangelium/ er miøg Lærdoms rijkt/ og Þar med j sialfu sier næsta laungt yferferdar/ Þa vilium vier ad Þessu siñe/ alleinasta taka oss tuent fyrer Hendur/ vt af Þui/ ad skoda og yfervega hid allra stuttlegosta.

Þad fyrra skal vera vm Reisu Þessara tueggia Herrans Christi Læresueina til Emaus/ og huad a Þessare Þeirra Reisu hafe vidbored.

Þad añad/ huad skied hafe/ Þa Þeir voru j Herbergenu til Emaus/ med Þui i fleyra sem Þar ad hnijgur.

Sa eilijfe Dyrdareñar Kongur/ vor Drottiñ Jesus Christus/ virdest ad nalægiast oss med siñe Naad/ so sem hñ nalægdest hier Þessa tuo Læresueina/ So ad Þesse vor Jdia mætte verda hans allra heilagasta Nafne til Lofs og Dyrdar/ Eñ oss sialfum til Saalargagns og Gooda/ Amen/ J Jesu Nafne/ Amen.

## Vm Þad fyrra.

OG Sia (seigia Gudspiallameñerner) Ad tueir af Þeim geingu Þañ sama Dag/ til nockurs Kauptwns/ Þad ed var fra Jerusalem sextijge Skeidarwm/ Ad Nafne Emaus. Þesser tueir/ huerra hier verdur gieted/ skulum vier vita/ ad vered hafa af Tølu Þeirra sio tiju Herrans Christi Læresueina/ vm huoria talad verdur hia Lucam/ 10. Cap. Añar Þeirra nefnest Cleophas/ sem vered skal hafa Brooder Josephs/ Foostur Fødurs Christi. Eñ añar meina sumer/ ad vered mune

hafa

hafa Lucas Gudſpiallamadur. Þeſſer bæder Læreſueinar Herrans Chri-
ſti/voru næſta miog angrader/og Sorgbitner/ vt af Pijnu og Dauda
ſijns Herra og Lavards/Taka ſig þui afſijdis j burt fra odrum/ſo þeir
kuñe ad fordrijfa Tijdena/og ſijna Sorgar þanka.

Nier af hofum vier þañ Lærdoom/Ad nær ſem hellſt oſſ ber nockud
til Angurs og Sturlunar/þa ſkulū vier fordaſt ad vera einſamler/helld
ur taka oſſ einhuorn froman og godañ Stallbroodur/til ad vera hia oſſ/
og telia vm fyrer oſſ/Þuiad eirn trwr Vinur er orugg Vernd/Huer hñ
hefur/ſa hefur myken Fieſiood. Trwr Vinur kañ ecke med nockru Go-
tze edá Giallde betaladur ad verda/ſa ed ottaſt Gud/ fær ſoddan Vin/
ſeiger hiñ vijſe Syrach 6. Cap.

Þad hier verdur ecke gieted vtañ añars Herrans Chriſti Læreſueins
med Nafne/ſem var Cleophas. Þa hafa aller gooder og Gudhrædder
Forelldrar ſier þar af ad taka/eina ægiæta Huggun/ſem er þeſſe/ Ad ef
ſo kañ til ad falla/ ad þeir miſſe ſijnar Barnakyndur fra ſier/ ædur enn
þau kuña ad odlaſt Nafn/ j þeirre heilogu Vatns Skijrn/ þa ſkulu þeir
þo ſamt hugga ſig þar vid/ ad þeim er þar fyrer ecke gleymt af Gude/
helldur eru þeirra Nofn vppſkrifud a Himnum j Lijfs Bookena/ſo ſem
Poſtuliñ Paall ad Orde kiemſt/j Piſtlenum til Pilipp. 4. Cap.

Tijmiñ/a huorium ad þeſſer tueir/tooku ſier þeſſa Reiſu fyrer Hend-
ur/var a ſialfañ Paaſkadagiñ/þa Drottiñ vor Jeſus Chriſtus/Vppreis
med Dyrdlegum Sigre fra Dauda/ og þad þo ecke fyrre eñ epter Mid-
deige/edur a mote Kuollde/epter þad/ad Guds Þionuſtugiord var ræke
og endud.

Huar af vier hofum oſſ þad til Lærdooms ad taka/Ad ef vier vilium
vppbyria nockud a helgum Dogum/Þa gaungum fyrſt j Guds Hws/&
hlijdū Guds Orde/ og ſiaum vppa þa H. Þionuſtugiord/Þui ſo ſem þ
ad Saaliñ er meira verd eñ Lijkamiñ/ So ſkulum vier og ſuo/ yfer alla
Hlute fram/forſorga fyrſt Saalena vora/ og fæda hana med Guds Or-
de. Vier ſiaum hier og eirniñ/ þar Herrañ Chriſtur kiemur a ſama
Deige og hañ Vppreis/til þeſſara ſiña Læreſueina/huad Hiartanlega hñ
latur ſier vmhugad vera vm allar Angradar/Sorgfullar og Efablandnar
Mañeſkiur/ſem er/ad hañ vill ecke leinge tefia/helldur ad hañ kome þeim

 til Hialpar

til Hialpar/og Hugge þær med sijnu heilaga Orde/og Nædar Fyrerheitum/epter þui sem þar stendur/hia Esaiam/ 66. Cap. Eg vil ælijta þañ Fatæka/og þañ sem hefur sundurknosadañ Anda/ og hrædest mijn Ord.

Þar næst er hier athugande/huadan ad þesser tueir Herrans Læresueinar hafe geinged/sem er/vt af þui Mordingia bæle Jerusalem/Huar ijns þeir villdu ecke leingur stadnæmast. Vier eigum og einniñ ad taka oss fra jllra og Oguðlegra Maña Selskap/so framt sem vier vilium/ ad Christur skule nælægiast oss/ þuiad Veralldareñar Vinfeinge er Guds Ovinskapur/seiger Postuliñ Jacob/4. Cap. Sieum til/Ef eitt gott Eple liggur nærre ødru/þui sem roted og fued er/ þa kañ þad ecke añars vera/eñ þad spillest af þui/og fordiarfest. Sie so/ ad Lambed sie j nænd vid Vlfiñ/ huørniñ mæ þad þa vera Vgglaust vm sig. Ligge Halmur eda Hør nærre Elldenum/þa er þui huørutueggiu hætt vid ad breñast. Eins er þui vared fyrer þeim goodu og frómu/sie so ad þeir giefe sig j Selskap med jllum og Oguðlegum Skælkum/þa kuña þeir suarlega ad falla j Sid med þeim.

J þridia lage verdur hier j Gudspiallenu gieted Stadarens/sem þeir geingu til/Huer ed var Emaus. Huad ad þijdest so myked/sem eitt fast og Rambyggelegt Slot/til huøs ad Meñ meiga flya/þa Neyd og Þrengingar ad Høndum koma. Vær skulum og so taka oss Reisu æ Hendur/og ganga til Emæus/ þad er/ Nær sem hellst ad vier erum stadder j nockurskonar Raunum/so vier vitum ecke/huad vier skulum giøra/og til Ræds taka/so sem Kong Josaphath sagde/2. Paral. 20. Þa skulum vier flya til þessa sæta Nafnsins Jesu/þad er þad allra sterkosta og fastasta Sloted/þangad flyr sa Riettlæte/& verdur frelsadur/Ordsk. Bok. 18. Cap.

Þad fiorda/sem oss er athugande/þa er þad/ huad þesser tueir Læresueinar hafe haft sier til Skiemtunar/æ þessare siñe Vegferdar Reisu/ Gudspiallamaduriñ seiger/ Ad þeir hafe vered ad tala sijn æ mille/ vm alla þa Hlute sem vid hofdu bored/Þad er/huerniñ þad/ad Herrañ Christur hafe vered tekiñ j Grasgardenum/ Bundiñ/ hrakiñ og hrædur/ Hnædstrijktur/Þyrnekrijndur/Krossfestur/og ad sijdustu j Krossena lagdur/

Þeim

Þetta allt var nu Samtals efned þessara tueggia Reisumaña/ huorra Dæme vier ættum ætijd epter ad fylgia/þui þad er ecke noog/ad vier he yrum ad eins Guds Ord/kient og Predikad/ Helldur eigum vier og eirn= inn ad hafa gott Samtal vor a millum/ og læta Rædu vora vera vm Jesum/og hans blessada Velgiorninga/sem hañ hefur oss audsynt þad er/Vier eigum Daglega ad Ransaka Ritningarnar/so sem ad gierdu þeir Edalbornu Meñ til Berhoen/j Postulaña Giern.17. Cap. Þuiad sæll er sa Madur/sem hefur sijna Lyst j Logmaale Drottins/ og talar vm þad Daga og Nætur/ seiger hiñ heilage David/ Psalm.1. Eñ huormiñ ad þetta tilgange/ þad er Gude sialfum best kuñugast. Þar fiñast vel þeir/sem læfast ganga med þessum tueimur Christi Lærisueinum til Emaus/og tala vm Jesu Pijnu og Dauda/ eñ er þo ecke vtan Hræfnistal og Muñfilapur. Kañ vel vera/ad sumum sie kamora ad læta af sier heyra skamarleg Ord/Fyfilslegt Hial/og Kieskne/huad ecke hæfer/Eph. 5. Cap. O Gud giæfe ad þesse Odygd fiindest ecke hia oss/sem Christner eigum ad heita/Eñ þui er midur/ad añad vill reinast j Dagfare og Vmgeingne margra. Þui so s þad/ ad Meñ kuña ad þeckia eitt Trie huort þad er gott eda jllt/þa þeir sia þess Avoxt/ So kuña Meñ og so af Maalenu ad merkia/huormiñ Hiarta Mañsins er vared/seiger sa vijse Syrach. 27. Cap. Þuiad eirn Gudhræddur Madur talar ævallt þad sem heilnæmt er/ Eñ Fauijsra Muñur spyr eirnresamañ Heimskuñe/stendur þar j Ordsk.B. 15. Cap.

Nu sem þesser tueir Herrans Christi Lærisueinar voru sem mest og best j Rædu til sa nans/og toludu ecke añad eñ vm Jesum/ hans Forþienustu/ Pijnu og Dauda/ Þa seiger Gudspiallamadurin/ Ad hañ sialfur Blessadur hafe nælægst þa/ og geinged jafnfram þeim. Þetta eru mi Laumiñ sem þeir fa/sem optlega þeinkia til sijns Endurlausnara/ og læta sijna Rædu vera vm hañ. Vier siaum hier og eirniñ Guds Sonar Elsku/Goodgirnd og Myskun/sem hañ hefur til allra Fatækra Saudakynda siña/eñ þo einkanlega til þeirra/sem Efablaudner eru/ vm sijna Velferd og Saaluhialp. Þesser tueir hofdu teked sig j burtu/ vr Selskap Postulaña/og añara Heilagra Maña til Jerusalem/ fyrer þañ skulld/ad þeir meintu/ ad þar munde nu eingiñ Von framar til vera/ad

 Þetta

þeir kyñe ad ødlast Sæluhialpena fyrer Christum/ so sem ræda ma af þe-
irra samtals/ sem sijdar stendur j Textanum/ þar þeir seigia/ Ad þeir ha-
fe vonad/ ad hañ munde Endurleysa Jsrael. Eñ sem þesse hrædelega
Freisting striider sem mest a þa/ sia/ þa kiemur sialfur Jesus þeim til
Hialpar/ og geingur med þeim. Sama giører hañ eñ nu j Dag/
vid allar Angradar og sturladar Mañeskiur/ Hañ er sa goode Hirderiñ/
sem ecke lijdur/ ad sijnar Saudaskiepnur skule til leingdar villt fara/
fra Hiordeñe/ helldur yfergiefur hañ þa nyu og nijutiju Saudena j Eyd-
demorku/ og fer epter þeim sem Glatadest/ þangad til hañ fiñur hañ/ Luc.
15. C. Og er þetta ein Hiartanleg Huggun/ fyrer allar Freistadar
Mañeskiur.

Auñur Huggun sem oss stendur af Christi Fylgd og Samreisu/ med
þessum sijnum Læresueinum/ þa er su/ Ad aller þeir sem byria Reisu si-
na/ j goodum Guds Otta/ eru ecke Fylgdarlauser/ helldur reyser sialfur
Drottiñ Jesus med þeim. Huad Hiartanlega gladur ad sa Unge
Tobias hafe orded/ þa hañ fieck þañ Fylgiara med sier/ sem lofade ad
reysa med hønū til Rages j Meden/ eñ visse þo samt ecke ad þad var Ein-
gell Drottins/ þad ma sia af Tobia Bookar/ 5. Cap. Eñ þusunde
siñum gladare meigum vier Christner Meñ vera/ þui vier hofum ecke ad
eins eirn skapadañ Eingel j Fylgd og Førunevte med oss/ helldur sialfañ
Guds Eingietiñ Son/ eñ huar hellst Sonuriñ er/ þar er og eirneñ Fad-
eriñ/ epter þui sem sialfur Jesus seiger/ hia Johañem 10. Cap. Enn
huar Faderiñ og Sonuriñ þeir eru/ þar er og sa goode heilage Ande/
þui hañ framgeingur af Fødur og Syne. Huar Heilagur Ande er/ þar
er og oll heiløg Guddomsins Þreñing/ Eñ huar hellst su heilaga Gud-
doomsins Þreñing er/ þar eru og so Guds heilager Einglar. Oh He-
rra Gud kome til/ Huad Dyrdlegur Selskapur og Lystelegt Samkvæme
er þetta/ þuiad/ Ef Gud er med oss/ j oss/ og hia oss/ huer kañ þa ad
vera a mote oss/ seiger Postuliñ/ Paall/ Rom. 8. Sæler og Blessad-
er erum vier þar fyrer/ sem eigum þuilijka Fylgiara.

Framveigis stendur so j Textanum/ Ad þessara tuegia Læresueina
Augu hafe vered so halldiñ/ ad þeir hafe ecke þeckt Jesum. Ordsok-
ena huar fyrer þeir þecktu hñ ecke/ leggur Marcus Gudspiallamadur til

16. Cap. seigiande/ Ad Herrañ hafe openberad þeim sig j añarlegre
Lyking. Eins giorde hñ og suo vid Mariu/ þa hañ kom a moote
heñe/ þar hun gieck fra Grøfeñe/ þa visse hun ecke betur/enn þad være
Urtagards Maduriñ/sem hun mætte/og vid hana talade. Og vill-
de vor Drottiñ Jesus Christus uppfylla hier med Figuru þess Gamla
Testamentesins/Þui lijka so sem þad/ad Moyses Guds Madur/ þa hañ
villde tala vid Israels Folk Fordum/ liet hañ Skylu fyrer syna Asio-
nu/Exo. 34. Eins giørde og so vor Blessade Endurlausnare/þa hñ
villde tala vid Læresueinana a Veigenū/hulde hñ Vegsemd syns For-
klaarada Lijkama/under Asynd eins Framande og Vegfarande Mans.
Huad tydt og opt skeidur þ eñ nu j Dag/Ad þo Jesus sie hia Børnum
synum/þa meina þau þo/ad hañ sie sier ecke nalægur/vegna þess hann
syner sig þeim j framande Mynd.

Dæme hier uppa høfum vier a þeim Guds Mañe David/ þui þa
Herrañ byrdge ad nockru leite sitt Naadar Andlit fyrer honum/þa klagade
hñ saargrætelega þar yfer/ og sagde. Mun þa Drottiñ eilijflega fordiæ-
rfa/ og öngua Lijkn nu leingur audsyna/ Psalm. 77. Eins þotte og
so Postulanum Paale/Ad Christur være sier ecke nalægur/þa Andskot-
añ sloo hañ med Knefum/ eñ þad var þo ecke/þui Herrañ sagde til ha-
ns/Laattu þier nægia mijna Naad/þui miñ Kraptur er j breyskum Ma-
ttugur/2.Cor. 12. Þar fyrer/nær soddañ Freistingar koma oss ad Hond-
um/þa laatum oss/hugga oss vid Ord Spamañsins Davids/þar hañ sei-
ger/ Drottiñ er øllum nalægur/ þeim hañ akalla/ Ja/øllum þeim sem
hañ med Alvøru Akalla/Psalm.145.

Framveigis seiger Gudspiallamadurinn/ Ad Jesus hafe talad til
þessara tueggia Læresueina/og sagt. Huad er þ fyrer Rædu/ sem þid
høndled yckar a mille reikande/ og erud hrygguer þar af? Ecke
spyr Herrañ þa hier ad/fyrer þañ skulld/ad hañ visse ecke vel/ huar um
þeir voru ad tala/þui hañ er Alvitur/og veit huad j Mañenum er/Jo-
hañ.2. Helldur uppa þad/ad þeir liete sialfer j lioose/huad þeim bio
j Hiarta.

Hier kuñum vier nu ad sia/Elsku og Hiartalag/ vors sæta Endur-
lausnara Jesu Christi/sem hañ hefur til allra Syndugra Maña/ Eñ

einkanlega og sierdeilis/ til þeirra sem Angrader og sturlader eru/ sem er/
Ad hañ kieñer j Brioste vm þa. So kiende hañ j Brioste vm þa au-
mu og Sorgbitnu Eckiu j Naim/ Og Mariu Syster Lazari/ þa hun og
adrer heñar viner grietu yfer hñs Lyke/ þa stendur þar/ ad hñ hafe Angrast
þunglega/ og Tarfellt sialfur/ Joh. 11. Lofadur sie nu þar fyrer Lif-
ande Gud/ sem hefur giefed oss þuilykañ Byskup/ sem Sampyning kañ
ad hafa med vorum Breyskleika/ Heb. 5.

Nu sem Herrañ Christur leitast einvirdelega epter vid þa/ huør ad sie
Ordsøk til þeirra Angurs/ þa ansar honum añar þeirra/ sem var Cleo-
phas/ og seiger. Ertu alleina so Okiendur til Jerusalem/ ad þu vee-
itst ecke/ huad ꝏ þessum Dogum þar sie giorst hefur? Sem villde
hañ so sagt hafa/ Huada Mañe ertu/ ad þu veist ecke þad/ sem huørin
Mans Barne er kuñugt j Jerusalem? sem er þad/ Af Jesu hinum
Nadverska/ Huør ed var Spadoms Madur mykell/ Mattugur j
Verkum og Ordum/ fyrer Gude og ollu Folke/ Og huørnin ad vor-
er Hofudprestar z Hofdingiar/ selldu hñ j Fyrerdæming Daudans
og Krossfestu hañ/ etc. Hier lætur nu Cleophas j Lioose/ Huør ad
sie Ordsøk siñar Hrygdar/ sem er vm Jesum/ huørnin þad/ ad hañ hafe ve-
red vtleikin og jlla med farin. Hañ giefur Herranum Christo hier z
so vnder eins/ þañ Vitnisburd/ ad hañ hafe vered Spamadur mykell/
Þad seiger hañ satt/ þui hañ var sa/ vm huørn þar stendur skrifad/ Deut.
Book. 18. Eirn Spamañ mun Drottin Gud vppvekia þeim/ vt af
þeirra Brædrum/ lyka sem þu ert. Þar næst jatar hañ hier vm Ch-
ristum/ Ad hañ sie Mattugur j Verkum og Ordum. Þetta er og eirn-
in satt/ þui sañarlega matte þad seigiast vm Jesum/ ad hañ være j Ve-
rkunum Mattugur/ þa hañ gieck vm kring/ giørde gott/ og Grædde alla
þa/ sem af Diøflenum voru vnderþryckter. J Ordunum var hañ
og eirnin Mattugur/ þuiad hañ Predikade Volldugl ega/ og ei suo sem
þeir Skriptlærdu/ Matt 7. Ja/ Sialfer Þienarar Phariseaña/ urdu
ad jata og medkieña þad vm hañ/ ad alldrei hefde Madur so talad sem
hañ/ Joh. 7. Cap.

Hier af lærum vier þad/ Ad tala alldrei añad eñ þad sem gott og fr-
oomlegt er/ vm Framlidna Meñ/ og adra vti fra/ þa þeir heyra ecke til.

af Folkenu medur mier. Eñ so vier mættum komast ad riettre Meiningu &
skilninge þessara Herrans Christi Orda/þar hañ seiger til Lærefueinaña sinna/
lyka sem Faderiñ sende mig/so sende eg ydur. Þa skulum vier vita/ad Chr
istur var ecke einungis sendur af synum Himneska Fødur/hingad j þeñan Heim
til þess/ad lyda Kuøl & Pynu fyrer Mañkyned/Helldur var hañ þar ad auke
og suo sendur/ til ad kieña og predika Guds Ord/epter þui sem hañ vottar
sialfur/fyrer Muñ Spamañsins Esaiæ/61. seigiande/Ande Drottins er yfer
mier/þar fyrer hefur hañ Smurt mig/og sendt til ad Predika Evangelium fy
rer þeim Voludu. J þeñan mata seigest Jesus wtsenda syna Lærefueina/ &
alla adra trwa Ordsins Þienara/sem er/ad kieña og predika/ Eñ ecke til þess
ad giøra Fullnægiu Boot og Betaling fyrer Mañaña Synder/þui þad kuñe
eingiñ ad giøra/vtan Jesus alleinasta/sañur Gud/& sañur Madur. Vær sku
lum og eirniñ vita/ad Jesus var sendur af Fødurnum/ hingad j þeñan Heim/
ad hañ skyllde med Kraptaverkum/ og Tæknum/ bevijsa Sañleika syns Lær
dooms/ so sem hñ seiger/hia Joh. 5. C. Þessa sømu Magt & Myndugleika/
gaf hañ & eirniñ synu Læresueinum/ ad þeir skyllde gieta giørt Stoormerke
þui so seiger hañ til þeirra/hia Marcum/ 16. J mynu Nafne munu þier Dio
fla wtreka/Nyar Tungur tala/og Høggorma vpp taka/& c.
Hier kañ einhuør aptr ad spyria/Huørniñ ꝥ kome þa til/Ad vorer Prestar &
Kieñemeñ giøre ecke sømu Dasemdarverk eñ nu a vorum Døgum/ sem Postul
arner giørdu j syna Tyd/fyrst þeir eru sama Embættis/og Erendis wtsender
eins & þeir? Hier til suarast so/Ad Guds Ords Þienarar giøre ecke sydur nu
a þessu Tymu mykla & Ofernatturlega Hlute/eñ Postularner. Er ꝥ ecke Fu
rdanlegr Hlutr/þa ein Mañeskia sem hefr lifad/ og aled siñ Alldr j allskonar
Glæpu/Syndu & Ranglæte/ Verdur so vmskiptelig/fyrer Prestsins Amiñing
ar/og Gudrækelegar Kieñingar/ad hun kallar vpp/og seiger/ Minstu Drott
iñ ecke a mynar vmlidnar Misgiørder/ Myskuna þu mier snarlega/ Hialpa
þu mier fyrer saker Dyrdar þyns Nafns/ Frelsa þu mig/ og fyrergief mier
allar mynar Synder/ Psalm. 79. Er þad ecke og so eitt myked Furduverk/
Þa eirn sem hefur adur ørvænt sier Guds Nadar/ vegna Margfiølda sinna
Synda/Fær soddañ Hugsuølun/af sætre Evangelij Predikun/ad hañ med Hia
rtans Glede & Fagnade/kañ ad seigia med Postulanum Paale. Jeg er viss þar
vppa/ ad huørke Daude nie Lyf/ Huørke Eingell nie Herradæme/ eda Magt/
ecke hid nalæga eda Okomna/ eige Hæd eda Dyft/ nie nockur ꝺñur Skiepna/
fær mig skiled fra Guds Kiærleika/ sem ad er j Drottne vorum Jesu Christo
Rom. 8. Þad añad/sem vær eigum ad hugleida j þessu Greinarkorne/
er/ Huør Kieñemeñena giøre hentuga/ og duganlega til þess/ad framfylgia sy
nu Embætte. Eingiñ skyllde þeinkia/huørsu Lærdur & Velmentadur sm hñ
þikest vera/ad hñ af sialfum sier giete staded so j þessu Embætte/sem hønu ber
Þui vier erum ecke af sialfum oss til neyter nockud ad Hugleida/so sem af sial
fum oss/2. Cor. 3. Helldur huad vier erum neyter/þa er þad af Gude. J

 einu

eiñu Orde ad ſeigia/ Kieñemeñerner kuña ecke neitt ad giøra þad Gude er þægelegt/og til Mañaña Saaluhialpar er Nytſamlegt/ vtan ſuo ſie/ad þad ſkiee fyrer Krapt og Verkan heilags Anda/og þar fyrer meddeiler nu Drottiñ vor Jeſus/ Lærerſueinunum ſijnum þañ gooda Heilaga Anda/ med þeim Hætte/ ad hañ blæs aa þa/og ſeiger/ Medtake þier Heilagañ Anda. J þeſſum Ordum gefur vor liufe Endurlauſnare Jeſus/øllum Veykum og Vanmættugum Ordſins Þienurum/eina Hiartnæma Huggun/ſem er þeſſe/ Ad heilagur Ande ſkule vera j Verke med þeim/ & hialpa þeim/ſo þeir giete framfylgt ſijnu Embætte/Gude til Lofs/ eñ ſijnum Tilheyrendum til Gagns/og Betrunar/ ſuo þad Ord lifanda Guds/ſem þeir kieña/og frambera/kome ecke tomt og Avaxtarlauſt til hañs aptur/Eſa. 55.

En ſuo myked ſem viduykur Embættenu ſialfu/huert & huilijkt þad ſie/ kieñer oſſ Jeſus j þeſſum Ordum/þar hañ ſeiger. Huorium hellſt þier fyrer giefed Syndernar/þeim eru þær fyrergiefnar/ Og huerium hellſt þier apturhallded þær/Þa eru þær þeim apturhalldnar. Hier kañ einhuør ad ſpyrja/huernig aa eg þetta ad ſkilia? Seiger ecke heilagur Ande Guds/ fyrer Muñ Spamañſins Eſaie ſo/vnder Perſonu ſialfs Herrans Chriſti? 43. C. Eg/Eg em hañ/ſem afmaae þijnar Synder mijna vegna/og mineſt ecke þiña Miſgiørda. Talar ecke ſialfur Jeſus ſuo/ j Openberingarbookarinnar 3. Cap. Jeg læſe/& eingiñ vpplykur/ Jeg vpplyk/og eingiñ apturlætur. Og hia Marcuſ Gudſpiallamañe/ 2. Stendur ſkrifad/Ad Phariſearner hafe ſagt vid Chriſtum/ Hueꝛn þær hielldu fyrer eirn Sliettañ og einfalldañ Mañ/ Huør maa Syndernar fyrergiefa vtan Gud eirn? Huernig meiga Preſtarner þa boda & tilſeigia ſijnum Soknarbørnum Syndaña Fyrergiefning/& heilaga Aflauſn? Giæum til/og athugum vandlega(miñ Brooder og Syſter)Huad hier ſtendur j Textanum. Seigeſt ecke Chriſtur giefa Poſtulunum ſijnum hier/ Heilagañ Anda? Af huørium Ordum/vid meigum fullkomlega rauda/og ſkilia/ad Ande Guds talar ſialfur fyrer Preſtiñ/ og lætur hañ vera ſo ſem ſiñ Muñ/ þa hañ tilſeiger þier og bodar/Aflauſn & Kuittun þiña Synda/j Skriptarſtoolinu/Epter þui ſem þar ſtendur/hia Gudſpiallamañenum Mattheum/10. C. Þier(ſeiger Herrañ þar til Lærerſueinaña ſiña)erud ecke þeir ſem tala/Helldur er þad Ande mijns Fødurs. Þar fyrer/Nær hellſt ſem Guds Ordo Þienare eda Preſturiñ/bodar þier og tilſeiger af Guds Hælfu/Aflauſn og og Kuittun allra þiña Synda/Þa vertu viſſ og Efadur þar vppa/ ad þad er ſo ſatt og Obrygdult/ ſuo ſem ſialfur Jeſus hefde vid þig ſagt og talad/ ſem hañ ſagde til hins Jctſiuka/ Vertu Hughrauſtur Sonur/ þijnar Synder eru þier fyrergiefnar/Matth. 9. Og ſkal þ ſo ſtuttlega ſagt & talad vera/vt af þeſſu tueimur Stæagreinum/ ſem eg lofade aa ad miñaſt. Nu/ þeirre Hæbleſſudu Gudddomſins Þreñingu/Fødur/Syne/& Heiløgum Anda ſie Lof/ Dyrd/ Heidur og Vegſemd/ Nu hiedan j fra/ og vm Allder Allda/Amen.

# Añan Suñudag epter Paska.

## Evangelium/Johañ. 10. Cap.



Esus sagde til Gydingaña/Eg em goodur Hirder. Goodur Hirder giefur sitt Lijf wt fyrer sijna Saude/ Eñ Leigulidiñ/og hañ sem ecke er Hirder/ huørs ad Sauderner eru ecke eigenleger/ Nær hañ sier Wlfiñ koma/þa yfergiefur hañ Saudena/og flyr j burt. Og Wlfuriñ grijpur Saudena/og sundurdreifer þeim. Eñ Leiguldiñ flijr af þui hañ er Leigulide/ og giæter ecke Saudaña. Eg em goodur Hirder/og eg þecke mijna Saude/og eg þeckest af mijnum/so sem ad Faderiñ þecker mig/og eg þecke Fodiriñ/ og eg legg mitt Lijf wt fyrer mijna Saude. Eg hefe og adra Saude/ sem ei eru af þessu Saudahwse/þa byriar mier og hier til ad leida/ og þeir munu heyra mijna Rodd. Og þar mun verda eitt Saudahws/og eirn Hirder.

## Exordium.



IÆR lesum(Elskuleg Guds Børn)j Gamla Testamentenu/vijdar eñ j einum Stad/Ad marger af þeim heiløgu Forfedrum/og Spæmøñum/hafe vered Fiærhirdarar/og ecke reiknad sier þad fyrer neina Vanvirdu/ edur Læging/ad geyma Saude siña Herra/z Yfer bodara. Abel var eirn Saudahirder/ og bar fram fyrer Gud/ af Frumburde siñar Hiardar/ og af þeirra Feite/Gen. 4. Jacob vaktade Saude sijns Mags Labans/Gen. 30. Moyses Guds Madur j sama mata/ geymde Hiørd Mags sijns Jethro/ Exo. 3. Eins lyka var og David eirn Saudahirder sijns Fødurs Jsai/allt til þess/hañ var til Kongs kiøriñ/ og wt valiñ/1. Sam. 16. Og so fleyre adrer. So hafa nu þa þesser aller/ vered ein Agiætleg Fyrermyndan/vppa þañ ædsta Hirder/og Byskup vorra Sælna vorn Drottiñ Jesum Christum/Huør ed og so kallar sig sialfur/j þessa Dags Gudspialle/þañ gooda Hirdereñ/sem giefur sitt Lijf wt fyrer sijna Saude. Og vilium vier þar fyrer/an leingra Jñgangs/ rykia til Gudspiallsins/ Og taka oss wt af þui tuær Smægreiner/ ad skoda og yfervega ad þessu siñe.

Su fyrre skal vera vm Trwskap og Vmhyggiu/ sem þesse Goode Hirderiñ vor Drottiñ Jesus Christus/ ber fyrer sijnum Saudakindum.

Auñur skal vera þar vm/huørniñ hñs Sauder eige ad vera Siñader aptur a mote/vid hañ.

Gud giefe oss sijna Naad/ suo vier mættum hier wt af/ nockud gott læra/ og oss til Nytsemdar fæxa/Amen.

# Fyrre Greiniñ.

HEEar sa Goode Guds Madur David vill wtmæla/ og oss fyrer Sioonetsjetia/Gixsturÿke z Trwfeste þessa gooda Hirdersins/vid oss sÿnar Saudakindur/þa tekur hañ so til Orda/j Psal. 23. Og seiger. Drottiñ er miñ Hirder z mig mun eckert bresta/ Hañ Foodrar mig j grænu Gras Haga/ og leider mig fram ad ferskum Vøtnum/Hañ Endurnærer Saal mÿna/Hañ leider mig a riettañ Veg/ fyrer sÿns Nafns saker. Af þessum Spamañsins Ordum meigum vier sia/og merkia/ ad þesse vor Salnaña Hirder/ fæder sÿna Saude sier deilis j þrefalldañ Mata.

Fyrst fæder hañ oss med Natturlegre Fædu/þar hañ vppluÿkur siñe Hende/ z sedur allar lifande Skiepnur/med siñe Blessan/so sem þar stendur j Psalm. 145. Ja/Hañ wtleider Brauded af Jørduñe/oss Møñunum til Nytsemdar/ Psalm. 104. So nær ed hañ giefur þa samañ søfnum vier/ Nær ed hañ vpplÿkur siñe Hende/þa verdum vier med goodu sadder/Hylie hañ sitt Andlit/ suo skielfunst vær/Hañ burttekur vorn Andardrætt/ þa fyrer førunst vær/og verdum aptur ad Dupte/ seiger hiñ heilage David j sama Psalme. So høfum vier þa alla vora Lÿkamans Biørg og Næring af þessum vorum Hirder.

Þar næst/og j añañ Mata/Fæder þesse vor Hirder sÿna Saude/med Naadareñar Fædu/ Huør oss verdur framreidd/j Predikun Guds heilagra Orda/ z þeim heiløgu Sacramentis. Hier vm talar hiñ heilage David so/ j Psalmenum/119. Hefde þitt Løgmæl Drottiñ eige mÿn Huggun vered/ Þa hefde eg farest j miñe Eymd/ Eñ þÿner Vitnisburder/og þÿn Ord þau Endurnæra mig. Og hia Spamañenum Esaiam/ 25. Cap. Verdur Orde Drottins lÿkt vid eitt myked Giestabod/sem Drottiñ hefur tilreidt/ af klaaru Vÿne/Af Feyte/Merg/og Dreggiarlausu Vÿne/Huar til hañ bÿdur øllu Mañkynenu/med þessum Ordum/seigiande/ Nu vel/Aller þier ~~sem~~ þyster erud/ Komed hingad til Vatnsins/og þier sem øngua Peninga hafed/ Komed hingad/ og kaupedfyrer eckert bæde Vÿn og Miolk/Esa. 55. Siaaum eñ framar til/Mun ecke þesse goode Hirderiñ fæda oss og eirniñ miøg Dæsamlega/J þui Hæverduga Kuøllmaltÿdareñar Sacramente? Huar hañ lætur fyrer oss framborna verda/ ecke Almeñelega Fædu/helldur sitt eiged Holld og Blood/huørt vier hans Sauder þar medtøkum/j med og vnder Braude og Vÿne. O'huilÿk edla Fæda er þetta? Ad þessu Bordhalldenu/og ad þessare Fæduñe/dædest hiñ heilage Chrysostomus Lærefader/ miøg myked/ suo seigiande. Nær hefur nockurn Tÿma þuilÿkur Hirder vered a Jardrÿke/sem hefur elskad so sÿna Saude/ ad hann hafe giefed þeim sitt Holld til Fædu/ og sitt Blood til Dryckiar. Eñ þad giører sa ædste Hirderiñ/vor Drottiñ Jesus Christus/ vppa þad/Ad vier hañs Saudakindur/mættum verda hønum þessnarare/og eigenlegre.. Þad er skrifad vm KarlaMagnus Keysara/ Ad hañ hafe haft j sÿnu Hofe eda Høllu þriu Bord/tuø af Gulle/eñ eitt af Sylfre/vppa huørt ad miøg merkelega

lega hafe grafiñ vered øll Verølldiñ. Eñ huad er þad ad reikna/edur ſaman
ad jafna vid Bord Drottins/Huar vppa ad Verølldiñ er ecke mælud/edr vpp
dreigiñ/Helldur Veralldarennar Skapare/ oſſ til Fædſlu framreiddur/ þui hañ
er þad lifanda Braud/ſem af Himnum er ofankomed/ Huør þetta Braud et-
ur/hañ mun lifa Eilijflega/et cet. Joh. 6.

J þridia lage/Fæder þeſſe gode Hirderiñ ſijna Saude/med þeirre Himneſku
Fæduñe/Huøria vier fañ ad ſmacka æ ſijdañ/þa vier erū ordner Bordſitiend
ur med Abraham/Jſaach/og Jacob/ Huar vier munum drecka af Vatnsfall-
le þeſſ lifanda Vatnſins/ſem framflijtur af Stoole Guds/og Lambſins/Op-
enber. B. 22. Eñ til þeſſa Bordhalldſins kuñum vier ecke ad komaſt/ vtan vi
er hỏfum ædur fyrre/hier j Nædarrijkenu/vered gooder og verduger Gieſter/
vid Herrans Bord/Þui ef vier vilium ſijdar meir/eta Braud j Guds Rijke/
þa meigum vier ecke lata oſſ forundra/þo Drottiñ fæde oſſ ſtundum æ Sorg
arbraude/æ medañ vier lifum hier/þui þad er ſu rietta Braut til Lijfſins.

J aññ mæta/verdur oſſ fyrer Siooner ſett/j þeſſare Epterlijkingu/ Su
Oumræđelega Elſka/ſem ſa goodo Hirderiñ/ vor Drottiñ Jeſus/hefur til ſin-
na Sauda/ huør ed audſijneleg er þar af/ ad hañ hefur þa Endurleyſt/ ecke
med forgeingelegu Gulle/og Sylfre/ helldur med ſijnu heilaga/ og Dyrmæta
Bloode/og med ſijnum Saklauſa Dauda og Pijnu/1. Pet. 1. Þar fyrer ſij-
ngur ſo Chriſteleg Kyrkia. Lamb Guds Saudum Sigur vañ/Saklaus Chr
iſtur Frid oſſ fañ/Sættande Syndugt Lid/ ſiñ Fødur vid. Og Lærefader
iñ Auguſtinus ſeiger ſo/ O Herra Jeſu/ þu hefur elſkad mig/meir og framar
eñ ſialfañ þig/ Þad veit eg þar af/ ad þu ert dæiñ fyrer mig. Hier vid ætt
um vier ad hugga oſſ/ bæde j Lijfe og Dauda.

Þad þridia/ſem vier eigum ad hugleida/ ut af þeſſare Epterlijkingu/ Þa
er Hreyſte/og Almætte þeſſa gooda Hirderſins/ſem hañ hefur yfer alla adra/
j þui/ad vernda og vardveita ſijna Saude/æ mote þeim Helvijſka Vlfe Diøf
lenum. Þegar David geymde Hiørd ſijns Fødurs Jſai/Þa kom þar eitt
Leon/og eitt Biørn/og took eitt Saud j burt fra Hiørdiñe/ Eñ David hlij-
oop epter hønum/ og ſloo hañ/og frelſade ſo Saudeñ ur hans Muñe/ Eñ ſiñ
hañ reyſte ſig vpp j mote hønum/ þa greyp hañ j hans Kampa/og ſloo hañ j
hel/So hefur hañ þa dreped bæde Leon og Biarndyr/ ſo ſem hañ ſeiger ſialf
ur/1. Sam. 17. Hier af ſiæum vier/ Ad David hefur vered Figura/
og Fyrermyndan/vppa Chriſtum/ Þui fyrer þad grim̃a Leon æ ad ſkiliaſt
Diøfulliñ/ Eñ fyrer hañ Grædugа Biørn/ Helvijte/ j huørs Kuerkar vær
aumar Saudakindur vorum falluer/ Eñ Jeſus ſa goode Hirder Saudañа/
kom oſſ til Hialpar/og vard Daudanum ad eiture Olifian/eñ Helvijte ad Dr
epſoott/ſo vier meigum nu med Fagnade ſyngia/og ſeigia/ Daudiñ er vppſue
lgdur j Sigur/ Daude/ Huar er þiñ Broddur? Helvijte/huar er þiñ Sigur?
Lofadur ſie Gud/ſem oſſ hefur Sigriñ giefed/ fyrer vorn Frelſara Jeſum
Chriſtum. Hier af meigum vier lioos lega ſiaa og merkia/Huør ad ſie miſ

munut/æ mille þess Gooda Hirdersins/og Leigulidaña/huørieꝛ ed flyia strax sem nockud j dælpar/ Eñ ecke giører þad Jesus vor/helldur er hañ til Reidu sijfelldlega ad hialpa oss/æ mote þeim Helvijska Ulfe/Diøflenū/þa oss æliggr.

J fiórda lage/ Audsyner/og bevijsar Herrañ Christur/ sijna Giæsku/og Hiartalag/sem hañ hefur til siña Saudakynda/j þui/ad hañ seigest þEckia Sijna Saude/og þad sama ecke med sliettre þeckingu/med huørre hañ þecker alla Meñ/lijka vel þa vondu/og Ogudlegu j Heimenum/og veit huad j huørs Hiarta byr/ Helldur med eirnre ædre/og Ypparlegre þeckingu/ Huad vier meigum ræda/af þui Orda tiltæke/ þar hañ seigest þeckia Sijna Saude/ Lijka SEm þad FAderiñ þEcke Sig/Og Hañ þecker Fødurin. þad er sem/ hañ hefde so myked sagt/og talad/ þier mijner Sauder/ erud mier so Hiartgroner/ suo sem eg er mynum Himneska Fødur Hiartkiær/og mijn Glede er/ ad eg giøre ydur til Gooda/Jerm. 32.

þad er skrifad um Kong Cyrum/ Ad hañ hafe þeckt so alla sijna Strijdsmeñ/huørier þo voru mørg þusund ad tølu/ad hañ kuñe ad kalla huørn þeirra med Nafne. Skyllde þa ecke Drottiñ vor Jesus Christus/ myklu framar þeckia alla sijna Saude med Nafne/ þar hañ hefur teiknad þa j sijnum Høndum/Esa. 49. Og veit huad þeir giøra/og huar þeir bwa/Openb. B. 2.

Hier af høfum vier oss þad til Huggunar ad taka/ad þo þar sieu fæer eda øngver af Børnum þessa Heims/sem vilie þeckia oss/epter þui sem þar stendur j Spekiñar Bookar 2. Cap. þa giefum oss til Frids/ þar er sa sem oss þecker/ og æ sijnum tijma mun til vor verda talande/ þessum Gledelegum Ordum/ Kome þier blessader mijns Fødurs/og eignest þad Rijked/sem ydur er tilbwed fra Upphafe Veralldar/ Matth. 25.

þad er Vijsa og Vane Hirdaraña/ad Marka og Einkieña Saudena med ymsu mote/suo þeir meige þess helldur þeckiast aptur/ fra ødrum Saudum/ Hid sama giører og so/vor Drottiñ Jesus Christus/ Hañ markar sijna Saude/og þad sama med þrefølldu Audkieñingar Teikne. þad fyrsta er Teiken KRossens. þa Gud Drottiñ hafde æsett/ ad senda straff yfer Borgena Jerusalem/ vegna þeirra stooru Misgiørda/ sem þar jñe drygdar voru/ þa sende hañ sex Meñ þangad/og huør þeirra hafde skadlegt Vopn j siñe Hende/Og þar var eirn æ medal þeirra/sem Lijnklæde hafde æ sier/z ein Skriffære vid sijna Sijdu/Hañ ætte fyrstur ad ganga j giegnum Stadiñ/ og Teikna med eynu Teikne/j Eñum þess Folksins/sem stunde/z aumkade sig/yfer øllum þeim Suivirdingū/sem þar jñe skiedu/z hiner adrer geingu epter þessum Skriffara/ og sloou j Hel alla þa sem fyrer urdu/bæde gamla og unga/ Konur og Børn/sem ecke høfdu Teikned j sijnum Eñum/Ezech. 9. Eins lijka Audkieñer Herrañ vor Jesus eñ nu j Dag/sijn Elskuleg trwud Børn/og þad sama med adskilianlegum Hætte. þañ Riettlæta Job Audkieñde hañ med jllum Sarum/Job/2. Ekiuna j Sarepta med Fætækt/1. Kong. Bok. 17. þañ gooda David med Ofsokn/sem hañ vard ad lijda/ bæde af sijnum Mæge/og sijnum

um Syne

um Syne/1. Sam. B. 19. Og 2. Sam. B. 15. S. Paal med Freistingum/ þui han̄ seiger sier sie giefin̄ Flein̄ j Hollded/ sem ad sie Andskotans Engell/ huør sig med Knefum slæe/ 2. Cor. 12. Hina adra wt j fra/ hefur han̄ Aud kient/med ymsu moote/so þar hefur eingin̄ vndan̄ komest/ Þuad huær hn̄ vill min̄ Læresueirn vera/sa afneyte sialfum sier/og take sin̄ Kross vppa sig/og fylge mier epter/seiger han̄ sialfur/Matth. 16. Cap. Þar fyrer min̄ Brooder ꝫ Syster/Nær hellst sem þu hefur þesse Kien̄eteikn Herrans a þier/ þa lꝏttu þier ecke þikia Læging þar ad/þui þar af mꝏttu vera fullviss/þar vppa/ad þu siert eirn Saudur Herrans Christi.

Þad an̄ad Audkien̄ingar Teikned/ sem Herran̄ Christur setur vppa sijna Saude/ Er TRwaren̄arteikn/ sem og adrar Goodar Dygder/og Man̄koster/ sem heilagur Ande verkar/ j Hiørtum Guds Barna/Huad allt ad er eitt Obrigdanlegt Merke þar vppa/ad vær sieum wtvalder af Gude/ til eilijfs Lijfs/ ꝩdur en̄ þad ad Heimurin̄ var Grundvalladur/Eph. 1.

Þridia Audkien̄ingarteikned/Er Teikn JEsu Blessada BLods/med huør iu han̄ hefur/ecke alleinasta/Endurleyst oss/1. Cor. 6. Helldur þa Dryckiar han̄ oss og eirnin̄/a þui sama/j þeirre heiløgu Kuølldmꝏltijd/ suo ad Diøfull in̄ hefur ecke meira Valld yfer oss/ en̄ Mordeingellin̄ hafde yfer þeim j Egyptalande/a huørra Dyrustafe ad Rioodad var Paaskalambsins Bloode/Exo. 12. Cap. Og skal þad so sagt vera vm þad fyrra Greinarkorned.

## Aun̄ur Greinin̄.

EP Terfylger med einu Orde/ad min̄ast þar a/Huørnin̄ vær/sem erum Sauder Jesu Christi/Eigum ad haga oss og hegda/vid þen̄an̄ vorn Gooda Hirdeyn̄. Og so vier mꝏttum þessa Kunstena/þess betur og Alvarlegar nema/og oss hana til Nytsemdar fꝏra/ Þa vilium vier skoda og yfervega/ huør ad sie Att/og Eigenlegleike Saudan̄a/Og huøria Leste/og Dygder þeir med sier hafe/ So kun̄um vier best ad lꝏra/huad vier eigum af þeirra Dꝏme ad fordast/ og j huøriu vier eigum epter þeim ad breyta.

Fyrst er þad eirn Løstur Saudarins/ ad han̄ er allra Skiepna Vanvitugastur/þui han̄ veit huørke nie skyniar/huad sier til Gagns ꝫ Nytsemdar/ edur og so til skada og Fordiarfs maa koma. Eins erum vier og lijka af Nattur un̄e til/ Vanvituger/ Jaa/ Heimsker og treger j Hiarta(so sem Herran̄ sagde vid þa tuo/sem til Emaus geingu)og skynium ecker af Guds Anda/ 1. Cor. 2. Cap. So vier erum ecke neyter af oss sialfum til/nockud gott ad Huglei da/so sem af oss sialfum til/2. Cor. 3. Var ecke Nicodemus eirn Meystare j Jsrael? saunt veitte hønum ecke af ad skilia/þa Christur Predikade hønum af Endurfꝏdingun̄e/Joh. 3. Villdismen̄e Drottingaren̄ar Candacen af Morlande/sat j sijnum Vagne/ og var ad lesa 53. Capitula Spaman̄sins Esaia/ þo skilde han̄ eckert j þui sem han̄ las/allt til þess Philippus kom/og lagde þad wt fyrer hønum/Act. 8. Eins lijka þurfum vier ecke ad treysta vppa vora eigin̄


Skinseme

Skynſeme/Huør ed Formyrkvud er j þeim andlegu Efnum/Eph. 4. Cap.

Þad añad/ſem Saudnum er opt og tijdum til Skada/og ſtorrar Hindrunar/Þa er ſu ofur mykla Hrædſla ſem hønum fylger/So nær hañ ſier Vlfiñ koma/edur heyrer Hundana giellta/þa verdur hañ ſo hræddur og Iſtødulaus/ad hañ hleypur huad ſem fara giører/og veit ecke ſitt riukanda Rend)ſem vier pløgum ad ſeigia.) Hid ſama hend er oſſ Meñena og ſo/opt/og tijdum/ Ad Hrædſla og Oſtøduglecke fellur oſſ vppa/ Eñ huad velldur þui? Ecke añad eñ Synder vorar/ og Rangløte/ Eñ ſoddañ Otte og Hrædſla/ er ecke riettur Sonarlegur Otte/ helldur Þræls Otte/ Þar fyrer ſkulum vier hañ fordaſt/ Þui vier høfum ecke medteked Þrældooms Anda/ ſuo vier þurfum aptur ad ogga vm oſſ/ Helldur eirn Oſkabarna Anda/ fyrer huørn vier køllum Abba Elſkulege Fader/Rom. 8. Og huar fyrer(miñ Brooder og Syſter)huar fyrer(ſeige eg)vilium vid hrædder vera? Er ecke Høfdinge þeſſa Heims dæmdur? Og þo ſo ſie/ad hañ kome/ þa hefur hañ eckert med oſſ ad giøra/Ioh. 14. C. Samt ſem adur ſkulum vier/ ætijd hia oſſ behallda Sonarlegum Otta/ huør ed komiñ er þar vnder/ ad vier fordunſt ad giøra þad jlla/ ſem Gude mætte Stygdar vera/ Epter Lofslegu Dæme þeirra Egyptſku Yferſetu Kueña/ hverriar Gud høfdu fyrer Augum ſier/og villdu ecke giøra epter þui ſem ſa Tyrañe Pharao hafde þeim befalad/ huørs vegna ad Drottiñ og ſo bleſſade þær/ Exod. B. 1 Cap.

Þad er og ſo eirn Breſtur Saudaña/ Ad þa þeir villaſt einuſiñe fra Hiørdeñe edur Saudahwſenu/þa kuña þeir ecke ſialfkrafa ad rata heim aptur/helldur villaſt æ meir og meir/ allt þangad til ad Vlfuriñ grijpur þa vm ſijder/ Ad lijka fer fyrer oſſ/ Vier geingum aller villt ſo ſem Sauder/og kuñum øngvañ eigeñ af vorum eigiñ Mætte edur Krapte/ ad komaſt aptur a rietta Leid/nema ſo være/ ad Gud verkade j oſſ bæde Viliañ z Giørningiñ/Phil. 2. Þar fyrer villium vier bidia med Jeremia/af hans 31. Capitula. Snw þu oſſ Drottiñ/ þa er oſſ ſnwed/þuiad þu ert vor Gud.

Nu vilium vier ſkoda / og athuga þeſſu næſt/ huøriar Dygder vier eigum af Saudunum ad læra. Fyrſt ſkulum vier læra af þeim ſaña Hlijdne/ þui ſo ſem þad/ ad Sauderner þeckia Rauſt ſyns Hirders/epter þui ſem Herrañ Chriſtur vottar j þeſſa Dags Gudſpialle/ſeigiande/ Mijner Sauder heyra mijna Rødd/ Item. Þeir þeckia mig/og fylgia mier epter/ Eñ ødrum añarlegum fylgia þeir ecke epter. So eigum vier og ſo yfer allt fram/ad læra/ad þeckia vorn Drottiñ Jeſum Chriſtum/og ad heyra ecke alleinaſta hans Rødd/ helldur og eirnin hønum ad hlijda/ og epter fylgia/ Þuiad ef þier giøred þad eg ydur befala/ þa eru þier mijner Viner/ ſeiger Endurlauſnariñ vor ſialfur/hia Joh. 15. Cap. Nu er þad Rødd þeſſa vors gooda Hirders/ Giøred Jdran/og trwed Evangelio/Marc. 1. Þar fyrer/huør ſem vill vera trwr og hlydiñ ſijnum Hirder/hañ ma giørda rietta og ſaña Jdran. Þad

er og ſo

er og so Rødd þessa gooda Hirdersins/ sem þar stendur/ hia Johañem 14. C. Eitt nytt Bod gief eg ydur/ Pad þier elsked huør añañ Jñbyrdis/ Þar af sku lu aller þeckia/ þad þier erud myner Lærisueinar. Lated um oss þar þ hlyda þessare hñs Rødd/ z elskum vorn Japnchristiñ Naunga/ Eñ ecke med Orde og Tungu/ helldur med Verke og Sañleika/ so sem þar stendur/ 1. Joh. 3. Þess gooda Hirdersins Rødd og Befalning er þetta/ Læred af mier/ þui eg er hoog vær og af Hiarta Lijtelatur/ Matth. 11. Sialum þar þyrer til/ ad vier vpp þrokum oss ecke/ helldur æstundum sañarlegt Lijtelæte/ Þuiad Drottiñ mootstendur Dramblatum/ og Lijtelatum giefur hañ Nad/ seiger Postuliñ Petur/ j fyrra Pist. 5. Cap.

Auñur Dygdeñ/ sem vier eigum ad læra af Saudunū/ er riett og søñ PØlenmæde. Vær vitū ad Saudurīñ er eitt Polenmodt z hogvært Dyr/ Hñ greniar ecke eins og Suyn/ Hañ bijtur ecke eins og Hundur/ Ecke slær hañ helldur eins og Hestur/ Eda stangar eins og Naut/ Helldur þeiger hañ þyrer þeim sem hñ Klipper/ Lykur og ecke helldur sijnum Muñe vpp/ þa hañ er til Draaps leidd ur/ Esa. 53. So eigum vier og eirniñ ad vera Polenmooder/ og þyda epter Hialp Drottins/ þui þad er eirn ægiætur Hlutur/ seiger Jeremias j sijnum Harm. 3. Cap.

J þridia lage eigum vier ad lijkiast Saudunum/ j Mtlteinleyssenu/ þuiad Sa uderner eru Fridsamar Skiepnur/ og giøra øngvum Skada. Eins eigum vier ad lifa sparlega/ Riettferdugslega/ og Gudlega j þessum Heime/ Og afleggia alla Jllsku/ og allt Suikræde/ og Smiadur og Auþund/ og alla Baktmælge/ Eñ girnast þeirrar skynsamlegrar hreinñrar Miolkur/ suo sem Nyfædd Børn/ 1. Pet. 2. Þui so seiger Christur sialfur/ hia Mattheum 18. Sañlega seige eg ydur/ Nema þier snwest/ og verded so sem Smæbørn/ munu þier ei koma j Himnarijke.

Pad fiorda/ sem vier eigum af Saudunum ad læra/ þa er þad/ Ad vier læt um oss jafnañ vora LVcku nægia/ huørt helldur hun er mykel/ eda lijtel/ z sieñ til Frids/ med þad sem Gud oss veiter og giefur/ Þui þad vitum vier/ ad þo Sauderner sieu ecke alltjafnt j eins goodu Haglende/ eda þo þeir fæe ecke allt jafnt eins myked Foodur/ þa knurra þeir þo huørke/ nie murra þar yfer/ hell dur eru þeir til Frids/ suo vel med þad miña/ sem þad meira. Þetta hefur sa Vijse Kongur Salomon vel yferveiged og athugad/ Og þui tekur hañ suo til Orda j siñe Bæn/ sem hañ framsetur þyrer Gud/ j Ordsk. B. 30. Cap. Tueggia Hluta bid eg þig/ ad þu vilier ei synia mier/ ædur eñ eg dey/ Fatækt og Audæfe giefdu mier eige/ Eñ læt þu mig hafa miñ deilldañ Matar Verd/ Añars kyñe eg/ nær jeg yrde Ofmettur/ ad afneyta þier/ og seigia/ Huør er Drottiñ? Eda ef eg yrde of Fatækur/ hlyte eg ad stela/ og mig ad nijns Gu ds Nafne ad forgrijpa. Æ/ þetta hid sama ætte og suo ad vera vor Dagleg Bæn.

Ad sijdustu verdur oss hier þyrer Siooner sett/ GAgnsemdeme/ og NRT semd/

 sem

sem vier høfum af Saudunum/ þui suo lenge sem Saudurin̄ lifer/ þa giefur hañ oss af sier bæde Miolk og Ull/ En̄ þa hønum er slätrad/ þa høfum vier hans Kiøt oss til Fædis/ Ja/ Þar er snart eckert aa Saudnum/ sem oss kiemur ecke til einhuørrar Gagnsemdar. Hina sømu Art og Nätturu/ ættu og so aller gooder Riettrwader Christner Men̄ ad hafa/ og vera Auaxtarsamer til goodra Verka/ þui soddañ Sauder þocknast þeim ædsta Hirdernum vorum Herra Jesu Christo vel/ Tit. 2.

Þegar vier høfum nu lært þessar Dygder Saudañá/ og oss j þeim jdkad vel/ og kostgiæfelega/ þa vill sa goode Hirder Jesus Endurlausnare vor/ elska oss og giøra aptur aa moote til gooda. Fyrst aa Hørmungartijmanum/ þegar Kross og Motlæte kiemur oss ad Høndum/ þa vill hañ vera hia oss/ og hugga oss aptur/ epter þui sem þar stendur/ j Psalmenum 91. Jeg er hia þier j Neydeñe/ Jeg vil þier wr Neydiñe wtrycktia/ og þig Vegsamlegañ giøra.

Þar næst aa Freistingar tijmanum/ þegar sa Helvijske Ulfur Diøfullin̄ vill hræda oss og skielfa þar med/ ad vær høfum ecke fullkomlega hallded Løgmaaled/ Ad vier høfum ecke lifad so Heilaglega sem oss hefur bored/ Þa skulum vier Hugga oss þar vid/ ad vier eigum eirn trwañ Hirder/ sem Fullnægiu hefur giørt Løgmaalenu vorra vegna/ Rom. 8.

J þridia lage/ þa vill þesse goode Hirderin̄/ Drottin̄ vor Jesus Christus/ koma oss til Hialpar og Huggunar/ j vorre sijdustu Neyd/ þegar Daudin̄ skal oss ad Høndum koma. Og so sem þad/ ad nær eirn Hirder/ sier fyrer eitt strangt og hart Vedur/ þa hefur hañ strax sijna Saude ad Hwse/ og byrger þa þar jñe/ so þeir krokne huørke/ nie deye wte j Illvidrenu. Eins lijka giører sa Himneske Hirderin̄/ þa hañ sier ad einhuør Olucka eda Plaaga yfer hænger/ þa tekur hañ aadur j burt/ sijn Elskuleg Trwud Børn/ sem hønum eru þa Hiartkiærust/ z byrger þau jñe vm Stundarsaker/ j Suefnherberge Grafañá/ Esa. 25. Cap. Allt þangad til hañ leider oss aptur wt þadañ/ og jñ j þad Himneska Fødurlanded/ Huar vier munum siaa Gud/ Auglite til Auglitis/ vm alla Eilijfd. Nu/ Þangad ad koma/ og þar ad glediast med øllum Utvøldum/ Englum og Mønum/ Þad veite oss Gud Fader/ Sonur og Heilagur Andi/ Huørre H. Guddomsins Þreñingu/ sie Lof/ fra Eilijfd/ til Eilijfdar/ Am.

# Þridia Suñudag epter Paaska.

## Evangelium/ Joh. 16. Cap.



Þañ tijma. Sagde Jesus til siña Læresueina. Jñañ lijtels Tijma munu þier ecke siaa mig/ Og þa en̄ jñañ lijtels Tijma munu þier en̄ siaa mig aptur/ þui eg fer til Fødursins. Þa sagdu sumer af hans Læresueinum sijn aa milie. Huad er þad

ad hañ

ad hañ seiger til vor/ jñañ lytels Tijma þa munu þier ecke sia mig/ og þa eñ jñañ lytels Tijma/ munu þier sia mig aptur/ þui eg fer til Fodursins. Þa sogdu þeir/ Quad er þad hñ seiger oss/ jñañ lytels Tijma? Vier vitum ecke huad hañ seiger. Eñ Jesus fornerkte/ ad þeir villdu spyria hañ ad/ og sagde til þeirra. Þier spyried ad þessu ydar a milli/ ꝥ eg sagde ydur/ Jñañ lytels Tijma munu þier ecke sia mig/ ꝛ þa aptur jñañ lytels Tijma munu þier sia mig. Sañlega/ seige eg ydur/ þier munud syta og graata/ eñ Heimuriñ mun fagna/ og þier munud hryggver verda/ eñ ydar Hrygd skal snwast j Fognud. Ein Kona/ nær hun skal Fæda/ þa hefur hun Hrygd/ þuiad heñar Stund er komiñ. Eñ þa hun hefur Barned fædt/ miñest hun ecke þess Harmkuælis fyrer Fagnadar Saker/ þuiad Madur er j Heimiñ boriñ. Og þier hafed nu ad sonnu Hrygd/ Eñ eg skal sia ydur aptur/ og ydart Hiarta skal Fagna/ og ydarn Fognud skal eingiñ fra ydur taka. A þeim Deige munu þier mig og einskis spyria.

# Exordium.

I Exodi Bookar/ 15. Cap. Lesum vier/ Ad epter þad/ ad Gud Drottiñ hafde ůtleidt Israels Folk/ med einum styrkum Armlegg/ fra þeim Egyptska Prældoome/ Þa hafe þad j nockra Daga ecke Vatn funded/ ad svala synum Þosta m3. Um sider fañ þad Vatn j Mara/ eñ þad var so beyskt/ ad Folked gat ecke drucked þar af/ allt þangad til/ ad Moyses (epter Guds Befalningu) kastade Trienu j Vatned/ þa vard þad sætt/ Samt sem ædur liet Drottiñ sitt Folk/ ecke lenge vera j Mara/ helldur færde hañ þad til Elim/ huar þad fañ fyrer sier tolf Vatnbruña/ og siøtyge Palmavidar Trie/ þar stadnæmdest Folked/ og sette synar Herbwder.

Þesse Historia er eirn Merkelegur Speigell/ vppa Mañeskiuñar Lyf/ Þuiad epter þad/ ad Diøfulliñ hafde Afvega leidt oss/ og giørt ad Þrælum Syndareñar/ Joh. 8. Siaa/ þa hefur Gud Drottiñ ůtleidt oss aptur/ og frelsad fra Vallde Myrkrañä/ og þad sama fyrer Hønd sijns Utvallda Þienara/ Herrans Christi/ Eñ samt sem ædur erum vier ecke strax komner/ jñ j þad Fyrerheitna Landed/ helldr vmgauungunst vier Hier j þessare Verølldu/ so sem j añare Eydemørku/ eins og Þilagrymar/ og hlioötum ad lyda margar/ og Jmislegar Motlætingar/ Þuiad Drottiñ færer syna heilaga vndarlega/ seiger David/ j Psalmenum 4. Fyrst færer hañ þa/ og leider til Mara/ þad er/ til Sorga og Mootlætingaña Vatns/ Eñ þo giører hañ samt sem ædur þetta Vatned

sætt/øllum þeim sem Drottiñ ottast/og hønum treysta/Þar epter/ þa hañ hef-
ur nu læted syn Børn drecka af þui beyska Krossens/og Motlætesins Vatne/
og reint þau j Ofne Hørmungaña nockra stund/ þa vill hañ fæera þau til El-
im/ Þad er til þess hreina Vatnsfallsins þess Lifanda Vatnsins/huørt ad er
so skiært sem eitt Christall/og fram flytur af Stoole Guds og Lambsins/ A
bædar sydur þessa Vatnsfallsins stendur Lyfsins Trie/huørt ed ber tolf fall
dañ Auøxt/og fæerer siñ Auøxt a øllum Manudum/ og Laufblød þessa Trie
sins þiena til Heilsubooter Heidingium/ suo sem þar stendur j Opinberingar
Bookareñar sydasta Capitula. Og þetta eru nu þau gledelegu Vmskipttin/sem
Gud Drottiñ vill giefa/ øllum synum Krossens Børnum. Og vilium vier
nu rækia til Gudspiallsins/ huørt ed talar vm Kross og Motlætingar Guds
Barna. Og eru þad sierdeilis tuær Smagreiner/ sem vier vilium þar wt af
yfervega ad þessu siñe.

Hin fyrre skal vera vm þær Krossburdar Reinslur/sem Herrañ vor Jesus
seiger synum Læresueinum fyrer/ad þeir mune verda ad lyda.

Añnur hlioodar vm þa Huggun/og Hugsuølun/sem hañ seiger/ad þeir mu-
ne fa aptur/ þa þeir hafa nockra stund vnder Krossens þunga sueittst.

Nu/sa ædste Krossbere/ vor Drottiñ Jesus Christus/ giefe ad vier meig
um þetta yfervega/ synu heilaga Nafne til Lofs og Dyrdar/ eñ oss sialfum
til Glede/og Saalargagns/ Amen.

# Fyrre Greiniñ.

JVpphafe þessa heilaga Evangelij/talar so vor Drottiñ Jesus Christus til
siña Læresueina. Jññañ lijtels Tijma munud þier ecke sia mig/ þuiad
eg fer til Fodursins. J huørium Ordum/ ad Herrañ Christur seiger fyrer
Kuøl syna og Dauda/ Sem hañ villde so sagt hafa/ Þad er nu snart komed
ad þui/ myner Elskuleger Læresueinar/ Ad þier munud ei sia mig/ þuiad eg
mun deyddur/ og j Grøfena nidur lagdur verda. Þar nu Endurlausnariñ
vor Jesus seiger Lærisueinunum synum fyrer(j eiñre Myrkre Rædu)Kuøl
syna og Dauda/ sem hañ skømu þar epter ætte ad lyda. Þa hæfum vier þ
þar af ad læra/Ad Christur hefur ei naudugur/ helldur sialfviliugr/Ecke af
neinu Oforvarandis Tilfelle/helldur af Guds Fødurs ætettu Raade/geinged
vnder þessa syna Kuøl/og Dauda/Þui so seiger hañ sialfur/j Psalmen. 40.
Sia þu eg kiem/j Bookiñe stendur skrifad af mier/Þiñ Vilia giøre eg giarn
añ/miñ Gud. Og eñ aptur seiger hañ/Eingiñ tekur mitt Lyf af mier/hellld
ur legg eg þad af mier sialfur/ Eg hefe Valld þad af ad leggia/ og eg hefe Va
lld til þad aptur ad taka/ Joh. 10.

Þessu næst leggur Herrañ Christur til Ordsøkena/ Huar fyrer hañ seiger/
ad Lærisueinarner mune ei sia sig/sem er þesse/ AD Hañ Seigest fara til Fø
dursins. J huørium Ordum sañ samlyker siñe beysku Kuøl/ og Dauda/ vid
eitn lyteñ Spazerunar Veg/til syns Fødurs.

Nier

Hier af hønum vier þa Huggun/ Ad þegar þar ad kiemur/ ad vier eigum ad deya/ og skilia hier vid/ Þa meigum vier gledia oss/ og seigia/ Jeg er nu Hug hraustur og Ohræddur/ þo eg sie nidurlagdur/ j mijna Daudasæng/ til eilyfrar Hugldar/ Þuiad so sem þad/ Ad minn Frelsare Jesus/ er fyrer Daudann/ og sijna Grettran/ geinginn til syns Fødurs/ So skal eg nu og so/ fyrer þennan minn stundlega Dauda/ og Jardan/ komast til mijns Himneska Fødurs/ og þadan j fra/ alldrei vid hann skilia.

Nu er oss enn framar athugande/ huørnenn þad/ ad Herrans Christi Lærisueinar taka þessare hans Fyrersøgn og Predikun/ Um sijna Burtfør til Fødursins sem er/ ad þeir skilia hier ecke eitt Ord j/ suo sem hier stendur j Gudspiallinu. Þa søgdu sumer af hans Lærisueinum sijn a mille. Huad er þad hann seiger oss/ jnnan lijtels Tijma munu þier ecke sia mig/ og þa aptur jnnan lijtels Tijma munud þier sia mig aptur/ þui eg fer til Fødursins. Þa søgdu þeir/ Huad er þad hann seiger oss/ jnnan lijtels tijma? Vier vitum eige huad hann seiger. Er þetta nu ecke Furda yfer alla Furdu/ ad þeir sem so leinge høfdu vered j Herrans Christi Skoola/ Ja/ þeir sem høfdu opt ar enn einusinne heyrt/ hann ædur tala med lioosum og vel skilianlegum Ordum/ um þessa sijna Burtfør til Fødursins/ Þeir skilia ecke enn nu/ huad þad er/ sem hann seiger? Enn Ordsøkinn til þessa Skilningsleysis Postulanna/ var hin sierlegasta þesse/ Ad bæde þeir/ og so lyka Gydingarner hiner adrer woru fra/ voru j þeirre Meiningu/ ad Herrans Christi Ryke/ munde verda eitt Jardneskt og Veralldlegt Ryke/ og ad hann munde verda einn Einvallds Herra/ og Keysare/ sem stiorna munde yfer allre Veralldarkringlunne. Annur Ordsøk þar til/ Var sa myklе Blindleike/ sem huørium Manne er med fæddur/ Þui suo seiger Postulinn Paall/ 1. Cor. 2. Ad Natturlegur Madur/ skyniar eckert af Guds Anda/ þui þad er hønum Heimska. Þar fyrer eigum vier æ og alla Tijma/ ad bidia Gud/ med hinum Heilaga David/ af Psalmenum 25. seigiande/ Leid þu mig Drottinn j þynum Sannleika/ og Lær mig/ þui þu ert Gud/ sem mier Hialpar/ Item/ Drottinn er goodur og froomur/ þar fyrer leidrietter hann hina Syndugu a Veiginum.

Þegar nu Drottinn vor Jesus/ huør ed alla Hlute sier/ og veit huad j Mannsins Hiarta er/ Hann formerker/ ad Lærisueinarner eru ad spyria ad þessu sijn a mille/ þa talar hann so til þeirra/ og seiger. Þier spyried ad þessu ydar a mille/ þad eg sagda/ Jnnan lijtels Tijma munu þier ecke sia mig/ et cet. Sannlega/ sannlega seige eg ydur/ Þier munud Gryta og Grata/ enn Heimurinn mun Fagna/ et cet.

Tuent er þad sem Herrann Christur seiger sijnum Lærisueinum fyrer/ j þessum Ordum. Þad fyrra er su mykla og þunga Sorg/ sem hann seiger þeir mune verda ad lyda/ huad og eirninn fram kom/ þuiad plester af þeim urdu ad

 drecka

drecka Hörmunganna/ og Motlætesins Bikar/ Sumer vrdu fyrer Spotte og Hrysle/ Sumer fyrer Alyge/ Hrakninge og Fangelse/ Ja/ Þar voru sumer sem voru Partierader/ & Höggner j Stycke/ Sumer med Spiote j giegnum lag der/ Sumer Hals höggner. Enn slæum til myner Elskanleger/ Eige höfum vier helldr/ ad vænta oss stoors betre Luku hier j Heime/ þuiad aller þeir sem Gudlega vilia lifa j Christo Jesu/ þeir hlioota Ofsookn ad lyda/ 2. Tim. 3. Og hatader ad verda vegna Nafnsins Christi/ af huörium Manne/ Matth. 5. Þar fyrer skulum vier j Tyma/ bwa oss vid Motlætingunum/ epter þui sem Syrach raadleggr/ 2. C. Og mögla ei mote Gude/ þo hann læte oss Kross & Mot gang ad Höndum koma/ þuiad so sem þ/ ad Höfuded vort Herrann Christur/ vard ad lyda Pynu og Dauda/ og inganga so sydann j syna Dyrd/ Luc. 24. Eins meigum vier vita/ ad vier munum verda ad feta j hans Footspor/ j þui/ ad lyda nockud med hönum/ vppa þad/ ad vier verdum eins med hönum vpphafd er/ til Dyrdarennar/ Rom. 8.

Þad annad/ sem Herrann fyrer seiger synum Læresueinum/ Er Verralldarenn ar GLede og Ofsakiæte/ þui so stendur j Gudspiallenu/ Þ Jer MVnud SJta Og GRaata/ Enn HEimurinn Mun FAgna/ et ct. Þetta eru nu þau Ofrænu Kiör/ sem Guds Börn verda ad þola/ og reina/ hia þui sem þeir hiner Ogudlegu/ huar vppa ad heilager Guds Menn/ og Astviner Drottins hafa aatyd mykelega forundrad sig. Þegar jeg minnest þar a seiger hinn heilage Job/ 21. Cap. Hrædest eg/ og þar kiemur Skialfte j mitt Holld/ Huar fyrer lifa hiner Ogudhræddu/ Verda gamler/ og eignast so mykel Audæfe? Þeir ra Sæde er Andvaralaust j kringum þa/ og þeirra Afkuæme er hia þeim/ þeirra Hws hefur Frid fyrer Ottanum/ og Guds Hirtingar Vöndur er ei yfer þeim/ þeirra Vngbörn ganga wt sem önnur Hiörd/ og þeirra Smaabörn stöckua vpp/ og leika sier/ Þeir skiemta sier med Bumbum og Hörpum/ og gledia sig mz Pyspum/ Þeir verda gamler j Sællyfenu/ & skielfast valla eitt Augnabragd fyrer Helvyte/ Þeir sem so segia til Guds/ Vyk þu burt fra oss/ vier villium ei vita af þynum Vegum. Huör er sa hinn Almættuge/ þad vier villdum þiona hönum? Eda huöria Forbetrun höfum vier þar wt af/ þo ad vier ækölllum hann? Motlyka talar og so hier vm/ Spamadurinn Jeremias/ 12. Cap. Eg sa good de Asaph/ j Psalmenum 73. Ja/ Þar eru enn nu j Dag margar fromar og Gudhræddar Manneskiur til/ sem giöra sier Þanka/ og þunga Samviskn þar ad/ þegar þær rata j Sorg og Motgang. Enn meiga þar þuert a mote sia þar vppa/ Ad þeim Ogudlegu Veralldar Börnum geingur allt ad Oskum/ og eru glöd og kaat. Enn þa vier giætum betur ad/ & þeinkium oss vm/ þa siaum vier/ ad vier höfum öngva Ordsök til/ ad segia oss slykt fyrer Sinne/ þui þad er fyrer þeim Ogudlegu/ eins og þar stendur/ hia Matteum 6. Ad þeir hafa syn Laun wt teked/ Þuiad a Efsta Deige mun vmsnwed verda Bladenu/ suo þad þeir sem hafa hier hleyged/ munu þar Graata/ Luc. 6. Þar fyrer meigum vier vnna Börnum þessa Heims/ ad hafa syna Glede & Kiæte fyrer sig.

Fyrst

Fyrſt vegna þeſſ/ ad Fragd þeſſ Ogudlega ſtendur eige lenge/ z [illegible] Gladlæte varer eitt Augnabragd ſo ſem Job talar/ 20. Cap. [illegible] ad Hungradañ dreymer/ þad hañ þyckeſt neyta/ Enn nær ed hañ vaknar/ þa er hñs Saala ſamt toom/ Og lyka ſem þ þyrſtañ dreymer/ þad hñ mune drecka eñ nær ed hañ vaknar/ þa er hañ Maattlaus og þyrſtur/ Eſa. 29. Eins geingur þad og ſo til/ þyrer þeim Ogudlegu/ þegar þeir eru ſem Gladaſter/ þa vett alldrei nær eñ Hrygdeñ mune þa a alla vega ymkryngia/ Þuiad Heimuriñ forgeingur/ og hans Fyſn/ Eñ huør Guds Vilia giører/ ſa blyþur ad eilyþu/ 1. Joh. 2.

Þar næſt er Glede þeirra Ogudlegu/ ein miøg þænyſt Glede/ Þuiad epter Glætur kiemur Hrygd/ og Harmur kiemur epter Føgnud/ ſeiger Salomon/ Ordſkuida B. 14. Cap. Þar þyrer hrædeſt eg eige Heitingar þeirra Ogudlegu/ þui ad þeirra Vegſemd er Ohreinende/ og Madkar/ J Dag er hañ vpphaþiñ/ Eñ a Morgun liggur hañ þalliñ/ epter þui ſem þar ſtendur/ j þyrſtu Book Maccab. 2. Cap.

J þridia lage/ er þad ein Haaſkaſamleg Glede/ epter huøria ad ecke plagar ad koma/ añad hélldur eñ ein ſtoor Hiartaſorg/ og Angurſeme/ Þar þyrer ſeiger hiñ heilage David/ Laat ecke þad villa þig/ þo ad eirn verde Rykur/ eda þo ad Herlegheit hans Hwſa verde mykel/ Þuiad j ſynu Andlaate mun hañ øngvañ Hlut med ſier taka/ og hñs Dyrd mun ei epter hønum þara/ eñ hañ Huggar ſig vid þetta Sælgiþe/ og loþar þad/ nær einhuør ſtundar epter goo dum Døgum/ ſo þara þeir epter Fedrum ſynum/ og ſia Lioosed alldrei optar/ Pſalmenum 49. Þa ſañaſt þad ſem þar ſtendur/ j Spekiñar Bookar/ 5. C. Huad hialpar oſſ nu vor Hoþþrakt? / Huad høþum vier nu aþ vorum Rykdome og Metnade? þad er allt burt lided ſem Skugge/ og ſo ſem eirn Hlioomur/ ſem þia lydur/ og ſo ſem Skip ſkrydur a Vatnsbylgium/ huørs Footſpor einginn kañ ad þiña/ et ct.

Ad ſyduſtu ſyner Endurlauſnariñ vor Herrañ Jeſus Chriſtus/ Lærèſueinunum ſynum/ og øllum oſſ/ huøria Nytſemd og Gagn/ vier høþum aþ Kroſſenum/ Og þad giører hañ med þeirre Epterlykingu/ ſem hañ hier þramſetur/ vm Sængarkuiñuna/ Þui ſo ſem þad ein Kuiña kañ ecke ad ſkiliaſt vid ſiñ Lyþs Avøxt/ þyrer vtañ Soott og Harmkuæle/ epter þui ſem ſialþur Gud ſeiger/ Gen. 3. Cap. So kañ og eingiñ þyrer vtañ Kroſſ og Motlætingar til eilyþs Lyþs ad Endurþædaſt/ Þui eþ vier vilium ryckia med Chriſto/ þa meigum vier z ſo med hønum lyda/ 2. Tim. 2.

Þar næſt verdur oſſ hier þyrer Siooner ſettur/ ſa mykle og ſtoore Þunge/ ſem Kroſſe og Motgange þylger/ þui ſuo ſem þad/ ad eingiñ Sott er hardare eñ Joodſootteñ. Eins hlioo tum vier Chriſtner Meñ/ þyrer margar Motlætingar ad jñganga j Guds Ryke/ Giørn. B. 14.

J þridia lage/ Lyka ſo ſem þad/ Ad aller Kueñmeñ haþa orded ad þæda ſyn Born med Soott og Harmkuælum/ ſydañ Falled/ So ſkulum vier eyta/ ad

 þo Gud

Þo Gud legge oss stundum vppa Kross ⁊ Motlæte/ þa høfū vier þad med vorū Syndum forskulldad.

# Auñur Greiniñ.

NV epterfylger med einu Orde/ad miñast ꜳ þad añad Greinarkorned/sem er/vm þa gledelegu Huggun/sem Herrañ lofar ad syn Børn skule fꜳ/ epter þad þau hafa nockra stund j Krossins Skoola geinged.

Fyrst er oss þad miøg Huggunarsamlegt/ ad þo Gud legge oss opt og tijdum Kross/og margvijslegar Motlætingar vppa/þa lætur hañ þad ei æfenlega vara/helldur alleinasta vm eirn lijtiñ Tijma/ þui so seiger Herrañ Christur hier til siña Lærersueina. Jñañ lijtels Tijma munud þier ecke siꜳ mig/ Og þa eñ jñañ lijtels Tijma/munud þier siꜳ mig aptur/ etc.

Heyrum huad sialfur Gud seiger/hia Esa. 54. Cap. Jeg (seiger hñ þar) yfergaf þig ꜳ litlu Augabragde/eñ med mykelle Myskunseme/ vil eg samañ safna þier/Eg hefe mitt Andlit ꜳ Augabragde Reideñar/vm litla Stund hulid fyrer þier/ Eñ med eilijfre Myskunseme/ þa mun eg þier Myskunsamur vera. Eñ þetta ad skilia/og sig hier vid ad hugga/þad veiter Hollde voru ⁊ Bloode næsta þungt. Marger tala so/og seigia/Jeg hef nu leiged j so margar Vikur/og j so marga Manude/Jꜳ/j so møeg Ar/ꜳ miñe Soottarsæng/⁊ hefe þo huørke kuñad ad deya/nie aptur ad batna/er þad þa nockud lijtell Tijme? Eñ þar ꜳ mote eigum vier Christner Meñ ad Hugga oss/⁊ gledia/vid þa sꜳru Kuøl ⁊ Pijnu/sem vor hiartans Endurlausnare Jesus/leid vorra vegna/epter þui sem Postuliñ Petur kieñer oss j sijns 1. Pistels/4. Cap.

Þar næst eigum vier og so ad hugga oss vid þa stooru Glede/ sem øll Guds Børn meiga sier visselega vænta/ epter afstadiñ Kross og Motgang/ Þui suo sem þad/ad ein Kuiña/nær hū hefur Barned fædt/ Þa Miñest Hun Ei Lengur Þess HArmkuælis/ sem hun hefur ꜳtt/ FYrer FAgnadar SAker/ Ad MAdur Er j HEimiñ Boriñ. Eins lijka mun Drottiñ ecke lꜳta sijna Riettlꜳta æfenlega Groo hafa/Psalm. 55. Helldur snwa þeirra Sorgarkløgun j Dans/og sundur slijta þeirra Hrygdarseck/og vmgyrda þa med Fagnade/so sem David seiger/Psalm. 30.

Eñ huylijkur Føgnudur mun þad þa verda? Fyrst verdur þad eirn Sañarlegur Føgnudur/ þui Ord Drottins kuña ecke ad bregdast/og huad hañ lofar þad ender hañ visselega/Psalm. 33.

Þad verdur og so eirn Gledelegur Føgnudur/þui Herrañ seiger hier/Ad hañ vilie siꜳ Lærersueinana sijna aptur/Þar fyrer fylger þad og suo ꜳ epter/ ad þeir skule eirniñ siꜳ hañ/ Huar vm hañ hafde ꜳdur beded siñ Fødur/ med þessum Ordum/seigiande. Fader/Huøria þu gafst mier/vil eg/ad huar sem eg er/ þa sieu þeir med mier/ suo þeir siꜳe mijna Dyrd/ huøria þu gafst mier/ Joh. 17. Cap.

J þridia máta verdur þad eirn HJartanlegur Fögnudur/ Þui so stendur hier/ Ydart Hjarta/ seiger Herrañ Christur/ SKal FAgna. Þesse Fögnudurin mun ad sönu byriast/ Fyrst hier j Nádarrykenu/ hia øllum Vtvølldum Guds Børnum/ eñ fullkomnast sydar meir/ j þui eilyfa Rykenu/ þar Drottiñ mun þurka øll Taar af þeirra Augum/ Opinber. Bok. 7. Cap.

J fiorda máta mun þad verda eirn EJlyfur/ og Oendanlegur Fögnudur/ Þuiad Herrañ Lyfsins seiger hier/ AD Eingiñ SKule TAka ÞEñan Fögnudiñ fra sÿnum Læresueinum. Þad er/ fra sÿnum Elskulegum/ og Vtvøldum Børnum. Vier vitum huørniñ þad geingur til opt ꝛ tydum/ vm Fögnud þessa Heims/ Hañ er skamvinñur/ og varer ecke leinge/ so sem noogleg Dæme finnast til. Liet ecke Absalon slaa siñ Broodur Amon j Hel/ þar hañ sat/ og var ordiñ Gladur/ og Lystugur af sætu Vyne? 2. Sam. 13. Huad fieck sa Ryke ad heyra/ sem safnad hafde til margra Aara/ og baud þess vegna Saalu siñe/ vera af ofuer Fögnude/ til Gesta? seigiande/ Et nu og dreck Saala myn/ og vert glød. Munde ecke til hans sagt verda? Þu Daare/ A þessare Nootttu munu þeir þyna Saal fra mier taka/ Luc. 12. Eñ ecke verdur so vared Fögnude Vtvalldra Krossens Barna Herrans Christi/ Þui so seiger Esaias/ 35. Cap. Þeir hiner Endurkeyptu Drottins/ munu aptur snwa/ og til Zion koma med Fagnadarkiære/ Eilyf Glede mun vera yfer þeirra Höfdum/ Glede og Fögnud munu þeir höndla/ ꝛ Hrygd og Sorg mun hliota burtu ad vykia.

Ad sydustu mun þesse Fögnudurin verda FVllkomiñ Fögnudur/ Þui so seiger Herrañ Christur/ j Nidurlage Gudspiallsins/ A þeim Deige munu þier mig og einskis spyria. Þetta er ein ypermata mykel ꝛ stor Huggun/ Þui hier j Heime eru vorer Vitsmuner ecke vtañ Haalfverk/ og vorar Spaasagner Haalfverk/ Eñ nær þad kiemur sem algiørt er/ þa liner þad sem Haalfverked er/ seiger Postuliñ Paall/ 1. Cor. 13. Item/ seiger hañ j sama Capitula/ Hier siaaum vier fyrer Speigeliñ j Raadgatu/ eñ þa (þad er j Eilyfu Lyfe) Auglite til Auglitis. Nu þecke eg ofullkomlega/ eñ þa mun eg þeckia/ so sem eg er þecktur. Jaa/ Vær munum þar bæde siaa/ vita og skynia kuña þa Hlute/ sem huørke hefur Auga sied/ ecke Eyra heyrt/ og ecke hafa j Mans Hiarta nockurn tyma komed/ 1. Cor. 2. Til huørrar Eilyfrar Fullkomiñar Glede/ og Fagnadar/ oss hialpe Gud Fader/ Sonur/ og Heilagur Ande/ Haalofadur og Blessadur/ nu og vm alla Eilyfd/ Amen/ Amen.

## Fiorda Suñudag epter Paaska.

### Evangelium/ Johañ. 16. Cap.

 Jesus



Esus sagde til sina Lærisueina. Nu fer eg til hans sem mig sende/og eingin af ydur spyr mig ad. Huert fer þu? Helldur af þui ad eg talade þetta til ydar/þa uppfyllist ydar Hiarta af Hrygd. Enn eg seige ydur þo Sannleikin/ ad þad batar ydur/ ad eg fare hiedan. Þui ef ad eg fer ei j burt hiedan/þa kiemur eige Huggarin til ydar. Enn ef eg fer j burt hiedan/mun eg senda han til ydar. Og þa ed hann kiemur/straffar hann Heimin um Syndena/og um Riettlætid/ og um Doomin. Um Syndena/af þui þeir trwdu ecke a mig. Enn um Riettlætid/þuiad eg fer til Fodursins/Og epter þad siaed þier mig ecke. Enn um Doomin/þuiad Hofdinge þessa Heims er dæmdur. Eg hefe enn nu margt ad seigia ydur/enn þier kunned ecke ad sinne ad bera þad. Enn nær ed sa Sannleiksins Andin kiemur/þa mun hann kienna ydur allan Sannleik/ þuiad hann talar ecke af sialfum sier/helldur huad hann heyrde/ þad talar hann/og huad epterkomande er/þad kunngiorer hann ydur/Hann sami mun og auglijsa mig/þuiad af mijnu mun hann þad taka og kunngiora ydur. Allt huad helldst Faderin hefur/þad er mitt. Þar fyrer sagda eg ydur/ad af mijnu mun hann þad taka/og kunngiora ydur.

# Exordium.



Egar Gud Drottinn liet Spamannen Eliam Uppnuminn verda/ hiedan af Jördunne til Himens/j einum Elldlegum Vagne/Þa var hans Þienare Eliseus Sorgande/og Angradur/so hann villde hönum ecke sleppa/eda vid hann skilia/helldur huört sem Elias giecK/ þa foor hann epter hönum/seigiande so til hans/So sannarlega sem Drottinn lifer og þijn Sæl/þa sleppe eg þier ecke/allt þar til Elias Lofade/ad sinn Ande skyllde tuofalldast yfer hönum/so sem lesa ma j annare Book Konganna 2. ap.

Alijka Dæme verdur oss fyrer Siooner sett/ j þessa Dags Gudspialle/ Þui þegar sa Himneske Elias/vor Drottinn Jesus Christus predikade synum Lærisueinum/ut af sinne Burtfør til Födursins/þa urdu þeir strax hrygguer/og Sorgande þar vid/ & villdu þad ecke giarnan heyra/ þui þeir höfdu langtum odruvijse Meining haft um hann/sem ee/ ad hann munde verda eirn Veralldleg ur Herra/og Potentat/ hier hia sier/ og setia sig til hærra Embætta/ Tygnar og Metorda j synu Rijke/ þar fyrer fellur þeim þad so þungt/ þa Herrann Christur seiger þeim fyrer/ ad hann vilie skilia vid þa/ og fara aptur til hans sem sig sende. Enn Herrann Christur seiger þeim hier miøg Merkelega fra/ hu ert Gagn og Nytseme þeir munde hafa af sinne Himnaför/ sem er/ Ad fyrer

hana

hana vilie hañ wtvega þeim/ þañ gooda heilaga Anda/ſem þa ſkule Hugga j øllum Motgange/og kieña þeim allañ Sañleika/huad þeim ſkule myklu betur koma/eñ þo hañ ſette þa til hiñar meſtu og Ypparleguſtu Tignar hier j Heime þeſſum. Og eitlum vier nu taka oſſ fyrer Hendur tuær Smagreiner/ ad ſkoda og yfer vega ad þeſſu ſiñe/ wt af þeſſu heilaga Gudſpialle.

Su fyrre ſkal vera vm Fyrerheit Chriſti/þar hñ lofar ad ſenda ſijnum Læreſueinum þañ gooda heilaga Anda.

Auñur vm hans Embætte/ og huad hañ mune vtrietta hier æ Jørduñe.

Nu Gud Hialpe oſſ med ſijnum Heilaga Anda/ ſo vier mættum þetta yferuega/hans bleſſada Nafne til Lofs og Dyrdar/eñ oſſ til Sæluhjálpar j Jeſu Nafne/Amen.

# Fyrre Greiniñ.

Nu fer eg til hans ſem mig ſende/ og eingiñ af ydur ſpyr mig ad/ huort fer þu? Helldur af þui/ad eg talade þetta til ydar/þa uppfylldeſt ydar Hiarta af Hrygd/ Seiger vor bleſſade Endurlauſnare/til ſiña Læreſueina. Tuent er oſſ hier j þeſſum Ordum athugande. Þad fyrra er vm Reiſu/edur Burtfør Herrans Chriſti/til þeſſ ſem hañ ſende/Þad er til ſijns Himneſka Fødurs. Eñ fyrer þeſſa hans Reiſu æ ecke einungis ad ſkiliaſt hans Dyrdarlega Himnafør/Helldur og ſuo hans Pijna/Daude/ og Vpprisa fra Daudum. Nu ſo ſem þad/ ad Herrañ Chriſtur er vndañ oſſ geingiñ til Fødurſins/og hefur tilbwed oſſ Vegiñ/ ſem vier eigum epter hønum ad ganga/ þa lætum oſſ ecke þikia myked fyrer/ad ſkiliaſt vid þeñañ auma og fallvallta Heim/ Helldur med glødu Hiarta/ epterfylgia vorum Herra/ og Endurlauſnara/ jñ j þad Himneſka Føburlanded/þa Daudiñ kiemur og kallar oſſ burt hiedañ/ſeigiande med Poſtulanum Paale/Jeg hefe Girnd til ad fara j burtu/ og vera med Chriſto/huad mier er myklu betra/Phil. 1. Nu þo ſo ſie/ad þar fiñeſt Marger ſem kuida fyrer Daudanum/og hrædaſt hñ/ þa er þad þo ſtoor Heimſka og Fæviſka/Þui Daude Guds Barna/er ecke añad eñ Jñgangur til þeſſ Himneſka Fødurſins/Huør ad er Fader/yfer allt þ ſem Børn kallaſt/æ Himne og Jørdu/Eph. 3. Þeir Ogudlegu/ſm jlla hafa lifad/þeir meiga vel ſkielfaſt/og kuida fyrer Daudanum/þui þeir fara lifande nidur til Heluitis/ſo ſem þar ſtendur/Num. 16. Cap. Og ſiæ ecke Liooſed framar meir/ Pſalm. 49. Enn þar þuert æ moote/meiga øll Guds Børn/med Hiartans Fögnude ſyngia og ſeigia/med hinum gamla Simeone/ Nu lætur Drottiñ þiñ Þion j Fride fara epter þui ſem þu hefur ſagt/ Þui mijn Augu hafa ſied þitt Hialpræd/ et ct. Þetta hefur nu Herrañ Chriſtur afrekad oſſ/ med ſiñe Burtfør til Fødurſins.

Þad añad ſem vier ſkulum athuga/og yferuega/ wt af þeſſum fyrſtu Textans Ordum/ er þad/ Huørn Auøxt ad þeſſe Ræda edur Fyrerſøgn Herrans Chriſti (vm ſijna Burtfør til Fødurſins) hafe fært j Hiørtu hñs Læreſueina ſem er/ecke añad eñ Angurſeme/Hier vm hliodar ſo Gudſpialls Textiñ vor.

 Og

Og eingiñ af ydur spyr mig ad/ Huørt fer þu. Helldur af þui eg tala/ de þetta til ydar/ þa vppfylltest ydar Hiarta af Hrygd.

Tuent er þad/ sem Herrañ Christur strafar hier syna Lære suenna fyrer. Fyrst strafar hañ þa fyrer Athugaleyse/ þar þeim kiemur ecke til Hugar/ ad spyria hañ ad/ huørniñ þeir eige ad skilia þad/ Hañ segist fara til Fødursins/ edur þess sem sig sende.

Huar af vier høfum þad ad læra/ Ad so sem þad/ ad Herrañ Christur vthel mter hier af synum Læresueinum/ ad þeir skule spyria ad þui/ sem þeir skilia ecke. Eins vill hañ og so/ ad vær giørum/ einkanlega þegar Imislegar Freistingar kuña oss til ad falla/ og vær þikiunst ecke riettelega kuña ad skilia/ af Guds Orde/ huørniñ þad eda þad til kiemur/ og huar fyrer Gud høndle so og so vid oss/ þa eigum vier ad spyria þa þar ad/ sem frooder eru j Guds Orde eñ vær/ og oss kuña ad Leidrietta.

Þad añad sem Herrañ finnur ad vid syna Læresueina/ Er Hrygd þeirra og Angurseme/ sem þeir faa af þui/ ad hañ seiger þeim fyrer syna Burtfør. Þeir hefdu med riettu att ad glediast og þacka Gude þar fyrer/ ad þeirra Herra/ og Lausnare var þeim so goodur/ Ad hañ villde med sine Burtfør/ Ja/ med sine Pijnu/ Dauda/ og Vpprisu/ af reka þeim eilyfa Saaluhialp. Eñ vær erum (þui nidur) flestaller so siñader/ ad vier gietum huørke vel heyrt ne lidid/ ad talad sie vm Kross edur Burtfør vora/ og vorra Astvina/ af þessum Heime/ helldur hrygiunst vier meir/ þa þar æ verdur minst/ eins og Læresueinarner giøra hier/ þar vier ættum so myklu framar ad glediast og fagna/ þar yfer.

Þad er skrifad vm eirn af Lærefedrunum/ Ad þa hañ laa syna Banalegu/ og hans Viner/ Kuñingiar/ og Brædur/ stoodu Sorgande j kringum hñ/ Þa hafe hañ horft æ þa til skiptis/ og hleyed/ og þad hafe hañ giørt tuisuar eda þrisuar/ huad epter añad/ Eñ sem þeir spurdu hañ ad/ og badu siñ Elskulega Fødur ad seigia sier/ huar ad hañ hlæe/ þar þeir stæde og grete/ og bære sig jlla/ Suarade hñ/ Fyrst hlæ eg þar ad/ ad þid erud hrædder fyrer Daudanum/ Þar næst ad þui/ Ad eg æ nu fyrer Høndum so Gledeleg Vmskipte/ ad meiga komast wr þessum Eymdardal/ jñ j Himnarijkis eilyfañ Fagnud/ og meiga lifa þar/ hia mynum Drottne æfenlega/ Eñ þid standed hier/ og græted yfer mier. Eins ættum vier ad fagna og glediast/ Hiartanlega þar vid/ þa Drottiñ virder oss þess/ ad kalla oss og vora Astmeñ/ til Lambsins Brwdkaups/ Openberingar Book. 19. Cap.

Framvegis seiger Herrañ Christur/ Læresueinunum synum/ Huøria Gagnsemd og Nyt/ bæde þeir mune hafa af sine Burtfør/ sem og øll oñur Riettrwud Guds Børn/ Eñ eg (seiger Jesus) seige ydur Sañleikiñ/ Þad batar ydur ad eg fare hiedañ/ þui ef eg fer ei j burt hiedañ/ þa kiemur ei Huggareñ til ydar/ Eñ ef eg fer j burt hiedan/ mun eg senda hañ til ydar.

Hier kañ einhuør ad spyria/ huørt Læresueinarner Herrans Christi/ hafe

ecke

ecke fyrre medteked Heilagañ Anda/ eñ þad/ ad hñ var Uppstiginn til Himens? Sañlega høfdu þeir hañ ædur fyrre medteked/ Eñ synelega medtooku þeir hñ ecke fyrre eñ æ Hugtasuñu Deige/ Huør synelég Meddeiling Heilags Anda/ ecke hefde kuñad ad skie/ hefde Herrann Christur ecke ædur fared til Fødursins. J einu Orde ad seigia/ hefde vor Endurlausnare ecke vm dañ oss fared til Fødursins/ þad er/ hefde hañ ecke lided Pijnu & Dauda vorra vegna/ og forlijkad oss so vid siñ Himneska Fódur/ þa hefdum vier alldrei feinged þa Æru og Vegsemd/ad meiga kallast Bwstadur heilags Anda/ þui hrilagur Ande byr ecke j eirnre Hrekvijsre Saal/ edur j þeim Lykama/sem Synden ne er vndergiefiñ/seiger Salomon/ j Speküñar Bookar 1. Cap. Þar fyrer ef vier villum/ad heilagur Ande kome til vor/ og take sier Bwstad j vorum Hiørtum/ þa kostum Kapps þar æ/yfer alla Hlute fram/ ad vier Krossfestum vort Hold/med synum Girndum og Tilhneygingum/Gal. 5. Eñ lifum sparlega/Reittferduglega og Gudlega j þessum Heime/ epter þui sem Postuliñ Aminner oss/til Tit. 2. Cap. Vær eigum og so ad fordast Reide/og Osamlinde/vid voru Samchristiñ Naunga/eñ lifa til samans/j Eindrægne/og ríttum Kiærleika/so sem Brædur og Systur/þui sa goode heilage Ande/er Ande Fridarens og Elskuñar/2. Tim. 1.

J þridia lage eigum vier og eirniñ/ad vera kostgiæfner/til þess ad bidia Gud jduglega fyrer oss/ og lata þad alldrei vndañ falla/ huørke Kuølld nie Morgna/huørt helldur vier støndum vpp/edur leggium oss fyrer/eda huad helst sem vier adhøfunst/þui hñ er & so Ande Bænarenñar/og elskar þa alla sem Bænrækner eru/Zach. 12. Eñ ef vier giørū þetta ecke/ þa styggium vier þañ gooda heilaga Anda fra oss/ eñ giefum Rwm þeim leida Diøfle/og Andskota/ huør ed med sier tekur sio adra Anda sier verre/huørier ad steypa Mañeskiuñe j eilijfa Fordæming/og Saalartøpun/Luc. 11. Cap. Huar fra Gud vardveite oss j Jesu Nafne.

# Auñur Greiniñ.

Epterfylger med einu Orde/ ad miñast æ þad añad Greinarkorned/sem er/ vm Embætte þess gooda Heilaga Anda/huørt ad er med þeßu mote/ epter þui sem Herrañ Christur kieñer oss hier/j þessa Dags Gudspialle.

Fyrst er þad Embætte Heilags Anda/ad hugga oss aumar Mañeskiur/huørs vegna ad Herrañ kallar hañ hier eirn HUGGara/ Og þetta sitt Embætte framkuæmer hañ hia oss sem hañ elskum.

Fyrst æ Hørmungar og Motlætis tijmanum/þegar vier røtum j nockurakonar Eymd/eins & Elias/1. Bok. Kong. 19. Edur j Armood og Fatækt/eins og Job/Job. 1. Eda j langvarande þungañ Siukdoom/ eins og sa sem sat vid Dyked j Bethesda/Joh. 5. Þa hialpar sa goode Heilage Ande vorum Breyskleika/so vier yrvilnunst ecke/Rom. 8.

Þar næst framkuæmer hañ þad hia oss/þa vier verdum freistader hid jñra/

 þad er

Þad er/ þegar Andskotinn skyrer ad oss sÿnum Elldlegum Pÿlum/ og
klagar oss Nott og Dag/ fyrer Gude/ Openber. B. 12. Þa er heilagur Ande
nálægur/og forsuarar oss/ ecke ad eins fyrer Gude lifanda/ helldur og eirniñ
ber hañ þañ Vitnisburd vorum Anda/ad vier sieum Guds Børn/ Eñ ef vier
erum Børn/so erum vier og eirniñ Erfingiar/Ja/Guds Erfingiar/og Sam
arfar Christi/ Rom. 8.

J þridia lage framkuæmer heilagur Ande þetta sitt Embætte hia oss/ a vo
rre sÿdustu Burtferdarstundu/þegar vor Augu sia ecke leingur/ og vor Eyru
heyra ecke leingur/og vorar Hendur þreifa ecke leingur/og Fæturner gieta ec
ke geinged leingur/þa hroopar hañ j vorum Hiørtum/ og Eyrum/ seigiande/
Vered hughrauster/þuiad Christur hefur j burtteked Daudans Magt og Hey
sklekka/ og giørt ydur hañ ad hægum Suefne/ Huørt Hroop heilags Anda
giefur þeirre Mañeskiu/sem fyrer Daudanum liggur/soddañ eina Huggun/og
Hugsuølun/ Ad hun gietur sagt med hinum heilaga Job/ Jeg veit ad minn
Endurlausnare lifer/og hañ mun hier epter vppvekia mig af Jørduñe/ og eg
mun vmgiefast sadar meir/ med þessu mÿnu Hørunde/og eg mun sia Gud j
mÿnu Hollde/og mÿn Augu munu lÿta hañ/et ct. Job. 19.

Añad Embætte Heilags Anda/seiger Herrañ Christur ad sie þ/Ad STraf
fa Heimiñ. Eñ þrent er þad sierdeilis sem Ande Guds straffar Heimiñ
fyrer. Fyrst straffar hañ hann fyrer SÿND/ Eñ huada Synd er þad?
Þad er Vantrwareñar Synd/Ad þeir sem j Heimenum eru/trwa marger huør
ier/ecke a Guds Son/so sem Christur talar hier lioosLega j Gudspiallenu/ Eñ
ecke a þetta so ad skiliast/so sem þar sie ecke øñur Synd til/sem Straffverd
er/helldur eñ Vantrwiñ/ Helldur af þui/ ad af Vantrwñe wtflioota allar ad
rar Synder og Lester/ suo sem af ødrum Bruñe/ Þar fyrer nefner Herrann
Christur hana hier sierdeilis. Þui huad hellst sem ecke er af Trwñe/ þad er
Synd/seiger Postuliñ til Rom. 14. Cain hefde feinged Nad/hefde hañ ad
eins trwad/eñ af þui/ad hañ ørvænte sier Guds Nadar/ og sagde ad sÿn Sy
nd være stærre/eñ hun kyñe ad fyrergiefast/þa vard hañ ecke hialplegur. Hi
er af sia vier/ ad þar er eingiñ stærre Synd til/eñ Vantrwiñ.

Þar næst straffar heilagur Ande/Heimiñ fyrer RJETTlæted. Þad
mun þikia vndarlegt/einkū þeim einfølldu z fafroodu/Ad H. Ande skule straf
fa Heimiñ fyrer Riettlæte/þar þo sialfur Gud hroosar Noa/ og so eirneigin
Job þar fyrer/ad þeir hafe bader Riettlater vered/Gen. 7. Job. 1. Eñ
vier skulum læra/ad giøra Greinarmun a millum Mañaña Riettlætis/z þess
Riettlætis sem fyrer Gude gillder. Mañaña Riettlæte er þad/þa eirn edur añ
ar þikist hafa lifad vel og Heilaglega/hallded Guds Tÿu laga Bodord/ giefed
Aulmusur/og añad þad sem Løgmaaled wtheimter/ og meina sig so af sÿnum
eigen Verkum gieta stadest/fyrer Guds Doomstoole. So þottest Løgvitrin
gurin Riettlatur vera/sem spurde Christum ad/ huad hañ skyllde giøra/ suo
hañ feinge Eilÿft Lÿf. Eñ Herrañ suarade/og sagde til hans/Ad hñ skyllde

hallda

hølldur Bodordin/ Løgvitringurin̄ sagdest þad giørt hafa j fra Barnæsku/ so sem lesa ma/ Matt. 19. Eins þottest Pharisearin̄ Riettlatur vera/ þa hn̄ giek upp til Musterisins/ ad bidiast fyrer/ Jeg þacka þier Gud (seiger hann) Ad eg er ecke so sem adrer Men̄ Ræningiar/ Oriettvijser/ Hoordoomsmen̄/ edr so sem þesse Tollheimtumadur/ Luc. 18. En̄ þetta er ecke þad sañа Riettlæted/ sem fyrer Gude gilldr/ Þar fyrer seiger so Endurlausnarin̄ vor/ til sin̄a Lærisueina/ hia Mattheum/ 5. Cap. Nema so sie/ ad ydar Riettlæte sie betra en̄ þeirra Skriptlærdra og Phariseañа/ þa kun̄e þier ecke jn̄ ad ganga j Himnaryke. Þeir sem nu j soddañ mata/ þikiast Riettlater af sier sialfum til/ þa alla seiger Herrañ Christur ad H. Ande mune strafa þa hañ kiemur.

Hier þuert a moote/ er þad/ þad sañа Riettlæte sem fyrer Gude gillder/ Nær vier trwum þui stadfastlega/ ad vier fyrer Riettlæte Jesu Christi/ hans Pijnu og Dauda verdum Riettlater/ an allrar vorrar Verdskulldunar/ og Verdugleika. Og fyrer soddañ Riettlæte strafar ecke heilagur Ande Heimin̄/ eda Men̄ena sem j Heimenum eru.

J þridia lage seiger Herrañ Christur/ Ad heilagur Ande mune strafa Heimin̄ fyrer Doom. Ecke eru hier med/ meinter riettir Doomar/ sem Yfirvallded/ wtnefner epter synu Embætte/ til ad strafa Synder og Glæpe/ Helldur aller Samviskulauser og Rangsnwner Doomar/ Hueria Herrañ fyrerbydur j synu Heilaga Orde.

Þridia Embætte Heilags Anda/ er ad kien̄a og uppfræda oss Men̄ena j øllum Sañleik/ Þui so seiger Herrañ Christur hier/ En̄ nær ed sa Sañleiks Anden̄ kiemur/ þa mun hn̄ leida ydur j allañ Sañleik. Þetta er ein yfermæta mykel Huggun/ Ad heilagur Ande er ecke alleinasta Læremeistare/ helldur og so Leidtoge vor Christen̄a Mañа. Vier vitum/ ad þeir sem Reisa og Vandra vilia/ einkum om Obygder/ edur Økun̄ug Hierød/ þeir þurfa einhuørs Fylgiara vid/ sem þeim vijse þañ rietta Veg/ so þeir villest ecke. Eins liggur oss aumum Syndugum Møñum (sem Vegfarande erum/ j Eydemørku þessa Heims) stoor Magt þar a/ ad vier høfum þañ Fylgiara/ sem oss leide a þeim rietta og sañа Sæluhialpareñar Veige/ En̄ þad er sa goode heilage Ande/ hañ leider oss j allañ Sañleik/ so vier kuñum fyrer hañs Hialp og Fulltinge/ ad þeckia Gud riettelega/ og hans Son Jesum Christum.

Þad var ad sön̄u stoor Æra og Virding/ sem Forfedrunum/ og ødrum Guds Møñum/ veittest adur fordum/ j þui Gamla Testamenteinu/ þa þeir þeingu Einglana sier til Fylgiara/ og Reisu Stallbrædra/ so sem ad var Loth/ Abraham/ Jacob/ Tobias/ og adrer fleyre. En̄ Þusund sin̄um meire Æra og Virding veitist oss aumum Syndugū Møñū/ ad vier eigum heilagañ Anda fyrer Leidsagnara og Fylgiara/ sem oss vijsar a þañ rietta Veigiñ/ sem vier eigum ad ganga/ Psalm. 25. Eirn goodur Vegvijsare/ edur Fylgiare/ varar þann sem hn̄ fylger/ vid Ræningiū/ Vijsar hønū ad Varne/ sem hn̄ kun̄e ad suala sier a/ og ad Skioole/ huar vnder hañ kun̄e ad skyla sier/ fyrer Stormum og Ill-

 vidre

vidre. Sømuleidis ad Herberge/ þar hann giete feinged Mat og Dryck. Eins giører sa goode heilage Ande/ Hann varar oss jduglega vid þeim Helvijska Mordingia Diøflenum/ Hann leider oss til þess Heilsusama Vatnsbrunns/ sem er Skirnin vor/ Hann syner oss og einninn þa edla Biargskoruna/ j huørre vier kunnum ad skyla oss/ fyrer øllum Arasum og Freistingum/ þess jlla Anda/ sem er/ Sarin vors Endurlausnara Jesu Christi/ Hann Endurnærer oss og Sæler vorar/ a þeirre Dyrmætu Fædunne Herrans Christi Hollds og Bloods/ j Sacramentenu/ Og jnnleider vm syder/ j þad Himneska Gestaherberged/ Huar vier munum sia Gud/ Auglite til Auglitis/ og sydann eilijflega med hønum vera. Huar til oss Hialpe su heilaga Guddomsins Þrenning/ Huørre ad sie Lof og Dyrd/ fra Eilijfd til Eilijfdar/ Amen.

# Fimta Sunnudag epter Paaska.

## Evangelium/ Johann. 16. Cap.

OG Jesus sagde til sinna Læresueina/ Sannlega/ sannlega/ seige eg ydur/ Huers þier bidied Fodurinn j mijnu Nafne/ þad mun hann giefa ydur. Hingad til hafe þier einskis beded j mijnu Nafne. Bidied/ þa munu þier medtaka/ so ad ydar Fognudur sie fullkomlegur. Þetta hefe eg talad j Ordskuidum til ydar/ Sa tyme kiemur/ ad eg tala eige leingur j Ordskuidum til ydar/ helldur mun eg kunngiøra ydur Openberlega af mijnu Fødur. A þeim Deige munu þier bidia j mijnu Nafne. Og eige seige eg ydur/ ad eg mune bidia Fødurinn fyrer ydur/ þuiad sialfur Faderinn elskar ydur/ af þui þier elsked mig/ og trued þad ad eg sie af Gude vtgeinginn. Eg em af Fodurnum vtgeinginn/ og kominn j þennan Heim. Eg fyrerlæt og aptur þennan Heim og fer til Fødursins. Og hans Læresueinar seigia þa til hans. Siaa/ Nu talar þu berlega/ og mæler ongua Ordskuidu. Nu vitum vier/ ad þu veist alla Hlute/ og þu þarft eige ad nockur spyrie þig. Fyrer þad truum vier/ þu siert af Gude vtgeinginn.

## Exordium.

J Esters Bookar 4. Cap. Lesum vier/ vm þann Mægtuga Kong Assverum/ Ad eingin hafe okalladur vogad ad ganga jnn fyrer hann j Høllena/ þui huør sem þess dyrfdest/ sa mætte endelega deya/ og Lyflatinn verda/ vtan so være/ ad Kongurinn rette ad hønum syna Gullega Spiru.

Enn ødruvijse er siñadur vid oss/ sa Himneske Kongurinn allra Konga/ og Drottinn allra Drottna/ Huørs Hæsæte ad Himnenum er/ og huørs Footskør ad Jørdinn er/ Esa. 66. Þui hann vill enguann fra sier reka/ sem til hans kiemur/ Joh. 6. Cap. Helldur lætur hann alla þa finna Naad fyrer sier/ sem hann j riettre trw akalla/ Og so vier mættum hier vm þess Oefadre vera/ þa hefur hann giefed oss Likel Bænaren̄ar/ med huørium vier kunnum vpp ad luka þeim Himneska Fiesiood Gudlegrar Nadar og Myskunsemdar/ Þar fyrer talar hann suo til siñar elskulegrar Brwdur/ Christelegrar Kyrku/ j Lofkuæde Salomonis/ 2. Cap. Statt vpp myn kiæraста/og kom/ myn hin prydelega/kom hingad myn Dwfa j Steinholunum/ og Biargskorunum/ syn mier þyna Asynd/ læt mig heyra þyna Raust/ þui þyn Rødd er sæt/ og þitt Andlit er Lystelegt. J þessum Ordum sa Himneske Brwdguminn/ hroosar fyrst Frydleika siñar Brwdur/ huør heñe er ecke Medfæddur/ Þui af Natturuñe til liggur hun j synu Bloode/ Ezech. 16. Helldur hefur sa Himneske Brwdguminn sialfur j fært hana Kyrtle Hialpræderins/ og Klædt hana med Møtle Riettvysenar/ Esa. 61. C. Þui heñe var giefed ad vmklæda sig med hreinu og føgru Sylke/ huørt ad er Riettlætingar heilagra/ Openber. Bok. 19. Og þad er nu þad sem David seiger/ Psalmenum 45. Ad Kongsins Dootter sie næsta Dægeleg hid jnra. Þar næst hroosar sa Himneske Brwdguminn/ þeirre Andlegu Brwdureñe siñe hier/ j þessum Ordum fyrer syna lystelega Raust/ huør ed skilst og merkest fyrer eina Trwada Bæn/ med huørre ad Brwdurin talar vid siñ Brwdguma/ og þessa Ratistena heyrer Herrann Christur giarnsamlega/ þar fyrer æminer hann bæde Lærisueinana syna og alla Riettchristna Men̄ hier j þessum Gudspialls Texta/ til Bæna akallsins/ so seigiande. Hingad til hafe þier einskis bedet j mynu Nafne/ Bidied þa munu þier medtaka/ so ydar Føgnudur sie fullkomlegur. Og viluñ vier ad þessu siñe/ stuttlega yfervega þetta heilaga Evangelium j tueimur Smagreinum.

Hin fyrre skal vera þar vm/ Huørsu þad/ ad vor liufe Lausnare Jesus byidur og befalar synum Lærisueinum/ ad þeir skule bidia og vera Bænræknir/ med þui fleyra sem þar ad hnygur.

Auñur vm þad/ Huørnin Lærisueinarner hafe teked þessare Herrans Christi Befalningu.

Sa goode Heilage Ande/ sem er Ande Nadarenar og Bænarenar/ vere j Verke med oss/ so þetta mætte skie Gude til Dyrdar/ en̄ oss til Sælar gagns og Gooda/ Amen.

# Fyrre Greinin.

Sannlega/ sannlega seige eg ydur/ Huørs þier bidied Fodurinn j mynu Nafne/ þad mun hann giefa ydur/ et cet. Item/ Bidied þa munu þier med Taka/ seiger Herrann Christur j Vpphafe þessa Heilaga Evangelij.

Þrent er þad fierdellis sem oss æ ad æsyja og hvetia til Bænarennar. Fyrst Befalning Herrans Christi/ þar hann skipar Lærefueinunum/ ad þeir skule bidia/ Hvad hid sama ad vered hefur og einnin Guds Vilie/ j þui Gamla Testamentenu/ Ad aller Synduger skylldu bidia sig vm Naad/ þui svo talar Andi Drottins/ fyrer Munn Spamannsins Davids j Psalmenum 50. Akalla þu mig j Neydenne/ þa vil eg frelsa þig/ enn þu skallt heydra mig. Item/ seiger Esaias 55. Cap. Leited Drottins æ medann hann mæ finnast/ kalled æ hann/ æ medann hann er nalægur. Latum oss þar fyrer ecke vera lata/ edur Hirdulausa til þess/ ad frambera vorar Bæner jduglega fyrer Almattugann Gud/ vppa þad/ ad hann verde oss ecke Reidur/ og vier fyrerfarunst ecke æ Veigenum Psalm. 2.

Þad annad/ sem oss æ ad koma til Bænarennar/ er skyllda vor. Vær vitum/ Ad eitt Skoolabarne/ ber ad hlyda synns Skoolameistara Aminningum/ einkum j þui sem Barnsins Velferd ahrærer/ og þui mæ til Gagns og Gooda vera j Framtydenne. Christur er vor Ypparste Skoolameystare/ Skylldum vier þa ecke hlyda hans Aminningu/ og Kienningu/ og Offra Bænum vorum fyrer Lifanda Gud æ hvorium Deige?

J þridia lage æ oss ad vppvekia og æhvetia til Bænarennar/ vor eigenleg Naudsyn/ Eymd og Fær/ sem vier j þessum Heime verdum vt ad standa/ Ad Diøfullinn sie vor argaste/ og skiædaste Saalar Ovinur/ þad vitum vier vel/ þui hann vm kring geingur so sem Greniande Leon/ og leitar ad þeim/ sem hann kunne vpp ad svelgia/ 1. Pet. 5. Er ecke so/ Ad Holded stryder jafnann j mote Andanum/ Gal. 5. Og Heimurinn liggur allur j vondu/ Og lætur ecke af/ fyrr enn hann hefur fullkomnad Diøfulsins Vilia/ Joh. 8. Jæ/ Ef vier yfervegum Lyf vort z Lifnad/ þa siæum vier/ ad þad er ecke annad enn Mæda z Erfide/ So vier meigum klaga med Postulanum Paale/ Hid ytra høfum vier Barættu/ enn hid jnra Otta/ 2. Cor. 7. Og med hinum sæla Job/ Þar sem Madur villde vega Eymd myna/ og leggia myna Pyning til samans j eina Metaskaal/ þa være þad þyngra enn Sandurinn j Siooonum/ Job. 6. Auk þessa margfalldleg Eymd og Armæda/ sem vier hlioo tum ad lyda/ æ ad knyia oss til Bænarennar/ epter þui sem þar stendur/ Esa. 26. Drottinn/ Nær ad Hørmungin er fyrer Høndum/ þa vitia Menn þin/ Og nær ed þu Agar þa/ kalla þeir sargrætelega/ Jæ/ Þar eru einginn betre vrrræde til fyrer oss/ einkum þa vier rötum j Kross og Motgang/ enn ad hroopa til Drottins/ og bidia hann vm Vægd og Naad. Þegar eg kvelst/ seiger hinn heilage David/ þa ækalla eg Drottinn/ og hroopa til myns Guds/ þa Bænheyrer hann myna Raust/ af synu Mustere/ og mitt Akall kiemur fyrer hn til hns Eyrna/ Psalm. 18.

Nu/ villum vier framvegis skoda og Athuga/ hvørninn vier eigum riettelega ad skicka oss og hegda/ þa vier komum med Bæner vorar fram fyrer Almattugann Gud.

Fyrst eigum vier ad bidia Skynsamlega/ og med goodre Athugasemе/ enn

ecke

ecke eins ꝛ Heidingiᵛ /huøriet ed tilbidia Sool/Tungl ꝛ Stiørnr/Eda ſo ſm̃ Papiſtar/ huøriet ad tilbidia Lykneſkiur/Framlidenã H. Mañа/ og ymſinwa ſo Dyrd Oforgeingelegs Guds/ j Lykneſkiur Forgeingelegra Mañа/ epter þui ſem Poſtuliñ ſeiger til Rom. 1. Vm þeſſa og adra þuilyka/ mæ riettelega ſeigiaſt/ þad ſem Herrañ Chriſtur ſagde/ til þeirrar Samverſku Kuiñuñar/ hia Joh. 4. Cap. Þier vited ecke huad þier bidied. Eñ vier ſkulum jafnañ j vorum Bænum/ákalla og tilbidia eirn ſañañ eilyfañ Gud/ Huør ed ſig hefur opinberad j ſynu heilaga Orde/þad hañ ſie Fader Drottins vors Jeſu Chriſti/Þar fyrer ſeiger/hañ ſo j þeſſa Dags Gudſpialle/Huørs þier bidied Fødurinñ j mynu Nafne/þad mun hañ giefa ydur/ Þui hañ er Vppſprettubruñr allrar Viſku/Jacob 1. Og ſa riette Hiartanã Ranſakare/ſm̃ veit huad vier vid þurfum/ꝛ kañ alla Hlute yfergnæfanlegar ad giøra/eñ þad vier bidium eda ſkynium/Eph. 3.

Þar næſt eigum vier ad framflytia Bæner vorar fyrer Almattugañ Gud med ſañre Audmykt/ og Hiartans Lytelæte/huad ad ſkiedur/ þa vier bidium hañ j Nafne ſyns Elſkulega Sonar Jeſu Chriſti/ Huør ad er ſa riette Medalgangareñ/og bidur fyrer oſſ ſiñ Himneſka Fødur/Rom. 8. Þar fyrer/ſuo ſem þad/ ad Gydinga Folk j þui Gamla Teſtamenteuu/ þa þad villd bidiaſt fyrer/þa ſnere þad ſynu Andlite ad Muſtereuu/og Sættmaals ørkiñe. Eins eigum vier alla Tyma/j vorum Bænum/ad horfa vppa þñ rietta Nadarſtoliñ/vorn Drottiñ Jeſum Chriſtum/þui fyrer hñ høfum vier tilgang j Truñe til þeirrar Nadar/þar vier jñe ſtøndum/ſo ſem Poſtuliñ ſeiger/Rom. 5. Cap. Joſeph vilde huørke ſiaa nie heyra ſyna Brædur/fyrre eñ þeir kiæme med hans Broodur Benjamin/Gen. 43. Chriſtur er ſa Himneſke Benjamin/ Jaa ſa riette Hægre Handar Sonuriñ/ſem ſitur til Guds Hægre Handar/og bidur fyrer oſſ/Rom. 8. Þar fyrer eigum vier ad frambera hñ jafnañ j vorum Bænũ og Grundvalla allar vorar Andvarpaner vppa hañs Fyrerboon og Forþienſtu/ ſuo framt ſem vier vilium faa Nad og Syndaña Fyrergiefning af Gude Lifanda.

J þridia lage vill Herrañ Chriſtur/ ad vier ſkulum giøra vorar Bæner opt og ofialldañ/þui ſo ſeiger hñ hier j Gudſpiallenu/ til Læreſueinaña ſiña. Hingad til hafe þeir einſkis beded / Bidied/þa munu þier medtaka/ſo ydar Fognudur ſie fullkomlegur. Ecke æ þetta ſo ad ſkiliaſt/ſo ſm̃ þad/ ad Læreſueinarner hafe vered ſo Hirdulauſer/ ad þeir hafe alldrei fyrer ſier beded. Nei/þeir bædu ad ſøñu/Eñ þo epter Sidvenu Gamla Teſtamenteſins Eñ nu vill Herrañ Chriſtur/ad þeir ſkule Grundvalla/ og ſtyla ſynar Bæner vppa hans Nafn.

Hier af Lærum vier þad/ad vera Aſtundunarſamer til þeſſ/ad bidia Gud fyrer oſſ/epter þui ſem ſialfur Chriſtur Amiñer oſſ hia Lucam/18. Þui Bæniñ er ſa Skattur/ ſem vier eigum Gude ad giallda/ fyrer allar ſynar Nadar

 gæfur

gaþur/sem hñ veiter oss og gieþur. Hun er sa andlege Stygiñ/vm hvøꝛn ad vorar Andvarpaner stiga vpp til Liþanda Guds/og hans Naad oþan aptur hingad til vor. Hun er z so/j þridia lage/eirn Oyþervinanlegr Skiølldr/med hvøꝛium vier kuñum ad veria oss/fyrer marggvijslegum Araasum/og Freistingū Diøþulsins. Par fyrer seiger David/j Psalmenum 109. Myner Mootstødu= meñ standa j giegn mier/ eñ eg bidst fyrer/ Pad er/ sem hañ villde suo seigia/ Bæniñ er sa Skiølldur/sem eg ber a mote mynum Ovinum/ so þeir giete ecke giørt mier nockurn skada.

Pad er skriþad vm eirn Nafnfrægan Strijdsmañ j Griklande/ sem hiet Mircillus/Ad eitt siñ þegar hañ slooſt til Sioos vid syna Ovine/þa haþe hñ ecke ad eins hlijft sier fyrer Aurvum Ovinaña/med synum Skyllde/helldur og eirniñ þegar Skiped vnder hønum var skoted j Sioo/þa haþe hañ komest klaklaust aþ/a þessum synum sama Skyllde til Lands. Eñ huad myklu framar mun Skiølldur Bænareñar hlijfa oss( hvørt helldur vier erum a Sioo edur Lande)vid allskonar Faare/ og Afstrydu/ vorra Ovina/ Laatum oss þar fyrer hvørke Kvølld nie Morgna/ gleyma þui/ad Brynia oss med Bæniñe/ suo ad sa jlle Ovin þaae oss ecke skada giørt.

J fiorda maata vill Herrañ Christur/ad vier skulum giøra vorar Bæner/j riettre og sañre Trw/z efast ecke/helldur hallda oss einfalldlega vid Guds Fyrerheit/seigiande med Forfødurnum Jacob/Jeg slepþe þier ecke Herra/fyrr eñ þu blessar mig/Gen.32. Par fyrer seiger Endurlausnariñ vor hier/HVØRS þier bidied Fødurin j mijnu Nafne/þad mun hañ gieþa ydur.

Huggum oss nu þar vid/Ad vier eigum ecke ad fram bera Bæner vorar/fyrer nockurn Hardwdugañ Tyraña/ sem ecke vill giegna þeim/og veita oss þad vier vmbidium/Helldur fyrer þañ rietta Himneska Fødurin/Hvør ad er Fader yfer allt þad sem Børn kallast/a Himne og a Jørdu/Eph.3. Hvør er sa Fader/Ad ef Sonuriñ bidur hañ vm Brauð/ ad hañ bioode hønum Stein/ Edur ef hañ bidur hañ vm Fisk/ad hañ bioode hønum þa Høggorm? Nu ef þier sem Vonder erud/kuñed ad gieþa Goodar Gaaþur Børnum ydar/ Huad myklu meir mun ydar Fader/ sa a Himnum er/gieþa þeim gott er hañ bidia/ seiger vor liuþe Lausnare hia Mattheum/ 7. Cap. J einu Orde ad seigia/ Vier þurfum j øngvan maata ad efast/þad vorar Bæner mune heyrdar verda/þui sialfur Faderiñ skipar oss ad bidia/Sonuriñ sem er vor Brooder/hefur kient oss/hvørniñ vier eigum ad bidia/z Heilagur Ande hialpar vorū Veykleika/so vier gietum komed Bæniñe fram. Par fyrer/Hvør hañ efar Guds Fyrerheit/sa giører hañ ad Liwgara/þui hañ trwde ecke Vitnisburdenum/þeim Gud Vitnar aþ synum Syne/seiger Postuliñ Johañes/1.Pist. 5.Cap.

Ad sijdustu befalar Herrañ Christur oss/ad vier skulum Bidia jduglega/ vegna þeirrar myklu Gagnsemdar/ sem oss stendur aþ Bæniñe/a hvøria Endurlausnariñ vor miñest hier/ j þessum Ordum. HVørs Þier bidied Fødurin j mijnu Nafne/ Pad mun hañ Gieþa ydur. Þetta er ein Oseigianlega

mykel Huggun/Ad þo vier bidium alldrei so mykels/þa er Gud reidubuin til ad veita oss þad/epter þui sem Herrañ seiger sialfur/hia Mattheum 18. C. Ef tueir af ydur samtaka a Jørdu/vm huørn Hlut sem þad er/ad þeir vilia bidia/skal þeim veitt verda af mijnum Fødur/sem a Himnum er. Bæniñ er sa riette Moysis Stafur/ med huørium hañ sundurskipte Hafenu Rauda/ Exo. 14. Eins getum vier og so med Bæniñe/sundurskipt j tuent/ Motlætt-ingañ Vatne/so ad þad drecke oss ecke/Esa. 43. Bæniñ er su rietta Davids Harpa/þui so sem þad/ ad Ohreiñ Ande matte vijkia fra Saul/ þa David liek a sijna Hørpu/1. Sam. 16. So kuñum vier og so med Bæniñe/ad burtreka fra oss Dieflinum. Bæniñ er sa riette Skystolpe/ og Elldstolpe/ huørn ef vier setium bæde Kuølld og Morgna/a millum vor/ og allra vorra Ovina/ þa kuña þeir oss øngvañ skada ad giøra/Exo. 14. Bæniñ er og eittiñ þad kroptugasta Medal/ fyrer huørt vier kuñum ad fa og ødlast/ allt þad oss er Naudsynlegt/ til þessa Lyfs Vpphelldis/ og ad Endalokunum Eilyft Lijf/Þui Drottiñ er nalægur þeim hañ akalla/øllum þeim sem hañ med Alvøru Akalla/hañ giører þad/huad hiner Gudhræddu girnast/og heyrer þeirra akall og hialpar þeim/seiger hiñ heilage David/Psalm. 145.

Framvegis seiger Herrañ Christur/til siña Læresueina/ j þessum vorū Gudspialls Texta. Þetta hefe eg talad j Ordskuidum til ydar/ En Time kiemur/ad eg tala ecke leingur Ordskuide til ydar/helldur mun eg kuñgiora ydur Openberlega af mijnum Fodur. Hier lofar nu og fyrerheiter Herrañ Christur Læresueinunum sijnum eñ nu vppa nytt/Vppfrædingu þess gooda Heilaga Anda/Sem hañ villde so seigia/ Þier hafed allt hingad til ecke kuñad ad skilia/edur vnderstanda/þad eg hefe til ydar talad/Eñ jñañ skams/ þegar Huijtasuñu Hatijdiñ kiemur/ þa vil eg klaarlega openbera ydur fyrer Heilagañ Anda/allt Rad og Vilia mijns Himneska Fødurs. Þar næst heiter Herrañ Christur/og lofar Læresueinum sijnum/ Guds Fødurs Nad og Vinattu/þar hañ so ad Orde kiemst/ Og eige seige eg ydur/ ad eg mune bidia Føduriñ fyrer ydur/þuiad sialfur Faderiñ elskar ydur/af þui þier elskudud mig/etc. Þesse Ræda Herrans Christi/hefur vissulega matt verka eina Oseigianlega mykla Glede j Hiørtum Læresueinaña/ þui huad kañ eirn Syndug Mañeskia meir og framar ad æskia sier/eñ þad/ad hun meige vera j Vinattu vid Lifanda Gud/og meiga hafa fryan tilgang til hans/og bidia hañ/so sem þa Elskuleg Børn bidia siñ astrykañ Fødur.

Sa fortapade Sonuriñ hafde ad sönu auked sijnum Fødur mykla Hiarta sorg/j eirn og añañ mata/ Eñ strax sem hañ kom aptur/og vidurkiende sinn Misgiørning/sina/þa took Faderiñ hñ j satt vid sig/so sem lesa ma hia Luc. 15. Eins lijka er sa Himneske Faderiñ vid oss siñadur/Ja/Hñs Elska og Myskunseme til vor/er meire eñ vier kuñū wt ad seigia/ Þar ꝥ seiger Herrañ Christur/hia Luc. 11. Ef ad þier sem vonder erud/ kuñed ad gefa goodar Giafer

 Børnum

Børnum ydar/ Huad myklu framar/ mun miñ Himneskur Fader/ giefa þeim helagañ Anda sem hañ þar vm bidia? Item/ seiger sialfur Gud suo/ hia Esa. 49. Cap. Kañ nockud Moodurñ ad gleyma sijnu Barne/ so hun fiñe ecke aumur a Syne sijns Kuidar? Og þo hun forgleyme þui/ þa vil eg þo ecke gleyma þier/ Sia þu/ j Høndunum hefe eg teiknad þig.

# Aunur Greinin.

EFterfylger þad añad Greinarkorned/ Huørniñ þad/ ad Læresueinarner Herrans Christi hafe teked þessare hñs Befalningu/ vm Børnena/ Þad verdr oss kient/ og fyrer Siooner sett/ j þessu þeirra Andsuare. Sia/ Nu talar þu berlega/ og mæler øngua Ordskuidu. Hier verdur Postulunum Herrans Christi/ ecke allytel Atvirding a/ j þui/ þeir stoola ofmyked vppa sialfa sig/ og þikiast nu skilia fullkomlega/ allt þad sem Herrañ Christur seiger þeim/ og þess vegna ecke þurfa neins añars Vppfrædara vid. Eñ strax añars Dags epter/ þa Christur vard fangiñ og bundiñ j Grasgardenum/ þa matte sia huad myked þeir høfdu skiled/ j øllu þui sem hañ hafde kient þeim og prediḱad/ þui þeir flya aller j burt fra hønum/ og skilia hañ einsamañ epter/ Latum oss nu þeirra Vijte ad Varnade verda/ og treystum ecke ofmykid vppa sialfa oss/ þui huør hñ þikest standa/ sa siaee til hañ falle ecke/ 1. Cor. 10.

Þar næst eru Læresueinarner Herrans Christi Lofs verder/ j þui/ ad þeir giefa hønum hier eitt merkelegañ Vitnisburd/ ad hañ sie Alvitur. Nu vitum vier ad þu veist alla Hlute(seigia þeir) Og þu þarft ecke ad nockur spyrie þig.

Hier høfum vier oss þad til Huggunar ad taka/ Ad med þui vor liufe Lausnare Jesus Christur er Alvitur/ þa eru hm ecke vorar Eymder og Motlætingar Okuñugar/ þar fyrer mun hañ ecke læta oss/ sem a hañ truum/ freistast fram yfer Megn/ Helldur giefa hañ enda a Freistingunum/ ad vier gietum vel stadest/ 1. Cor. 10. Vier skulum og einniñ læra þad hier/ Ad fordast Synder og Laste/ þui þo ad Veralldareñar Børn/ meine þad opt og tydum/ ad eingiñ vite af þeim og þeim Syndum/ sem þau j falla/ þa sier Gud þær þo samt/ og veit af þeim. Og skal þad so stuttlega sagt vera/ wt af þessum tueimur Smagreinum/ sem eg lofade a ad miñast. Þeim eina og þrenna/ Odaudlega Gude/ sie Heidur og Vegsemd/ Nu hiedañ j fra/ og ad Eilijfu/ Amen/ AMEN.

## A Vppstigningar Hatijd Drottins vors Jesu Christi/ Evangelium/ Marc. 16. Cap.

Enn

Dag

ENN seinast er þeir Elleфu sátu til Bords/openberade hañ sig/og æfijtade þeirra Vantrw/ og Hiartans Hardwd/ þad þeir heфdu eige trwad þeim/ sem hañ hoфdu sied uppriseñ. Og hañ sagde til þeirra/ Fared wt um allañ Heimiñ/og Prediked Evangelium allre Skiepnu. Huør hañ trwer og verdur Skijrdur/skal hoolpiñ vera. Eñ huør eig trwer/ja skal Fordæmdur verda. Eñ Teikniñ er þiem munu fylgia ß trwa/eru þesse. J mijnu Nafne skulu þeir Dioƒla wtreka/ Nyar Tung ir tala/Hoggorma upptaka. Og eƒ þeir drecka nockud Banvænlegt/þa skal þad þeim ecke granda/Yfer Siuka munu þeir Hendur leggia/og þa mun þeim batna. Og epter þ/ad Drottiñ Jesus haƒde tal ad vid þa/vard hañ Uppnumiñ til Himens/og situr til Guds hægre Handar. Eñ þeir geingu wt/og Predikudu allstadar/Drottne Samverkanda/ og Orded styrkianda/med epterfylgiande Teiknum.

# Exordium.

VJer lesũ j fyrste Book Kongañа/8. Cap. Ad epter þad/ad Sattmaals Aurk Drottins haƒde leinge vered boriñ um kring/ fra einum Stad til añars/þa haƒe hun um sijder boriñ vered/med myklum Fognude/og Herlegheitum/jñ j Mustere Salomonis/og nidur sett j Koornum/j þad allra Helgasta/under Vænge Cherubim. Sattmaals Aurkiñ j þui Gamla Testamentenu/var ein miøg Merkeleg Figura/ og Fyrermyndan/uppa vorn Frelsara Jesum Christum/Rom. 3. Þui epter þad hañ haƒde leinge umgeingest hier j Heime/ og reist fra einum Stad til añars/ til ad giøra gott/og Græda alla þa/sem aƒ Dioƒlenum voru underþryckter/ þa var hañ um sijder/med stoorum Herlegheitum/til Himins uppnumiñ/og sett ur yƒer alla Eingla/og Hoƒdingia/so sem sia maa/aƒ Pist. til Heb. 1. C.

Þessa Herrans Christi Himnaƒør/ eigum vier eñ giør og framar ad skoda/ og yƒervega j Anda/ a þessare Dyrdarlegu Drottins Hatijd. Og skal þad vera tuent sierdeilis/ sem vier skulum oss fyrer Hendur taka /ad þessu siñe/wt aƒ þessu heilaga Evangelio.

Fyrst viljum vier athuga/þa Heilsusamlegu Uppfrædíng/og Aminning/sem vor sætaste Endurlausnare/ giørde synum Lærersueinum/ædur eñ hañ Uppsteig til Himens.

Þar næst viljum vier yƒervega sialƒa Himnaƒørena hans/ med synum Adhnygande Greinum.

Sa Blessade Lyƒsins Herra/ vor Drottiñ Jesus Christus/sem er uppkat

 eñ yƒer

ẽ yfer alla Himna/sende oss hier til sinn Anda og Nad/so þetta mætte verda hans Dyrdarlega Nafne til Æru/og Vegsemdar/ en oss øllum til Gagns og Goda/Amen.

# Vm þad fyrra.

I Vpphafe þessa Heilaga Evangely/stendur so. Og sijdast þa þeir ellefu sætu til Bords/openberade hann sig.

Tuent er oss j þessum Ordum athugande. Fyrst Tijmin̄/a huørium ad þesse Openbering hafe skied/ en̄ þar ber ecke øllum saman vm/ Sumer af Lærefedrunum hafa hallded/ ad þetta hafe vered su allra seinasta Openberan/ sem skiede a Fiallenu Oliveti/ fioruttiu Døgum epter þad/hn̄ var Vpprisen̄/ En̄ sumer hafa villiad skilia þetta/fyrer þa seinustu Openberan Herrans Christi/a Paaskadags Kuølldid/þa han̄ kom ad luctum Dyrum til sin̄a Læresueina. En̄ huørnin̄ sem þessu var vared/þa kun̄um vier þo samt hier wt af/ ad sia eitt auglioost Elskuteikn/ sem Herran̄ Christur hefur til vor allra/ j þui/ ad han̄ Openberade sig ecke einusin̄e eda tuisvar/helldur optar/ fyrer sijnum Læresueinum/og vnderwijsade þeim/ þad Naudsynlegt var til þeirra Sæluhialpar/Huar vm vier høfum heyrt nockud fleyra talad/þan̄ fyrsta Sun̄udag epter Paaska.

Ann̄ad sem oss er hier wt af athugande/er þad/Huad Herran̄ Christur hafe giørt/ edur adhafst/ þa han̄ sig so Openberade Læresueinunum. Gudspiallamadurin̄ segier/ han̄ hafe aavijtad þa/ Fyrst fyrer VANtrw. Þar næst fyrer þeirra Hiartans Hardwd/þad þeir hefdu eige trwad þeim/sem han̄ hefde sied Vpprisin̄. Þesser bader Lester eru en̄ nu j Dag miøg Almen̄eleger. Huad tregt veiter Hollde voru og Bloode/ad trwa þui/ad Lijkamar Framlidenn̄a/einkum þeirra sem leinge hafa j Grøfunum leiged/og ordner eru ad Dupte og Molldu/fyrer laungu/ mune nockurn Tijma vpp aptur kun̄a ad rijsa? En̄ med þui ad Ande Drottins hefur so berlega sagt oss fyrer/ j sijnu Heilaga Orde/ ad þad skyllde vissulega skie /þa ber oss þad j øngvan̄ mata ad efa/helldur bidia Gud/ad han̄ vilie taka j burt fra oss/allskonar Vantrw/og þad harda Steinhiarta/ en̄ giefa oss aptur eitt Kiøtlegt Hiarta/so vier giætum trwad hans Orde/og hallded hans Riettinde/Ezech. 36.

Hier næst giefur Herran̄ Christur Læresueinun̄ sijnum/j þessa Dags Gudspialle/eina miøg Merkelega Vnderwijsun/og Vppfrædingu/Huørnin̄ þeir skulle haga/ og fram̄fylgia þui heilaga Kien̄eman̄lega Embætte/ þar han̄ segier. Fared wt vm allan̄ Heimin̄/ og Prediked Evangelium allre Skiepnu/ Huør han̄ trwer og verdur skijrdur/skal Holpin̄ verda/En̄ huør sem eige trwer/sa skal Fordæmdur verda. Vilium vier nu riettelega grunda/z yfervega þessa Vtsending Herrans Christi Læresueina/vm allan̄ Heimin̄/ þa er

oss fyrst

off fyrst athugande/Ad þetta er ein fierdeilis wtsending/ Þui ecke seiger Endurlausnarin vor/ ad þeir skule fara wt vm allan Heimin til þess/ad Drottna yfer Londum og Lydum/so sem giørde Bonifacius Pave. Han seiger ecke helldur/ad þeir skule fara wt til ad eta og dreka/og hallda stor Gieſtabod/ suo sem ad giørdu þeir Baals Prestar/hueriet ad vppætu þad a Næturnar/ sem þeirra Afgude var a Dagin Offrad. Ecke til þess/ad hallda Stryd/og troda Mien vnder Footum sier/so sem ad giørde Alexander Pave sa þridie/vid Keysara Fridrich han fyrsta/Eda til þess/ad fremia Saurlyfe/e allskon^r Ofhoof/so sem ad giørdu Syner Eli/hueriet ed lagu med þeim Kuinum/sem þionudu fyrer Samkundu Tialldbudardyrunum/1. Sam. Book. 2. Helldur seiger han/ad þeir skule fara wt til ad Predika/ Ja/ til ad kiena og vnderuysa þeim Fafroodu/ Ad hugga þa angrudu/ En strafa þa þuerbrotnu/ og framkuæma so sitt Embætte Verduglega/ so sem Postulin Pall/ Aminer sinn Læresuein Timotheum/2. Tim. 4. Soddan Predikarar/og Kiennefedur voru j þui Gamla Testamentenu/ Noe/ Abraham/ Samuel/ þeir heilögu Spamen og Postular/Ja/ sialfur Endurlausnarin vor Jesus/var og so eirn Predikare/ þui Mattheus Gudspiallamadur vottar/ad han hafe teked til ad Predika/strax epter syna heilögu Skyrn/ Þar fyrer veitest øllum þeim stoor Æra og Virding/ sem Gud lætur kallada verda til þess Heilaga Kiennemannlega Embættis. Huørs vegna ad þeir eiga ad leggia sig til/ af allre Alwd og Kostgiæfne/ad predika þad hreina og klara Evangelium/en ecke syna Draumia/Skrøksøgur/eda Mannasetninga/ En allra sijst eiga þeir ad koma vppa Predikunarstoolin/med nockurskonar Diøfla Lærdoom/1. Tim. 4. Helldur stunda tyl/ad þeirra Spaadoomur/eda Lærdoomur/sie Trwnne lykur/ suo sem Postulin Pall Aminer/ til Rom. 12. Vppa þad/ ad Tilheyrendurner mætte vppbyggiast/ j synum Christendoome/og Trwargretnum.

Þar næst/og j annan mata/wtsender Herran Christur ecke syna Læresueina j eitt sierdeilis tilteked Plazts/eda Land/helldur wt vm allan Heimin. Adur en þad Endurlausnaren vor/leid syna Kuøl og Pynu/befalade han Læresueinunum synum/ ad þeir skylldu ecke ganga a Gøtum Heidinna Prooda/ nie helldur fara j Borger Samverskra Manna/ helldur ad þeir skyllde ganga til þeirra Fortøpudu Sauda/ af Hwse Israels/suo sem lesa ma hia Mattheum/ 10. En strax epter syna Vpprisu/gefur han þeim adra Befalning wt/ og seiger/Fared wt Vm Allan Heimin.

Hier af høfum vier off þad til Huggunar ad taka/Ad huar helst sem vier erum stadder/j allre Verølldu/sie þad hia Tyrkium/ eda ødrum þuilykum Omilldum Pioodum/ þa eigum vier þo samt eirn Naadugan Gud/sem hefur eina Hiartanlega Epterlangan/ epter vorre Saalar Velferd/ og kallar alla til syn/seigiande/ Snwed ydur til myn/ þa munu þier Hialplegar verda/ allar Endemerkur Jardarennar/þui eg er Gud/og einginn annar/Esa. 45.

J þridia mata/suo sem þad/ad Herran vor Jesus Christus wtsende ecke

 syna

syna Læresueina til ad predika/ j eitt tilteked Platz eda Land/ so sem eg strax sagde/ So sende hañ þa ecke helldur til nockra Persoña/ suo sem til Konga/ Fursta/ Potentata/ edur til þeirra Volldugu j Heimenum/ Helldur til allra Plooda/ þui so stendur hier/ FAred Vt Vm ALLañ HEimiñ/ Og pREdiked EVangelium Allre Skiepnu. Þetta hafa Læresueinarner vel og Trwlega giört/ þui hier stendur sydast j Textanum/ AD ÞEir Hafe GEinged Vt/ Og pRedikad ALLstadar/ Og þo ad þeir kiæme ecke personulega/ j huört og eitt Land fyrer sig/ þa er þo þeirra Hlioomur/ samt sem ædur/ wtgeingiñ vm öll Lönd/ Rom. 10/ Þetta er nu ein Obrygdanleg Bevysing þar uppa/ Ad Gud vill giarnast ad aller Meñ skule verda Sæluholpner/ og komast til Sañleiksins Vidurkieñingar/ 1. Tim. 2. Eñ þo aller verde ecke holpner/ þa er þad huörke Gude/ nie þui heilaga Evangelio ad kieña/ helldur er þad Mañaña eigiñ Skulld/ og Diöfulsins/ sem burttekur Orded wr þeirra Hiörtum/ suo þad fær þar ecke Root/ Luc. 8.

Framveigis stendur so j Textanum. Huör hañ trwer og verdur Skijrdur/ sa skal holpiñ verda/ Eñ huör ecke trwer/ sa skal verda Fordæmdur.

Hier verdur oss synt og fyrer Siooner sett/ Huad stoor og mykel Magt/ oss Mönnum liggur þar a/ ad hafa eina rietta z saña Trw/ a vorn Frelsara Jesum Christñ/ þui þo so sie/ ad eirn edur añar sie skyrdur/ ef hñ trwer ecke þar jafnframt/ ad Jesus sie giefiñ sier til Heilagleika/ Riettlætis og Saluhialpar/ þa kañ hañ ecke ad komast j Guds Ryke/ Þui aan Trwariñar er Omögulegt Gude ad þocknast/ seiger Postuliñ til Hebreos/ 11. Cap. Eñ samt sem ædur/ verdur þar ecke a mote haft/ ad Skyrniñ sie ecke Naudsynleg/ og þarfleg til Saluhialpareñar/ þuiad hun stadfester vora Trw/ og er eitt Kroptugt Medal til Endurfædingareñar/ 1. Pet. 3. Tit. 3.

Þar næst leggur Herrañ Christur hier til/ huör Audkieñingarteikn/ vera skule a öllum þeim sem trwa. J mynu Nafne (seiger hañ) skulu þeir Diöfla wtreka/ Nyar Tungur tala/ Hoggorma upptaka/ Og ef þeir drecka nockud Banvænlegt þa skal þad þeim ecke granda/ yfer Siuka munu þeir Hendur leggia/ og þa skal þeim batna. Aullum þessum Gafum wtbytte Heilagur Ande/ epter siñe Velþocknan/ Trwudum Mönum/ a þeim fyrstu Safnadarens Tymum/ uppa þad/ ad þeir Vantrwudu yrde leidrietter/ og snerest til sañrar Trwar/ epter þui sem þar stendur/ 2. Cor. 14. Eñ nu a þessum Tymum þurfum vier ecke þuilykra Teikna vid/ þui Söfnudur Guds Barna er nu algiörlega vor a medal plantadur. Til Dæmis ad taka/ Ef nockur villde taka sier fyrer Hendur/ ad planta eina Eik/ þa yrde hñ jduglega ad vökva hana/ allt til þess hun tæke til ad þroskast/ z verda stoor/ Eñ þar epter þarf hun ecke Vökvanareñar vid. Eins var þui og vared fyrer Söfnudenum/ a þeim fyrstu Nya Testamentesins tymum. Eñ þad/ ad Postularner Herrans Christi hafe þessum Gafum Giædder vered/ sem eru ad tala nyum Tungum/ og upp

taka

taka Høggorma/et ct. Þad vottar wt þryckelega Heiløg Ritning allvyda. Nyar Tungur tøludu þeir a þeirre þyrstu Hugtasuñu Hatyd/ þa Heilagur Ande kom yfer þa/so sem lesa ma j Postulaña Giørningum/ 2. Cap. Þegar Postuliñ Paall var staddur j Eyñe Melite/Kom Eiturormur vppa hñs Hønd eñ hañ hriste hañ af sier wt j Elldiñ/og skadade alls eckert/sem þar stendur j Postulaña Giørningum/28. Cap. Vm Johañem Gudspiallamañ er þad skrif-ad/ad hañ hafe Drucked Eitradañ Dryck/sem hønum hafe þo ecke Mein giø-rt. Þegar Fader Publij/ la Daudsiukur af Køldu/og Bloodsoott/ þa lækn-ade Postuliñ Paall hañ/so hañ vard Heilbrygdur/Post. Giørn.28. Ja/ ꝛ Herr-añ Christur var suo Kroptuglega hia synum Læresueinum/ ad þeir þurftu ecke allt jafnt ad leggia Hendur yfer þa Siuku/ Helldur nær þeirra Skugge ad eins yfer skygde þa/þa vrdu þeir Heilbrygder/ So sem sia ma af Dæme Peturs j Postulaña Giørningum/3. Og þegar þeirra Klæde eda Sueitadw-kur var boriñ yfer þa/þa huarf ecke ad eins Krankleikiñ af þeim/helldur og eirniñ vrdu Ohreiner Andar ad vykia fra þeim/sem þar stendur j Postulaña Giørn.19. Cap.

Hier af lærum vier/ ad þeckia og kañast/ vid Giæskurijke Guds Fødurs/ Huør ed nu a þessum Døgum giører stor Teikn og Dasemdarverk/ hia synum trwudum Børnum/ef vier añars þ riettleega yfervegũ ꝛ Gaumgiæfum. Fyr-er Føstur og Bænahalld/ verda þeir vondu Andar eñ nu j Dag wtrekner/ Matth.17. Fyrer Bænena verda þeir Siuku Heilbrygder/Jac.5. Sa gamle Hoggormur/ sem heiter Diøfull og Andskote/gietur nu ecke leingur framko-med synum Vilia/og Asetninge vid oss/þuiad Guds Børn standa hønum fast-lega a mote j Trwñe/1. Pet.5. Heyrum vier nu ecke Guds Stoormerke/ og Furduverk/j øllum Tungumalum/ þar Evangelium er Avaxtarsamt orded j allre Verølld/Col.1. Huad mørgum Haaskasemdum Afvendar Gud nu/a þessũ Tymũ/ꝛ sender þuilyka Hialp/sem eingiñ kañ ad þeinkia/so vier meigum riettelega kañast þar vid/og seigia/Gud hefur þad giørt/og þad er hans Ve-rk/Psalm.64. Lærum oss þar fyrer varpa allre vorre Ahyggiu vppa hañ/ þui hañ er sa sem alleina Dasemdarverkiñ giører/Psalm.72. Og ei mun hañ lata þañ Riettlata/æfenlega Oroo hafa/af Psalm. 55.

Þar næst lærum vier hier wt af/Ad þeckia Krapt og Almætte vors blessa-da Endurlausnara Jesu Christi/ þuiad j hans Nafne hafa Læresueinarner giørt stoor Teikn og Furduverk/ so sem þesse vor Texte wtvysar/ Þar fyrer trwum þui stadfastlega/ ad hañ mune alldrei yfergiefa oss j nockurskonar Neyd eda Motlætingum/ so framt sem vier setium alla vora Von/og Trwn-adartraust vppa hañ. Hier stendur j Gudspiallenu/ Ad nær sem helst Lære-sueinarner løgdu Hendur yfer þa Siuku/Þa hafe þeim batnad/Skyllde þa ecke Hønd Drottins myklu framar kuña øllu vm ad breyta/Psal.77. Þar fyrer/ef ad Sathan sturlar þig/med jmislegum Freistingum/Þa vit þu fyrer vyst/ad Christur er sa same Drottiñ og Herra/j huørs Nafne/ad Postularn-

 er wt

er wtrætu Diøflana/ Skyllde hañ þa ecke myklu framar gieta verndad þig / a
moote Andskotanum? þui hañ hefur hans Høfud j sundurbroted/og hans Ry-
ke Eydelagt/1. Joh.3. J Krapte Jesu Christi/hafa Læresueinarner z eirn-
iñ vppvaked nockrar Mañeskiur af Dauda/og þær lifande aptur giørt/so sem
lesa mæ j Giørninga Book Postulaña/9. og 20. Cap. Huad myklu framar
mun þa Drotteñ vor Jesus Christus/ gieta vppvaked a sydasta Deige/ vora
Dauda Lijkame/wr Dupte Jardar ñar/þar hañ er eirn Herra/bæde yfer Lyfe
og Dauda? Rom. 14. Seiger hañ ecke so sialfur/hia Ezechiel. 37. Cap. Jeg
vil opna Grafer ydar/ og vil wtleida ydur mitt Folk af þeim? Þar fyrer
skulum vid vita(miñ Brooder og Syster)ad þar er eingiñ Neyd so stoor/ein-
giñ Hørmung so þung/ad Jesus vor Naudhialpare kuñe þar ecke Boot a ad
viña/nær vier ad eins køllum til hans/og bidium hañ vm Hialp/ Psalm. 91.

# Vm þad añad.

EPterfylger/ad miñast a þa Blessudu/og Dyrdarlegu Himnafør/Drottins
vors Jesu Christi/vm huøria hellst ætte talad ad verda/ a þessu Hatyd-
isdeige/j Søfnudenum/med þui hun er ein af þeim Viktugustu Greinum vorr-
ar Christelegrar Truar.

Fyrst er oss hier athugande/ med huørium hætte/þad Herrañ Christur hafe
til Himens Vppstyged. Þar finast nockrer Villumeñ/sem hallded hafa/
ad hañ hafe epterskiled Lykama siñ hier a Jørduñe/ Eñ hafe alleinasta med
Sælena vppstyged til Himna. Sumer eru z eirniñ þeir/sem hallda Himna-
førena H. Christi ecke añad vered hafa/ eñ Sioonhuerfing/edur Missyningar.
Eñ hier þuert a mote/truum vier stadfastlega/þad vor Blessade Endurlau-
snare Jesus Christus hafe a fertugasta Deige/epter syna Vppristu/sañarlega
med Lykama og Sæl til Himna Vppfared/ so sem þar vm er skrifad/j Giør-
ninga Book Postulaña/1. Cap. Eñ Ordsaker/huar fyrer ad Drottiñ vor
Jesus/hafe synelega til Himens vppfared/ eru sierdeilis þriar. Fyrst/
ad hañ þar med vppfyllte/Figurur/z Fyrermyndaner/þess Gamla Testament-
esins. Þar næst/ad hañ Fullnægiu giørde Spadoomunum/sem vpaa hañ hlyd-
du. J þridia lage/er hañ vppfariñ til Himens/ oss til eilijfrar Gagnsemd-
ar og Gooda/so sem vier vilium hier epter stuttlega þar ad heyra.

Þad fyrsta Gagn/ sem oss stendur af Jesu Christi Blessudu Himnafør/ er
Frijun og Frelse/fra øllum vorum Sælar og Lyfs Ovinum/ Hier vm talar
so Spamadurin David/Psalm. 68. Og Postuliñ Pall j Pistlenum til Eph.
4. Cap. Hañ er j Hædena vppfariñ/og hefur Herleidingena ad Herfange tek-
ed/og Mønnum Gæfur giefed/Þad er ad skilia/Ad Jesus Christus hefur med
siñe allra Gledelegustu Himnafør/yfervuñed/og til Fanga teked/þad Andlega
Ryke Syndareñar/Diøfulsins/Daudans/ og eilijfrar Fyrerdæmingar/ j huør-
iu vier hefdum añars Orded eilijflega Fangner og bundner ad vera/ Ja/hañ
hefur ecke ad eins yfervuñed/ og til Fanga teked þessa vora Ovine/ helldur

allañ

allann þann mykla Hoop og Selskap Helvijskra Ara/so þar hefur ecke eirn vndann komest/so vier meigum nu glader vera/ad þeir gieta ecke framar giørt neitt Mein eda skada/ Guds Truudum og Vtvøldum Børnum/helldur eru þeir bundner/so sem adrer Porthundar/med Myrkranna Hleckium/ad eilyfu.

Annad Gagned/sem Herrans Christi Himnafør leider epter sig/er Skeinkur og Giøf Heilags Anda/ Hier vm talar so Postulinn Petur/j Giørninga Book arennar 2. Cap. Nu/þar Christur er fyrer Guds Hægre Hønd vpphafinn/& hefur medtekeð Heilags Anda Fyrerheit/af Fødurnum/þa vthellte hann þessu sem þier nu siaed og heyred. Þesse Heilags Anda Giøf og Vthelling/ er soddann eirn edla Skeinkr/ sem alldrei kann nooglega med Ordum vt ad skyrast/ eda med Hugskots Þaunkum vorum ad begrijpast. Þesse Goode heilage Ande kiemur ecke Tomhendeur til vor/Helldur færer hann med sier/Oseigianlega myklar og margar Himneskar Gafur/ Hann leider oss j sanna Guds Þeckingu/ & allann Sannleika/ Joh. 16. Hann giører oss ad Endurfæddum Guds Børnum/ Hann stioornar oss/so vier gietum fyrer hans Krapt/ stadeð j giegn Syndunum/og lifad epter Guds Vilia/ Hann Huggar oss j allskonar Freistingum/ og styrker oss med Þolenmæde/j vorum Krosse og Motgange. Jaa/Hann Endurnærer oss j sialfum Daudanum/ og giefur oss eina Sæluga Burtfør og Endalykt. Hvørs kunnum vier nu framar ad oska/af þeim gooda heilaga Anda? Þar f/so opt sem vier lesum þessa vora Høfudgrein/vm Himnaførena Drottins vors Jesu Christi/eda heyrum vm hana talad/ Kient eda Predikad/ þa gleymum ecke ad þacka Gude vorum þar fyrer/af Hiarta.

Þridia Gagned/ edur Nytsemdinn/ sem vier høfum af Jesu Dyrdarfullre Himnafør/er þesse/ Ad hann giefur oss gooda og Trulynda Kiennefedur/fyrer huørra riettann og sannan Lærdoom/hann helldur vid Magt sinne Christne/ hier j Heime/allt til Enda. Giætum ad(mijner Elskanleger)huad stoor og Jpparlegur Skeinkur ad þetta er/ Þui an Predikunar Embættesins kunnum vier ecke ad komast til riettrar og sannrar Guds Þeckingar/so sem S. Pall vottar Rom. 10. Jaa/Þad er so/sem ønnur Smidia Heilags Anda/j huørre hann verkar Lyf/Glede/Frid/Huggun og Sæluhialp/ fyrer Ordeð og Sacramentinn/ j Hiørtum allra Truadra Manna. Þar fyrer/nær sem vier heyrum/ad gooder & Trulinder Ordsins Þienarar kienna og Predika Guds Ord/ þa skulum vier minnast a Jesu blessada Himnafør/ & þacka hønum af Hiarta/ fyrer þuilijka Giøf og Sending. Vær skulum og eirninn varast/ ad foracta eda Forsmaa þetta Edla Klenodium/sem er Predikunar Embættid/so sem ad giøra Endurskijrarar/og adrer Gudlauser Veralldar Kroppar/helldur hallda þad j storre Æru og Virdingu.

J fiorda maata hefur Christur med sinne Himnafør/vpplokeð fyrer oss aptur Dyrum Himnarijkis/Huøriar vegna Falls vorra fyrstu Forelldra/voru aptur læstar/& byrgdar/og giørt oss lidugann gang/og beinann Veg/til sijns Himneska Fødurs/Huar fyrer oss ber ad seigia hønum audmiukar Þacker/ og prijsa


hans

hñs Nafn/ so leinge sem vier lifum/syngiande so j Psalmenum vorum/ Lof sie Gude vor Lausn er giørd/ Lyfs veg oss bwiñ sønum/ Christur vpplauk oss Himnahurd/ huør byrgd var øllum Mønum/ et ct.

Fimta Gagn og Nytseme/ sem Vppstigningiñ Herrans Christi til Himens veiter oss/ er þesse/ Ad hañ situr til Guds Fødurs hægre Handar/ og bidur fyr er oss Oafllaatanlega/ Huar vm Postuliñ Paall so talar/ j Pistlenum til Rom. 8. Cap. seigiande. Huør vill æsaka Guds Vtvalda? Gud er hier sem Riett læter/ Huør er hañ sem Fordæmer? Christur er hier sem daed hefur/ Jaa/ mykt lu helldur sa sem vpp aptur er vakiñ/ huør ad er til Hægre Handar Gude/ og bidur fyrer oss. Þessa Fyrerboon Herrans Christi/ hafa þeir Gømlu Christ neñar Lærefedur miøg merkelega wtmælad a þeññ Hatt/ og sagt/ Ad suo opt sem Jllsku vorrar/ og Afbrota verdur minst fyrer Gude/ og vier verdum fyrer hønum klagader/ vegna vorra Synda/ þa sie vor Blessade Emanuel/ Jesus Christus/ sem situr til Fødursins Hægre Handar/ eige seirna til reidu/ ad syna hønum þau Heiløgu fim Saar og Vnder/ sem hañ vorra vegna lided hefur/ og bidia hñ/ ad hñ vilie vegna þeirra/ vera oss Nadugur/ og straffa oss ecke epter vorre Forþienan.

Pad er skrifad vm eirn Strijdsherra/ ad Nafne Antipater/ Huør ed bæde vel og leinge hafde þienad j Strijde/ vnder Keysaranum Augusto/ og feinged mørg Hættuleg Saar og Beniar/ a siñ Lykama hans vegna/ Ad hañ hafe vm sijder Rægdur verid vid Keysarañ/ Eñ sem Keysariñ liet kalla hañ fyrer sig/ og bar hønum þetta a Brijn/ Reif sa same Strijdsherra sijn Klæde fra sier/ og sagde. O Keysare/ Med Ordum vil eg mig ecke afsaka fyrer þier/ Eñ Saar þesse og Aur sem eg ber a mijnum Lykama/ og eg hefe feinged fyrer þig/ skulu vera mitt Forsuar/ og bera mier Vitne/ þad eg hefe viliad þier gott. Huad þegar Keysariñ sa/ stilltest ecke ad eins hans Reide/ helldur og eirniñ gaf hñ hønum Grid og Lijf. Huad myklu framar mun þa sa Himneske Faderiñ/ hræast Myskunar yfer oss/ þegar vor allra sætaste Endurlausnare/ og Strijdsherra Jesus Christus/ syner hønum synar Bloodugar Vnder/ sem hañ hefur Gude til Dyrdar/ eñ oss Mønunum til Eilyfrar Sæluhialpar lided/ a sijnum allra helgasta Lykama? Þar fyrer høfum vier eckert añad betra Raad til/ ad Fridþægia Gud Himneska Fødur vid oss/ og ad faa Fyrergiefning vorra Synda/ eñ ad vier synum hønum/ og setium fram fyrer hñ/ Saariñ Jesu Christi/ sem hañ vorra vegna lided hefur.

Vt af þessare Herrans Christi Hinnmafør/ høfum vier oss og so/ þad til Lærdooms ad taka/ Ad hañ er sañarlega sa Fyrerheitne Messias/ vm huørn Spaameñerner hafa spaad/ Ad hañ munde epter þad hañ hefde fullkomnad Endurlausnarverked/ til Himens Vppnumiñ verda. Hier vm talar David so/ Psal. 47. seigiande/ Hafed Loofatak allar Pioder/ Hatt lofed Gud/ med Glediilegre Raust/ þui Drottiñ stijgur vpp med hæum Fagnadar hlioodum/ og med skiærre Lwdra Raust/ Synged Lof/ Synged Lof Gude/ Synged Lof/ Synged Lof vorum Konge.

Vier

Vier ſkulum og eirniñ Læra hier wt aß/ Ad ſkilia riettelega huad þad þyder/ſem Gudſpiallamaduriñ ſeiger/ Ad Herrañ Chriſtur/ SJTie Til GVDs Hægre HAXDar/ Sem er/ Ad þad ꝍ ecke ſo wt ad leggiaſt/edur ſkilieſt/ ſuo ſem þa eirn ſitur vid añars hægre edur Vinſtre Hlid/ þui Gud er eirn Ande/ ꝫ hefur huørke Foot nie Hønd/Holld edur Bein/ Luc. 24. Ecke ꝍ helldur ad ſkiliaſt fyrer Guds Hægre Hønd/nockurskonar vyſt Platz/ Stadur eda Takmark/þui ſo ſeiger David j Pſalmenum 139. Huørt ſkal eg fara fyrer þynum Anda/ Eda huørt ſkal eg flyia fyrer þynu Auglite? Fare eg vpp j Himeniñ/ þa ertu þar/Bygge eg mier Rwm j Helvyte/ſiꝍ/þa ertu eirniñ þar/et cet. So er þa Guds Hægre Hønd/eckert añad eñ hñs Almættis Stiornan/Ryke ꝫ Regimente/mz huøriu hñ rædur ꝫ ſtyrer øllũ Hlutũ/ꝍ Himne ꝫ Jørdu/Eñ ad ſitia til Guds Hægre Handar/þad er/ad vera lykur og jafn Gude Fødur/og heiløgum Anda/j allre Dyrd og Magt/Krapte og Heidre/ ꝍ Himne og Jørdu/ Og j þañ mꝍta ſeigeſt Chriſtus ad ſitia til Fødurſins Hægre Handar /epter þui ſem þar ſtendur/j Piſt. til Eph. 1. Gud hefur vppraked Chriſtum fra Daudum/ og hefur ſett hañ til ſiñar Hægre Handar/ꝍ Himnum/yfer allann Høfdingſkap/Valldſtiett/Magt og Herradoom/og allt huad nefnaſt mꝍ/ecke einungis j þeſſare Verølldu/helldur jafnvel j Okomiñe.

Vier ſkulum og ſo j þridia lage/læra þad/aß Jeſu Bleſſadre/og Huggunarfullre Himnafør/Ad feſta ecke vor Hiørtu vid þad Jardneſka/ og Stundlega Glis þeſſa Heims/helldur ad ſtunda epter þui/ſem þar vppe er/hia Herranũ Chriſto/Col. 3. Þui huar ydar Fieſioodur er/þar er og eirniñ ydart Hiarta ſeiger/ Herrañ Chriſtur/hia Matth. 6. Cap. Nu er vor allra beſte/og dyrmætaſte Fieſioodur/ Jeſus Chriſtus ꝍ Himnum/ Þar fyrer lꝍtum oſſ aß Hiertha lꝍnga j Himeniñ/epter vorum Endurlauſnara/ Jꝍ/So opt ſem vier lytum vpp j Himeniñ/þa lꝍtum oſſ huxa þar til/ad þar ꝍ ad vera vort Heimile/og Samaſtadur ſydar meir/epter þetta Lyf. Suo opt ſem vier lytum Skyiñ ꝍ Loptenu/þa ſkal oſſ rꝍnka til/ad þau eiga ad vera vor Vagn ſydar meir/ꝍ huørium vier munum til Himenſins reiſa/ 1. Teſſ. 4. So opt ſem vier ſiꝍum Fuglana fliuga vnder Himnenum/ þa lꝍtum oſſ þar vm Aminta vera/ad vier og eirniñ Andlega vppfliwgum med ſañre Gudrækne og ſtødugre Trw/til vors Endurlauſnara/ ſem er ꝍ Himnum. Huar ad vera/ og meiga ſiꝍ Gud/ Auglite til Auglitis/ vm alla Eilyfd/ oſſ veite ſa Himneſke Dyrdareñar Konungur/huørum ad ſie Lof og Heidur/ fra Eilyfd til Eilyfdar/ Amen.

# Siøtta Suñudag epter Paſka.

## Evangelium/ Joh. 15. og 16. Cap.



Jesus sagde til sinna Lærisueina. Enn þa ed sa Huggarinn kiemur/ huørn eg mun senda ydur af mijnum Fødur/ sem ad er Sannleikssins Ande/ huør af Fødurnum framgeingur/ hann mun bera Vitne af mier/ Og þier munud mier Vitne bera/ þuiad þier hafed j fra Upphafe hia mier vered. Enn þetta tala eg þui til ydar/ so ad þier hneyxlest ecke. Þuiad þeir munu forboda ydur/ Og sa Tijme kiemur/ ad huør hann Lijflætur ydur/ sa meinar sig ad giøra Gude þægt Verk. Og þetta giøra þeir ydur/ af þui þeir þeckia huørke Fødurinn nie mig. Enn þetta tala eg þui til ydar/ ad nær su Stund kiemur/ ad þier minnest þess/ ad eg sagde ydur þad. Enn þetta sagda eg ydur eige j Upphafe/ þui eg var hia ydur.

# Exordium.



I Genesis Bookar 49. Cap. Lesum vier vm Forfødurinn Jacob/ Ad þegar komed var ad hans Andlaate/ og hann ætte ad skilia vid þetta fallvallta og auma Lijf/ þa hafe hann til syn kallad syna Tolf Syne/ og sagt sierhuørium þeirra fyrer/ huad yfer þa munde koma epter syna Burtfør og Afgang af þessum Heime. Eins giører og so hier/ vor Blessade Endurlausnare Jesus Christus/ Hann seiger fyrer/ ecke ad eins Lærisueinunum synum/ helldur og øllum synum Elskulegum og trwudum Børnum/ bæde Medlæte og Motlæte/ Sorg og Glede/ sem þeim mune tilfalla/ epter þad hann sie til Himna Uppstyginn/ so sem þesse vor Gudspiallz Texte wtvijsar. Þar eru ad sønnu marger/ sem a þessum Døgum hafa stoora Forvitne og Eptterlangan til/ ad vita/ og spyriast epter/ af Stiørnumeystrum og ødrum/ huad a þeirra Daga mune dryfa/ Enn þad ber til/ ad þad slær opt feil/ og geingst ecke epter/ sem þeir j soddann Efnum fyrer Spaa. Enn Jesu Fyrersøgn og Spaadomur slær alldrei feil/ þui hann er øllum Stiørnumeisturum/ og Vijsendamønnum meire/ og sier fyrer alla vora Veige/ Psalm. 139. Og þo suo sie/ ad vier høfum ædur fyrre heyrt nockud talad vm Kross og Motlætingar Guds Barna/ sem þau hlioota ad lyda hier j þessum Heime/ sem og eirninn vm Embætte H. Anda/ huørt þad sie/ þui a huørtueggia þetta hefur minst vered/ þann þridia og fiorda Sunnudag epter Paaska/ Þa viliumm vier þo samt j stysta og einfalldasta mæta/ faa ad heyra nockud fleyra hier vm talad/ epter Gudspiallsins Hliodann. Drottinn Gud sende oss hier til sinn Anda og Naad/ j Jesu Nafne/ Amen.

Vier høfum heyrt (mijner Elskanleger) a nockrum fyrerfarande Sunnudøgum/ Ad Herrann vor Jesus Christur hafe sagt synum Lærisueinum fyrer

Burtfør-

Burtfør sijna til Fødursins/ og er þui ecke ad vndra/ þo þeim goodu Guds Mønum hafe geinged þ til Hiarta/ z þeir hafe sturlast þar af/ad þeir skylldu verda ad missa fra sier/og sinn æ bæl þuilijks Herra. Eñ ofañ æ allt þetta/ eikur þad þeim ecke allslitla Sorg og Hugarængur/þar Herrañ seiger þeim fyrer j þessa Dags Gudspialle/huørniñ ad þeim skule ganga/epter sijna Burtfør/sem er/ad þeir mune rata j allskonar Eymder/ z Motlætingar. Eñ vppa þad/ad þeir skylldu ecke þeinkia þad/þeirra Herra og Lærarar/hefde alldungis yfergiefed þa/ þa giefur hañ þeim hier j þessa Dags Gudspialle/eñ nu vppa nytt/þad Fyrerheit/ad hañ vilie senda þeim þañ Verduga Heilaga Anda Huørs persona/Embætte og Vtrietting/wtmælud verdur/j þessum Textans Ordum/þar so strax j Vpphafenu stendur. Nær ed sa Huggariñ kiemur/sem eg mun senda ydur af mijnum Fodur/sem ad er Sañleiks sins Ande/Huør af Fodurnũ framgeingr/hñ mun bera Vitne af mier.

Hier verdur wt þryckelega giefed þeirra þriggia Gudðoomsins Persona/sem er/fyrst Fødursins/Af huørium Heilagur Ande framgeingur/Þar næst Sonarins/sem hañ sender//Og heilags Anda sem sendur verdur. Huar med oss verdur kient/og fyrer Siooner sett/ad Heilagur Ande sie sañur eilijfur/z Almættugur Gud/med Fødur og Syne. Med þui þa/ad hañ er Gud/ so erum vier hønum skylldugir. Fyrst/vm æru z Þienustu/þui so stendur þar skrifad/ hia Mattheum/4. C. Drottiñ Gud þiñ skalltu tilbidia/ og hønum einum þioona. Vier erum hønum skylldugir vm Elsku/Þui so stendur j Deut. Bok. 6. Cap. Elska skalltu Drottiñ Gud þiñ/af øllu Hiarta þijnu/af allre Sæl og øllum Mætte þijnum. Vier erum og einniñ skylldugir hønum vm Otta epter þui sem Drottiñ bijdur og skipar/Deut. Bok. 6. Þu skallt Ottast Drottiñ Gud þiñ/og þiona hønum. Siæum þui so til/Ad Ande Guds hafe ecke Ordsøk ad klaga yfer oss/og seigia/Fyrst eg er ydar Herra/Huar er þa miñ Otte og Heidur? Malach. 1.

Þar næst giefur Herrañ Christur Heiløgum Anda hier j Textanum/þriu Merkeleg Nøfn/edur Ærutitla/Med huørium hañ j lioose lætur/huørt ad sie hans Embætte/edur huøria Verkan hañ hafe/hia øllum Trwudum Guds Børnum. Fyrst kallar hañ/hañ hier HVGgara/J þeim Griska Textanum verdur hønum giefed þetta Nafn/Paracletus/Þad þijdest so myked sem Arnadarmadur/edur sa sem Forsuar veiter einum/og Adstod til sijns Mals/ Huøriu Nafne ad Herrañ Christur verdur og so kalladur af Postulanum Joh. 1. Pist. 2. Cap. Þar so stendur/Ef nockur Syndgast/þa høfum vier Arnadarmañ hia Fødurnum/ Jesum Christũ þañ Riettlæta. Nu er þad Embætte edur Skyllda eins Arnadarmans/ad standa trwlega med þeim/ sem hñ hefur teked vnder sitt Forsuar/ Þar næst ad forsuara Søkena/sem hønum er tiltiwad/so sem være þad sialfs hñs eigiñ Søk. J þridia lage ber einũ riettũ Talsmañe/ad Amiña þañ sem hañ hefur so ad sier teked/ad hañ vijke ecke fra

ſiñe Søk/ eda fortale ſig/ j eirn edur añañ mæta. Og j fiorda lage æ hañ
ad hughreyſta þañ ſem Søkena æ/ ef hañ formerker/ ad hañ ættlar ad ve
rda hræddur eda Efablandiñ vm ſyn Mælefne. Allt þetta giører nu ſa Hi
mneſke Talsmaduriñ/og vor beſte og trwaſte Arnadarmadur/ heilagur Ande/
Hañ tekur ad ſier vort Mælefne/og ſtendur med oſſ j øllum vorum Naudſyn
ium/Ja/hañ giefur oſſ ſoddañ eitt Hiarta/Siñe og Mood/ſo vier ørvinlunſt
ecke/vnder vorum Synda þunga. Eñ ſierdeilis og einkum/ þa er þeſſe goode
Heilage Ande oſſ nælægur/ þa vier lijdum Ofſookner fyrer Guds Nafns ſak
er/ſo ſem ſiæ mæ af Dæme Poſtulaña/og añara Guds Pijslarvotta/ Hañ ſte
ndur med oſſ og eirniñ j allskonar Kroſſe og Motgange/ ſuo ſem hañ giørde
þeim gooda Guds Mañe Job/David og ødrum fleyrum/Og æ vorre ſijduſtu
ſtundu/ þa mun þeſſe vor Huggare/allra beſt og meſt hia oſſ ſtanda/& giefa oſſ
þad Siñe/ad vier viluglega/og med glødu Giede/ ſkilium vid þetta auma og
fallvallta Lijf/huar vm vier og eirniñ jduglega bidium/æ huørium Helgum
Deige/þa vier komum til ſamans/j Chriſtelegre Kyrkiu/ſeigiande/Þu hædſte
Styrkur j allre Neyd/ Hialp ſo vier hrædunſt huørke Skam nie Deyd/ og j
voru ſiñe ſieum ørugg ver þa/nær Diøfull vill æ oſſ ſtrijda/og Sæliñ ſkilſt Lij
kama fra/Kyrieleis.

Þar næſt/og j añañ Mæta/wtmælar Herrañ Chriſtur hier/og j liooſe læ
tur/huørt ad ſie Embætte og Verkan þeſſ gooda heilaga Anda/þar hañ kallar
hañ Anda Sañleikſins/huørt Nafn og Erutitill/hønum heyrer og Soome
riettelega ad bera/ og behallda vm alla Eilijfd/ þui hañ er ſa ſem kieñer oſſ/
huørniñ vier eigum riettelega ad trwa/Chriſtelega ad lifa/Og Sæluhialplega
burt ad deyia/Huar vm oſſ vardar hid allra meſta.

Þridia Embætte Heilags Anda/huørs hier verdur getid/er þad/Ad Herr
añ Chriſtur ſeiger/AD Hañ Mune Bera Vitne Af Sier. Med tueñu mote
ber heilagur Ande Vitne af Herranum Chriſto. Fyrſt hid jñra/ j Hiørtum
allra trwadra Guds Barna vottar hañ/Ad Chriſtur ſie ſañur og eilyfur Gu
ds Sonur/ſem j Heimiñ er komiñ til þeſſ/ad Endurleyſa Mañkyned/ Eñ hid
ytra ber heilagur Ande Vitne af Herranum Chriſto/ fyrer Muñ og Predikun
allra Trwlyndra Ordſins Þienara/ſo ſem Chriſtur talar hier ſialfur til ſinna
Lærefueina/ſeigiande/**Ad þeir mune ſier og eirniñ Vitne bera.**

Hier af lærum vier þad/Ad þar eiga ecke ad eins Preſtar og Kieñemeñ/ ad
bera Vitne af Herranum Chriſto/helldur aller adrer wt j fra/ Þad er ad ſkily
ia/Þeir eiga ad trwa ſtadfaſtlega j Hiartanu/og jæta med Muñenum/ad Jeſ
us ſie ſañur Gud og Madur/ſem oſſ ſie af Fødurnum giørdur/til Vijſdooms/
Riettlætis/Helgunar og Endurlauſnar/ epter þui ſem Poſtuliñ Pæll talar/
1. Cor. 1.

Vt af þeſſu ædur ſøgdu/vilium vier taka oſſ þetta til Lærdooms. Fyrſt/
ad þeckia riettelega/og kañaſt vid Owtſkyranlega Guds Elſku/og Kiærleika/
ſem hañ hefur til vor aumra Syndugra Maña/þar hañ lætur ſier ecke ad eins

so myked vm oss hugad vera/ad hañ giefur oss sýna Heilaga Eingla/fra Pienustusømu Anda/til Verndar og Forsuars/a øllum vorum Vegum/og Stigum Psalm. 91. Helldur og einniñ/sender hañ þar a ofañ/þañ Verduga Heilaga Anda/j Hiørtu siña erwadra Barna/ sem vera skule þeirra Tulkur og Talsmadur/og giøra oss ad sialfs sýns eigiñ Herberge/Heimile og Bwstad. Hvørsu kuñe Gud Drottiñ meir og framar ad elska oss?

Mykels Lofs verd er su stoora Medaumkan og Vmhyggia/ sem skrifad er/Ad þeir Gømlu Doomendur/ og Yfervalldomeñ/hafe audsyndt og bevijst ad adur fordum/einfølldum Møñum/ Eckium og Einstædingum/ sem er/ Ad nær sem hellst þesser og þvilijker/ættu Mal sitt fyrer þeirra Doome/og þeir gætu ecke talad fyrer sig/edur framfylgt siñe Søk Riettelega/ þa hafe Yfer doomariñ/strax tekid eirn af sijnum Doomamøñum/og skickad hønum ad taka ad sier Mal fraa Einfølldu z Munadarlausu Skiepnu/z framfylgia þui heñar vegna. Eñ længtum stærre Velgiørning/audsyner Gud Drottiñ oss/ þar hañ tekur midt wr Rade þeirrar hellda Guddoomsins Pereñingar/þann gooda Heilaga Anda/og sender oss aumum Mæelstømum Møñum hañ (sem ecke kuñum ad suara Gude einu Orde til Þusund) Ad framfylgia Malefnum vorum/og kieña oss/huørniñ þad/vier eigum ad haga oss og skicka/so vier ecke syknar meir/komum fyrer Guds stranga Riettlætisdoom.

Eina Hiartnæma Huggun hefium vier oss og eirniñ ad taka /wt af þessare Sendingu og Giøf Heilags Anda/sem er þesse/ad vier þurfum nu ecke framar ad hrædast edur skielfast fyrer nockrum Hlut/ huørke a Himne nie a Jørdu/huørt helldur sem þad eru Synder vorar/Løgmalsins Bølvan/Guds Reide/Eilijfur Daude/edur Kvaler þeirra Fordæmdu/ Þuiad heilagur Ande er nu ordiñ vor eign z Eigendoomur/huør ad er iafn Gude Fødur/z hans Syne Jesu Christo/ad allre Magt/Dyrd og Heidre. Þar fyrer kañ eingiñ Neyd edur Angist suo stoor/ oss ad Høndum koma/ ad hañ giete oss ecke hialpad. Lærum oss þar fyrer/ þar vm Amiñta vera/ Af vier yfer alla Hlute fram/þackum Gude Almattugum af Hiarta/fyrer þad/Ad hañ hefur giefed oss siñ heilaga Anda/an huørs Omøgulegt hefde vered/ad vier hefdum kuñad/ad komast til riettrar og sañrar Þeckingar Guds/eda gieta trwad a hans Son Jesum Christum.

Vier skuluñ og eirneigiñ varast/Ad forsooma/edur forackta Guds Orda Heyrn/og þau heiløgu Sacramenta/Huør ad eru þau helldstu Medøl/fyrer huør/Heilagur Ande vill vera Kroptugur j oss/helldur sem optast vera þar vid stadder/ sem Guds Ord er vm Hønd haft.

J þridia Mata skulum vier og eirniñ/taka oss Vara fyrer Athugaleyse/z allskonar liotum Syndum og Løstum/ med huørium vier styggium fra oss þeñañ Edla Gestiñ/Heilagañ Anda/Þui lyka sem þad/ad Byflugurnar flyia/ þa þær fiña Reykiñ/og Dufurnar Odauniñ. Eins flyr og suo su Himneska Dwfañ Heilagur Ande/fra þeirre Mañeskiu/sem liggur j Syndum og Suivirdingum

virdingum Jordunarlaust/og latur ecke af/Enn vei sie þeim Manni/fra hvørium Heilagur Ande j burt vyker/ þui fra hønum vykur og so Gud Fader/og hans Sonur Jesus Christus/og verdur so sydann Bwstadur Dioffulsins.

Nu vilium vier framm veigis med þessum Ordum/fyrst ad heyra/ hvør ad sieu Kaun og Hefalingur/sem All Riettrwud Guds Børn/hafa sier ad vænta/ af þessum Hreckvysa Heime/ einkanlega þo/ þeir sem Guds Ord kienna/ og Vitne bera af synum Endurlausnara Jesu Christo/So sem ad eru allter Trwlynder Doctorer/og Lærefedur j Kyrkium og Skoolum/ Hier um talar so Herrann Christur/seigiande/ Þeir munu forboda ydur/Item/Sa tijme mun koma/ ad hvør hann Lyflæter ydur/ s i meinar sig ad giøra Gude þægt Verk. Hier af meigum vier þad Raada/og skilia/ Ad þeir sem Herranum Christo eftirfylgia og ganga epter hans Bodordum/ þad er/ þeir sem kienna riettann z sann ann Sæluhialpar Lærdoom/fyrer otann allar Villur og Mannasetninga/ þeir mune ecke ad eins Hatader/Ofsokter/ Hrakter og Hrindader verda af Andlegum/heldur og einninn af Veralldlegrar Stiettar Mønnum/z Yferherrum/ þui ad forboda edur Bannfæra nockurn/ þad vid vykur og tilheyrer Andlegu Vallde/ Enn ad Lyflata Menn kiemur Veralldlegre Valldstiett vid. So hafa þa ecke ad eins Postularner/helldur z einninn Otelianlega marger adrer Guds Vitnendur og Pijslarvottar/ hloted ad lyda Bann/og Bølvan af þui Andlega/ enn Plagur og Pijntingar allt til Dauda/sökum Vidurkienningar Guds Nafns af hui Veralldlega Valldenu/so sem lioost er/bæde af Heilagre Ritningu/ og ødrum Sagnabookum/og hier er Oflangt opp ad telia/Þar fyrer seiger suo Postulinn Paull 1. Cor. 4. Eg helld ad Gud hafe giørt oss Postulana ad hinum allra audvirdelegustu/ suo sem Daudanum yfergiefna/ þui vier erum Vidurßuada ordner Heimenum/ og suo Englum og Mønnum/ Vier erum Darar fyrer Christs saker/ Bølvan Veralldar/ og Hreinsunar offur allra Manna. Enn Ordsøkena/Huar fyrer ad Guds Elskulegustu og utvalldu Børn/hafa sier slyks ad vænta/ af þessum Hreckvysa/og Vonskufulla Heime/ Hana leggur Herrann Christur sialfur til/og seiger/ Og þetta giøra þeir ydur/ af þui þeir þeckia huorke Fødurinn nie mig. Hier kann einhuør ad seigia/ Huørninn meg þetta ad skilia? Þar Christur seiger forþ ødrum stad til Gydinga/ þa þeir efudust um hans Personu og huør hann være/ Þier (seiger hann) Þeked mig/og þier vited huadann eg er/Joh. 7. Item seiger hann hia sama Gudspiallamanne/15. Cap. Ef eg hefde ei giört þau Verk a medal þeirra/ sem enginn hefur annar giört/ þa hefdu þeir ongva Synd/ Enn nu hafa þeir sied þau/og hata þo bæde mig og minn Fødur. Hier vier skulum vita/ ad Meining þessara Herrans Christi Orda er þesse/ Ad þo so sie/ad Gud Fader/ og hans Sonur Jesus Christus/ sie þeim nooglega Opinberadur/ og þeir vite j synu Hiarta/ ad Jesu Lærdoomur er sa rietti Sæluhialpar Lærdoomur/ þa eru þeir þo samt so Forhierdter/ z forblindader j Hug og Hiarta/ af Falskum Lær-

doome/ Ad þeir ei maatte sinne eigin Samvitsku/ Opsatlig Jesu Lærdoom/ edur þa sem þn kienna og frambera/ so sem kooft Dæme er a hinum heilaga Stephano/ hvør þa ed predikade vr af Herranum Christo/ fyrer Gydingum/ og þeim Steck til Hiarta hans Ræda/ þa aptur byrgdu þeir sijn Eyru/ Gnystu Tønnum yfer hønum/ og grytu hann/ Giørn. B. 7.

Sama lesum vier og so/ um Postulann Paal/ þa hann predikade fyrer þeim j Antiochia/ ad þeir hafe staded j mote hans Lærdoome/ og þad sama ecke utann af Hatre og Vondsku/ Hvørs vegna þeir feingu ad heyra þessa Rædu/ af Munne Postulanna/ Þad byriade/ ad ydur skyllde Guds Ord fyrst seigiast/ Enn af þui þier reked þad fra ydur/ og hallded ydur sialfa eilyfs Lyfs Omaklega/ snued/ þa snuum vier oss til Heidinna Þiooda/ Giørn. Book, 13. Cap. Hier ad skylldu giæta/ aller Guds Orda Forachtarar/ eda þeir sem laata sier lyted edur eckert finnast til/ þa þeir heyra Guds Ord kient/ skeita þui ecke meira enn annare Hiegoma og einskis verdre Rædu/ edur Barnahiale/ þeir skylldu (seige eg) sia vel til/ og giæta ad sier/ ad Guds Reide og Straff kome ecke yfer þa/ eins og Gydinga/ sem mootvilinglega Forsmaadu Jesum/ og hans Ord/ Jaa/ þeir skyllde seeta sier fyrer Sioonir/ þa hrædelegu Hootun/ sem þar stendur skrifud j Pistlenum til Heb. 6. Cap. Og so hlioodar/ Þad er Omøgulegt/ ad þeir sem eitt sinn Upplyster eru/ og smackad hafa Himneska Gaafu/ og Hluttakarar eru ordner Heilags Anda/ og smackad hafa hid gooda Guds Ord/ og Krapt epter komande Veralldar/ Ef þeir affalla/ og Krossfesta sialfum sier Son Guds aptur/ og hann fyrer Skimp hallda/ ad þeir skylldu kunna aptur Endurnyader ad verda til Yferbootar.

Nu vilium vier skoda/ hvør vera ma Huggun Guds Barna/ j giegn øllum þessum margføllldum Ofsooknum Veralldarennar/ sem er þesse/ Ad Jesus Christus/ sem er vort Høfud og Lyf/ Col. 1. Phil. 1. Veit og sier fyrer Motgang sinna astkiærra Barna/ adur enn hann kiemur þeim ad Høndum/ og advarar þau/ og kienner ad vera vidbwnum/ so hann kome þeim ecke Ovart/ og þau hneyxlest ecke þar af.

Hvad gladur vard Pharao Kongur/ þa Joseph varade hann vid þeim sijø epterkomande Hallæris Arum? Gen. 41. Eins gladdest og so mykelega Joram Israels Kongur/ þegar Eliseus advarade hann/ og sagde fyrer/ Ad Benhadad Kongurinn af Syria/ Villde falla jnn j hans Land/ hvar um lesa maa j annare Book Konganna 6. Enn myklu gladare meigum vier vera/ sem eigum Jesum fyrer Raadgiafa/ j hvørium folgner eru aller Fiarsiooder Andlegrar Viskw/ Col. 2. Og Mayt kann ad giøra Raad Heidingianna/ Psalm. 33. Og vr Freistingunne ad frelsa þa Gudhræddu/ Enn hina Rangláatu ad vardveita til Kvalanna a Dag Doomsins/ 2. Pet. 2. Med þui þa/ ad Christur veit af øllum vorum Motgange/ og Mannraunum/ og an hans Vilia kiemur oss einginn Krossad Høndum/ þa verum Okuidner/ þui hann er vor Gud/ sem oss Hialpar og sa Drottinn Drottinn/ sem fra Daudanum frelsar/ Psalm. 68.

A Hvijta

Vier skulum og einenn j vorum Motlætingum/og allra hellst at vorre Bun vtþerdar stundu/Huggz oss vid þann gooda heilaga Anda/ huørn Christur lof ar ad senda oss/og vera visser þar vppa/ad hann mune standa med oss/z hia oss/ j allskonar Þrautum og Þreingingum/ eins og hann stood med Postulunum fordum/og gaf þeim Hughraust Sinne/ og Gladt Sied/ þo þeir ætte allvel so myked ad lyda/fyrer Christi Nafns saker. Nu þeim Eilijfa gooda Gude sem er Huggun allra sinna j allskonar Motgange/ hønum seigium vier Lof/ Dyrd og Heidur/nu hiedan j fra/og ad eilijfu/Amen.

# A Huijtasunnu Hatijd.

Evangel. Joh. 14. Cap.



S Jesus sagde til sinna Lærisueina. Huør hann elskar mig sa mun vardveita mijn Ord/ og Fader minn mun elska hann/og til hans munum vid koma/og hia hønum Vistarvern giora. Enn huør hann elskar mig eige/sa vardveiter ecke mijn Ord. Og þ Orded s þier heyrdud/er ecke mitt/helldur Fødursins þess sem mig sende. Þetta talade eg fyrer ydur/æ medann eg var hia ydur. Enn Huggarinn sem er hinn Heilage Ande/þann er minn Fader mun senda ydur/j mijnu Nafne/ hann sialfur mun kenna ydur alla Hlute/ og minna ydur æ allt þad sem eg saga ydur. Minn Frid læt eg hia ydur/Minn Frid gief eg ydur/eige so sem Heimurinn giefur/þa gief eg ydur. Ydart Hiarta hryggiest ei nie skielfest. Þier heyrdud þad eg sagda ydur/ eg fer burt og kiem aptur til ydar/. Ef ad þier elskudud mig/ þa gleddust þier vid þad/ ad eg sagda ydur/ad eg fer til Fødursins/þuiad Faderinn er mier meire. Og nu sagda eg ydur þad/ædur fyrre enn þad skiedr/so ad þier trydud þui/ þa er þad være skied. Hiedann j fra mun eg ecke tala margt vid ydur. Þuiad þessa Heims Hofdinge kiemur/og med mig hefur hann eckert. Helldur so ad Heimurinn þecke þad eg elska Fødurinn/ og þad eg giøre suo sem Faderinn hefur mier boded.

## Exordium.

Vier lesum/Elskuleg Guds Børn/ J fyrre Book Kongann/18. Cap. Ad a Døgum Achabs/hafe Himeninn vered so hart tilluktur/ad þar hafe ecke einum

einum Dropa Vatns Rignt a Jørdena j hálpt fiorda Aar/ allt þangad til/ ad sa mykle Spámadur Drottins Elias/ stie epst vppa Falled Carmel/ og bieck þad med sine Bæn/ ad Gud gaf eitt Nádarsamlegt Regn/ suo ádur en þad Men̄ varde/ vard Himenin̄ dim̄ur/ af Skyum og Vedre/ og þar kom eitt miked Regn.

Æ/ Þad mætte vel seigiast/ ad Himenin̄ hefde vered Apturluktur/ vegna Man̄an̄a Synda/ a þeim fyrstu Veralldaren̄ar tymum/ og þar fram̄ epter/ ecke j þriu Aar/ eins og a Døgum Achabs/ helldur meir en̄ j þriu Þusūd aar/ so þar hafe ecke falled neitt Heilsusamlegt Nádar Regn/ heilags Evangely/ allt þar til sa Himneske Elias/ Drottin̄ vor Jesus Christus/ stie epst vppa Carmel/ þad er/ foor til Himens/ Huar med hn̄ wtvegade oss eitt Nádarlegt Regn/ j Vthellingu þess gooda H. Anda/ sem kom yfer Postulana/ a þessare Dyrdlegu Huytasun̄u Hatyd/ so han̄ hefur nu aptur/ Endurnært og Lyfgad sina Arfleifd/ sem þornud var/ so sem hin̄ heilage David talar j Psalmenum 68. So er þa þesse Veglege Hatydisdagur/ sem vier j Dag hølldum/ Hatyd eins Ypparlegs skeinks/ a huørre vor Himneske Emanuel/ og Brooder/ Jesus Christus (epter þad han̄ vpp foor til Himna og sette sig til hægre Handar Fødursins) wtvegade oss og gaf/ þan̄ Dyrmætasta edla Steink/ sem er/ Anda Náaren̄ar/ Ebr. 10. Anda Bænaren̄ar/ Zach. 12. Anda Vysdoomsins/ Esa. 11. Ja/ Anda San̄leiksins/ og Kraptarens/ Joh. 14. og 2. Tim. 1. So vier meigum nu glader syngia/ med hinum heilaga David/ af Psalmenum/ 115 og seigia. Drottin̄ han̄ min̄est vor/ og Blessar oss/ Han̄ blessar Hwsed Israels/ Han̄ blessar Hwsed Aarons/ Han̄ blessar þa sem ottast Drottin̄/ bæde smáa og stoora. Ja/ þetta er hin allra dyrasta z Dásamlegasta Hatyd/ a huørre heilagur Ande hefur giørt þau mestu og stærstu Furduverk/ Þui j Dag hefur skied Dásemdar verk a Himnenum/ Dásemdarverk a Elldenum/ Dásemdarverk j Loptenu/ Dásemdarverk a Jørdun̄e. A Himnenum er stoor Dásemd skien/ þar Heilagur Ande kom yfer Postulana/ j einum skyndelegum Þyt/ suo sem mykels Tilkomande Vindar. A Elldenum eru og suo stoor Vndur skien/ þar Tungur yfer Postulunum saust so sem være þær Glooande/ Huad vissilega hefur mátt vera eirn yfernatturlegur Elldur/ Lyka sm̄ þegar ad Runnurin̄ logade fordum/ en̄ bran̄ þo ecke/ Exo. 3. A Jørdun̄e sem nidur vnder oss er/ hafa ecke helldur litlar Dásemder og Furduverk skied/ Þar Postularner sem ádur fyrre høfdu vered einfallder Fáfrooder og lijtt talande Men̄/ vrdu a einu Augnableke so Málskurdker/ ad þeir gátu talad Guds Stoormerke j allra Handa Tungumálum/ so sem þessa Dags Pistell wtvijsar/ þar fyrer er eingin̄ Furda/ þo þeir Heilǿgu Forfedur/ Spámen̄ og Kongar/ hafe haft eina Hiartanlega og jn̄elega Epterlangan/ epter þessare Dyrdarlegu Drottins Hatyd/ og hafe hroopad med Spámanenum Esaia/ af hans Spádooms Bookar 45. Cap. seigiande/ Drupe þier Himnar hier ofan̄ ad/ og Skyen̄ Rigne Riettvysene. En̄ vier villum j Jesu Nafne/ an leingre Jn̄gangs og Formála

heraz en þessa heilaga Evangelij/ sem til er sett ad vtleggiast skulu/ at þessare heilaga Anda Hatyd/ j Kristnenne/ og oss tuær Greiner fyrer Hendur taka vt af þui ad yfer vega ad þessu sinne.

Fyrst vilium vier skoda og yfer vega þ Anda/ huørt ad sie Audkienningarteid kn og Merke allra þeirra sem Jesum af Hiarta elska.

Þar næst vilium vier athuga/ þau Laun/ z þa Velgiørninga heilags Anda/ sem hann audsyner øllum þeim/ sem þesse Audkienningar Teikn a sier hafa.

Nu/ sa Himneske Huÿtasunnu Herrann/ Gud Heilagur Ande/ sem a þessare Dyrdlegu Hatyd/ sette sig yfer Postulana/ og leidde þa j allann Sannleik/ hann virdest enn nu a þessare stundu/ ad setia sig yfer sierhuørn af oss/ so vier mættum þetta yfer vega/ þeirre Heiløgu Guddoomsins Prestingu til Lofs og Dyrdar/ enn oss til Saalargagns j Jesu Nafne/ Amen.

# Fyrre Greinin.

Nu vilium vier koma til Textans/ og skoda huad sierlegt/ hann hefur jnne ad hallda.

Fyrst syner þesse Gudspialls Texte/ oss lioos Merke a þeim sem bwa yfer Heiløgum Anda. Enn þad er Teikned/ Ad sa sem elskar Jesum/ j hønum byr heilagur Ande. Enn vilier þu vita/ huørt þu elskar Jesum af Hiarta edur ecke/ þa hefur þu þar eckert vissara Teikn til/ enn ad ransaka huørninn Hiartalag þu hefur til Guds Ords. Hafer þu Guds Ord kiært/ þa þarftu ecke ad efa þ ad þu elskar vyst Jesum/ Enn sie so þu skeiter ecke vm Guds Ord/ þa skeiter þu ecke helldur vm Jesum/ Hater þu Guds Ord/ þa hatar þu og so Jesum/ Enn hater þu Jesum/ þa kantu ecke ad bwa yfer heiløgum Anda/ Þui huør hann elskar ecke Drottinn vorn Jesum Christum/ sa er Bølvan/ seiger Postulinn Paull/ 1. Cor. 16. Þetta Teikn Jesu Elsku/ og heilags Anda Jbwdar/ Høfdu þeir ij goodu Lærésueinar/ sem til Emaus geingu/ þui þeir elskudu so þad Ordet Jesu/ sem hann predikade fyrer þeim a Vegenum/ ad þra Hiørtu brunnu j þm/ so sem þeir medkiendu sialfer/ Luc. 24. Þetta Teikn bar med sier/ Drottningin af Arabia/ 1. Sam. 10. Huør ed Reyste langann Veg/ til ad heyra Ord Guds af Munne Salomonis. Þetta Teikn hafde og so lyka a sier/ sa goode Kong David/ huør ed liet sier kiærara vera Ord Drottins/ helldur enn møg og Þusund Stycke Gullz og Sylfurs/ Psalm. 119. Enn Gud Nade huørn inn þad geingur til fyrer oss aumum z Syndugum Mønnum/ þaug ad Hiørtu vor hyrna siálldann vnder Guds Orda Heyrn/ og Predikun/ auk helldur ad þau munde brenna af Elsku og Føgnude þeirra Hluta/ sem vier heyrum kient og predikad vm/ eins og Lærésueinanna Hiørtu Brunnu. Vier høfum Ord Drottins fyrer Dyrunum/ og vilium valla vykia oss fuetfootar til ad heyra þ/ auk helldur ad vier mundum med Austurvega Drottningunne epter þui sækia langa Vega. Vier selium kann ske Guds Orda heyrn opt og tydum/ fyrer þim aúna virpe/ edur Gulltar Abata/ auk helldur vier mundum virda Ord sins

Negin

Hreinu/meir enn marg Pund Stycke Gulls og Sylfurs/eins og David. Nu þo þetta sie suo ä sig komed/ fyrer allmørgum/ þa samt sem ädur er voñande/ og truanlegt/ ad j Guds Skickude/ mune enn nu finnast þau Hiørtu sem elska af Hiarta þad blessada Ord Drottins/ og bera so ä sier þad Teikn/ ad þau hafe Jesum sinn kiærañ/ og hafe yfer Heiløgum Anda. Þesser aller hafa utvaled sier med Mariu þad besta Hlutskifted/ huørra vegna þeir verda hier Ammuter/ ad lata sier ætyd vaxa meir og meir fram/ j Elsku Guds Ordz/ Barnrækne/ Jdraneñe/ Hlydneñe vid Gud og Meñ/ og j Þolinmædeñe/ og vondum Au... Guds Orda Elsku/ og riettrar Gudrækne/ suo sem Postulinn Petur ämiñer j sijnu Sendebrefe/ 3. Cap. seigiande/ Vaxed j Nadeñe/ og Þeckingu vors Drottins og Lausnara Jesu Christi/ Og j Openberingar Book. 22. Cap. stendur/ ad huør sem Riettlatur er/ hañ skule Riettlætast eñ nu framar. Þad er ad skilia/ ad sa sem nockud gott hefur med sier vppbyriad/ fyrer Heilags Anda Verkan/ hañ stunde þar til ad þad aukest ætyd/ eñ mynke alldrei. Hiner sem ecke elska Ord Drottins/ þeir hafa ecke heilagañ Anda med sier/ Eñ þeir sem hañ ecke hafa/ þeir heyra ecke Jesu til/ Rom. 8. Þar fyrer hafe nockur hingad til/ vered kalldur og Athugalaus/ Vnder Heyrn og Predikun Guds Orda/ hañ siae ad sier j tyma j Jesu Nafne/ Þui alhægt er Gude enn nu j Dag/ ad giøra hañ ad Guds Barne/ sem hingad til hefur vered Dieffulsins Barn. Gieturn ad/ huad Ande Guds seiger/ Ad huørn þañ Tijma/ sem sa Riettlate latur af Riettlatur ad vera/ þa skulu hans fyrra Riettlætis ecke minst verda. Og þar huert ä mote/ Huørn þañ tyma sem sa Ranglate snyst fra Ranglætenu/ þa skule ecke helldur verda minst hans fyrra Ranglætis/ Ez. 18. Dæme hier vppa skiede/ j þeirre fyrstu Predikun sem hallden var ä Huitasuñu Hatyd/ þui þa snerust til Jdranar og riettrar Truar nær þriar Þusunder Sælna/ sem leinge høfdu Guds Anda og Orde ä mote staded/ Act. 2. O/ Gud gefe ad þeir sem eñ nu ä vorum Døgum eru kallader til Þess ad heyra Guds Ord/ og hafa þar med leinge forsmad og styggt Heilagañ Anda/ Þeir mætti komast j þeirra Hoop. Og þetta er nu þad fiorda Audkieñingar Teiknid/ ä øllum þeim sem Jesum elska/ og hafa yfer Heiløgum Anda/ Ad þeir heyra eigenlega Guds Ord/ elska þau heilogu Sacramenta/ og hafa Hiartanlega Girnd og Epterlængan ad vera j Huse Drottins/ eins og David/ huør ed seiger j Psalmenum/ 27. Eins hefe eg beded af Drottne/ þad sama villde eg giarnañ þiggia/ ad eg mætte blyfa j Huse Drottins/ mijna lijfdaga/ til ad skoda þa fagurlegu Þionustugiørd Drottins Guds/ og ad vitia hans Musteris.

Nu villium vier eñ framar athuga og yfer vega/ huørnin þad vier eigum riettelega ad elska Jesum. Fyrst eigum vier hañ ad elska af øllu Hiarta/ allre Sal/ og øllum Kraftum/ Þad er ad skilia. Vier eigum ecke ad hafa neina Kræsna Elsku/ til vors allra sætasta Endurlausnara/ fyrer huørre ad heilagur Ande eckur oss vara/ fyrer Muñ Postulans Pals/ Rom. 12. seigiande/

 Elskañ

Elskañ sie Flærdarlaus/Og eñ aptur stendur þar/1. Joh. 3. Sona korn/Ek-
sked eige med Orde og Tungu/helldur med Verke og Sañleika. Ecke a hell-
dur Elsku vorre til Jesū ad vera so vared/so sem Elsku Barnaña til Forell-
draña/ eda Ektamañsins til siñar Eigenkonu/ edur eins Gooda Vinar til
añars/Helldr a þad ad vera þuilijk Elska/sem yfergeingur alla adra Elsku.
J einu Orde ad seigia/vier eigum ad elska Jesum so/ad vier hølldum hañ fyr
er vort Suñum Bonum/ edur ædsta Fiesiood/ og vilium helldur ganga a mis
alls þess sem oss er kiærast j þessare Verølldu/ Sie þad Fader eda Mooder/
Syster eda Brooder/Kona eda Børn/Lyf og Lucka/Æra og Gotz/eda huør
tu hellst Nafne sem þad heita kañ/helldur eñ þad vier hafum ecke Hiartanle-
ga kiærañ þeñañ Edla Fiesioodiñ og Dyrgripiñ/vorn Drottiñ Jesum Christ-
um/Þui so seiger hañ sialfur/hia Lucam/14. Cap. Huør hañ elskar meir Fød
ur og Moodur eñ mig/hañ er mijn ecke verdugur.

Þar næst eigum vier ad andsyna vora Elsku til Jesu/j þui/ ad vier gleym
um ecke hans Limum/þad er þeim Voludu/og Þurftugu/helldur giørum þe-
im gott j hans Nafne/ epter vorum Efnum/ Þuiad ef nockur seigest Elska
Gud/eñ hatar siñ Broodur/sa er Liugare/þui huør hañ elskar ecke siñ Broo-
dur/huøren hañ sier/Huørnig gietur hañ Gud elskad/ þañ hañ sier ecke? seig
er Johañes/1. Pistle. 4. Cap.

J þridia lage eigum vier ad elska Jesum Endurlausnara vorn stadfastle-
ga/j Medlæte og Motlæte/j Lyfe og Dauda/epter þui sem sialfur Gud hef
ur þad tilskickad/Þui huør hañ leggur syna Hønd a Plogiñ/ og lytur a Bak
sier aptur/sa er ei hæfelegur til Guds Rykis/seiger Christur/hia Luc. 9.

# Añur Greiniñ.

HVad fa þeir þa til launa/z j adra Hønd/sem Jesum elska/hans Ord stun
da/z yfer heiløgū Anda bwa? Þad seiger oss Herrañ Christur hier j Guds
spiallenu/FAder Miñ (seiger hañ) Mun ELska ÞA. Þar kañ ecke Gledeleg
ra og Hugguñarsamlegra Ord ad seigiast/a mille Himens og Jardar/ eñ þad
ad Gud Fader elske eirn/þuiad þa sem hñ elskar/þa elskar hañ so Hiartanle-
ga/so sem eirn elskar Sialldur syns Auga/Zach. 2. Eda so sem syna eigiñ
Sal/Jerem. 2. Þad er ad søñu ecke lytel Æra og Virding halldiñ hier j Heime
þa eirn edur añar/ Fatækur og Vnkomulytell Vndersate/ kiemst j Gunst og
Vinattu vid siñ Kong/edur mykels hattar Høfdingia/þo er þui suo vared/ so
ad slykra Stoorherra Gunst er optsiñis falvøllt/og varer sialldañ leinge/ so
sem vier hofum Dæme til a Haman/Hañ þeinkte ecke añad/eñ hañ være hiñ
allra Lukuqiefnaste Madur j Verølldeñe/af þui ad Kongurin hafde vpphaf-
fed hñ/z sett yfer alla syna Fursta/ og Vndergiefna Þienara/ Eñ þad varade
ecke leinge/þui Kongurin liet skømu þar epter/heingia hñ a einum haum Tre
iegalgaa/so sem þar vm verdur lesed/ Esthers Bookar 5. z 6. Cap. Eñ El-
ska og Giæskuryke Guds Føders til vor/vmbreytest ecke/Helldur/helldur þañ
Ern

Trw vid oss æpenlega/ so sem David vottar j Psalmenum/ 146. Ja/ Hañ hefur soddañ Hiartgrona Elsku/ og Kiærleika til vor/ ad hañ lætur þad allt fram vid oss koma/ sem eirnre skiærustu og Skylausustu Elsku fylger/ so sem er þetta. Fyrst Opinberar hañ oss allt sitt Leyndar Raad/ Þar næst giefur hañ oss allt þad sem hañ sier oss Gagnlegt og Naudsynlegt vera. Hañ vmber og so j þridia mata vorn Brest/ og skyler vorum Lytum/ betur eñ eirn Fader kañ ad skyla/ Lytum og Breste syns Elskulegs Barns. Og ad sydustu/ so eckert avante/ þa giefur hañ sig sialfañ j synum Guddoome/ og þremur Personum/ med allre sinne Gæsku og Giædum/ Mañeskiuñe til Eignar/ og Jnbwdar Hiartans og Salareñar/ huad hañ avysar med þessum Ordum/ sem hier standa. Og til hañs munum vier koma/ og Vistarveru hia hønum giøra. Sia þu/ so blessast sa Madur sem Ottast Drottiñ/ seiger hiñ heilage David/ j Psalmenum/ 128. Ja/ so blessast aller þeir/ sem elska Ord Drottins og hylla so ad sier þañ gooda heilaga Anda.

Gud Drottiñ giørde Jsraels Folke adur fordum/ margt og myked til goda/ so sem lioost er af heilagre Ritningu/ Eñ sa var Velgiørningurin allra mestur/ sem yfer took/ þa hañ Blessadur virdtest ad bwa a medal þess. Eins lyka høfum vier aumar Mañeskiur/ alldrei þeiged stærre Nad og Velgiørning af lifanda Gude/ eñ þañ/ ad hañ vill virda oss slyka Heidurs/ ad vier skulum vera hans Bwstadur/ huørs vegna ad Lykømum vorum veitest þuilyk Æra/ ad þeir heita og kallast nu hiedan af/ Mustere Lifanda Guds/ 2. Cor. 6.

Oh/ Vertu nu þar fyrer gladur/ miñ Christne Brooder og Syster/ og hroosadu þier þar af/ ad þu formatt nu alla Hlute/ fyrst þu Herbergiar hia þier soddañ Edla Giest/ sem sialfur forma alla Hlute. Sia/ hier kiemur til þyn Gud Fader/ og tekur þig sier fyrer Barn/ Hier kiemur til þyn Sonur Guds/ og giefur þier til Eignar syna allra Helgustu Forþienustu/ Hier kiemur til þyn Gud Heilagur Ande/ og Jñsiglar þessa Nad j þynu Hiarta/ so þu matt gladur segia med Postulanum Paale/ Ef Gud er med oss/ Huør er þa a mote oss? Huør ed ecke hyrmde synum Eigenlegum Syne/ helldur gaf hañ vt fyrer oss alla/ huørniñ skyllde hañ þa ecke giefa oss alla Hlute med hønum? Rom. 8.

Til Abrahams kom Drottiñ/ og tueir Einglar med hønum/ þa hañ sat j Dyrum siñar Tialldbwdar/ og sem hañ sa þa/ rañ hañ a mote þeim/ og fiell fram til Jardar/ og sagde/ Herra/ hafe eg funded Nad fyrer þynu Auglite/ þa gack ecke fram hia þynum Þienara/ Gen. 18. Huad myklu framar ber oss skyllda til/ ad vier med stærstu Audmykt og Knefalle/ medtøkum þeñañ Edla Giestiñ/ og gledium oss af Hiarta þar yfer/ ad hañ vill ecke alleinasta ganga jñ til vor vm stundar saker/ helldur og eirniñ giøra Langvist og Veru hia oss/ Þar sem hans Footspor Driwpa af Feite/ Psalm. 65. Og huar hañ Herbergiar/ þar er Lyf og Blessan/ vm Allder og ad Eilyfu/ Psalm. 133. Og þetta er nu sa añar Velgiørningurin/ edur Launin/ sem þeir faa er Jesum elska/ og hans Ord vardveita/ ad øll H. Guddoomsins Þreñing vill bwa/ og giøra Vistarveru hia þeim/ j þra Hiarta.

 Þridie

Þridie Velgiørningurin/sem øllum sønum Jesu Elskendum veitest/er Vnderviſſun og Vppfrædiug Heilags Anda/hier vm hliodar so Textin. Þetta faa lade eg þyrer ydur/æ medann eg var hia ydur. Þad er ad skilia/A medan eg vmgieckst sinelega j Holldenu/hier hia ydur/En hier epter mun eg ecke med soodan Hætte tala vid ydur. Nelldur Huggarin/sem er hin heilage Ande/þan er min Fader mun senda ydur j minu Nafne(seiger Christur) Nan sialfur mun kiena ydur alla Hlute/og mina ydur æ allt þad sem eg sagda ydur.

Þad ber til opt og tydum/þo ad Guds Børn hafe einsett sier/ad minast æ leggia vppa Hiartad/þa edur þa Huggunar Grein/sem j Guds Orde stendur og af Jesu S gnada Munne er wtgeingen/ad hafa hana sier til Trwarstyrkingar/þegar Freistingar og Jnnstegar Motlætingar ad Høndum koma/þa muna þau ecke neitt þar til/og er eins og þau hefde alldrei heyrt þad nie sied/ Enn oss til stærstu Huggunar j soddan Tilfellum/ lofar vor Blessade Endurlausnare Jesus/ad han vilie senda þann gooda Heilaga Anda j Hiørtu allra þeirra sem han Elska/og han skule mina oss æ øll þau Nadar Fyrerheit/ sem han hefur giefed oss/j sinu heilaga Orde. Huad ad er ein yfer mata stoor Huggun fyrer allar Angradar og Sorgbitnar Maneskiur/Þui huad Gud hefur lofad þad endrer han vissilega/og hans Ord kuna alldrei ad bregdast/Luc. 21.

Þar næst og j annan mata/verdur oss hier fyrer Siooner sett/huærnin hætted og vared er Efnum vorum/j þessum Heime/sem er/ad vier lifum hier/sue sem adrar Fararadar Skiepnur/Þui vorer Vitsmuner eru Halfverk/og vorar Spaasagner eru Haalfverk/so sem Postulin seiger/1. Cor. 13. Jaa/ Vier meigū aller med Spamanennum Jeremia/medkiena og seigia/ Ach Domine nescio loqui/ Oho Drottin/ eg duge ecke til ad tala edur predika/þui eg er Ofrungur/ Jerem. 1. Jaa/sannarlega maa þad vm oss seigiast/ad vier sieum Børn/og Ofuurger j Trwarefnum vorum/þar fyrer er oss stoor Þørf og Naudsyn a einum goodum Skoolameystara og Vppfrædara/sem oss kiene Guds Gøtu/og huad vier eigum ad flya og fordast/þuiad af Natturunne til erum vier sialfer Blinder/So vier sium ecke med vorum Augum/æ heyrum ecke med vorum Eyrum/og skilium ecke med vorum Hiørtum/Esa. 6. Allan þennan margfallldan Brest æ Breyskleika/hefur vor allra sætaste Endurlausnare Jesus/fyrer sied/og þui hefur han sent oss af Himnum ofan j sin stad/þan rietta Læremeistaran æ Vppfrædaran/sem Ransakar alla Hlute/ eirnin Diwpleika Guddoms sins/ 1. Cor. 2. Þesse vor Skoolameistare kan ad giøra wr einum audvirdelegum Fiarhirder/ einn Dyrdlegan Spaman/ eins og David/ 1. Sam. 16. Han kan ad giøra wr einum Fatækum Fiskara/godan Predikara/eins æ Postulana/Joh. 20 Og wr einum Ofsooknara Christninar/hætt vpplystan Doctor Heidinna Piooda/eins æ Postulan Paal/ Act. 9. Þar fyrer/Huer han er j þeirre heilogu Kiennemans Stiett/han bidie þennan Læremeistaran/þan goda

heilaga

heilaga Anda/ad gieþa sier Mælsku og Visku/so hañ meige vera nytur og hæ-
keugur/til ad framflytia Embætte þess nya Testamentesins/2. Cor 3. Og
ad ámiña fyrer Heilsusamlegañ Lærdoom/og straffa þa sem ad moote mæla/
Tit. 1. J sama mata/þeir sem setter eru til ad stiorna z styra Vndergiefnu
Folke j þeirre Veralldlegu Yfervalldsstiettiñe/ bidie þeñañ Læremeistarañ/
vm Vit og Mælþære/so þeir meige skilia huad gott og jllt er/og giøra synum
Vndersaatum Riettinde og Doom/epter þui sem Salomon bidur/ 1. Kong.
Book. 3. Þeir sem j Husstiornarstiettiñe lifa/ bidie þeir og eirniñ þeñann
Læremeistarañ ad liena sier Mæl og Vit/ so þeir giete gooda Forstødu veitt
synu Huse/1. Tim. 3. Og Vppaled syn Børn j Aga og Vmvøndun til Dro-
ttins/Eph. 6. Ja/ J einu Orde ad seigia/ Eirn og sierhuør/ huørrar helldst
Stiettar edur Embættis/ sem hañ er/ edur verda kañ/ sa bidie og akalle aþ
Hiarta þeñañ Læremeistarañ/ad hñ vilie gieþa sier bæde Mælsku og Vit/Vit
til þess ad giera þeckt Gud rietelega/Eñ Muñiñ og Mælþære/til ad prysa hñ
og lofa fyrer øll syn Verk og Velgiørninga/sem hañ veiter oss Daglega Dags
og þetta eru þeir tueir Vænger/ med huørium vier kuñum vpp ad fliuga til
Himenrijns/Þui þad er þad Eilyfa Lyf/Ad þeir þeckie þig sañañ Gud/ z þañ
þu sender/Jesum Christum/seiger hiñ heilage Joh. 17.

Fiorda Gagn edur Nytseme/ sem þeir haa og ødlast/ er Jesum elska/ hans
Ord stunda og yfer Heiløgum Anda bwa/er Fridur og Rooseme Samuiskuñ-
ar/ Hier vm talar Herrañ Christur suo/j þessum vorum Texta. Miñ Fr-
id læt eg hia ydur/Miñ Frid gieß eg ydur/ eige so sem Heimuriñ gieß-
ur/ þa gieß eg ydur. J huørium Ordum vor særaste Endurlausnare
Jesus Christus giører eirn miøg merkelegañ Greinarmun/a millum Veralld-
ariñar Fridar/z þess Fridar sem hñ sialfur hefur veitegad synum Truelyndum
Børnum/fyrer syna Burtfør til Fødursins/ Og þetta er nu sa Fridurin/ vm
huørn Postuliñ Paall talar/j Pistlenum til Philippenses 4. Og kallar þad
Frid Guds/sem hære sie øllum Mañlegum Skilninge/Huør sem nu þeñañ Fr-
idiñ hefur/hañ þarf ecke hræddur ad vera fyrer Diøflenum/þui Christur he-
fur hans Ryke nidurbroted/1. Joh. 3. Huør þeñañ Fridiñ hefur/ hañ þarf
ecke ad ottast fyrer Daudanum/þui Christur hefur hans Magt j burttekid/
Hebre. 2. Huør þeñañ Fridiñ hefur/ hñ þarf ecke ad kuyda fyrer Helvijte/
þui Christur er ordiñ þui ad eitrad Pestilentiu og Plagu/ Ose. 13. Nu sa
Himneske Fridarherra/vor Drottiñ Jesus Christus/giefe oss þessa syns Frid-
ar eilyflega niotande ad verda/og j þeim sama Fride burt hiedañ ad sofna/
vel og sælega/ þa vor stund er oss ad Hendum komiñ/ Giad oss veite Gud
Fader af sine Naad/ fyrer Forþienustu og Medalgaungu syns kiæra Sonar
Jesu Christi/Huørium med Fødurnum og Heilögum Anda/sie Lof og Dyrd/
Heidur og Vegsemd/nu hiedañ j fra/og ad eilyfu/Amen.

# A Añañ Dag Hvitasuñu.

Evangelium/ Johañ. 3. Cap.



Esus sagde til Nicodemum/ So elskade Gud Heimiñ/ ad hañ gaf vt siñ Eingietiñ Son/ til þess/ ad aller þeir sem a hañ trwa/ fyrerfarest ecke/ helldur ad þeir hefe eilijft Lijf. Þui eige sende Gud Son siñ j Heimiñ ad hñ fyrerdæmde Heimiñ/ helldur ad Heimuriñ frelsest f hñ. Huor hañ trwer fyrerdæmest eige. Eñ huor hñ trwer eige hañ er nu þegar dæmdur/ þui hañ trwer ecke a Nafn Eingietins Guds Sonar. Eñ þesse er Doomuriñ/ ad Lioosed kom j Heimiñ/ og Meñerner elskudu meir Myrkred eñ Lioosed/ þuiad þeirra Verk voru vond. Huor sem jlla giorer/ hañ hatar Lioosed/ hañ kiemur og eige til Lioosins/ ad eige strafest hans Verk. Eñ huor sem Sañleikañ giorer/ hañ kiemur til Lioosins/ so hans Giorder verde kuñar/ þui þær eru j Gude giordar.

## Exordium.



Añare Book Konganña/ 3. Cap. Lesum vier/ Ad þegar þeir þrijr Kongar/ sem var Konguriñ af Jsrael/ Konguriñ af Juda/ og Konguriñ af Edom/ høfdu teked sig saman/ med allre siñe Stryds magt til ad Heria vppa Moabitaña Kong/ fyrer þa Søk/ ad hañ hafde gifed sig fra Jsrael/ z ecke viliad gialldа þañ þañ Skatt/ sem hñ var þeim vm skylldugur. Og sem þesser þryr Kongar høfdu Beilegrad og hardlega vmkringt/ adur sagdañ Moabitaña Kong/ þa stendur þar skrifad/ ad hañ hafe orded so skielfdur og Angradur j synu Hiarta/ Ad hañ hafe teked siñ Frumgietiñ Son/ sem Kongur atte ad verda j hans stad/ og slatrad hønum vppa Muurnum/ til Breñe offurs j Augsyn Jsraels/ meinande sig þar med/ ad giera blydkad sina Afgude/ so þeir frelsudu sig fra Faare þui og Skada/ sem hañ var j komiñ/ Eñ sem Jsraels Børn sau huad Moabitaña Kongur giørde synum Syne/ þa gramdest þeim þad so miøg/ ad þeir viku j burtu/ Heim aptur j sitt Land/ þui þeir meintu (epter þui sem Lutherus þad vtleggur) ad Gud mnde meiga straffa sig/ fyrer soddañ hrædelegt Ødaaverk. Mun vil eg spyria/ Mun sa nockur vera/ sem þetta heyrer eda les/ ad hañ skule ecke forundra sig þar vppa/ ad nockur Fader skyllde Høndla so grimlega vid sitt eiged Barn/ ad taka þad sialfur af Lyfe/ þui þad synest ad vera moot allre

Fodurlegre

Fødurlegre Elsku? Sañarlega/ þar munu fæer eda øngver fiñast/ sem ecke latta sier soddañ Vidhøndlan/ vid sijna Barnkind til Hiarta ganga. Eñ huad myklu framar/ ættum vier þa ad furda oss/ og forundra/ yfer þeirre stooru og Omrædelegu Elsku Guds Fødurs/ þar hañ hlyfde ecke sijnum Eingietnum/ Elskulegum Hiartans Syne/ helldur gaf hñ wt fyrer oss/ so sem til añars Offurs/ þa vier vorum eñ nu hans Ovinter/ vppa þad/ ad sa stoore Skadur/ sem er Heimur þesse/ huør af Diøflenum var hardlega vndertrokadur/ þiadur og þuingadur/ skyllde frelsast og fryast fra hans Vallde/ og Vondsku. Huar wt af vier kuñum audvelldlega ad rada/ og skilia/ huad mykels verdt ad Mañkyned sie/ og hafe vered j Auglite lifanda Guds/ þar hañ kostade so myked vppa þess Endurlausn/ Huad oss og eirnin/ verdur fyrer Siooner sett/ j þessu heiløgu Evangelio/ Huørt vier vilium ad þessu siñe/ stuttlega og einfalldlega yfervega/ j tueimur Smægreinum.

Hin fyrre skal vera vm þa stooru og Omrædelegu Elsku Guds til Mañkynsins.

Añur vm þad/ Huørier hellst þeir sieu/ sem Hluttakande verda Guds Elsku/ og hans sæta Sonar Jesu Christi Forþienustu.

Sa Himneske Faderiñ/ sem oss hefur so Hiartanlega elskad/ ad hañ gaf wt siñ Eingietiñ Son/ Mañkynenu til Endurlausnar/ Hañ virdest nu ad senda oss siñ gooda heilaga Anda/ So vier mættum þetta yfervega/ hñs Dyrdar fullara fne til Æru og Vegsemdar/ eñ sierhuørium af oss til Sælargagns og Gooda/ Amen.

# Fyrre Greiniñ

SO sem þad/ Ad þad fyrsta Fyrerheit/ þess Gamla Testamentesins/ vm Kyñunar Sæde/ sem sundur mætte ad mola Høggormsins Høfud/ var hid hellista og stærsta Fyrerheit/ sem hlioode vppa Drottiñ vorn Jesum Christum. So er og so þetta heilaga Evangelium/ þad allra Dyrmætasta og Ypparlegasta a medal þeirra Gudspialla/ sem j Christneñe kiend og predikud verda Aared vm kring/ Huørs vegna ad Lærefaderiñ Lutherus kallar þad Kiarna edur Merg allrar heilagrar Ritningar/ edur þa miñe Bibliu. Eñ so ad þetta Gullvæga Evangelium mætte verda oss þess Minnistædara og skilianlegra/ þa vilium vier yfervega þessa fim epterfylgiande smæ Puncta. Fyrst/ huør sa sie/ sem Heimiñ hafe elskad. Þar næst/ Huad hønum hafe komed til þessarar Elsku/ J þridia mata/ huad þad sie sem hañ elskar j Heimenum/ J fiorda lage/ huad myked og heitt hañ hafe elskad/ Og j fimta og sijdasta mata/ til huørn edur vppa huad hañ hafe elskad.

So myked sem hui fyrsta vidvijkur/ þa vottar Textiñ vor/ ad sa sem hier Elskar/ þad sie sialfur Eilijfur sañur og Odaudlegur Gud/ Fader vors Herra Jesu Christi/ eirn Drottiñ og Herra yfer Himne og Jördu/ yfer Lyfe og Dauda/ sa sem lagt hefur þañ fyrsta Stein eda Grundvøll til vorrar Sæluhialp-

 ar/ ept

ar/epter þui sem hañ seiger sialfur hia Spamañ enum Hoseam/13. Þinn Hial- lp Jsrael/er alleinasta hia mier. Jaa/Þetta er sa eilijfe sterke Gud/Lifande Gud/epter huørs Naad z Vinskap/ad allar Skiepnur a Jørdune ættu ad stun- da og keppast/ef þær Vit a hefdu. Vier siaum huørniñ þad geingur til/ hier j þessum Heime/ad nær eirn edur añar kiemst j Gunst/og Vinættu/hia ein- um Ypparlegum Herra/Hialpe ost Gud/ Huad mykelega stærer sü Mañeskia sig af þui/ad hun er j Naad og Vinfeinge vid siñ Yfermañ? Eñ soddañ Stor- herra Gunst og Vinatta er skamvin/ og forgeingur skindelega eins og Boola a Vatne/ þa so vill til.

Dæme hier uppa høfum vier a einum Ypparlegum Strijdshøfdingia/ ad Nafne Bellisarius/Huør ed bæde leinge og vel/hafde þient Justiniano Key- sara/og þuilijka Gunst hia hønum ødlast/Ad Keysariñ liet slaa hønum til Æ- ru eina Gullmynt/med Keysarans Mind a añare Sijduñe/eñ Bellisary a añ- are/og med þessare Yfirskrift Bellisarius Romanorum Decus, Þad er/ Bellisarius er hin stærsta Prijde þess Romversku Rijkis. Eñ skømmu þar epter þiell so til/ad same Strijdsherra Bellisarius vor forlogiñ vid Keysarañ/ suo hañ fiell j hans Ogunst/z liet stinga wr hønum bæde Augun/so hañ vard ad bidia um Braud/og lata setia upp eina Tøblu hia Veigenum sem Almeñing- ur um reyste/uppa huørla skrifud voru þesse Ord/ Viator da obulum Bel- lisario, qvem virtus evexit, Invidia excœcavit. Þad er/ þu sem hier fram hia Reiser/giefdu Bellisario eirn Skilding/huørn Mañdygdiñ upphaf- de eñ Afundiñ Blindañ giørde. Vier siaum og suo huørniñ þui er varid og hættad fyrer soddañ mykelshattar Herrum/Kongum og Potentatum/sem er ad þeir hlioota opt og tijdum/ med stærstu Hiartasorg og Angre/ ad sia þar uppa/ad þeirra Drottningar/Børn z Villdismeñ deya j burtu/eñ gieta þo hui- gerke hialpad sier nie þeim/og þegar Meñ meina/ad þeir sieu j siñe allra stær- stu Magt og Herleghheitum/þa er þeim skindelega j burt kipt/so þeirra Raad og Regiering duger þa ecke meir/Eñ vor Gud og Herra sem a Himnum byr/ hañ er soddañ eirn Gud/sem kañ ad giøra allt huad hañ vill/sem David vott- ar/Psalm. 115. Og j Psalmenum 33. seiger hañ/ So sem þu talar Drottiñ/ so skiedur þ/og so sem þu befalar so stendur þad. J einu Orde ad seigia/ þa sem Gud Elskar/kañ eingiñ Hlutur ad skada/Og þar huert a moote/huør- ium hellst sem hañ er Reidur/þeim kañ eingiñ Skiepna ad hlijfa/þui þo hefur ecke ad eins Magt til ad straffa hier Tijmanlega/helldur og so Sælu og Lijf- kasa j Helvijte nidur ad kasta eilijflega/Þar fyrer er eingiñ Hlutur hrædelegr- re/eingiñ skadlegre eñ sa/nær Gud er Mañeskiuñe reidur. Hier um talar so hiñ heilage David/Psam. 139. Huørt (seiger hañ) skal eg fara Drottiñ fyrer þij- num Anda? eda huørt skal eg flyia fyrer þijnu Augliti? Fare eg upp j Himen- iñ/þa ertu þar/Byggle eg mier Rwm j Helvijte/sia/þa ertu eiñiñ þar. Tæke eg Vænge Morgunrodans/og være vid þad ytsta Siafarhaf/þa munde þar

þeim

heim stad/ þyn Hønd leida mig. Jaa/ þeir sem Gud hafa sier Leidañ/ þeir hafa
aller Skiepnur sier æ mote/ so sem er Einglana/ Diøflana/ Himen ⁊ Jørd/ ⁊ allt
huad þar jñe er/ so sem þar stendur j Spekinar Bookar/ 5. Cap. Þar fyrer
er eckert betra/ eckert Naudsynlegra/ eda oss Mønnunum Þarflegra/ eñ ad vera
j Vinaattu vid lifanda Gud. Hier vid kañadest sa frome Assaph/ og þess veg-
na syngur hañ so/ Psalm. 73. Þegar jeg hef þig Drottiñ/ þa hirde eg huørke
vm Himen nie Jørd/ og þo Lyf og Saal vanmegnest/ þa ertu þo Gud alla tyj-
ma mitt Hiartans traust/ og mitt Hlutskipte. Stunde nu þar fyrer huør og ei-
nn/ og Kappkoste af øllum Saalar og Lyfs Kroptum/ ad meiga vera j Vin-
aattu vid Lifanda Gud/ ⁊ briota ecke af sier hñs Nad/ þui hun er dyrmætare
eñ Himen og Jørd/ kostulegre eñ Gull og Edalsteinar/ og aller Jardnesker
Hluter.

Þad añad sem oss er hier athugande/ er/ Huad Gude hafe komed til þessarar
siñar Elsku/ sem er eckert añad/ eñ hans Ovmrædelega Nad/ Myskun og Gi-
æska/ Hier vm talar Salomon so/ Spek. B. 11. Þu elskar allt þad sem til er/
og ei hatar þu neitt af þui sem þu hefur giørt/ þui þu hefur sañlega þad ecke
neitt giørt þad þu hefur Hatur til. So er þa eingiñ øñur Ordsøk til vorr-
ar Saaluhialpar/ vtan alleinasta Elska Guds Fødurs/ eñ ecke vor eigiñ Good-
verk/ Forþienusta eda Verdugleike/ epter þui sem vier syngium j Psalmunum
vorum. Eilyfañ Gud aumgrade þa/ Eymdiñ myn mørg vr maata/ hañ miñtest
syna Myskun æ/ mier villde hialpa laata. Item/ Mællte vid kiæra Soniñ siñ
sie eg maal Nad ad giefa/ far þu til mæte Sonuriñ miñ/ Mañkyne aumu ad
hlyfa.

Nu villium vier eñ frammveigis skoda og yfer vega þad þridia/ huad þad sie
sem Gud hefur elskad/ Sem er Heimuriñ/ Eñ huad er Heimuriñ? Þad eru all-
er Meñ j Heimenum/ bæde Gydingar/ og Heidingiar/ Iller ⁊ gooder/ jafn vel
þeir allra verstu Skalkar/ huørsu Ogudleger og Hreckvyser sem þeir hafa ver-
ed/ Þui Verølld þesse/ edur meste Partur Heimsins/ er ecke añad eñ Samsull/
og samañsafn vondra Bova/ Straka og Skielmera/ sem huørke ottast Gud
nie Meñ/ helldur lasta Drottins Nafn/ Foracta hans Ord/ og leika sier ad all-
skonar Skømmum og Glæpū/ so sem Lærefaderiñ Lutherus seiger j siñe Post-
illu/ Item seiger Johañes j syns fyrra Pistels/ 5. Cap. Ad allur Heimuriñ
ligge j þui vonda/ Þad er/ Ad hañ sie hladiñ allskonar Syndum og Løstum
sem nefnast kuña/ og Postuliñ Paall j Pistlenum til Rom. 3. talar so og seiger
Aller samañ er þeir Synduger/ og hafa Skort æ þeirre Hrosan/ sem þeir ei-
ga fyrer Gude ad hafa/ aller eru þeir fravikner/ ⁊ aller Onyter ordner/ ⁊ eing-
iñ er sa sem gott giører/ og eige eirn/ Jaa/ Heimur þesse hafde ad sønu þad vel
forskulldad/ ad Gud hefde burtskufad hønum eilyflega fra synu Auglite/ og
til Helvytis nidursteipt/ Eñ Drottiñ giørde þad þo ecke/ helldur elskade hann
hañ/ so sem þetta Heilaga Evangelium vottar.

Yfer þessare Guds Furdanlegre ⁊ Ovmrædelegre Elsku til Mañkynsins/

forundrade

forundrar sig Moyses Guds Madur/so seigiande/Deut. Book. 33. Huad kiemur til/ad hañ (þad er Drottiñ) Elskar so Folked? So sem villde hañ so sagt hafa. Huør er Ordsøk til þess/ ad þu Gud Drottiñ og Herra Himens og Jardar/ skyllder kuña ad elska Mañeskiuna/sem þo er ecke añad eñ Dupt og Aska? Og stygger þig syþilldlega med synum Syndum og Illgiørdum. Þad er Mannlegt vort/ad lykur sæke lykañ Heim/ eda huør elske sier lykt. Nu þo so sie/ad eirn eda añar elske þañ Hlut/sem er Dyrmætur og mykels verdur/edur þo vier elskum vora Forelldra/Astvine og Nauunga/ sem oss er bæde Glede Gagn og Adstod ad/og oss hafa margt og myked til Gooda giørt/ Huør vill þad til Ords taka/ eda sig þar vppa furda láta? Talar eck sialfur Christur so hier vm hia Matth. 5. Huørt Verdkaup hafe þier fyrer þad/þo þier elskid þa er ydur elska? Giøra ecke þad sama Tollheimtumeñ? Eñ ad Elska sijna Ovine/og giøra þeim til gooda/ þad maa heita faheyrdur Hlutur. Suo er þad þa ein yfermáta stoor og mykel Elska/sem Gud hefur haft til Mañkynsins/sem þo hafde hrædelega Syndgad a moote hønum/og styggt hañ med sijnum Misgiørdum/so sem ádur er sagt.

Hier af høfum vier oss þad til Lærdooms ad taka. Fyrst huad stoor og mykell ad sie Mismunur a mille Guds Oumrædelegrar Elsku/sem hañ hefur til vor/og þeirrar Elsku sem vier høfum huør til añars jnnbyrdis. Vorre Elsku er so vared og hattad/ad vier Elskum giarnañ og virdum mykels vora Jafningia/so ad eirn sa sem Rykur er/hañ elskar añañ sier Jafnrykañ/ hefur Brædralag og Vmgeingne vid hañ/Eñ þañ Fatæka og Vølada virder hñ einskis/ vill huørke heyra hañ nie sia. Eñ ødruvijs er vared og hattad Guds Elsku og Hiartalage til vor/ Hañ er sa hiñ allra hædste/ og elskar samt þad auduirdelegasta/sem er Mañkyned/ huørt ad er ecke utañ Dupt og Aska/ Hañ er sa allra Heilagaste/eñ elskar þo oss/ sem jnndrecktum Ranglæted eins og añ ad Varn/ Jaa/Hañ er sa allra Vijsaste/ samt snyr hañ sier til vor/ sem erum næsta miøg Fáraader og aumer/Þar fyrer hroopar H. David vpp/j Psalm/113. seigiande/Æ/Huør er so sem vor Gud/huør ed sig hefur so hátt sett/og lytur a þad hid Audvirdelega/a Himnum og a Jørdu?

J heilagre Ritningu verdur hroosad allvijda Elsku Mañaña/ suo sem er Elsku Forelldraña til Barnaña/og Ecktamañaña til sijña Eigenkueña/Eñ huad er Mañaña Elska ad reikna j moote Guds Elsku? Þui hun er yferflioothanleg/og Ogrijpanleg/Gud er hærre eñ Himeniñ/ Diupare eñ Afgruñ Siafarins/leingre eñ Austred er fra Vestrenu/ Breidare eñ Jørdiñ/Þar fyrer Oskar S. Paall/Þa j Ephesø Borg/ad þeir meige faa ad vita og skilia/huør ad sie Vydd og Leingd/Dypt og Hæd/Elskuñar Christi/Eph. 3. Jaa/Hærre (seige eg) er Elskañ Guds/til vor aumra Jardarmadka/eñ Himeniñ er/ þui hañ hefur sendt siñ Hiartans Son/af þeim hædsta Trone Himensins/ hingad a Jørdena til vor/ad giøra oss Syndarana Saaluhalpna. Dypre er hun eñ Afgruñ Siafarins/þui hañ hefur frelsad oss vr þui nedsta Helvijte. Breidare er hun eñ

Jørdin̄/þui hun tekur wt yfer alla Veralldar kringluna. Leingre er hun eñ
Austred fra Vestrenu/Þui hans Naad næer so læangt sem Himenin̄ er/og hans
Sañleike so vijdt wt sem Skyeñ ganga/J einu Orde ad seigia/Elskañ Guds er
so stoor og mykel/ ad hana kañ huørke Eingla nie Maña Tunga noogleiga wt
ad skyra.

Þar næst lærum vier hier/af Elsku Guds til vor/ad elska vora Ovine/fyr
ergiefa þeim þeirra Misgiørder/og vnna þeim og Arna allz goods/Þui þad
er Vilie Guds/so leinge sem vier lifum j þessum Heime/ ad vier biwum til sa-
mans j Eindrægne og jñbyrdis Kiærleika/huør vid añañ/ Eñ ecke epter Sid-
venu þess gamla Adams/Endurgiølldum jllt med jllu/Skamarleg Ord fyrer
Skamaryrde/Helldur giørum þeim gott sem oss Offsækia.

Dæme hier vppa/høfum vier a Joseph/Huør ed var Hoogvær vid syna Jll-
skufullu og Otrwu Brædur. David hefde vel kuñad ad Endurgiallda Saul/
Jllt med jllu/hefde hañ so vlliad giøra/Eñ hañ sneidde sig hia hønum/og vi-
llde ecke giøra hønum neitt Mein/1. Sam. 24. Eins lyka þa Simei Bølva-
de David/kastade Steinum epter hønum/og kallade hañ Bloodhund/þa bañat-
de hañ ad hefna þess a hønum/ 2. Sam. 16. Og huør kañ wt ad skyra þa
myklu Þolenmæde/Giæskuryke og Laanglundargied vors Blessada Herra/ og
Endurlausnara Jesu Christi/ vm huørn Petur Postule vottar/ 1. Pist. 2.
Ad hañ hafe ecke Formællt j giegn/þa hønum var formællt/eige helldur Ogn-
ad þa hañ leid. Soddañ Vmburdarlinde/ Elsku og Kiærleika til Naungans
hrosar hiñ heilage David/ j Psalm. 133. seigiande/ Sia huad gott og æske-
legt þad er/ ad Brædurner bwa huør vid añañ samþyckelega. Item/seiger
Herrañ Christur sialfur/ hia Matth. 5. Ad sæler sieu Hoogværer/ þui þeir
mune Jardrykeđ erfa.

Þad fiorda sem vier eigum ad hugleida/vm Elsku Guds til Mañkynsins/
er/huad myked og heitt hañ hafe þad Elskad/sem er/ Ad hañ gaf wt siñ
Eingietiñ Son. Ecke stendur hier/ad Gud hafe giefed Heimenum Gull
eda Sylfur/Ecke eiñ Eingel/ Kongaryke edur Keysaradæme/ Helldur þañ
allra stærsta/Dyrmætasta og besta Fiesiood sem til er/a Hímne og a Jørdu/
sem er Soniñ siñ. Huad kuñe Gud ædra eda Ypparlegra/ huad Dyrmætara
eda oss Mønnunum Gagnsamlegra ad giefa/ eñ þeñañ Edla Skeinkiñ? Ja/
þo hañ hefde giefed oss alla Verralldarkringluna/ þa være þad allz eckert ad
reikna hia þessu. Þad er gamallt Mælltæke/ ad Børniñ kome fra Hiartanu
og gange aptur til Hiartans/Huad og eirniñ oss audsyner og Bevijsar/su Breñ-
ande Elska/sem Forelldrarner hafa til Barnaña. Þegar Forfaderiñ Ja-
cob sa Kyrtel syns Sonar Josephs Alblooduga/og vissi ecke añad/ eñ hañ
munde sunduriltiñ vera/af Oarga Dyrum/þa griet hñ/og bar sig sæargræte-
lega/Reif syn Klæde/og færde sig j Seck/ og þo hans Syner og Dætur villde
Hugga hañ/þa stodade þad ecke/helldur suarade þeim og sagde/Eg mun fara
med Harme ofañ j Grøfena til myns Sonar/Gen. 37. Sama lesum vier z

 so vm

so vm David/ þa hañ friette Afgang syns Sonar Absalons/ sem hønum hafde þo vered Ohlydiñ/ Sett sig vpp a moote hønum/ og wtreked af Kongsrykenu/ ad hañ hafe bored sig jlla/ græted hañ og sagt/ Auoy miñ Son Absalon/ Absalon miñ Son/ Gud giæfe ad eg mætte deya fyrer þig miñ Son Absalon/ miñ Son/ 2. Sam. 18.

Nu fyrst vier Meñerner høfum þuilyka Elsku og Hiartalag til vorra Barna/ Huad Þusundsiñuum myklu heitare Elsku/ mun þa sa Himneske Faderiñ mætt hafa til syns Sonar? Jæ/ til syns Eingietens Sonar/ Vm huern hann hafde ædur so vitnad og sagt. Þesse er miñ Elsklegur Sonur/ j huerium mier er vel þocknast/ Matth. 3. Þad hefde ad søñu verid myked Elskumerke Lifs anda Guds til vor aumra og Syndugra Maña/ þo hañ hefde sendt ad eins siñ Eingietiñ Hiartans Son/ hingad j þeñañ Heim/ til ad vmgangast med oss/ og giøra oss til gooda/ so sem og skiede/ Eñ samt hefde þ ecke þienad noog til vorrar Endurlausnar/ Þar fyrer liet sa Himneske Faderiñ þad ecke helldur til vanta/ sem oss skyllde þar til þiena/ Þui hañ gaf oss ecke ad eins þeñañ blessada Soniñ siñ til Eignar/ helldur gaf hañ/ hañ þar a ofañ wt j Daudañ fyrer oss/ Jæ/ j hañ Forsmænarlegasta Krossens Dauda. Skodum til/ og athugum þetta eñ betur/ Elskuleg Guds Børn/ Huad virdest ydur? Ef ad eirn Stoorherra og Potentat/ ætte eirn Ovin/ sem hefde ecke ad eins suiked hañ skiemelega/ j eirn edur añañ mæta/ helldur hefde þar ad auke/ Rænt og stoled fra hønum hans Gotze/ og sa same Jllrædismadur være tekiñ og Afhendtur Bødlenum til ad Aflyfast/ og standa siñ Riet fyrer syna Breitne/ Og sem hann være so komiñ/ þa kiæme hans Herra/ sem hañ hefde Misgiørt vid/ og aumkade sig yfer hañ/ og villde giefa hønum Lyf og Landsvist aptur/ eñ þar være þo eingiñ añar Vegur edur Ræd til/ ad hañ kyñe Lyfe ad hallda/ eñ med þui moote/ ad hañ giæfe j stadiñ þess jlla Skælks siñ eigiñ Son/ og liete Straffa hañ og Lyflæta/ fyrer synum Augum. Jeg spyr/ Mun nockur Fader hafa þuilykt Hiarta j sier/ ad hañ giete þad giørt? O/ Læengt fiærre/ þad er ecke møgulegt/ ad nockur kuñe ad koma sier þar til. Huad myklu furdanlegra er þad þa/ ad sa eilyfe Odaudlege Gud/ skyllde giefa siñ Eingietiñ Hiartans Son j Daudañ fyrer oss/ þa vier vorum eñ nu hans Oviner? Jæ/ Hañ sier þar vppa/ ad hañ hænger a Krossenum/ so sem añar Madkur/ a mille tueggia Ræningia/ og Odædamaña. Hañ sier hañ þar og so Alblooduguñ og med Gøddum giegnum grafiñ/ a Høndum og Footum/ Hañ heyrer hans Sæargrætelegu Kløgun/ Hroop og Kall/ seigiande/ Abba miñ Fader/ ef þad er møgulegt/ þa tak þeñañ Kaleik fra mier/ Jtem/ Miñ Gud/ Miñ Gud/ Huar fyrer hefur þu yfergiefed mig? Eñ vid allt þetta þeiger hañ/ og lætur so sem hañ heyre huørke nie siæe. O Herra Gud kome til/ Huør hefur nockurn Tyma heyrt þuilykt? O/ Huilyk Dypt Audæfaña/ bæde Spekiñar og Guds Visku/ Huørsu Oransakanleger eru hans Doomar/ og huørsu Ofiñande eru hans Veiger? Huør hefur þeckt Sinne Drottins? Eda huør hefur hans Rædgiafe vered?

Rom.

Rom. 11. Jaa/þetta eru nu þau riettu Viscera Misericordiæ/Myskunr Ydur
Guds vors/j huørium hañ vitiade vor/vpprunin af Hædum/Luc. 1. Þar fyr-
ter seiger hañ so sialfur hia Esa. 49. Kañ nockud Moodurin ad gleyma
sijnu Barne/so hun siaae ecke aumur a Syne sijns Kuidar/Eg þo ad hun for-
gleyme þui/þa vil eg þo ecke forgleyma þier/siaa þu// j mijnum Hondum hef
eg teiknad þig. Og eñ aptur seiger hañ/hia Oseam Spamañe/ 11. Capi Huad
skal eg giøra af þier Ephraim? Skal eg vernda þig Jsrael? Skal ecke med
riettu giøra eina Adama af þier? Og utleika þig/sem Zeboim? Eñ mitt Hi-
arta er ødruvijse siñad/mijn Myskunseme er so møg breñheit/ad eg vil ecke gi-
øra epter miñe Grimdar Reide/þui eg er Gud/eñ ecke Madur/og er sa Heila-
ge a medal þijn/Jtem/hia Jeremiam/31. Er Ephraim ei miñ dyrmætur Son-
ur/og mitt elskulegt Barn? Þuiad eg miñest eñ nu vel a þad/ huad eg sagda
til hans/ þar fyrer sundurbrotnar mitt Hiarta til hans/ suo eg hlyt hønum
Myskunsamur ad vera.

Hier af høfum vier oss þad til Lærdooms og Amiñingar ad taka/Ad med þui ad Gud vor Drottiñ og Herra/hefur so heitt elskad oss ad fyrra bragde/ad hañ hefur giefed oss siñ Eingietiñ Hiartans Son/þa lætum oss elska hann aptur a moot/ af øllum Lykamans og Sælareñar Kroptum/ epter þui sem hiñ heilage Johañes Amiñer oss/1. Pist. 4. Cap. Voru Hiartalage er so varted og hattad/ad þa nockur giører oss eitthuad mykelega til gooda/ þa kuñum vier ecke añad eñ ad elska þañ hiñ sama aptur a moote. Huad mykla framar skylldum vier þa elska lifande Gud/fyrer Sending og Giøf sijns Elskulega Sonar/ seigiande med hinum heilaga David/ af Psalmenum 116. Huad skal eg Endurgiallda Drottne/f alla hans Velgiørninga sem hañ veiter mier?

Þar næst høfum vier oss hier wt af ad taka/eina Hiartnæma Huggun/sem er þesse/Ad med þui ad Gud hefur elskad oss/ og virdt oss so mykels/ ad hann hefur giefed oss siñ Eingietiñ Hiartans Son til Eignar/þa meigum vier vera fullvisser þar uppa/ad hañ hefur giefed oss med hønum/allt þad sem oss er Naudsynlegt/og vier vid þurfum til Sælar og Lyfs Vpphellldis/ epter þui sem David seiger/Psalm. 34. Þeir Ryku munu vidþurfa/ og Hungur lyda/ Enn þeir sem leita Drottins munu ønguañ Skort hafa a nockru goodu/Jtem/seiger hañ/ Psal. 37. Eg var vngur/og er nu gamall ordiñ/ og ei hefe eg eñ sied hiñ Riettferduga verda yfergiefiñ/nie hans Sæde ganga epter Braude.

Vier høfum oss og so hier Huggun ad taka/a mote øllum vorum Sælar og Lyfs Ovinum/so sem ad eru Synd/Dauda/Diøfle og Helvijte/ad þeir kuñna oss nu ecke framar Skada ad giøra/epter þui sem Postuliñ seiger til Romanos/8. Er Gud med oss/huør kañ þa ad vera a moote oss/huør ed ecke hlijfde sijnum Eingietnum Syne/helldur gaf hañ wt fyrer oss alla/Huørniñ skyllde hañ ecke giefa oss alla Hlute med hønum? Huør vill aklaga Guds wtvalda? Gud er hier sem Riettlæter/ Huør er hañ sem Fordæmer? Christur er hier sem daaed hefur/Jaa/mykla framar sa sem upp aptur er vakiñ/ huør ad er til Guds


Nægre

Fagre Handar og bidur fyrer oss. Huør vill oss skilia vid Guds Elsku? Hörmung edur Motlæte? Ofsokn edur Hungur/ Klædleyse edur Hæske edur Sverd? So sem skrifad er/ fyrer þig verdum vier deydder alla Daga/ og erum Reiknader sem Sauder til Dráps ættlader/ En j øllu þessu berum vier langt af/ vegna hans er oss elskade/ þui eg em full øruggur/ ad huørke Daude nie Lijf/ Huørke Eingell nie Høfdingia stietter eda Magt/ Huørke hid nælæga eda Okomna/ eige Hæd eda Dypt/ nie nockur ønnur Skiepna/ fær oss skiled fra Guds Kiærleika/ Huør ad er j Drottne vorum Jesu Christo/ Rom. 8.

Þad fimta og sijdasta sem vier skulum athuga/ ut af þessu fyrra Greinarkornenu/ er til huørs eda uppa huad/ ad Gud hafe sendt og gefed Heimenum sinn Son/ sem er til þess/ Ad aller þeir sem a hann trwa/ skylldu ecke fyrerfarast/ helldur hafa þad Eilijfa Lijf. Þetta hid sama Itrekar Herrann Christur j þessum Ordum/ þar hann frāmreigis so talar/ og seiger. ÞVI eige sende Gud Son sinn j Heimenn/ ad hann fyrerdæmde Heimenn/ helldur ad Heimurinn frelsest fyrer hann. Giæum til og gaumgiæfum/ huad myked ad þetta Ordkorned/ GAF/ hafd inne bindur j sier/ sem er/ Ad þad syner oss/ og fyrer Siooner setur/ ad Gud hafe gefed oss aptur j synum Syne/ og fyrer hann/ allt þad sem vier mistum j Falle vorra Forelldra/ Adams og Evu/ þui þa sa Himneske Faderinn sa/ ad vier vorum af vikner/ fra hinn rietta Vege/ þa gaf hann oss sinn Eingietinn Hiartans Son/ ad hann skyllde vera vor Vegur/ epter þui sem hann seiger sialfur hia Joh. 14. Jeg er Vegurinn. Þegar Gud sa/ ad vier vorum suikner/ og af Diøfulsins Lyge Tungu yfertalader/ þa gaf hann oss hann/ ad hann skyllde vera vor Sannleikur/ þui suo seiger hann j sama stad/ Jeg er Sannleikurinn. Þa hann sa ad vier Ræfudum j Myrkre/ og Daudans Skugga/ þa gaf hann oss hann/ ad hann skyllde vera vort Lioos og Leidarvijser/ epter þui sem hann seiger hia Joh. 8. Jeg er Lioos Heimsins/ Huør hann fylger mier epter/ skal ecke ganga j Myrkrinum.

Þegar vier vorum j stærsta Hæska og Fære stadder/ og faller j Klær og Kuerkar þess Helvijska Ulfs Diøfulsins/ þa gaf hann oss hann/ so sem einn truan Hirder/ epter þui sem hann seiger hia Joh. 10. Jeg er goodur Hirder. Þegar hann sa huørsu fáráder og aumer vier vorum ordner/ þa gaf hann oss hann til þess/ ad hann skyllde vera vor Doctor og Læremeistare/ suo sem þar stendur hia Spamannenum Joel/ 2. Cap. Þier Zions Børn/ gledied ydur og fagned/ j Drottne ydrum Gude/ huør ydur hefur gefed einn Kiennefødur til Riettlætis. J einu Orde ad seigia/ þa vier høfdum aller eted af þui bannada Trie/ oss til Dauda/ Gen. 3. Og vorum utrekner fra Lijfsins Trie/ sia/ þa gaf Gud oss sinn Eingietinn Hiartans Son/ og j hønum þad Eilijfa Lifed aptur/ þui hann seiger hia Johannem/ 14. Jeg er Lifed. Item/ hia sama Guds spiallamanne/ 6. Cap. Eg er þad Lifanda Braud/ sem af Himnum er ofann komid/ huør sem af þessu Braude etur/ hann mun lifa eilijflega.

Nier

Hier af høfum vier off þad til Lærdooms ad taka. Fyrst/ huad fyrer eirn Dyrmæt Giøf z Steinkur ad þad eilijfa Lijfed sie/ þui þad kañ einginn Skie pna huørke a Himne nie a Jørdu/ ødrum ad giefa/ vtañ alleinasta sa allra hædste og Almættuge Gud. Þeir heiløgu Guds Einglar/eru ad søñu Ypperlegar Skiepnur af Gude skapadar/ til þess/ad þiona Gude/og vernda off Meñena fra allskonar Olucku/ og marga adra Velgiørninga þiggium vier Daglega Dags/ af þeim heiløgu og Þionustusømu Andum/ huer fyrer vier kuñum alldrei nooglega Gude ad þacka/ eñ samt er þo ecke j þeirra Vallde edur nockrar añarar Skiepnu/ad giefa off þad eilijfa Lijfed. Þad er skrifad vm Alexandrum Magnum/ Ad epter þad hañ hafde yfer vuñed þañ Megtuga Stad Babylon/ þa hafe hañ hallded eina mykla Fagnadar Hatyd/ og læted vthroopa/ ad huad hellst sem þad være/ad nockur villde af sier oska/ a þeim Deige/þad skyllde hañ giefa þeim/og j tie lata. Þegar nu þeir Lærdu Spekingar/og Vijsendameñ heyrdu/ huad myked Kongurinñ baud sier/og hønum þotte sier eckert Omættugt ad giøra/þa komu þeir fram/og bædu Kongiñ/ad hañ villde giefa sier Odaudlegleikañ/ þui þeir villde ønguañ Skeink helldur af hønum þyggia/eñ þañ. Eñ sem Alexander heyrde þetta/Fyrer vard hñ sig/ þui hañ sa þad var ecke j synu Vallde slyjkt nockrum ad giefa. Sylfur og Gull/Stade og Festingar kuña Stoorherrar og Potentatar vel einum ad giefa/Eñ Eilijft Lijf ad giefa/þad kañ einginn vtañ Gud eirn.

Huggum þa høfum vier off hier wt af ad taka/sem er/ Ad med þui ad Gud hefur elskad off so heitt/ ad hañ hefur giefed off siñ Eingietiñ Hiartans Son til Eignar/þa þurfum vier ecke ad hrædast/nie kuijda fyrer Dauda vorum/og Burtfør af þessum Heime/ helldur gledia off þar vid/ ad hañ er ecke ad eins Ender allra vorra Eymda og Harmkuæla/sem vier hliootum hier ad lyda. Helldur og so eirn fagur og Gledelegur Jñgangur/ j þad eilijfa/og Okomna Lijfed/Þar fyrer skulum vier lata off þad liuft vera/huenær hellst sem Drottiñ vill kalla off j burt hiedañ/Segiande med Postulanum Pale/ Jeg hefe Girnd ad skilia hier vid/ og vera med mijnum Endurlausnara Jesu Christo/ Item/Christur er mitt Lijf/og Daudiñ er miñ Avinningur/ Og med David/ af Psalm. 116. Vertu nu til Frids aptur mijn Sæl/þui Drottiñ veiter þier þad gooda. Og skal þad so sagt vera vm þad fyrra Greinarkornid.

# Añur Greiniñ.

Epterfylger med einu Orde/ad miñast a þad añad/ sem er/ huører hellst þeir sieu/sem Hluttakande verda/edur ei/þessarar Guds Ovmrædelegrar Elsku/ z hañs sæ a Son Jesu Christi Forþienusru/hier vm hliodar so Textiñ vor Nuar a hañ trwer(þad er a Jesum)Fyrerdæmest ei/Eñ huør hañ trwer ecke/hañ er nu þegar Fyrerdæmdur/þui hañ trwer ecke a Nafn Eingietins Guds Sonar. Hier heyrum vier/ad Vantruin er Ordsøk z Efne til margra Maña Gløtunar og Sælar tøpunar/ Þui lijka so sem þad/ Ad þeir

 sem

sem bitner voru af þeim brennande Höggormunum/ j þeirre Arabisku Eydemørku fordum/ a Døgum Moysis/ hlutu aller ad deya/ ad vndanteknum þeim/ sem horfdu vppa Eyrorminn/ sem Moyses hafde vppfest/ epter Drottins Befalningu/ huad þo huørke var Moysis skulld/ nie helldur Eyrormsins/ helldur þeirra sem forsoomudu vppa hann ad lijta. Eins geingur þad og so enn nu til/ fyrer øllum þeim sem bitner verda/ af þeim Heluijska Höggorme Diøflenum Ad sie so/ ad þeir snwe sier ecke til þess Krossfesta Jesu (huørs Fyrermyndan ad Eyrormurinn var) med sannre Jdran/ og horfe vppa hann med Trwar Augum synum. Huad er þeim annad fyrerbwed enn eilijfur Daude/ Eilijf Fordiøfun og Fyrerdæming? Enn þar huert a moote/ huørier sem a Jesum trwa/ elska hann og ottast/ þeir eru sannarlega Guds Elskuleg Børn/ og Erfingar þess Eilijfa Lijfsins. Þar fyrer verdur eins Riettchristens Mans Trw miøg merkelega samlijkt vid eirn forkostulegann Gullhring/ j huørn settur er sa skiære og dijrmæte Gimsteirn Rubin/ sem merker Jesu Christi Raudlitada Blood. Huør þennan Hringinn ber a Hende syns Hiarta/ hann kann med Æru ad standa frame fyrer lifanda Gude/ so sem eirn Himneskur Furste og Kongur/ og hier fyrer kallar eirn af þeim H. Lærefedrum Christnennar/ Trwna/ Likel til Himnarijkis. Enn vppa þad/ ad eirn og sierhuør mætte læra ad þeckia sialfann sig/ huørt hann sie Riettrwadur eda ei/ þa setr Herrann Christr hier fram nockur Audkienningar Teikn/ af huørium þeir meiga þeckiast/ sem iller og Ogudleger eru/ þui so stendur hier framveigis j Textanum. Enn þetta er Doomurinn/ Ad Lioosed kom j Heiminn/ og Mennerner elskudu meir Myrkred enn Lioosed/ þui þeirra Verk voru vond. Huør jlla giører/ hann hatar Lioosed/ hann kiemur og eige til Lioossins/ ad eige straffest hans Verk. J þessum Ordum setur Herrann Christur oss fyrer Siooner/ huørier ad sieu þeir Vantrwudu/ sem af sialfs syns eigen Tilverknade/ steypa sier j Fyrerdæming og Dauda/ sem er fyrst/ þeir sem elska Myrkrana Verk/ og leika sier ad allskonar Skielmerie og Strakfskap. Þar næst þeir sem hata Lioosed/ og hafna Sannleikanum. Og j þridia lage/ þeir sem Agalaust og Straffilaust framfara/ j synum Syndum og Glæpum. Hier huert a moote syner Herrann oss/ og fyrer Siooner setur/ huør ad sieu Audkienningar Teikn þeirra Riettrwudu/ þar hann seiger/ Enn huør sem Sannleikann giører/ hann kiemur til Lioossins/ so hans Giørder verde kunnar/ þui þær eru j Gude giordar. Og skal þetta nu so sagt vera/ vm þ tuent/ sem eg lofade a ad minnast. Þeirre heiløgu Guddomsins Þrenningu/ Fødurnum/ Synenum/ og þeim Verduga gooda Heilaga Anda/ sie Lof/ Dyrd/ Heidur og Vegsemd/ nu hiedann j fra/ og ad Eilijfu/ Amen.

## A Þridia Dag Hvitasunnu.

Evangelium/ Joh. 10. Cap.

Jesus

Jeſus ſagde til Phariſeaña/Sañlega/ſañlega ſeige eg ydur.
Huør hañ geingur ei jñ vm Dyrnar j Saudahwſed/ helldur
ſtygur hañ jñ med ødrum Hætte/ ſa er Þioefur og Spill-
virke. Eñ ſa ſem geingur jñ vm Dyrnar/hñ er Hirder Sau-
daña/fyrer hønum lükur Dyravørduriñ vpp/og Sauderner heyra hans
Rødd. Og hañ kallar ſijna Saude med Nafne/og leider þa wt/ Og þa
hañ hefur ſijna Saude wtlæted/geingur hañ frame fyrer þeim/og Sau-
derner fylgia hønum epter/þuiad þeir heyra hans Rødd. Eñ ødrum añ-
arlegum fylgia þeir ecke epter/helldur flyia þeir fra hm̃/þuiad þeir ki-
ña ei añarlega Rødd. Þeſſa Mælsgrein talade Jeſus til þra/ eñ þeir
viſſu eige hüad hñ ſagde þeim. Þa ſagde Jeſus eñ aptur til þeirra/Sañ-
lega/ſañlega ſeige eg ydur/Ad eg em Dyr Saudaña. Og aller hüører
helſt ſem fyrer mier komu/þeir voru Þioofar og Spillvirkiar/og Saud-
erner hlijddu þeim eige. Eg em Dyrnar/Ef nockur geingur jñ vm mig/
ſa mun frelſaſt/hañ mun og ganga wt og jñ/hañ ſkal og fiña ſitt Foo-
dur. Eñ Þioofuriñ kiemur ei til añars eñ hañ ſtele/Drepe og fordiarfe.
Eñ eg er komiñ til þeſſ/ad þeir hafe Lijf/og fulla Nægd.

# Exordium.

Hier leſum j fyrre Book Kongaña 7. Cap. Vm Salomon Kong/
Ad hañ hafe bygt eitt Hws af Libanon Skooge/ Hundrad Alna
langt/Fimtiju Alna breidt/og þriatiju Alna hætt/og þad ſama ſo
koſtulega/ad þad hafe mætt vel teliaſt med þeim ſiø Heimſins Fur-
duverkum. Þetta hid ſama mæ riettelega vppa andlegañ hætt
og Viſu Heimfæraſt/til þeſſ Himneſka Dyrdareñar Konungs/vors Drottins
Jeſu Chriſti/huørs Fyrermyndan ad ſa Jardneſke Kongr Salomon var/Þui
hñ hefur og ſo Bygdt ſier eitt Hws hier æ Jørduñe/ſem er Chriſteleg Kyrk-
ia/huør ed kallaſt med ødru Nafne Guds Hws/1. Tim. 3. Forſmider edr Byg-
gingar meyſtarar þeſſa Hwsſins/eru þeir godu Poſtular/z Læreſueinar Herr-
ans Chriſti/Item/aller adrer Trwlynder Ordſins Þienarar wt i fra/Preſtar
og Kieñefedur/1. Cor. 3. Steinarner ſem þeir brwka til þeſſarar Bygging-
ar/eru aller Riettrwader Chriſtner Meñ/1. Pet. 2. Eñ Þaked edur Hue-
lfingiñ æ þeſſu Hwſenu/er Vernd og Vardveitſla lifanda Guds? Pſalm. 91.
O huilykt Herlegt Hws/ og Ypparleg Bygging/mun þetta þa vera j Auglite
Lifanda Guds? Eñ ꝼ Heimenum er hun næſta Audvirdeleg og lijtelmotleg/ep-
ter þui ſem þar ſtendur Jobs Bookar/12. Og hier af kiemur þad/Ad Chriſte

 legre

legre Kyrkiu/ verdur j heilagre Ritningu lykt/ stundum vid eirn Vijngard/ sem hia ødrum kostulegum Listegørdum/ og Gørdum/ er miøg lytels aktadur/ Esa. 5. Stundum vid eitt lyted z Audvirdelegt Vakthws j Graskiersgarde/ Esa. 1. Stundum vid eitt Skipkorn/ sem hingad og þangad hrekst af Bylg-ium/ Mat. 8. Eñ j þessa Dags Gudspialle/ lykiest Søfnuduriñ edur Christeleg Kyrkia/ vid eitt Saudahws/ j hvøriu Herrañ Christur sialfur/ er Dyrnar/ Hei-lagur Ande Dyravørduriñ/ øll Riettrwnd Guds Børn Sauderner/ trwer og fromer Kieñefedur Hirdarar/ Eñ aller Villumeñ og Kiettarar/ Þioofar og Mordingiar/ so sem vier vilium þar eñ framar ad heyra/ wt af þessu heilaga Evangelio. Og er þad sierdeilis þrent sem vier høfum ad skoda og yfervei-ga ad þessu siñe.

Þad fyrsta er vm þad Andlega Saudahwsed.

Þad añad/ hvørt vera eige Audkieñingarteikn allra þeirra sem vilia vera riettet Sauder Christi.

Og j þridia lage/ hvørt Gagn og Nytseme þeir hafe sier aptur j stadiñ ad vænta/ sem þesse Teikn a sier bera.

Sa Himneske Dyravørduriñ Heilagur Ande/ hañ vpplwke nu a þessare stund-u/ Skilnings Dyrum vorum/ so vier hier wt af mættum nockud gott læra og nema/ AMEN.

# Fyrsta Greiniñ.

SO myked sem þui fyrsta Greinarkorneñu vidvykur (Elskanleger j Drott-ne) og ahrærer þad Andlega Saudahwsed/ edur Christelega Kyrkiu/ þa er oss þetta þrent vel athugande. Fyrst hvar fyrer ad Christeneñ verde sam-lykt vid eitt Saudahws. Þar næst/ hvad skiliast eige fyrer Dyrnar a þessu Saudahwsenu/ Og j þridia lage/ Hvør ad Dyravørduriñ sie.

Þriar eru sierdeilis Ordsaker þar til/ ad Søfnude Drottins hier a Jørd-uñe edur Christelegre Kyrkiu verdur lykt vid Saudahws. Fyrst skiedur þad vegna þess/ ad lyka sem þad/ ad Saudahwsed er Audvirdelegt/ hafande hvørke haafar Dyr/ edur adra Praktuga Bygging til ad bera. Eins hefur og svo Christeleg Kyrkia øngva sierlega fagra Asynd hid ytra/ j Augum þessa Heims Barna. Eñ j Auglite Guds/ hans heilagra Eingla/ og wtvaldra Guds Barna er hun Dyrdarleg og mykels verd/ Hvar fyrer hun kallast sú heilaga Borg Guds/ tilreidd so sem prydd Brwdr mote synum Mañe/ j Openberingar Bookariñar 21 Cap.

Þar næst/ lyka so sem þad/ Ad Saudahwsed hefr øngva Mwra/ Grafer edur Hervirke/ j kringum sig. So hefur og ecke helldur Christeleg Kyrkia neins Jardneska Forsvars sier ad vænta/ vtañ alleinasta af synum Himneska Hird-er/ Herranum Jesu Christo.

J þridia lage/ so sem þad/ ad Sauderner sem j Fiaarhwsunum eru geymder og forvarader/ meiga alldrei Ohulter edur Ohrædder vera/ og ecke a sialfum

Nætur

Næturtijmanum/suo þeir hafe ecke ad ottast bæde fyrer Ulfum og Þioofum/ sem vmsitia Saudahwsed/og vilia lædast þar jñ/til ad drepa þa/og stela þeim j burtu. Eins hefur og so Christeleg Kyrkia/og heñar Limer/ jafnañ syna Ovine/sem þa Ofsækia//so sem er Diøfulliñ/Villumeñ/Tyrkiar og Tyrañar/ sem afsteyda Søfnudiñ an aflaats.

Þad añad/sem vel er athugande/j þessu fyrsta Greinarkornenu/er/ Huad skiliast eige fyrer Dyrnar a þessu Saudahwsenu/sem er sialfur Endurlausnariñ vor Jesus Christus/ efter þui sem hañ liooslega vottar j þessa Dags Evangelio/ seigiande/ EG Em Dyr SAUdaña. Hier kañ einhuør ad spyria Huør ad sie Ordsøk til þess/ ad Christur kallar sig hier Dyr Saudaña/ edur Saudahwsins? Fyrst kallast hañ þad/vegna syns H. Ords/þui þar er eingiñ Lærdoomur/eckert Ord añad til/sem oss kañ ad giøra Sæluholpna/ vtan alleinasta þad/sem wt er geinged af Muñe Drottins vors Jesu Christi/Þar fyrer seiger Postuliñ Paull/j Pistlenum til Galatas/3. Ad huør sem añañ Lærdoom Predike/sa skule vera Bølvadur/jafnvel þo ad þ være einn Eingell af Himne.

Þar næst kallar Herrañ Christur sig Dyr þess Andlega Saudahwsins/vegna syns Medalgaungu Embættis/Þui so sem þad/ Ad j þui Gamla Testamentenu/mætte eingiñ Ohreiñ/fyrer vtañ Offur/jñganga j Musterid/ Exo. 29.C. So hefdum vier ecke helldur kuñad ad faa lidugañ og frijañ Jñgang/j þa Himnesku Jerusalem/hefde Jesus ecke giørst Forlykun & Offur fyrer vorar Synder/og Fridþægt oss aftur vid siñ Himneska Fødur.

J þridia lage kallast hañ Dyr Saudaña/vegna þeirrar heiløgu Vatnsskijrnar/ j huørre/ og fyrer huørla vier verdum Herranum vorum Jesu Christo Jñlyfader/ og Jñplantader/ Þui lyka sem þad/ ad Israels Folk kuñe ecke ad komast jñ j þad Fyrerheitna Canaans Land/fyrer eñ þad hafde adur geinged j giegnum Uana Jordan/ So kuñum vier og ecke helldur ad komast j Guds Ryke/vtañ fyrer þa heiløgu Vatns skyrn/ so sem sialfur Christur vottar j Samtale synu vid Nicodemū/seigiande/ Sañlega seige eg þier/Vtañ þad ad nokur verde Endurfæddur af Vatne og Anda/þa kañ hañ ecke jñ ad ganga j Guds Ryke/ Joh.3.

Fiorda Ordsøk/ huar fyrer Christur kallast Dyr Saudaña/Þa er Bænheyrslañ vor/ Þuiad fyrer Frameſtødu og Medalgaungu Drottins vors Jesu Christi/þreingia vorar Bæner sier fram fyrer Gud/og verda af hønum heyrdar/og fyrer hñ høfum vier frijañ & lidugañ Jñgang til Fødursins/Eph.2.

J fimta og sydasta mata kallast Drottiñ vor Jesus Christus/Dyr Saudaña/Vegna þeirrar Jñgaungu/sem vier eigum von a til Eilyfs Lyfs/og hñ hefur oss sialfur afrekad og wtvegad/ So þad vier kuñum nu ecke ad eins fyrer hañ ad komast j Ryke Nadareñar/helldur og einniñ jñ j Ryke Dyrdareñar/og Himneskrar Sælu/þui so sem þad/ad eingiñ kañ ad komast jñ j Hwsed/vtañ hañ gange jñ vm Dyrnar/Eins kuñum vier og ecke helldur ad komast

j Guds Ryke/ vtañ fyrer þær riettu Dyr/ Drottiñ vorn Jesum Christum.

Þad þridia sem athuga verdt er/ j þessu fyrsta Greinarkornenu/ Er vm Dyravørdiñ/ huør hañ sie/ sem er sa goode H. Ande. Vm Salomon Kong er þ skrifad/ Ad þa hañ hafe fullkomna lated/ þa myklu og Prydelegu Bygging/ a Mustereinu til Jerusalem/ hafe hañ sett þangad fiøgur Þusund Dyravaktara. Eñ so marga Dyraverde þarf ecke Saudahwsed vors Drottins Jesu Christi vid/ helldur nægest þad med eirn/ Þui þo ad þar sieu margvijslegar Giafer/ Marghattud Embætte/ marghattader Kraftar til/ suo sem Postuliñ seiger/ 1. Cor. 12. Þa er þar þo samt ecke vtañ eirn Gud// sem verkar alla Hlute j øllũ. Eñ ef vier viliũ vita/ þ huøriar Ordsaker/ ad heilagur Ande lykkest hier vid eirn Dyravørd/ þa eru þær sierdeilis tuær.

Fyrst/ so sem þad er Embætte eins Dyravaktara/ ad opna Dyrnar fyrer þeim sem vilia ganga jñ j Hwsed/ og fyrer vtañ Dyravørdsins Vilia fær eingiñ jñgeinged vm Dyrnar/ So er þad og so Embætte heilags Anda/ ad opna fyrer oss Veg Sæluhialparennar/ og vysa oss þa riettu Leid til vors Frelsara og Lijfs Hertoga Jesu Christi.

Þar næst/ so sem þad/ ad eirn Dyravørdur leifer ecke neinum Oradvendũ/ Þioofum/ Skalkum/ og Mordingium/ ad ganga jñ vm þær Dyr/ sem hañ er fyrer settur/ So giører og eirniñ sa goode Heilage Ande/ hañ lofar øngvum þeim ad komast jñ j Guds Barna Søfnud sem eru forherter/ Hardsuijrader/ og vilia ecke lata sig leidrietta/ af Guds Orde/ helldur fara afram j Syndum og Glæpum/ foracta Gud/ og hans heilaga Ord/ Eñ hinum sem giøra Jdran Synda siña/ og snwa sier til Guds/ af øllu Hiarta/ þeim standa Nadar Dyrnar Opnar.

# Aunur Greiniñ.

VIer viliũ nu koma til þeirrar añarar Greinariñar/ og skoda framveigis/ huør Audkeñingar Teikn/ þeir eige at sier ad hafa/ sem vilie vera riettar Sauder Jesu Christi.

Fyrst er þad Audkieñingar Merke allra Christi Sauda/ Ad þeir ganga jñ vm þær riettu Dyr j Saudahwsed/ Eñ þessar Dyrnar er siaifur Herrañ vor Jesus Christus/ so sem vier hofum adur heyrt. Jñ vm þessar Dyrnar gangum vier j Skyrniñe vorre/ þa vier verdum skyrder j Nafne Fødurs/ Sonar og heilags Anda/ Huar fyrer ad hun nefnest af Lærefødurnum Augustino/ Prima Porta Gratiæ/ Þad er/ þær fyrstu Dyr Nadarennar/ Jtem/ sa fyrste Jñgangur Heilagra. Ja ad vijsu (Good Guds Børn) Christur Endurlausnare vor/ kan vel lyklast vid eiñar litlar og Audvirdelegar Dyr/ þui hañ hefur Lytelækad sig sialfañ/ z var hlydiñ synum Fødur allt til Dauda/ Ja/ allt til Krossens Dauda/ Phil. 2. Þar fyrer/ Huør sa sem vill ganga jñ vm þessar Dyrnar/ hañ hlytur ad beygia sig og Audmykia/ Añars mun hañ reka sig a/ og giøra sig sialfañ Overdugañ eilyfrar Sæluhialpar. Þui Gud stendr j mote

Dramblatum

Dramblaatum/ Eñ Lytelaatum giefur hañ Naad/ 1. Pet. 5. Þessar Dyr eru an-
grum aptur luktar/ helldur standa þær opnar fyrer hvørium Mañe/ Þui huør hñ
kiemur til myn seiger Christur/ hañ vil eg ecke fra mier reka/ Joh. 6.

Josephus Sagnameistere skrifar/ Ad fyrer vtañ Musteris Dyrnar vid Je-
rusalem hafe vered tueir Stoolpar/ vppa hvøria Ritud hafe vered þesse Ord/
Aller framande/ sem koma til Bwstadar Drottins skulu Dauda Deyia. Enn
sdru vyse hlioodar þetta nu/ j þui Nya Testamentenu/ Þui Christur er Frelſ-
are allra Maña/ 1. Tim. 4. Ja/ hañ hefur giefed sialfañ sig wt fyrer alla/ til
Endurlausnar/ 1. Tim. 2. Þar fyrer meiga aller þeir sem þad girnast/ ganga
jñ vm þessar Dyrnar/ og verda eilyflega Saaluholpner. Hier vppa forun-
drar Postuliñ Petur sig/ seigiande/ j Giørninga Book Post. 10. Nu reine eg
j Sañleika/ Þad ecke er Mañgreinar Alit hia Gude/ helldur af øllu þui Folke
sem hañ Ottast/ og giører Riettvysena/ þa er hønum Þoknanr.

Añad Kienneteikn Sauðaña Herrans Christi/ er þetta/ ad þeir heyra Rødd
syns Hirders. Þessa Røddena hans heyrum vier a hvørium helgum Deige/ j
Guds Hwse/ edur Christelegre Kyrkiu/ þar sa ædste Hirder og Byskup vorra
Saalna Jesus Christus/ lætur til syn heyra/ fyrer Þieñing siña Vnderhirdara
vm hvørria hañ so talar/ hia Luc. 10. Huør ydur heyrer/ hañ heyrer mig/ et c.
Vilium vier nu þar fyrer/ vera riettar Herrans Christi Sauder/ þa verdum vier
ad heyra hans Raust/ Fyrst/ Giarnsamlega/ Þar næst/ Kostgiæfelega/ Og j
þridia lage Audmiuklega og Lytelaatlega. Giarnsamlega (seige eg) eigum vier
ad heyra þessa vors Hirders Raust/ og seigia med hinum heilaga David/ af
Psalmenum 27. Eins ka bid eg af Drottne/ þad sama þrage eg giarnañ/ þad
eg mætte blyfa j Hwse Drottins myna Lyfdaga/ til ad skoda þa agiætu Þion-
ustugiørd Drottins Guds/ og ad vitia hans Musteris. Kostgiæfner eigum
vier og so ad vera vnder þessa Hirders Rødduñe/ eñ ecke sofande edur hrioot-
ande/ eins og Eutychus/ j Postulaña Giørning. 20. Cap. Helldur vakande og
adgiætner/ ad þui/ sem oss verdur af Guds Orde kient og Predikad/ breitande
epter Dæme Cornelij Høfudsmansins j Cæsarea/ huør ed so sagde til Peturs/
j Postulaña Giørn. 10. Cap. Nu erum vier hier aller nalæger fyrer Gude/
til ad heyra alla þa Hlute/ sem þier eru af Gude bodner. Vier eigum og so
med allre Audmykt og Lytelæte/ ad heyra og meddtaka þessa vors gooda Hird-
ers Raust/ epter Loflegu Dæme goodra Guds Astvina/ bæde j þui Gamla og
Nya Testamentenu/.

Þridia Merked/ edur Audkieñingar teikñid a Saudunum Herrans Christi
er þad/ Ad þeir heyra ecke ad eins Raust syns ædsta Hirders/ Herrans Jesu
Christi/ helldur eru þeir hønum og eirniñ hlyduger/ og audsueipner/ og fylgia
hønum epter/ so sem sialfur Christur seiger hier j Gudspiallenu. Þetta er ei-
ñ Naudsynlegur Hlutur (good Guds Børn) þui huad stodar þad/ þo Madur
heyre opt og ofialldañ Guds Ord/ ef hañ giører þar ecke epter? Sañlega/ þad
er hin mesta Synd og Saalarhaske/ Þar fyrer aminner Postuliñ Jacob oss j

 syns

sijnum Pistels 1. Cap. seigiande/ Vered Giørendur Ordsins/ ecke alleinasta Tilheyrendur//huar med þier ydur sialþa a Taalar draged.

Fiorda Merke a Saudunum Christi/er þad/ Ad þeir þylgia ecke epter nein num aãarlegum Hirder/Eñ aãarleger Hirdarar eru. Fyrst/aller þeir sem ecke ganga jñ vm þær riettu Dyr/ j Saudahwsed/helldr smeigia sier þar jñ med ødrũ hætte/so sm̃ ad giøra aller Villumeñ ⁊ Kettarar/sm̃ huørke eru riettelega kallader/nie hreinañ Lærdoom kieña. Þar næst eru aãarleger Hirdarar/aller þeir sem þyrer Christo komu/ þui suo seiger hañ sialþur hier j Gudspiallenu. Ad aller þeir sem þyrer sig haþe komed/þeir haþe vered Þioþar og Spillvirkiar. Huar med ad Herrañ Christur meinar alla Fals Kieñendur/ ⁊ þa sem meina sig aþ sijnum eigiñ Verkum og Forþienustu ad verda Saaluholpna/ so sem ad voru Pharisearar og Saducearar/sem og eirniñ þeir Yppurstu Prestar og Skriptlærder a Christi Døgum.

## Þridia Greiniñ.

NV vilium vier j þui þridia Greinarkornenu stuttlega skoda og yþervega/ huørt Gagn og Nytseme þeir haþe þar aþ/sem þesse adurségd Audkieñing arteikn a sier bera/Hier vm talar so Herrañ Christur/seigiande. Eþ nockur geingur jñ vm mig/sa mun þrelsast/hañ mun og ganga vt og jnn/hañ skal og þiña sitt Foodur/Og eñ aptur j Nidurlage Gudspiallsins/ seiger hñ/. Eg em kominñ til þess/ad þeir haþe Lijþ og þulla Nægd.

A þreþallt Gagn verdur minst hier j þessum Ordum/ Og er þad þyrsta Timanleg Velþerd/ Þar næst andleg Heill og Velsemd/ Og j þridia lage Eiliþ Saaluhialp. Þar þyrer vilie Daudiñ skielþa þig/edur Faatække og Hungur/ ad þier þreingia/so þu heþur ecke ad eta nie drecka/eda þad/huar med þu kuñner þig ad Klæda/þa Hugaadu þig þar vid/ ad Christur er kominñ til þess/ ad þu skuler hafa Lijþ/og þulla Nægd. Nu þessum vorum æsta Hirder/⁊ Byskupe vorra Saulna/ Herranum Jesu Christo/seigium vier eilyþt Loþ/Dyrd/ Heidur og Vegsemd/nu hiedañ j þra/og ad eilyþu/ Amen.

## Ein Predikun a Barna Døgum.

### Textiñ/ 1. Joh. 2. Cap.

MJn Barna korn/Syndged ecke/eñ eþ nockur Syndgar/ þa hoþum vier Arnadarmañ hia Fødurnum/ Jesum Christum þañ Riettlaata/Og hñ same er Forlijkun þyrer vorar Synder/og ecke alleinasta þyrer vorar/helldur og eirniñ þyrer allrar Veralldareñar.

Exordiũ

# Exordium.

HJer Leſum/ 1. Reg. 1. Ad þegar Adonia villde hafa giørt ſig ad
Konge/ þa fell han̄ j Ogunſt vid Salomon/ af þui/ ad David
a ſin̄e Daudaſæng/ hafde auglyſt ſin̄ Vilia og ſydaſtu Skickun/
ad ecke han̄/ helldur ſkyllde ſin̄ Sonur Salomon/ Erfinge verda ad
Kongs Rykenu. Og Adonia vard þa miøg hræddur fyrer Salo-
mone/ En̄ uppa þ/ hn̄ være þui Ohrædare/og viſſare/um ſitt Lyf/ad hn̄ ſkyll-
de þad ecke miſſa/ þa gieck han̄ burt/og hiellt um Hornin̄ a Alltarenu/ huørs
vegna han̄ eirnin̄ behiellt ſynu Lyfe/og var ecke af Lyfe tekin̄. Hier wt af
tyn̄um vier ad taka eina miøg Merkelega Andlega Þyding. Adonia hafde ſig
ſtoorlega forſied/ med Upphlaupe a moote þeim gooda /og Fridſama Konge
Salomone. So høfdum vier og ſo giørt eitt Skadlegt Upphlaup/ a mote þei-
im Himneſka Salomone/og Fridarens Høfdingia/ Ja/ Vier en̄ nu j Dag ſtøn-
dum Margvyſlega a mote øllum hans Bodordum/ſem han̄ hefur giefed oſſ/ og
hlyddum ecke hans Rauſtu/Baruch. 1. Þeſſ vegna føllum vier j ſtoora Onaad
hia Drottne Gude vorum/og drøgum hans Riettferduga Reide yfer vorn Hal-
s/ſem bren̄ur eins og Fortærande Elldur/ſo ad eingin̄ kan̄ han̄ wt ad ſløckva
Jerem. 4. Nu ef vier ſkulum Von til eiga/ad komaſt aptur j Sætt/og Vin-
attu vid vorn Gud/þa hlytur þad viſſelega ad ſkie/ fyrer Medalgaungu/og
Forþienuſtu vors Endurlauſnara Jeſu Chriſti/ſem er ſa einaſte Madr j Ma-
duiſe/Rom. 5. Og wttryckelega kallaſt vort Alltare j Piſtlenum til Hebre. 13.
Er og eirnin̄ þad rietta Hialpræðis Horn/huørt Gud hefur uppreiſt oſſ/til alls
hins gooda/j Huſe Davids Þioons ſyns/Luc. 1. Ef vier flyum til hans j ſan̄-
re Trw/og høfum Athuarf hia hønum/ þa kan̄ oſſ eckert ad breſta/Vier verd-
um þa viſſulega til Nader medtekner/ Og munum Myſkun ødlaſt/ og fyrer
Guds Krapt j Trwn̄e/Varſamlega vardveitter verda til eilyfs Lyfs/1. Pet.
1. C. Med þeſſu Huggar oſſ eirnin̄ og ſierdeilis Min̄elega gledur/ Sa heilage
Gudſpiallamadur/og Poſtule/S. Johan̄es/Þar han̄ ſeiger j þeſſum Upplesn-
um Textans Ordum/Myn Barnaborn/Syndged ecke/en̄ ef nockr ſyngdar/þa
høfum̄ vier Arnadarman̄ hia Fødurnū/Jeſū Chriſtū/þan̄ Riettlaata/huør ad er
Forlykun fyrer vorar Synder/og ecke alleinaſta fyrer vorar/helldur og eirn-
in̄ allrar Verallda ren̄ar. Þeſſ vegna vilium vier j ſtøn̄um Guds Otta/
an leingra Jn̄gangs/þeſſe Ord oſſ til Lærdooms/Huggunar og Undervyſun-
ar framar yfervega og athuga/j tueimur Smagreinum.

Skal ſu fyrre þar um hlioda/huørſu Johan̄es Amin̄er ſyna Lærſueina/
ad forðaſt og flya Syndena.

Su øn̄ur/huad þeim ſkule til Huggunar vera/ſem ſyndgad hafa/og Synd-
an̄a Jdraſt/ſem er/Medalganga og Forþienuſta Jeſu Chriſti/þeſſ Riettlaata
fyrer huøria Gud tekur Mennena j Sætt og Forlykun vid ſig.

Vor einaſte Arnadarmadur hia Gude/Chriſtur Jeſus/j Giær og j Dag/og


han̄

han̄ same ad Eilifu/giefe off og veite/syna Naad/ad vier mættum nockud Nyt samlegt hier wt af bæde heyra og Læra/Amen.

# Vtleggingin̄.

MJøg vel og Riettelega wtmælar sa Heilage Gudspiallamadur/og Postule Johan̄es/Syndena/j synu 1. Sendebrefe/3. Cap. Þar han̄ seiger/ Ad hun sie Ranglæte/edur hid Ranga/ þad er eirn þuilykur Hlutur/ sem Gagnstædur er/ og geingur þuert a moote Guds Heiløgu Bodordum/ og huør sem Syndgar/hn̄ giører Rangt/hn̄ brytur og yfertredur Løgmaaled/epter huøriu vier eigum þo alltyd voru Lifnerne og Framferde/so sem epter ødrum Mælefrøde/ ad haga og hegda/ Þuiad so marger sem þessare Reglu epterfylgia/ yfer þeim sie Fridur og Myskun/seiger Postulin̄ Paulus/ Gal. 6. Þetta hid sama er Mergur ⁊ Jn̄ehalld allrar Heilagrar Ritningar/Ad aller Men̄ skule læra ad fordast og flya Synd og Ranglæte/ En̄ Gudlegt Lifnerne/ þad sem Heiløgum hæfer ad stunda/sem Postulin̄ Paulus seiger/ Rom. 12. Hated hid vonda/en̄ loded at hinu Gooda/ Og Spamadurin̄ Esa. 1. Læted af jllu/ og Læred gott ad giøra/ Huøriu Johan̄es Postule j þessum Ordum/ ernin̄ samhlioda verdur/seigiande/Barnakorn Syndged ecke. Þetta er ad søñu ein stutt og Fagord Amiñing/og Vidvørun/En̄ huad sæll/ Ja/mykelega sæll og heppin̄ Lydur værum vier þa/ef vier kyñum hana ad vppfylla ⁊ hallda/huar vm vier erum þo skylldruger/ þuiad allt huad skrifad er/ þa er þad skrifad off til Lærdooms/Rom. 15. Tuent sierdeilis høfum vier j fyrre Grein þessa Heilaga Texta ad athuga.

1. Þad Vingiarnlega og Hoogværa Avarp/edur astwdlega Amiñing/ sem Postulin̄ giefur hier synum Læresueinum/ Þar han̄ seiger/ BArnakorn/ Og vill han̄ þar med Merkiast læta/huørsu Hiartanlega vel hønum sie til þeirra Og þess vegna skule þeir læta syn Ord og Amiñing/ hia þeim goodan̄ Stad fiña/ og hana so medtaka/ sem good Børn eru skylldug ad giøra synum Lykamlegum Forelldrum/þegar þeir Amiña þau. Nu er þad sierdeilis þrennt/sem eirn goodur Holldlegur Fader/er skylldugur ad veita synum Børnum Þad er fyrst Næringin̄/ og Vpphelldid/ ad han̄ fæde þau og Klæde/ og hafe alla tilbærelega Vmsorgun fyrer þeim/þui ef han̄ giører þad ei/ þa er hann Heidingium verre/1. Tim. 5. Þar næst vm Vndervysun/ ⁊ Vppfrædingu ad Faderin̄ kieñe Børnunum Otta Drottins/Psal. 34. Þuiad þesse Ord sm̄ eg byd þier j Dag/skalltu leggia vppa Hiartad/⁊ þu skallt bryna þau allt jafnt fyrer Børnum þynum/og þar vm tala/þa þu situr j þynu Hwse/⁊ nær ed þu geingur vm farin̄ Veg/Þegar þu leggur þig nidur/og stendur vpp/seiger Drottin̄/Deut. 6. Þad þridia/er Fødurleg Vpptyktun/og Vmvøndun/ þui huør han̄ elskar sitt Barn/sa helldur þui jafnan̄ vnder Vøndin̄/ so hn̄ seirna meir af þui Føgnud hafe/Syrach 30. So eru og so Prestar og Kiennendur/andleger Fedur/þui þeir ala og fostra syna Tilheyrendur/fyrer þad

Heilaga

